# NÝJA TESTAMENTIÐ

## NÝ ÞÝÐING
## EFTIR FRUMTEXTANUM



REYKJAVÍK
Á KOSTNAÐ HINS BRESKA OG ERLENDA BIBLÍUFJELAGS
1906

# Matteusar guðspjall.

1 Æfisaga Jesú Krists, sonar Davíðs, sonar Abra-
hams.
2 Abraham gat Ísak; og Ísak gat Jakob; og Jakob
3 gat Júda og bræður hans; og Júda gat Peres og Serah
við Tamar; og Peres gat Esrom; og Esrom gat Ram;
4 og Ram gat Ammínadab; og Ammínadab gat Nahs-
5 on; og Nahson gat Salmon; og Salmon gat Bóas
við Rahab; og Bóas gat Óbeð við Rut; og Óbeð gat
6 Ísaí; og Ísaí gat Davíð konung.
7 Og Davíð gat Salómon við konu Úría; og Saló-
mon gat Róbóam; og Róbóam gat Abía; og Abía gat
8 Asa; og Asa gat Jósafat; og Jósafat gat Jóram; og
9 Jóram gatÚssía; og Útssía gat Jóatam; og Jóatam
10 gat Ahas; og Ahas gat Esekías; og Esekías gat Man-
11 asse; og Manasse gat Amón; og Amón gat Jósías; og
Jósías gat Jekonía og bræður hans á tíma herleiðing-
arinnar til Babýlonar.
12 En eftir herleiðinguna til Babýlonar gat Jekonía
13 Sealtíel; og Sealtíel gat Serúbabel; og Serúbabel gat
Abíúd; og Abíúd gat Elíakím; og Elíakím gat Asór;
14 og Asór gat Sadók; og Sadók gat Akím; og Akím gat
15 Elíúd; og Elíúd gat Eleasar; og Eleasar gat Mattan;

16 og Mattan gat Jakob; og Jakob gat Jósef, mann
Maríu; af henni fæddist Jesús, sem kallast Kristur.
17 Eru þannig allir ættliðirnir frá Abraham til Da-
víðs fjórtán ættliðir, og frá Davíð til herleiðingarinnar
til Babýlonar fjórtán ættliðir, og frá herleiðingunni til
Babýlonar til Krists fjórtán ættliðir.
18 En fæðing Jesú Krists varð á þessa leið: Móðir
hans María var föstnuð Jósef, en áður en þau kæmu
19 saman, reyndist hún þunguð af heilögum anda. En
með því að Jósef maður hennar var rjettlátur, og vildi
þó ekki gjöra henni opinbera minkun, ásetti hann sjer
20 að skiljast við hana á laun. En meðan hann var að
hugsa um þetta, sjá, þá vitraðist honum engill Drott-
ins í draumi og sagði: Jósef, sonur Davíðs, óttast þú
ekki að taka til þín Maríu, konu þína, því að fóstur
21 hennar er af heilögum anda. Og hún mun son ala
og skalt þú kalla nafn hans Jesús, því að hann mun
22 frelsa lýð sinn frá syndum þeirra. En alt þetta varð,
til þess að rætast skyldi það, sem mælt er af Drotni
23 fyrir spámanninn, er segir: *Sjá, meyjan mun þunguð
verða og son ala, og nafn hans munu menn kalla Im-
24 manúel*, sem er útlagt: Guð með oss. En þegar
Jósef vaknaði, gjörði hann eins og engill Drottins
25 hafði boðið honum, og tók konu sína til sín; og hann
kendi hennar ekki, uns hún hafði alið son, og hann
kallaði nafn hans Jesús.

2 En er Jesús var fæddur í Betlehem í Júdeu, á
dögum Heródesar konungs, sjá, þá komu vitringar
2 frá Austurlöndum til Jerúsalem og sögðu: Hvar er
hann, sem borinn er, konungur Gyðinganna? Því
að vjer höfum sjeð stjörnu hans í austrinu og erum

3 komnir, til þess að veita honum lotningu. En er
Heródes konungur heyrði þetta, varð hann felmtsfull-
4 ur og öll Jerúsalem með honum; og er hann hafði
safnað saman öllum æðstu prestunum og fræðimönn-
um lýðsins, spurði hann þá, hvar Kristur ætti að
5 fæðast. Og þeir svöruðu honum: Í Betlehem í
6 Júdeu. Því að þannig er ritað af spámanninum: *Og
þú Betlehem, land Júda, ert engan veginn hin minsta
meðal höfðingja Júda; því að af þjer mun koma höfð-
7 ingi, sem vera skal hirðir míns lýðs, Ísraels.* Þá kall-
aði Heródes vitringana til sín á laun og fekk hjá
þeim glögga grein á því, hvenær stjarnan hefði birst;
8 ljet hann þá síðan fara til Betlehem og sagði: Farið
og haldið vandlega spurnum fyrir um barnið, og er
þjer hafið fundið það, þá látið mig vita, til þess að
9 jeg geti einnig komið og auðsýnt því lotningu. En
er þeir höfðu hlýtt á konunginn, fóru þeir leiðar
sinnar. Og sjá, stjarnan, sem þeir höfðu sjeð í austr-
inu, fór fyrir þeim, þar til hana bar þar yfir, sem
10 barnið var. En er þeir sáu stjörnuna, glöddust þeir
11 harla mjög. Og þeir gengu inn í húsið og sáu barn-
ið ásamt Maríu móður þess, og fjellu fram og veittu
því lotningu. Og þeir opnuðu fjárhirslur sínar og
12 færðu því gjafir: gull, reykelsi og myrru. Og er
þeir höfðu fengið bendingu frá Guði í draumi um
það, að hverfa ekki aftur til Heródesar, fóru þeir
aðra leið heim til lands síns.

13 En er þeir voru burt farnir, sjá, þá vitrast engill
Drottins Jósef í draumi og segir: Rís upp og tak
barnið og móður þess með þjer og flý til Egiptalands,
og ver þar þangað til jeg segi þjer; því að Heródes

14 mun leita barnsins, til þess að fyrirfara því. Og
hann reis upp, tók barnið og móður þess með sjer
15 um nóttina og fór til Egiptalands, og þar dvaldist hann
alt til dauða Heródesar, svo að rætast skyldi það,
sem talað er af Drotni fyrir spámanninn, er segir:
16 *Frá Egiptalandi kallaði jeg son minn.* En er Heródes
sá, að hann var gabbaður af vitringunum, varð hann
afarreiður, sendi út og ljet myrða öll sveinbörn, sem
voru í Betlehem og í öllum nálægum hjeruðum, tvæ-
vetur og þau, er yngri voru, sem svaraði þeirri tíma-
lengd, sem hann hafði komist eftir hjá vitringunum.
17 Rættist það þá, sem mælt er fyrir Jeremías spámann,
18 er hann segir: *Rödd heyrðist í Rama, grátur og
kveinstafir miklir; — Rakel grætur börnin sín, og vildi
ekki huggast láta, því að þau eru ekki framar lífs.*
19 En er Heródes var dáinn, sjá, þá vitrast engill
20 Drottins Jósef í draumi í Egiptalandi og segir: Rís
upp og tak barnið og móður þess með þjer og far til
Ísraelslands, því að þeir eru dánir, er sátu um líf
21 barnsins. Og hann reis upp, tók barnið og móður
22 þess með sjer og kom til Ísraelslands. En er hann
heyrði, að Arkelás rjeð ríki í Júdeu, í stað Heródes-
ar föður síns, varð hann hræddur við að fara þang-
að, og hann fekk bendingu frá Guði í draumi og
23 hjelt til Galíleubygða. Og er hann kom þangað,
settist hann að í borg, sem heitir Nasaret, til þess að
það skyldi rætast, sem mælt er fyrir spámennina:
*Nasarei skal hann kallast.*

3 Á þeim dögum kemur Jóhannes skírari fram og
2 prjedikar í óbygðum Júdeu og segir: Gjörið iðrun,
3 því að ríki himnanna er nálægt. Því að hann er sá,

sem Jesajas spámaður talar um, er hann segir: *Rödd*
*manns, er hrópar í óbygðinni: Greiðið veg Drottins,*
4 *gjörið beinar brautir hans.* En Jóhannes, hann bar
klæðnað af úlfaldahárum og leðurbelti um lendar sjer;
5 en fæða hans var engisprettur og villihunang. Þá
kom Jerúsalem út til hans og gjörvöll Júdea og alt
6 landið umhverfis Jórdan. Og þeir ljetu skírast af
7 honum í ánni Jórdan, játandi syndir sínar. En er
hann sá marga af Fariseum og Saddúkeum koma
til skírnar sinnar, sagði hann við þá: Þjer nöðru-
afkvæmi, hver kendi yður að flýja undan komandi
8 reiði? Berið þá ávöxt samboðinn iðruninni, og ætl-
9 ið ekki, að þjer getið sagt með sjálfum yður: Vjer
eigum Abraham að föður; því að jeg segi yður, að
Guð getur vakið Abraham börn af steinum þessum.
10 En öxin er þegar lögð að rót trjánna; verður þá hvert
það trje, sem ekki ber góðan ávöxt, upp höggvið og
11 því í eld kastað. Jeg skíri yður með vatni til iðrun-
ar, en sá er mjer máttkari, sem eftir mig kemur, og
er jeg ekki verður að bera skó hans; hann mun skíra
12 yður með heilögum anda og eldi. Varpskófla hans
er í hendi honum og hann mun gjörhreinsa láfa sinn
og safna hveiti sínu í hlöðuna, en hismið mun hann
brenna í óslökkvandi eldi.

13 Þá kemur Jesús frá Galíleu til Jórdanar, til Jó-
14 hannesar, til þess að skírast af honum, en Jóhannes
varnaði honum þess og sagði: Mjer er þörf að skír-
15 ast af þjer, og þú kemur til mín! En Jesús svaraði
og sagði við hann: Lát það nú eftir, því að þannig
ber okkur að fullnægja öllu rjettlæti. Þá lætur
16 hann það eftir honum. Og er Jesús var skírður,

stje hann jafnskjótt upp úr vatninu; og sjá, himn-
arnir opnuðust fyrir honum, og hann sá Guðs anda
17 stíga ofan eins og dúfu og koma yfir hann; og sjá,
rödd heyrðist af himnum, er sagði: Þessi er sonur
minn, hinn elskaði, sem jeg hefi velþóknun á.

4 Þá var Jesús leiddur af andanum út á eyðimörk-
2 ina, til þess að verða freistaður af djöflinum; og
er hann hafði fastað fjörutíu daga og fjörutíu
3 nætur, tók hann loks að hungra. Og freist-
arinn kom og sagði við hann: Ef þú ert Guðs
sonur, þá seg, að steinar þessir skuli verða að brauð-
4 um. En hann svaraði og sagði: Ritað er: *Maður-
inn lifir ekki af brauði einu saman, heldur af sjerhverju
5 orði, sem fram gengur af Guðs munni.* Þá tók djöf-
ullinn hann með sjer til borgarinnar helgu og setti
6 hann á þakbrún musterisins, og segir við hann: Ef
þú ert Guðs sonur, þá kasta þjer niður, því að ritað
er: *Hann mun bjóða englum sínum um þig og þeir
mun bera þig á höndum sjer, til þess að þú steytir ekki
7 fót þinn við steini.* Jesús sagði við hann: Aftur
stendur ritað: *Ekki skaltu freista Drottins Guðs þíns.*
8 Enn að nýju tekur djöfullinn hann með sjer upp á ofur-
hátt fjall og sýnir honum öll ríki heimsins og dýrð
9 þeirra og sagði við hann: Alt þetta mun jeg gefa
10 þjer, ef þú fellur fram og tilbiður mig. Þá segir
Jesús við hann: Vík burt, Satan; því að ritað er:
*Drottin Guð þinn átt þú að tilbiðja og þjóna honum
11 einum.* Þá yfirgefur djöfullinn hann, og sjá, englar
komu og þjónuðu honum.

12 En er hann heyrði, að Jóhannes hefði verið fram-
seldur, fór hann til Galíleu. Og hann fór burt frá

13 Nasaret, kom og settist að í Kapernaum við vatnið í
14 landshlutum Sebúlon og Naftalí, til þess að rætast
skyldi það, sem mælt er fyrir Jesajas spámann, er
15 segir: *Land Sebúlon og Naftalí fram með vatninu,*
*landið hinumegin Jórdanar, Galílea heiðingjannna.*
16 *Lýður sá er í myrkri sat, hefir sjeð ljós mikið, og þeim,*
*er sátu í landi og skugga dauðans, er ljós upp runnið.*
17 Upp frá þessu tók Jesús að prjedika og segja: Gjörið
iðrun, því að ríki himnanna er nálægt.

18 En er hann gekk fram með Galíleuvatninu, sá
hann bræður tvo, Símon, sem kallaður er Pjetur, og
Andrjes, bróður hans, er voru að leggja net í vatnið,
19 því að þeir voru fiskimenn; og hann segir við þá:
Fylgið mjer, þá mun jeg gjöra yður að manna veið-
20 urum. Og þegar í stað yfirgáfu þeir netin og fylgdu
21 honum. Og er hann gekk þaðan lengra fram, sá
hann aðra tvo bræður, Jakob Sebedeusson og Jóhann-
es bróður hans, á skipi með Sebedeusi, föður þeirra,
og voru þeir að bæta net sín; og hann kallaði þá.
22 Og þeir yfirgáfu jafnskjótt skipið og föður sinn, og
fylgdu honum.

23 Og Jesús fór víðsvegar um alla Galíleu og kendi
í samkunduhúsum þeirra og prjedikaði fagnaðarboð-
skap ríkisins, og læknaði sjerhvern sjúkdóm og sjer-
24 hvern krankleika meðal lýðsins. Og orðrómurinn um
hann barst út um alt Sýrland. Og menn færðu til
hans alla sjúka, menn, sem haldnir voru af ýmsum
sjúkdómum og þjáningum, menn, sem þjáðust af önd-
25 um, tunglsjúka og lama, og hann læknaði þá. Og
mikill mannfjöldi fylgdi honum úr Galíleu og Deka-

pólis og Jerúsalem og Júdeu og úr landinu handan
yfir Jórdan.

5 En er hann sá mannfjöldann, gekk hann upp á
fjallið, og er hann var sestur niður, komu læri-
2 sveinar hans til hans. Og hann lauk upp munni sín-
um, kendi þeim og sagði:
3 Sælir eru þeir, sem fátækir eru í andanum, því
að þeirra er ríki himnanna.
4 Sælir eru syrgjendur, því að þeir munu huggaðir
verða.
5 Sælir eru hógværir, því að þeir munu landið erfa.
6 Sælir eru þeir, sem hungrar og þyrstir eftir rjett-
lætinu, því að þeir munu saddir verða.
7 Sælir eru miskunnsamir, því að þeim mun mis-
kunnað verða.
8 Sælir eru hjartahreinir, því að þeir munu Guð sjá.
9 Sælir eru friðsemjendur, því að þeir munu Guðs
börn kallaðir verða.
10 Sælir eru þeir, sem ofsóttir verða fyrir rjettlætis
11 sakir, því að þeirra er ríki himnanna. Sælir eruð
þjer, þá er menn atyrða yður og ofsækja og tala ljúg-
12 andi gegn yður alt ilt fyrir mínar sakir. Verið glaðir
og fagnið, því að laun yðar eru mikil á himnum;
því að þannig ofsóttu þeir spámennina, sem voru á
undan yður.
13 Þjer eruð salt jarðarinnar; en ef saltið dofnar,
með hverju á þá að selta það? Það er til einkis
framar nýtt, heldur er því kastað út og það fótum
14 troðið af mönnum. Þjer eruð ljós heimsins; borg,
15 sem stendur uppi á fjalli, fær ekki dulist. Ekki
kveikja menn heldur ljós og setja það undir mæliker,

heldur á ljósastikuna; og þá lýsir það öllum, sem eru
16 í húsinu. Þannig lýsi ljós yðvart fyrir mönnunum,
til þess að þeir sjái góðverk yðar og vegsami föður
yðar, sem er á himnum.
17 Ætlið ekki, að jeg sje kominn til þess að niður
brjóta lögmálið eða spámennina; jeg er ekki kominn
til þess að niður brjóta, heldur til þess að uppfylla;
18 því að sannlega segi jeg yður: Þangað til himinn og
jörð líða undir lok, mun ekki einn bókstafur eða eitt
stafstrik lögmálsins undir lok líða, uns það alt er
19 komið fram. Hver sem því brýtur eitt hið minsta af
boðorðum þessum, og kennir mönnunum þannig, hann
mun verða kallaður minstur í ríki himnanna; en hver
sem breytir eftir þeim og kennir þau, hann mun
20 kallaður verða mikill í ríki himnanna. Því jeg segi
yður, að ef rjettlæti yðar tekur ekki fram rjettlæti-
fræðimannanna og Faríseanna, komist þjer alls ekki
inn í ríki himnanna.
21 Þjer hafið heyrt, að sagt var við forfeðurna: *Þú
skalt ekki morð fremja*, en hver sem morð fremur,
22 verður sekur fyrir dóminum; en jeg segi yður, að
hver sem reiðist bróður sínum, er sekur fyrir dómin-
um; og hver sem segir við bróður sinn: Raka!*)
verður sekur fyrir ráðinu; en hver sem segir: Þú
23 afglapi! verður sekur Gehenna-eldsins. Ef þú því
ert að bera gáfu þína fram á altarið, og þú minnist
þess þar, að bróðir þinn hefir eitthvað á móti þjer,
24 þá skil gáfu þína þar eftir fyrir framan altarið og
far burt, sæstu fyrst við bróður þinn, og kom síðan

---

*) þ. e. varmenni.

25 og ber fram gáfu þína. Vertu skjótur til sætta við
mótstöðumann þinn, meðan þú ert enn á veginum
með honum, svo að mótstöðumaðurinn selji þig eigi
dómaranum í hendur, og dómarinn selji þig þjóninum
26 í hendur, og þjer verði varpað í fangelsi. Sannlega
segi jeg þjer, að þú munt alls ekki komast út þaðan,
fyr en þú hefir borgað hinn síðasta eyri.

27 Þjer hafið heyrt, að sagt var: *Þú skalt ekki*
28 *hórdóm drýgja;* en jeg segi yður, að hver sem lítur
á konu með girndarhug, hefir þegar drýgt hór með
29 henni í hjarta sínu. Ef hægra auga þitt hneykslar
þig, þá ríf það út og kasta því frá þjer, því að gagn-
legt er þjer, að einn lima þinna tortímist, og ekki
30 verði öllum líkama þínum kastað í Gehenna. Og ef
hægri hönd þín hneykslar þig, þá sníð hana af og
kasta frá þjer, því að gagnlegt er þjer, að einn lima
þinna tortímist, og ekki lendi allur líkami þinn í
31 Gehenna. Það er einnig sagt: *Hver sem skilur*
32 *við konu sína, skal gefa henni skilnaðarskrá.* En
jeg segi yður, að hver sem skilur við konu sína,
nema fyrir hórsök, verður þess valdandi, að hún
drýgir hór; og hver sem gengur að eiga fráskilda
konu, drýgir hór.

33 Enn hafið þjer heyrt, að sagt var við forfeðurna:
*Þú skalt ekki vinna rangan eið, en þú skalt*
34 *halda eiða þína við Drottin.* En jeg segi yður,
að þjer eigið alls ekki að sverja, hvorki við himininn,
35 því að hann er hásæti Guðs, nje við jörðina, því að
hún er skör fóta hans, ekki heldur við Jerúsalem,
36 því að hún er borg hins mikla konungs; ekki máttu
heldur sverja við höfuð þitt, því að þú getur ekki

37 gjört eitt hár svart eða hvítt. En ræða yðar skal
vera: já, já; nei, nei; en það sem er umfram þetta,
er af hinu vonda.

38 Þjer hafið heyrt, að sagt var: *Auga fyrir*
39 *auga og tönn fyrir tönn.* En jeg segi yður: Þjer
skuluð ekki rísa gegn meingjörðamanninum, en slái
einhver þig á hægri kinn þína, þá snú þú einnig
40 hinni að honum. Og við þann, sem vill lögsækja
þig og taka kyrtil þinn, slepp og við hann yfirhöfn-
41 inni. Og neyði einhver þig með sjer eina mílu, þá
42 far með honum tvær. Gef þeim sem biður þig, og snú
ekki bakinu við þeim, sem vill fá lán hjá þjer.

43 Þjer hafið heyrt, að sagt var: *Þú skalt elska*
44 *náunga þinn* og hata óvin þinn. En jeg segi yður:
Elskið óvini yðar, og biðjið fyrir þeim, sem ofsækja
45 yður, til þess að þjer verðið börn föður yðar, sem er
á himnum; því að hann lætur sól sína renna upp
yfir vonda og góða og rigna yfir rjettláta og rang-
46 láta. Því að ef þjer elskið þá, sem yður elska, hvaða
laun öðlist þjer þá? Gjöra ekki jafnvel tollheimtu-
47 mennirnir hið sama? Og ef þjer heilsið aðeins
bræðrum yðar, hvað frábært gjörið þjer þá? Gjöra
48 ekki jafnvel heiðingjarnir hið sama? Verið þjer
því fullkomnir, eins og yðar himneski faðir er full-
kominn.

6 Gætið yðar, að fremja ekki rjettlæti yðar fyrir
mönnunum, til þess að verða sjeðir af þeim;
annars hljótið þjer ekki laun hjá föður yðar, sem
er á himnum.

2 Þegar þú því gefur ölmusu, þá lát ekki blása í
básúnu fyrir þjer, eins og hræsnararnir gjöra í sam-

kundunum og á götunum, til þess að þeim hlotnist
heiður af mönnum. Sannlega segi jeg yður, þeir hafa
3 laun sín út tekið. En þegar þú gefur ölmusu, þá
viti vinstri hönd þín ekki hvað hægri hönd þín
4 gjörir, til þess að ölmusa þín sje í leyndum, og faðir
þinn, sem sjer í leyndum, mun endurgjalda þjer.

5 Og þegar þjer biðjist fyrir, þá verið ekki eins
og hræsnararnir, því að þeim er ljúft að biðjast fyrir
standandi í samkundunum og á gatnamótunum, til
þess að verða sjeðir af mönnum. Sannlega segi jeg
6 yður, að þeir hafa laun sín út tekið. En þegar þú
biðst fyrir, þá gakk inn í herbergi þitt, og er þú hefir
lokað dyrum þínum, þá bið föður þinn, sem er í leynd-
um, og faðir þinn, sem sjer í leyndum, mun endur-
7 gjalda þjer. En er þjer biðjist fyrir, þá viðhafið
ekki ónytjumælgi, eins og heiðingjarnir, því að þeir
hyggja, að þeir muni verða bænheyrðir fyrir mælgi
8 sína. Líkist því ekki þeim; því að faðir yðar veit
9 hvers þjer við þurfið, áður en þjer biðjið hann. Þjer
skuluð því biðja þannig:

*Faðir vor, þú sem ert á himnum, helgist nafn*
10 *þitt, komi ríki þitt, verði vilji þinn, svo á jörðu sem*
11 12 *á himni; gef oss í dag vort daglegt brauð; og fyrirgef*
*oss vorar skuldir, svo sem vjer og höfum fyrirgefið*
13 *skuldunautum vorum; og leið oss ekki í freistni, heldur*
*frelsa oss frá illu.*

14 Því að ef þjer fyrirgefið mönnunum misgjörðir
þeirra, þá mun yðar himneski faðir einnig fyrirgefa
15 yður. En ef þjer fyrirgefið ekki mönnunum þeirra
misgjörðir, mun faðir yðar ekki heldur fyrirgefa yðar
misgjörðir.

16 En er þjer fastið, þá verið ekki svipþungir eins
og hræsnararnir; því að þeir gjöra ásjónur sínar tor-
kennilegar, til þess að mennirnir geti sjeð, að þeir
fasta; sannlega segi jeg yður, að þeir hafa laun sín
17 út tekið. En er þú fastar, þá smyr höfuð þitt og
18 þvo andlit þitt, til þess að mennirnir sjái ekki, að
þú fastar, heldur faðir þinn, sem er í leyndum,
og faðir þinn, sem sjer í leyndum, mun endurgjalda
þjer.

19 Safnið yður ekki fjársjóðum á jörðu, þar sem
mölur og ryð eyðir, og þar sem þjófar brjótast inn
20 og stela; heldur safnið yður fjársjóðum á himni, þar
sem hvorki eyðir mölur nje ryð, og þar sem þjófar
21 brjótast ekki inn og stela, því að þar sem fjársjóður þinn
22 er, þar mun og hjarta þitt vera. Augað er lampi
líkamans; ef því auga þitt er heilt, þá mun allur
23 líkami þinn vera í birtu; en sje auga þitt sjúkt, þá
mun allur líkami þinn vera í myrkri; ef því ljósið,
sem í þjer er, er myrkur, hve mikið verður þá
24 myrkrið! Enginn getur þjónað tveimur herrum, því
að annaðhvort mun hann hata annan og elska hinn,
eða aðhyllast annan og lítilsvirða hinn. Þjer getið
25 ekki þjónað Guði og mammon. Þess vegna segi jeg
yður: Verið ekki áhyggjufullir um líf yðar, hvað
þjer skuluð eta eða hvað þjer skuluð drekka, ekki
heldur um líkama yðar, hverju þjer skuluð klæðast.
Er ekki lífið meira en fæðan og líkaminn meira en
26 klæðnaðurinn? Lítið til fugla himinsins, þeir sá
ekki nje uppskera og þeir safna ekki heldur í hlöður,
og yðar himneski faðir fæðir þá; eruð þjer ekki
27 miklu fremri en þeir? En hver af yður getur með

28 áhyggjum aukið einni alin við hæð sína? Og hví
eruð þjer áhyggjufullir um klæðnað? Gefið gaum að
liljum vallarins, hversu þær vaxa; þær vinna ekki
29 og þær spinna ekki heldur, en jeg segi yður, að
jafnvel Salómon í allri dýrð sinni var ekki svo
30 skrýddur sem ein þeirra. Þegar Guð nú skrýðir svo
gras vallarins, sem í dag stendur, en á morgun
verður í ofn kastað, skyldi hann þá ekki miklu
31 fremur klæða yður, þjer lítiltrúaðir? Segið því ekki
áhyggjufullir: Hvað eigum vjer að eta? eða: Hvað
eigum vjer að drekka? eða: Hverju eigum vjer að
32 klæðast? því að eftir öllu þessu sækjast heiðing-
jarnir, og yðar himneski faðir veit, að þjer þarfnist
33 alls þessa. En leitið fyrst ríkis hans og rjettlætis, og
34 þá mun alt þetta veitast yður að auki. Verið því
ekki áhyggjufullir um morgundaginn, því að morgun-
dagurinn mun bera áhyggju fyrir sjer; hverjum degi
nægir sín þjáning.

7 Dæmið ekki, til þess að þjer verðið ekki dæmdir;
2 því að með þeim dómi, sem þjer dæmið, verðið
þjer dæmdir, og þeim mæli, sem þjer mælið, verður
3 yður mælt. En hví sjer þú flísina í auga bróður
þíns, en tekur ekki eftir bjálkanum í auga þínu?
4 Eða hvernig getur þú sagt við bróður þinn: Lát
mig draga út flísina úr auga þjer, og sjá, bjálki er í
5 þínu auga? Hræsnari, drag fyrst bjálkann út úr
auga þínu, og muntu þá sjá vel til að draga út
flísina úr auga bróður þíns.

6 Gefið eigi hundunum hið heilaga og kastið eigi
perlum yðar fyrir svínin, til þess að þau troði þær

ekki niður með fótunum og snúi sjer við og rífi yður
í sundur.
7 Biðjið, og yður mun gefast; leitið, og þjer munuð
finna; knýið á, og fyrir yður mun upp lokið verða;
8 því að sjerhver sá er biður, öðlast, og sá er leitar,
finnur, og fyrir þeim er á knýr, mun upp lokið
9 verða. Eða hver er sá maður meðal yðar, sem
mundi gefa syni sínum stein, er hann bæði um brauð?
10 Og hvort mundi hann gefa honum höggorm, er hann
11 bæði um fisk? Ef nú þjer, sem vondir eruð, hafið
vit á að gefa börnum yðar góðar gjafir, hversu
miklu fremur mun þá faðir yðar, sem er á himnum,
12 gefa þeim góðar gjafir, sem biðja hann? Alt, sem
þjer því viljið að mennirnir gjöri yður, það skuluð
þjer og þeim gjöra; því að þetta er lögmálið og spá-
mennirnir.
13 Gangið inn um þrönga hliðið; því að vítt er
hliðið og breiður vegurinn, er liggur til glötunarinnar,
14 og margir eru þeir, sem fara þar inn; því að þröngt
er hliðið og mjór vegurinn, er liggur til lífsins, og
fáir eru þeir, sem finna hann.
15 Gætið yðar fyrir falsspámönnum, er koma til
yðar í sauðaklæðum, en eru hið innra glefsandi
16 vargar; af ávöxtum þeirra skuluð þjer þekkja þá.
Hvort geta menn lesið vínber af þyrnum eða fíkjur
17 af þistlum? Þannig ber sjerhvert gott trje góða ávöxtu,
18 en skemt trje ber vonda ávöxtu. Gott trje getur ekki
borið vonda ávöxtu, ekki heldur skemt trje borið
19 góða ávöxtu. Hvert það trje, sem ekki ber góðan
20 ávöxt, er upp höggvið og því í eld kastað; þess
vegna — af ávöxtum þeirra skuluð þjer þekkja þá.

 

21 Ekki mun hver sá, er við mig segir: Herra, herra,
ganga inn í ríki himnanna, heldur sá er gjörir vilja
22 föður míns á himnum. Margir munu segja við mig
á þeim degi: Herra, herra, höfum vjer ekki spáð
með þínu nafni, og höfum vjer ekki rekið út anda
með þínu nafni, og höfum vjer ekki gjört mörg krafta-
23 verk með þínu nafni? Og þá mun jeg segja þeim
afdráttarlaust: Aldrei þekti jeg yður; farið frá mjer
24 þjer, sem fremjið ranglæti. Hver sem því heyrir
þessi orð mín og breytir eftir þeim, honum má líkja
25 við hygginn mann, er bygði hús sitt á bjargi; og
steypiregn kom ofan, og vatnsflóð komu og stormar
bljesu, og skullu á því húsi, en það fjell ekki, því að
26 það var grundvallað á bjargi. Og hverjum, sem
heyrir þessi orð mín og breytir ekki eftir þeim, hon-
um má líkja við heimskan mann, er bygði hús sitt á
27 sandi; og steypiregn kom ofan, og vatnsflóð komu og
stormar bljesu, og skullu á því húsi, og það fjell, og
fall þess var mikið.

28 Og það varð, er Jesús hafði lokið þessum orðum,
29 að mannfjöldinn undraðist mjög kenningu hans; því
að hann kendi þeim eins og sá sem vald hafði, og
ekki eins og fræðimenn þeirra.

8 En er hann steig niður af fjallinu, fylgdi honum
2 mikill mannfjöldi. Og sjá, líkþrár maður kom
til hans, laut honum og mælti: Herra, ef þú vilt,
3 getur þú hreinsað mig. Og hann rjetti út höndina,
snart hann og sagði: Jeg vil, verðir þú hreinn! Og
4 jafnskjótt varð líkþrá hans hrein. Og Jesús segir
við hann: Sjá þú til, að þú segir það engum,

heldur far burt, sýn þig prestinum, og ber fram
gjöfina, sem Móse skipaði fyrir, þeim til vitnisburðar.
5 En er hann gekk inn í Kapernaum, kom til hans
6 hundraðshöfðingi, bað hann og sagði: Herra, þjónn
minn liggur heima lami og er mjög þungt haldinn.
7 Og hann segir við hann: Jeg skal koma og lækna
8 hann. Og hundraðshöfðinginn svaraði og sagði: Herra,
jeg er ekki verður þess, að þú gangir inn undir þak
mitt. En seg það aðeins með orði, og mun þjónn
9 minn verða heill. Því að einnig jeg er maður, sem
yfirvaldi á að lúta, og hefi hermenn undir mjer; og
jeg segi við þennan: Far þú, og hann fer, og við
annan: Kom þú, og hann kemur; og við þjón minn:
10 Gjör þú þetta, og hann gjörir það. En er Jesús
heyrði það, undraðist hann og mælti við þá sem
fylgdu honum: Sannlega segi jeg yður: Ekki einu
11 sinni í Ísrael hefi jeg fundið svo mikla trú; en jeg
segi yður, að margir munu koma frá austri og vestri
og sitja til borðs með Abraham og Ísak og Jakob í ríki
12 himnanna; en börnum ríkisins mun verða varpað út
í myrkrið fyrir utan; þar mun vera grátur og gnístran
13 tanna. Og Jesús sagði við hundraðshöfðingjann: Far
þú burt, verði þjer eins og þú trúðir; og þjónninn
varð heilbrigður á þeirri stundu.
14 Og er Jesús kom í hús Pjeturs, sá hann tengda-
15 móður hans, er lá sjúk af hitasótt; og hann snart hönd
hennar, og hitasóttin yfirgaf hana; og hún reis á fætur
16 og þjónaði honum. En er kveld var komið, færðu
þeir til hans marga, er þjáðust af öndum, og rak
hann andana út með orði, og alla þá er sjúkir voru,
17 læknaði hann; svo að rættist það, sem talað er fyrir

Jesajas spámann, er segir: *Hann tók mein vor og bar sóttir vorar.*

18 En er Jesús sá mikinn mannfjölda kringum sig,
19 bauð hann að fara yfir um vatnið. Og fræðimaður
nokkur kom og sagði við hann: Meistari, jeg vil
20 fylgja þjer hvert sem þú fer. Og Jesús segir við
hann: Refar eiga greni og fuglar himinsins hreiður, en
21 mannsins sonur á hvergi höfði sínu að að halla. En ann-
ar af lærisveinunum sagði við hann: Herra, leyf mjer
22 fyrst að fara burt og jarða föður minn. En Jesús
segir við hann: Fylg þú mjer, og lát hina dauðu
jarða sína dauðu.

23 Og er hann steig á skip, fylgdu lærisveinar hans
24 honum. Og sjá, þá gjörði svo mikið óveður á vatn-
inu, að skipið huldi af bylgjunum; en hann svaf.
25 Og þeir komu og vöktu hann segjandi: Herra, bjarga
26 þú; vjer förumst. Og hann segir við þá: Hví eruð
þjer hræddir, lítiltrúaðir? Því næst stóð hann upp
og hastaði á vindana og vatnið, og varð blíða logn.
27 En mennirnir undruðust þetta og sögðu: Hvaða
maður er þetta, að bæði vindarnir og vatnið hlýða
honum?

28 Þegar hann var kominn yfir um í bygð Gadarena,
mættu honum tveir menn, þjáðir af öndum, er komu
út úr gröfunum, skæðir mjög, svo að engum var fært
29 að fara þann veg. Og sjá, þeir æptu og sögðu: Hvað
höfum við saman við þig að sælda, sonur Guðs? Ert
þú kominn hingað fyrir tímann, til þess að kvelja
30 oss? En langt frá þeim var mikil svínahjörð á beit.
31 En andarnir báðu hann og sögðu: Ef þú rekur oss
32 út, þá lát þú oss fara í svínahjörðina. Og hann sagði

við þá: Farið þið! En þeir fóru út og fóru í svínin;
og sjá, öll hjörðin steyptist niður fyrir þvergnípið í
33 vatnið, og týndist í vatninu. En hirðarnir flýðu, og
er þeir komu til borgarinnar, sögðu þeir frá öllu,
eins frá því um mennina, er þjáðir voru af öndun-
34 um. Og sjá, öll borgin gekk út til móts við Jesúm,
og er þeir sáu hann, báðu þeir hann að fara burt
úr hjeruðum þeirra.

9 Og hann steig á skip og fór yfir um og kom í
2 sína eigin borg. Og sjá, menn færðu til hans
lama mann, sem lá í rekkju; og er Jesús sá trú
þeirra, sagði hann við lama manninn: Vertu hug-
3 hraustur, sonur, syndir þínar eru fyrirgefnar. Og sjá,
nokkrir af fræðimönnunum sögðu með sjálfum sjer:
4 Þessi maður lastmælir! Og Jesús, sem þekti hugsanir
þeirra, sagði: Hví hugsið þjer ilt í hjörtum yðar?
5 Því að hvort er auðveldara, að segja: Syndir þínar
eru fyrirgefnar, eða að segja: Statt upp og gakk?
6 En til þess að þjer skulið vita, að mannsins sonur
hefir vald til að fyrirgefa syndir á jörðunni, — þá
segir hann við lama manninn: — statt upp, tak
7 sæng þína og far heim til þín; og hann reis upp og
8 fór heim til sín. En er mannfjöldinn sá þetta,
skelfdist hann og lofaði Guð, er gefið hefði mönnun-
um slíkt vald.

9 Og er Jesús hjelt áfram þaðan, sá hann mann
sitja hjá tollbúðinni, Matteus að nafni; og
hann segir við hann: Fylg þú mjer! Og hann stóð
upp og fylgdi honum.

10 Og svo bar til, er hann sat að borði í húsinu,
sjá, þá komu margir tollheimtumenn og bersyndugir

11 og sátu til borðs með Jesú og lærisveinum hans; og
er Farísearnir sáu það, sögðu þeir við lærisveina
hans: Hví etur meistari yðar með tollheimtumönnum
12 og bersyndugum? En er hann heyrði það, mælti
hann: Ekki þurfa heilbrigðir læknis við, heldur þeir
13 sem sjúkir eru; en farið þjer og lærið hvað þetta
þýðir: *Miskunnsemi þrái jeg, en ekki fórnir;* því að
ekki er jeg kominn, til þess að kalla rjettláta, heldur
synduga.
14 Þá koma til hans lærisveinar Jóhannesar og
segja: Hví föstum vjer og Farísearnir iðulega, en
15 lærisveinar þínir fasta ekki? Og Jesús sagði við þá:
Hvort mundu brúðkaupssveinar vera hryggir, meðan
brúðguminn er hjá þeim? En koma munu dagar, er
brúðguminn verður tekinn burt frá þeim, og þá munu
16 þeir fasta. Enginn leggur bót af nýjum dúk á gam-
alt fat, því að bótin tekur af fatinu og rifan verður
17 verri. Ekki láta menn heldur nýtt vín á gamla
belgi, því að þá springa belgirnir og vínið fer niður
og belgirnir ónýtast; en menn láta nýtt vín á nýja
belgi, og varðveitist þá hvorttveggja.
18 Þegar hann var að tala þetta við þá, sjá, þá
kom forstöðumaður nokkur, laut honum og mælti:
Dóttir mín er nýskilin við, en kom þú og legg hönd
19 þína yfir hana, þá mun hún lifna. Og Jesús stóð
20 upp og fór með honum, svo og lærisveinar hans. Og sjá,
kona nokkur, sem haft hafði blóðfall í tólf ár, kom
21 að baki honum og snart fald yfirhafnar hans; því að
hún sagði með sjálfri sér: Ef jeg aðeins fæ snortið
22 yfirhöfn hans, þá mun jeg heil verða. En Jesús sneri
sjer við, og er hann leit hana, sagði hann: Vertu

hughraust, dóttir, trú þín hefir frelsað þig; og konan
23 varð heil í frá þeirri stundu. Og er Jesús kom í hús
forstöðumannsins og sá þar píparana og mannfjöldann,
24 sem var með þys, sagði hann: Farið burt, því
að stúlkan er ekki dáin, heldur sefur hún. Og þeir
25 hlógu að honum. En er búið var að reka fólkið
út, gekk hann inn, tók í hönd henni, og reis þá
26 stúlkan upp. Og fregnin um þetta barst út um alt
það hjerað.

27 Og er Jesús fór þaðan, fylgdu eftir honum tveir
28 menn blindir, er kölluðu og sögðu: Miskunna
þú okkur, sonur Davíðs! En er hann var kom-
inn inn í húsið, komu hinir blindu til hans. Og
Jesús segir við þá: Trúið þið, að jeg geti gjört
29 þetta? Þeir segja við hann: Já, herra. Þá snart
hann augu þeirra og mælti: Verði ykkur að trú
30 ykkar! Og augu þeirra opnuðust. Og Jesús lagði
ríkt á við þá og sagði: Sjáið til að enginn fái
31 að vita þetta. En þeir gengu út og víðfrægðu hann
í öllu því hjeraði.

32 En er þeir voru burt farnir, sjá, þá færðu menn
33 til hans mállausan mann, er þjáðist af anda. Og er
andinn var út rekinn, talaði hinn mállausi. Og
mannfjöldinn undraðist þetta og mælti: Aldrei hefir
34 þvílíkt sjest í Ísrael. En Faríseanir sögðu: Hann
rekur út andana með fulltingi andaforingjans.

35 Og Jesús fór um allar borgirnar og þorpin, kendi
í samkundum þeirra og prjedikaði fagnaðarboðskap
ríkisins og læknaði hvers konar sjúkdóma og hvers
36 konar krankleika. En er hann sá mannfjöldann,
kendi hann í brjósti um þá, því að þeir voru hrjáðir

37 og tvístraðir, eins og sauðir, er ekki hafa hirði. Þá
segir hann við lærisveina sína: Uppskeran er að
sönnu mikil, en verkamennirnir fáir; biðjið því herra
uppskerunnar, að hann sendi verkamenn til uppskeru
sinnar.

10 Og hann kallaði til sín þá tólf lærisveina sína
og gaf þeim vald yfir óhreinum öndum, til þess
að reka þá út, og til þess að lækna hvers konar sjúk-
dóma og hvers konar krankleika.

2 En nöfn þeirra tólf postula eru þessi: Fyrstur
er Símon, sem Pjetur kallast, og Andrjes bróðir hans;
Jakob Sebedeusson og Jóhannes bróðir hans; Filippus
3 og Bartólómeus; Tómas og Matteus, tollheimtumaður-
4 inn; Jakob Alfeusson og Taddeus; Símon Kananei og
5 Júdas Ískaríot, sá hinn sami er sveik hann. Þessa
tólf sendi Jesús frá sjer, bauð þeim og sagði:
Farið eigi á veg heiðingja og gangið eigi inn í
6 nokkra borg Samverja; en farið heldur til hinna
7 týndu sauða af húsi Ísraels. En á ferðum yðar skuluð
þjer prjedika og segja: Ríki himnanna er í nánd.
8 Læknið sjúka, uppvekið dauða, hreinsið líkþráa, rekið
út anda; ókeypis hafið þjer meðtekið, ókeypis
9 skuluð þjer af hendi láta. Fáið yður eigi gull nje
10 silfur nje eirpeninga í belti yðar; eigi mal til ferðar,
nje tvo kyrtla nje skó nje staf, því að verður er
11 verkamaðurinn fæðis síns. En í hverja þá borg eða
þorp, sem þjer komið, þá spyrjist fyrir, hver sje
maklegur þar, og dveljið þar, þangað til þjer farið
12 burt. En er þjer gangið inn í húsið, þá heilsið því;
13 og sje húsið maklegt, þá komi friður yðar yfir það;
en sje það ekki maklegt, þá hverfi friður yðar til

14 yðar aftur. Og sje sá nokkur, er ekki vill meðtaka
yður, og ekki heldur hlýða á orð yðar, þá farið burt
úr því húsi eða þeirri borg, og hristið dustið af
15 fótum yðar. Sannlega segi jeg yður: Bærilegra mun
landi Sódómu og Gómorru verða á degi dómsins en
þeirri borg.
16 Sjá, jeg sendi yður sem sauði á meðal úlfa; verið
því hygnir sem höggormar og falslausir sem dúfur.
17 Gætið yðar fyrir mönnunum, því að þeir munu fram-
selja yður ráðsamkomum, og í samkundum sínum munu
18 þeir húðstrýkja yður; og fyrir landshöfðingja og kon-
unga munuð þjer leiddir verða mín vegna, þeim og
19 heiðingjunum til vitnisburðar. En er þeir framselja
yður, þá verið ekki áhyggjufullir um, hvernig eða
hvað þjer skuluð tala; því að það mun verða gefið
20 yður á þeirri stundu, hvað þjer eigið að tala; því að
ekki eruð það þjer, sem talið, heldur andi föður yðar,
21 er í yður talar. En bróðir mun framselja bróður til
lífláts og faðir barn sitt, og börnin munu rísa gegn
22 foreldrunum og valda þeim dauða. Og þjer munuð
verða hataðir af öllum vegna nafns míns; en sá er
stendur stöðugur alt til enda, hann mun hólpinn
23 verða. En er þeir ofsækja yður í þessari borg, þá
flýið í hina, því að sannlega segi jeg yður, þjer mun-
uð alls eigi ljúka við borgir Ísraels, áður en manns-
ins sonur kemur.
24 Ekki er lærisveinninn yfir meistara sínum, ekki
25 heldur þjónninn yfir húsbónda sínum; nóg er læri-
sveininum að verða sem meistari hans og þjóninum
að verða sem húsbóndi hans. Hafi þeir kallað hús-
föðurinn Beelsebúl, hve miklu fremur þá heimilis-

26 menn hans? Óttist þá því eigi; því að ekkert er
hulið, er eigi verði opinbert, nje leynt, er ekki verði
27 augljóst. Það sem jeg segi yður í myrkrinu, skuluð
þjer tala i birtunni, og það sem þjer heyrið hvíslað
28 í eyra, skuluð þjer prjedika á þökum uppi. Og hræð-
ist eigi þá sem líkamann deyða, en geta eigi deytt
sálina; en hræðist heldur þann, er mátt hefir til að
29 tortíma bæði sálu og líkama í Gehenna. Eru eigi
tveir spörvar seldir fyrir einn smápening? og ekki
30 fellur einn þeirra til jarðar án vilja föður yðar; en
31 jafnvel öll höfuðhár yðar eru talin. Óttist því eigi;
32 þjer eruð meira verðir en margir spörvar. Hver sem
því kannast við mig fyrir mönnunum, við hann mun
33 jeg einnig kannast fyrir föður mínum á himnum. En
hver sem afneitar mjer fyrir mönnunum, honum mun
jeg og afneita fyrir föður mínum á himnum.

34 Ætlið ekki að jeg sje kominn frið að senda á
jörðina; ekki kom jeg frið að senda, heldur sverð.
35 Því að jeg er kominn til að gjöra mann ósáttan við
föður sinn og dóttur við móður sína og sonarkonu
36 við tengdamóður sína, og óvinir mannsins eru heim-
37 ilismenn hans. Hver sem ann föður eða móður meir
en mjer, er mín ekki verður, og hver sem ann syni
38 eða dóttur meir en mjer, er mín ekki verður. Og
hver sem ekki tekur sinn kross og fylgir mjer eftir,
39 er mín ekki verður. Hver sem finnur líf sitt, mun
týna því, en hver sem hefir týnt lífi sínu mín vegna,
mun finna það.

40 Hver sem meðtekur yður, meðtekur mig, og hver
sem meðtekur mig, meðtekur þann, er sendi mig.
41 Hver sem meðtekur spámann upp á spámanns nafn,

mun fá spámanns laun, og hver sem meðtekur rjett-
látan mann upp á nafn rjettláts manns, mun fá laun
42 rjettláts manns. Og hver sem gefur einum þessara
smælingja svaladrykk einungis upp á lærisveins nafn,
sannlega segi jeg yður: hann mun alls ekki missa af
launum sínum.

11 Og það varð, er Jesús hafði lokið fyrirskipun-
um sínum til þeirra tólf lærisveina sinna, að
hann fór þaðan, til þess að kenna og prjedika í borg-
um þeirra.
2 En er Jóhannes heyrði í fangelsinu um verk Krists,
gjörði hann honum orðsendingu með lærisveinum
3 sínum og ljet segja við hann: Ert þú sá sem koma
4 á, eða eigum vjer að vænta annars? Og Jesús svar-
aði og sagði við þá: Farið og kunngjörið Jóhannesi
5 það sem þjer heyrið og sjáið: Blindir fá sýn og
haltir ganga, líkþráir hreinsast og daufir heyra, og
dauðir upp rísa og fátækum er boðað fagnaðar-
6 erindi. Og sæll er sá sem ekki hneykslast á mjer.
7 En er þeir voru farnir, tók Jesús að tala til mann-
fjöldans um Jóhannes: Hvað fóruð þjer út í óbygð-
8 ina að sjá? Reyr af vindi skekinn? Eða hvað fóruð
þjer út að sjá? Mann mjúkklæddan? Sjá, þeir sem
9 bera mjúk klæði, eru í höllum konunganna. Eða
til hvers fóruð þjer út? Til að sjá spámann? Já,
10 jeg segi yður, jafnvel meira en spámann; því að hann
er sá, sem um er ritað: *Sjá, jeg sendi sendiboða minn
fyrir augliti þínu, er greiða mun veg þinn fyrir þjer.*
11 Sannlega segi jeg yður: Eigi hefir fram komið meðal
þeirra, er af konum eru fæddir, meiri maður en
Jóhannes skírari; en hinn minsti í ríki himnanna er

12 honum meiri. En frá dögum Jóhannesar skírara og
alt til þessa verður ríki himnanna fyrir ofbeldi, og
13 ofbeldismenn taka það með valdi; því að allir spá-
mennirnir og lögmálið spáðu alt fram að Jóhannesi.
14 Og ef þjer viljið meðtaka það, þá er hann sá Elías,
15 er koma skal. Hver sem eyru hefir að heyra, hann
16 heyri. Við hvað skal jeg samlíkja þessari kynslóð?
Lík er hún börnum, sem á torgum sitja og kalla til
17 fjelaga sinna og segja: Vjer ljekum fyrir yður á
hljóðpípu, og þjer dönsuðuð ekki; vjer sungum sorg-
18 arljóð, og þjer kveinuðuð ekki. Því að Jóhannes
kom, og át hvorki nje drakk, og menn segja: Hann
19 hefir anda. Mannsins sonur kom, og át og drakk,
og menn segja: Sjá, átvagl og vínsvelgur! vinur
tollheimtumanna og syndara! En spekin rjettlættist
af gjörðum sínum.

20 Þá tók hann að ávíta borgirnir, þar sem hann
hafði gjört flest kraftaverk, fyrir það, að þær hefðu
21 eigi gjört iðrun: Vei þjer, Kórasín; vei þjer, Betsaída;
því að ef þau kraftaverk hefðu gjörð verið í Týrus
og Sídon, sem gjörst hafa í ykkur, hefðu þær fyrir
22 löngu gjört iðrun í sekk og ösku. Þó segi jeg ykkur,
að Týrus og Sídon mun verða bærilegra á dómsdegi
23 en ykkur. Og þú, Kapernaum! skyldir þú verða
hafin til himins? — Til Heljar skalt þú niður stíga;
því að ef þau kraftaverk hefðu gjörð verið í Sódómu,
sem gjörst hafa í þjer, stæði hún alt til þessa dags.
24 Þó segi jeg yður, að landi Sódómu mun verða bæri-
legra á dómsdegi en þjer.

25 Á þeim tíma tók Jesús til máls og sagði: Jeg
vegsama þig, herra himins og jarðar, að þú hefir hulið

þessa hluti fyrir spekingum og vitrum mönnum, og
26 opinberað þá smælingjum. Já, faðir, því að þannig
27 varð það, sem þóknanlegt er fyrir augliti þínu. Alt
er mjer á vald gefið af föður mínum, og enginn gjör-
þekkir soninn nema faðirinn, og eigi heldur gjör-
þekkir nokkur föðurinn nema sonurinn, og sá er
28 sonurinn vill opinbera hann. Komið til mín, allir
þjer, sem erfiðið og eruð hlaðnir þunga, og jeg mun
29 veita yður hvíld. Takið ok mitt á yður og lærið af
mjer, því að jeg er hógvær og lítillátur í hjarta, og
30 skuluð þjer þá finna sálum yðar hvíld; því að ok
mitt er gott og byrði mín ljett.

12 Á þeim tíma fór Jesús á hvíldardegi um sáð-
lönd, en lærisveinar hans voru hungraðir, og
2 tóku þeir til að tína kornöx og eta. En er Faríse-
arnir sáu það, sögðu þeir við hann: Sjá, lærisveinar
þínir gjöra það, sem ekki er leyfilegt að gjöra á
3 hvíldardegi. En hann sagði við þá: Hafið þjer eigi
lesið, hvað Davíð gjörði, þegar hann varð hungraður
4 og menn hans? hvernig hann gekk inn í Guðs hús og
át skoðunarbrauðin, sem hvorki honum var leyfilegt
að eta nje mönnum hans, heldur prestunum einum?
5 Eða hafið þjer ekki lesið í lögmálinu, að á hvíldar-
dögunum vanhelga prestarnir hvíldardaginn í must-
6 erinu, og eru þó án saka? En jeg segi yður, að
7 hjer er meira en musterið. Og ef þjer hefðuð skilið
hvað það er: *Miskunnsemi þrái jeg, en ekki fórnir*,
8 munduð þjer eigi hafa sakfelt saklausa menn. Því
að mannsins sonur er herra hvíldardagsins.

9 Og hann fór þaðan og kom inn í samkundu
10 þeirra; og sjá, maður var þar, er hafði visna hönd;

og þeir spurðu hann segjandi: Hvort er leyfilegt að
lækna á hvíldardegi? — til þess að þeir gætu ákært
11 hann. En hann sagði við þá: Hver mundi sá mað-
ur vera meðal yðar, er á eina sauðkind, og ekki
tekur í hana og dregur hana upp, hafi hún á hvíldar-
12 degi fallið í gryfju? Hve miklu er nú maðurinn
meira verður en sauðkind! Fyrir því er leyfilegt að
13 vinna góðverk á hvíldardegi. Síðan segir hann við
manninn: Rjettu fram hönd þína. Hann rjetti hana
14 fram, og hún varð aftur heil sem hin. En Faríse-
arnir gengu út og báru saman ráð sín gegn honum,
15 hvernig þeir fengju ráðið hann af dögum. En er
Jesús varð þess vís, veik hann þaðan brott; og margir
16 fylgdu á eftir honum, og hann læknaði þá alla; og
hann lagði ríkt á við þá, að þeir gerðu hann ekki
17 kunnan, til þess að rættist það, sem mælt er fyrir
18 Jesajas spámann, er hann segir: *Sjá, þjónn minn,
sem jeg hefi útvalið; minn elskaði, sem sál mín hefir
þóknun á, yfir hann mun jeg láta koma anda minn, og
19 hann mun boða þjóðunum rjett. Eigi mun hann þrátta
nje háreysti gjöra; ekki skal heldur neinn heyra rödd
20 hans á strætunum. Brákaðan reyr mun hann ekki
brjóta sundur, og rjúkandi hörkveik mun hann ekki
21 slökkva, uns hann hefir leitt rjettinn út til sigurs, og
22 nafni hans munu þjóðirnar treysta.* Þá var færður til
hans maður blindur og mállaus, er þjáðist af anda,
og hann læknaði hann, svo að hinn mállausi talaði
23 og sá. Og allur mannfjöldinn undraðist og þeir sögðu:
24 Mundi ekki þessi vera sonur Davíðs? En er Faríse-
arnir heyrðu það, sögðu þeir: Þessi maður rekur
ekki út andana nema með fulltingi Beelsebúls, for-

25 ingja andanna. En hann vissi hugrenningar þeirra
og sagði við þá: Sjerhvert það ríki, sem sjálfu sjer
er sundurþykt, legst í auðn, og sjerhver borg eða
heimili, sem sjálfu sjer er sundurþykt, fær eigi stað-
26 ist. Og ef Satan út rekur Satan, þá er hann sjálfum
sjer sundurþykkur; hvernig ætti þá ríki hans að
27 standast? Og ef jeg rek út andana með fulltingi
Beelsebúls, fyrir hvers fulltingi reka þá synir yðar
þá út? Fyrir því skulu þeir vera dómarar yðar.
28 En ef jeg út rek andana með fulltingi Guðs anda, þá
29 er guðsríki komið yfir yður. Eða hvernig fær nokkur
komist inn í hús hins sterka og rænt föngum hans,
nema hann áður bindi hinn sterka? Og þá mun
30 hann ræna hús hans. Hver sem ekki er með
mjer, er á móti mjer, og hver sem ekki safnar með
31 mjer, hann dreifir. Þess vegna segi jeg yður, að sjer-
hver synd og lastmæli mun verða fyrirgefið mönn-
unum, en lastmæli gegn andanum mun eigi verða
32 fyrirgefið. Og hver sem mælir orð gegn mannsins
syni, honum mun verða fyrirgefið, en hver sem talar
gegn heilögum anda, honum mun eigi verða fyrir-
gefið, hvorki í þessum heimi nje heldur hinum til-
33 komandi. Látið annaðhvort trjeð vera gott og ávöxt
þess góðan, eða látið trjeð vera skemt og ávöxt
þess skemdan; því að af ávextinum þekkist trjeð.
34 Þjer nöðru-afkvæmi, hvernig getið þjer talað það sem
gott er, þar sem þjer sjálfir eruð vondir? því að af
35 gnægð hjartans mælir munnurinn. Góður maður ber
gott fram úr góðum sjóði, og vondur maður ber ilt fram
36 úr vondum sjóði. En jeg segi yður: Sjerhvert ónytju-
orð, það er mennirnir mæla, fyrir það skulu þeir á

37 dómsdegi reikning lúka; því að af orðum þínum
muntu verða rjettlættur, og af orðum þínum muntu
verða sakfeldur.
38 Þá svöruðu honum nokkrir af fræðimönnum og
Faríseum og sögðu: Meistari, oss langar til að sjá
39 teikn hjá þjer. En hann svaraði og sagði við þá:
Vond og hórsöm kynslóð krefst teikns, og eigi skal
henni annað teikn gefið verða en teikn Jónasar spá-
40 manns; því að eins og Jónas var í kviði stórfisks-
ins þrjá daga og þrjár nætur, þannig mun mannsins
sonur vera þrjá daga og þrjár nætur í skauti jarðar-
41 innar. Níníve-menn munu rísa upp í dóminum ásamt
með kynslóð þessari, og dæma hana seka, því að þeir
gjörðu iðrun við prjedikun Jónasar; og sjá, hjer er
42 meira en Jónas. Suðurlanda-drotningin mun koma
fram í dóminum ásamt þessari kynslóð og dæma
hana seka, því að hún kom frá endimörkum jarðar-
innar, til þess að heyra speki Salómons; og sjá, hjer
43 er meira en Salómon. En er hinn óhreini andi er far-
inn út af manninum, þá fer hann um vatnslausa
44 staði, leitandi hvíldar, en finnur ekki. Þá segir hann:
Jeg vil hverfa aftur til húss míns, þaðan sem jeg fór
út. Og er hann kemur, finnur hann það tómt, sópað og
45 prýtt; þá fer hann og tekur með sjer sjö anda aðra
sjer verri, og er þeir eru komnir inn þangað, setjast
þeir þar að; verður svo hið síðara þess manns verra en
hið fyrra. Svo mun og fara fyrir þessari vondu kynslóð.
46 Meðan hann enn þá var að tala við mannfjöld-
ann, sjá, þá stóðu móðir hans og bræður fyrir dyr-
47 um úti, og vilja ná tali hans. Og einhver sagði við
hann: Sjá, móðir þín og bræður þínir standa fyrir

48 dyrum úti, og vilja ná tali þínu. En hann svaraði
þeim, er við hann talaði, og sagði: Hver er móðir
49 mín? — og hverjir eru bræður mínir? Og hann rjetti
hönd sína út yfir lærisveina sína og mælti: Sjá, hjer
50 er móðir mín og bræður mínir! því að sjerhver sem
gjörir vilja föður míns á himnum, sá er bróðir minn
og systir og móðir.

13 Á þeim degi gekk Jesús að heiman og settist
2 við vatnið; og mikill fjöldi manna safnaðist
að honum, svo að hann steig á skip og settist þar;
3 og allur mannfjöldinn stóð á ströndinni. Og hann
talaði margt til þeirra í dæmisögum og sagði: Sjá,
4 sáðmaður gekk út að sá. Og er hann var að sá,
fjell sumt við götuna, og fuglarnir komu og átu það
5 upp. En sumt fjell í grýtta jörð, þar sem það hafði
ekki mikinn jarðveg, og jafnskjótt rann það upp, af
6 því að það hafði eigi djúpan jarðveg; en er sól kom
upp, skrælnaði það, og sökum þess að það hafði engar
7 rætur, visnaði það. En sumt fjell meðal þyrna, og
8 þyrnarnir uxu upp og kæfðu það. En sumt fjell í góða
jörð og bar ávöxt, sumt hundraðfaldan, sumt sextug-
9 faldan, en sumt þrítugfaldan. Hver sem eyru hefir,
hann heyri.

10 Og lærisveinarnir komu og sögðu við hann:
11 Hvers vegna talar þú við þá í dæmisögum? En hann
svaraði og sagði við þá: Yður er gefið að þekkja
leyndardóma himnaríkis, en hinum er það eigi gefið;
12 því að hverjum, sem hefir, honum mun verða gefið,
og hann mun gnægð hafa, en hverjum, sem ekki
hefir, frá honum mun jafnvel verða tekið það er
13 hann hefir. Þess vegna tala jeg til þeirra í dæmi-

sögum, að sjáandi sjá þeir ekki, og heyrandi heyra
14 þeir ekki nje skilja. Og á þeim rætist spádómur
Jesajasar, er segir: *Með heyrninni munuð þjer heyra,
og alls eigi skilja, og sjáandi munuð þjer sjá, og alls
15 eigi skynja. Því að hjarta lýðs þessa er sljótt orðið,
og á eyrunum eru þeir orðnir daufir, og augum sínum
hafa þeir lokað, til þess að þeir sæju eigi með augun-
um, og heyrðu með eyrunum, og skynjuðu með hjart-
16 anu, og sneru sjer, og jeg læknaði þá.* En sæl eru
augu yðar, af því að þau sjá, og eyru yðar, af því
17 að þau heyra; því að sannlega segi jeg yður, að
margir spámenn og rjettlátir þráðu að sjá það, sem
þjer sjáið, og sáu það eigi, og heyra það, sem þjer
18 heyrið, og heyrðu það eigi. Heyrið þjer nú dæmi-
19 söguna um sáðmanninn: Hvenær sem einhver heyrir
orð ríkisins og skilur það eigi, þá kemur hinn vondi,
og rænir því er sáð var í hjarta hans. Þessi er sá,
20 er sáð var við götuna. En það sem í grýtta jörð
var sáð, það er sá, er heyrir orðið og meðtekur það
21 með fögnuði þegar í stað. En hann hefir ekki rót í
sjer, heldur er hann óstöðugur. En er þrenging
verður eða ofsóknir vegna orðsins, hneykslast hann
22 jafnskjótt. En það er sáð var meðal þyrna, það er
sá sem orðið heyrir, og áhyggja heimsins og tál auð-
23 æfanna kefja orðið, og hann ber engan ávöxt. En
það er sáð var í góðu jörðina, það er sá sem orðið
heyrir og skilur það; hann ber því ávöxt, og gefur
af sjer, einn hundraðfalt, annar sextugfalt og annar
þritugfalt.

24 Aðra dæmisögu framsetti hann fyrir þá og sagði:
Líkt er ríki himnanna manni, er sáði góðu sæði í akur

25 sinn; en meðan fólkið svaf, kom óvinur hans og sáði
26 líka illgresi meðal hveitisins, og fór síðan á burt. En
er sæðið spratt upp og bar ávöxt, þá kom og ill-
27 gresið í ljós. Þá fóru þjónar húsbóndans og sögðu
við hann: Herra, sáðir þú ekki góðu sæði í akur
28 þinn? Hvaðan kemur honum þá illgresi? En hann
mælti við þá: Þetta hefir illviljaður maður gjört.
En þjónarnir segja við hann: Viltu þá, að vjer för-
29 um og reytum það upp? En hann segir: Nei, svo
að þjer eigi, er þjer reytið upp illgresið, reytið hveitið
30 upp ásamt því. Látið hvorttveggja vaxa saman til
kornskurðarins; og er kornskurðartíminn kemur, mun
jeg segja við kornskurðarmennina: Safnið fyrst sam-
an illgresinu og bindið það í bundin, til þess að
brenna það, en safnið hveitinu í kornhlöðu mína.

31 Aðra líkingu framsetti hann fyrir þá og mælti:
Líkt er ríki himnanna mustarðskorni, er maður nokk-
32 ur tók og sáði í akur sinn. Vissulega er það allra
frækorna minst, en þegar það er sprottið, er það
stærra en jurtirnar og verður að trje, svo að fuglar
himinsins koma og hreiðra sig í greinum þess.

33 Aðra líkingu sagði hann þeim: Líkt er ríki
himnanna súrdeigi, er kona tók og faldi í þrem mæl-
um mjöls, uns alt mjölið sýrðist.

34 Þetta alt talaði Jesús í líkingum við mannfjöld-
ann, og án líkinga talaði hann ekkert til þeirra,
35 til þess að rættist það sem talað er fyrir spámanninn,
er segir: *Jeg mun opna munn minn í líkingum, og
mæla fram það sem hulið hefir verið frá grundvöllun*
36 *veraldar.* Þá yfirgaf hann mannfjöldann og gekk inn
í húsið; og lærisveinar hans komu til hans og sögðu:

Útskýr þú fyrir oss dæmisöguna um illgresið á akrin-
37 um. En hann svaraði og sagði: Sá er sáir góða
38 sæðinu, er mannsins sonur; en akurinn er heimurinn;
en góða sæðið, það eru synir ríkisins, en illgresið,
39 það eru synir hins vonda; en óvinurinn, er sáði því,
er djöfullinn; en kornskurðartíminn er endir veraldar;
40 en kornskurðarmennirnir eru englar. Eins og því
illgresinu er safnað og það brent í eldi, þannig mun
41 fara við enda veraldar; mannsins sonur mun senda
engla sína, og þeir munu saman safna úr ríki hans
42 öllum hneykslunum og þeim, er ranglæti fremja, og
munu kasta þeim í eldsofninn; þar mun vera grátur
43 og gnístran tanna. Þá munu hinir rjettlátu skína
sem sólin í ríki föður þeirra. Hver sem eyru hefir,
hann heyri.

44 Líkt er ríki himnanna fjársjóði, er fólginn var í
akri, en maður nokkur fann og faldi, og í gleði sinni
fer hann burt og selur alt, sem hann á, og kaupir
akur þennan.

45 Enn er ríki himnanna líkt kaupmanni einum,
46 sem leitaði að fögrum perlum; og er hann hafði fundið
eina dýra perlu, fór hann og seldi alt, sem hann átti,
og keypti hana.

47 Enn er ríki himnanna líkt neti, er lagt var í
48 sjóinn og safnaði í sig af öllum tegundum; og er það
var orðið fult, drógu menn það að landi og settust
niður, söfnuðu hinum góðu í ker, en köstuðu hinum
49 óætu út aftur. Þannig mun verða við enda heimsins;
englarnir munu fara út og skilja hina vondu menn
50 frá hinum rjettlátu, og þeir munu kasta þeim í
eldsofninn; þar mun vera grátur og gnístran tanna.

51 Hafið þjer skilið alt þetta? Þeir segja við hann:
52 Já. En hann sagði við þá: Þess vegna er sjerhver
fræðimaður, sem er orðinn lærisveinn himnaríkis,
líkur húsráðanda, sem ber fram nýtt og gamalt af
fjársjóði sínum.
53 Og það bar við, er Jesús hafði lokið þessum
54 líkingum, að hann tók sig upp þaðan. Og hann kom til
ættborgar sinnar og kendi þeim í samkunduhúsum
þeirra, svo að þeir urðu forviða og sögðu: Hvaðan kemur
55 þessum manni speki þessi og kraftaverkin? Er hann
ekki sonur timbursmiðsins? Heitir ekki móðir hans
María, og bræður hans Jakob og Jósef og Símon og
56 Júdas? Og eru ekki systur hans allar hjá oss?
57 Hvaðan kemur þessum manni þá alt þetta? Og þeir
hneyksluðust á honum; en Jesús sagði við þá: Eigi
er spámaður óvirtur nema í föðurlandi sínu og á
58 heimili sínu. Og hann gjörði þar ekki mörg krafta-
verk vegna vantrúar þeirra.

14 Um þessar mundir heyrði Heródes fjórðungs-
stjóri orðróminn um Jesúm, og sagði við sveina
2 sína: Þessi maður er Jóhannes skírari; hann er ris-
inn upp frá dauðum, þess vegna eru kraftarnir
3 máttugir í honum. Því að Heródes hafði tekið
Jóhannes höndum og fjötrað og sett hann í
fangelsi, vegna Heródíasar, konu Filippusar bróður
4 síns; því að Jóhannes sagði við hann: Þjer leyfist
5 ekki að eiga hana. Og feginn vildi hann deyða hann,
en hann óttaðist lýðinn, því að þeir hjeldu hann
6 fyrir spámann. En er afmælisdagur Heródesar kom,
dansaði dóttir Heródíasar frammi fyrir þeim og gast

7 Heródesi vel að. Þess vegna hjet hann með eiði að
8 gefa henni hvað sem hún bæði um. Og eftir áeggjan
móður sinnar segir hún: Gef mjer hingað höfuð
9 Jóhannesar skírara á fati. Og konungurinn varð
hryggur, en vegna eiða sinna og boðsgestanna bauð
10 hann, að henni skyldi það gefið verða. Og hann
11 sendi og ljet höggva Jóhannes í varðhaldinu, og var
komið með höfuð hans á fati og gefið meynni, en
12 hún færði móður sinni. Og lærisveinar hans komu
og tóku líkið og greftruðu það; og þeir fóru og sögðu
Jesú frá.
13 En er Jesús heyrði það, fór hann á skipi burt
þaðan til eyðistaðar afsíðis; og er mannfjöldinn heyrði
það, fylgdu þeir eftir honum fótgangandi úr borgun-
14 um. Og er hann steig af skipi, sá hann mikinn mann-
fjölda, og hann kendi í brjósti um þá, og hann læknaði
15 þá af þeim, er sjúkir voru. En er kveld var komið,
komu lærisveinar hans til hans og mæltu: Staðurinn
er óbygður og tíminn þegar liðinn; láttu mannfjöldann
fara frá þjer, til þess að hann fari burt í þorpin
16 og kaupi sjer vistir. En Jesús sagði við þá: Ekki
þurfa þeir að fara burt; gefið þjer þeim að eta.
17 En þeir segja við hann: Vjer höfum hjer ekki nema
18 fimm brauð og tvo fiska. En hann sagði: Færið
19 mjer það hingað. Og hann bauð mannfjöldanum að
setjast niður í grasið og tók brauðin fimm og fiskana
tvo, leit til himins og blessaði, og er hann hafði
brotið brauðin, fekk hann lærisveinum sínum þau,
20 en lærisveinarnir mannfjöldanum. Og allir neyttu
og urðu mettir; og þeir tóku upp brotnu brauðin, er
21 af gengu, tólf karfir fullar; en þeir sem neytt höfðu,

voru hjer um bil fimm þúsund karlmenn auk kvenna
og barna.
22 Og jafnskjótt þröngvaði hann lærisveinum sínum
til að stíga á skipið og fara yfir um á undan sjer, á
23 meðan hann kæmi mannfjöldanum frá sjer. Og er
hann hafði komið fólkinu frá sjer, fór hann einn
saman upp á fjallið, til þess að biðjast fyrir; og er
24 kveld var komið, var hann þar einn. En skipið var
þegar komið út á mitt vatnið og lá undir áföllum,
25 því að vindurinn var á móti. En um fjórðu nætur-
26 vöku kom hann til þeirra gangandi á vatninu. Og
er lærisveinarnir sáu hann gangandi á vatninu, urðu
þeir felmtsfullir og sögðu: Það er vofa; og þeir æptu
27 af ótta. En jafnskjótt talaði Jesús til þeirra og mælti:
28 Verið hughraustir, það er jeg, óttist eigi! En Pjetur
svaraði honum og sagði: Herra, ef það ert þú, þá
29 bjóð þú mjer að koma til þín á vatninu. En hann
sagði: Kom þú! Og Pjetur steig utanborðs og gekk
30 á vatninu, til þess að komast til Jesú. En er hann
sá vindinn, hræddist hann, og er hann tók að sökkva,
31 kallaði hann og mælti: Herra, frelsa þú mig! En
jafnskjótt rjetti Jesús út hönd sína, tók í hann og
32 segir við hann: Þú lítiltrúaði, hví efaðist þú? Og
33 er þeir voru stignir upp í skipið, lægði veðrið; en
þeir sem á skipinu voru, veittu honum lotningu, seg-
jandi: Sannarlega ert þú sonur Guðs.
34 Og er þeir höfðu farið yfir um, komu þeir að
35 landi í Genesaret. Og með því að íbúar þessa staðar
þektu hann, sendu þeir boð í alla bygðina umhverfis
36 og færðu til hans alla þá er sjúkir voru; og þeir

báðu hann að mega aðeins snerta faldinn á yfirhöfn
hans. Og allir þeir er snertu hann, urðu heilir.
15 Þá koma til Jesú frá Jerúsalem Farísear og
2 fræðimenn og segja: Hví brjóta lærisveinar
þínir setninga fyrri tíðar manna? Því að þeir taka
3 ekki handlaugar, er þeir neyta matar. En hann svar-
aði og sagði við þá: Hví brjótið þjer og boðorð
4 Guðs vegna setninga yðar? Því að Guð hefir sagt:
*Heiðra föður þinn og móður*, og: *Hver sem formælir*
5 *föður eða móður, skal dauða deyja.* En þjer segið:
Hver sem segir við föður eða móður: Það sem þjer
hefði getað orðið til styrks frá mjer, er heitfje, —
6 hann þarf eigi að heiðra föður sinn. Og þjer hafið
7 ónýtt orð Guðs vegna setninga yðar. Hræsnarar,
8 vel hefir Jesajas spáð um yður, er hann segir: *Lýður*
*þessi heiðrar mig með vörunum, en hjarta þeirra er*
9 *langt í burtu frá mjer; þeir dýrka mig til einkis, með*
*því að þeir kenna lærdóma, sem eru manna boðorð.*
10 Og hann kallaði til sín mannfjöldann og sagði við
11 þá: Heyrið og skiljið: Eigi saurgar það manninn,
sem inn fer í munninn, — heldur það sem út fer af
12 munninum, það saurgar manninn. Þá komu til hans
lærisveinarnir og mæltu við hann: Veistu, að Farí-
13 searnir hneyksluðust, er þeir heyrðu ræðuna? En
hann svaraði og sagði: Sjerhver jurt, sem minn
himneski faðir hefir eigi gróðursett, mun upprætt
14 verða. Látið þá eiga sig! Þeir eru blindir leiðtogar;
en ef blindur leiðir blindan, falla þeir báðir í gryfju.
15 En Pjetur svaraði og sagði við hann: Útskýr þú
16 fyrir oss líkinguna. En hann sagði: Eruð jafnvel
17 þjer enn þá svo skilningslausir? Skiljið þjer eigi, að

alt það sem inn kemur í munninn, fer í magann, og
18 er kastað í saurþróna? En það er út fer af munnin-
um, kemur frá hjartanu, og það er þetta, sem saurgar
19 manninn. Því að frá hjartanu koma vondar hugs-
anir, morð, hórdómur, frillulífi, þjófnaður, ljúgvitni,
20 lastmæli; þetta er það sem saurgar manninn; en að
eta með óþvegnum höndum, saurgar eigi manninn.
21 Og Jesús gekk þaðan út og fór burt til bygða
22 Týrusar og Sídonar. Og sjá, kona nokkur kanversk
úr þeim hjeruðum kom, kallaði og sagði: Miskunna
þú mjer, herra, sonur Davíðs! dóttir mín er þungt
23 haldin af anda. En hann svaraði henni engu orði.
Og lærisveinar hans komu til hans, beiddu hann og
sögðu: Láttu hana fara, því að hún kallar á eftir
24 oss. En hann svaraði og sagði: Ekki er jeg sendur
25 nema til týndra sauða af húsi Ísraels. En hún kom,
26 laut honum og mælti: Herra, hjálpa þú mjer. En
hann svaraði og sagði: Það er ekki fallegt að taka
27 brauðið barnanna og kasta því fyrir hvolpana. En
hún sagði: Satt er það, herra, en hvolparnir eta þó
af molum þeim, er falla af borðum húsbænda þeirra.
28 Þá svaraði Jesús og sagði við hana: Kona, mikil er
trú þín; verði þjer sem þú vilt; og dóttir hennar
varð heilbrigð í frá þeirri stundu.
29 Og Jesús fór þaðan og kom til Galíleuvatnsins,
30 og hann gekk upp á fjallið og settist þar. Og mikill
fjöldi fólks kom til hans, er hafði með sjer halta
menn og blinda, mállausa, handarvana og marga
aðra, og vörpuðu þeim fyrir fætur Jesú, og hann
31 læknaði þá; svo að mannfjöldinn undraðist, er þeir
sáu mállausa tala, handarvana heila og halta ganga

um, og blinda alsjáandi; og þeir vegsömuðu Guð
Ísraels.
32 En Jesús kallaði á lærisveina sína og mælti: Jeg
kenni í brjósti um mannfjöldann, því að þrjá daga
hafa þeir nú dvalist hjá mjer, og hafa ekkert til
matar; en fastandi vil jeg ekki láta þá frá mjer fara,
33 svo að þeir verði eigi magnþrota á leiðinni. Og
lærisveinarnir mæltu við hann: Hvaðan skyldu oss
koma svo mörg brauð hjer í óbygð, að vjer fáum
34 mettað svo mikinn mannfjölda? Og Jesús segir við
þá: Hve mörg brauð hafið þjer? En þeir sögðu:
35 Sjö, og fáeina smáfiska. Og hann bauð mannfjöld-
36 anum að setjast niður á jörðina, tók brauðin sjö og
fiskana, og gjörði þakkir, braut þau og rjetti læri-
37 sveinunum, en lærisveinarnir mannfjöldanum. Og
allir neyttu og urðu mettir; og þeir tóku upp afgang-
inn af brotnu brauðunum, sjö karfir fullar; en þeir
er neytt höfðu, voru fjórar þúsundir karlmanna auk
38 kvenna og barna. Og er hann hafði látið mannfjöld-
ann fara á burt, stje hann á skipið og kom til Mag-
adan-hjeraða.

16 Og Faríseararnir og Saddúkearnir komu til hans
og freistuðu hans og báðu hann að sýna sjer
2 tákn af himni. En hann svaraði og sagði við þá:
Að kveldi segið þjer: Góðviðri, því að himininn er
3 rauður. Og að morgni: Hreggviðri í dag, því að
himininn er rauður og dimmur. Um himinsins útlit
kunnið þjer að dæma, en um tákn tímanna getið
4 þjer ekki dæmt. Vond og hórsöm kynslóð beiðist
tákns, og henni skal eigi tákn gefast nema tákn
Jónasar. Og hann yfirgaf þá og fór burt.

5 Og er lærisveinarnir komu yfir um, höfðu þeir
6 gleymt að taka brauð. En Jesús sagði við þá: Sjáið
til og varið yður á súrdeigi Faríseanna og Saddúke-
7 anna. En þeir hugsuðu með sjálfum sjer og sögðu:
8 Vjer höfum ekki tekið brauð. En er Jesús varð þess
vís, mælti hann: Hví eruð þjer að hugsa um það
með sjálfum yður, þjer trúarlitlir, að þjer eruð brauð-
9 lausir? Skiljið þjer ekki enn þá? Munið þjer þá
eigi heldur eftir brauðunum fimm handa fimm þús-
10 undum, og hve margar karfir þjer tókuð? Nje eftir
brauðunum sjö handa fjórum þúsundum, og hve
11 margar karfir þjer tókuð? Hvernig má það vera, að
þjer skiljið ekki, að jeg var ekki að tala um brauð
við yður? En varið yður á súrdeigi Faríseanna og
12 Saddúkeanna. Þá skildu þeir, að hann talaði eigi
um að varast súrdeigið í brauðunum, heldur kenn-
ingu Faríseanna og Saddúkeanna.

13 En er Jesús kom til bygða Sesareu Filippí, spurði
hann lærisveina sína og sagði: Hver segja menn að
14 mannsins sonur sje? Og þeir sögðu: Sumir segja:
Jóhannes skírari, aðrir: Elías, og aðrir: Jeremías
15 eða einn af spámönnunum. Hann segir við þá: En
16 hver segið þjer að jeg sje? En Símon Pjetur svaraði
og sagði: Þú ert Kristur, sonur Guðs hins lifanda.
17 En Jesús svaraði og sagði við hann: Sæll ert þú,
Símon Jónasson, því að hold og blóð hefir eigi opin-
18 berað þjer það, heldur faðir minn á himnum. En jeg
segi þjer: Þú ert Petros*, og á þessum kletti mun
jeg byggja söfnuð minn, og hlið Heljar skulu eigi

*) Þ. e. klettur.

19 verða honum yfirsterkari. Jeg mun gefa þjer lykla
himnaríkis, og sjerhvað sem þú bindur á jörðu, skal
á himnum bundið vera, og sjerhvað sem þú leysir á
20 jörðu, skal á himnum leyst vera. Þá bauð hann
lærisveinunum, að þeir segðu engum, að hann væri
Kristur.

21 Eftir þetta tók Jesús að leiða lærisveinum sínum
fyrir sjónir, að sjer bæri að fara til Jerúsalem og
líða margt af hendi öldunganna, æðstu prestanna og
fræðimannanna, og verða deyddur og rísa upp á þriðja
22 degi. Og Pjetur tók hann á einmæli, og fór að átelja
hann, segjandi: Guð náði þig, herra; þetta skal aldrei
23 fram við þig koma! En hann sneri sjer við og mælti
við Pjetur: Haf þig á burt frá mjer, Satan, þú ert
mjer til ásteytingar; því að eigi skynjar þú það sem
24 Guðs er, heldur það sem manna er. Þá mælti Jesús
við lærisveina sína: Vilji einhver fylgja mjer, þá
afneiti hann sjálfum sjer og taki sinn kross og fylgi
25 mjer; því að hver sá sem vill bjarga lífi sínu, mun
týna því, en hver sá sem týnir lífi sínu mín vegna,
26 hann mun finna það. Því að hvað mun það stoða
manninn, þótt hann vinni allan heiminn, en fyrirgjöri
sálu sinni? Eða hvaða endurgjald mundi maður gefa
27 fyrir sálu sína? Því að mannsins sonur mun koma
í dýrð föður síns ásamt englum sínum, og þá mun
28 hann gjalda sjerhverjum eftir verki hans. Sannlega
segi jeg yður, að þeir eru nokkrir af þeim, er hjer
standa, sem alls eigi munu smakka dauðann, fyr en
þeir sjá mannsins son koma í ríki sínu.

17. Og að sex dögum liðnum tekur Jesús þá Pjetur og
Jakob og Jóhannes bróður hans, og fer með þá

2 einslega upp á hátt fjall. Og hann ummyndaðist að
þeim ásjáandi, og ásjóna hans skein sem sólin, en
3 klæði hans urðu björt eins og ljósið. Og sjá, Móse
4 og Elías birtust þeim og töluðu þeir við hann. En
Pjetur tók til máls og sagði við Jesúm: Gott er að
vjer erum hjer, herra; ef þú vilt, mun jeg gjöra hjer
þrjár tjaldbúðir, þjer eina og Móse eina og Elíasi
5 eina. Meðan hann var enn að tala, sjá, yfir þá
skygði bjart ský, og sjá, rödd úr skýinu sagði: Þessi
er sonur minn, hinn elskaði, sem jeg hefi velþóknun
6 á; hlýðið honum. En er lærisveinarnir heyrðu rödd-
ina, fjellu þeir fram á ásjónur sínar og urðu mjög
7 hræddir. Þá gekk Jesús að og snart þá og mælti:
8 Rísið upp og óttist ekki! En er þeir hófu upp augu
sín, sáu þeir engan nema Jesúm einan.

9 Og er þeir gengu niður af fjallinu, bauð Jesús
þeim og sagði: Segið engum frá sýninni, fyr en
10 mannsins sonur er risinn upp frá dauðum. Og læri-
sveinar hans spurðu hann og sögðu: Hví segja þá
11 fræðimennirnir, að Elías eigi fyrst að koma? En
hann svaraði og sagði: Elías kemur að vísu og mun
12 færa alt í lag. En jeg segi yður: Elías er nú þegar
kominn, en þeir þektu hann eigi, heldur gjörðu við
hann alt, er þá fýsti; þannig á og mannsins sonur
13 að þola þjáningar af hendi þeirra. Þá skildu
lærisveinarnir, að hann talaði við þá um Jóhannes
skírara.

14 Og er þeir komu til mannfjöldans, kom til hans
maður nokkur, fjell á knje fyrir honum og mælti:
15 Herra, miskunna þú syni mínum, því að hann er
tunglsjúkur og næsta þungt haldinn; oft fellur hann

16 í eld og oft í vatn; og jeg hefi fært hann til læri-
17 sveina þinna, og þeir gátu eigi læknað hann. Og
Jesús svaraði og sagði: Ó þú vantrúa og rangsnúna
kynslóð, hversu lengi á jeg að vera hjá yður? Hversu
lengi á jeg að umbera yður? Færið hann hingað til
18 mín. Og Jesús hastaði á hann, og andinn fór út af
honum, og sveinninn varð heilbrigður frá þeirri
19 stundu. Þá komu lærisveinarnir einslega til Jesú og
sögðu: Hvers vegna gátum vjer ekki rekið hann út?
20 En hann segir við þá: Vegna lítillar trúar yðar. Því
að sannlega segi jeg yður: Ef þjer hafið trú eins og
mustarðskorn, þá munuð þjer segja við þetta fjall:
Flyttu þig þaðan og hingað! Og það mun flytja sig,
og ekkert mun vera yður um megn.

21 En er þeir dvöldust í Galíleu, sagði Jesús við þá:
Mannsins sonur á framseldur að verða í manna
23 hendur. Og þeir munu taka hann af lífi, og á
þriðja degi mun hann upp rísa. Og þeir urðu mjög
hryggir.

24 En er þeir komu til Kapernaum, komu þeir
menn, sem heimta inn dídrökmurnar, til Pjeturs og
mæltu: Geldur meistari yðar eigi dídrökmurnar?
25 Hann segir: Jú. Og er hann kom inn í húsið, tók
Jesús fyr til máls og mælti: Hvað líst þjer, Símon?
Af hverjum taka konungar jarðarinnar toll eða
26 skatt? Af sonum sínum eða útlendingunum? En
er hann sagði: Af útlendingunum, — mælti Jesús:
27 Þá eru synirnir frjálsir. En til þess að vjer
hneykslum þá ekki, þá far til vatnsins og renn út
öngli, og tak fyrsta fiskinn, sem upp kemur; og er

þú opnar munn hans, muntu finna stater; tak þú
hann og greið þeim fyrir mig og fyrir þig.

18 Á sömu stundu komu lærisveinarnir til Jesú og
sögðu: Hver er þá mestur í ríki himnanna?
2 Og hann kallaði til sín barn, setti það mitt á meðal
3 þeirra og sagði: Sannlega segi jeg yður: Nema þjer
snúið við og verðið eins og börnin, komist þjer alls
4 eigi inn í ríki himnanna. Hver sem því lítillækkar
sig eins og barn þetta, sá er mestur í ríki himnanna.
5 Og hver sem meðtekur eitt einasta þvílíkt barn í
6 mínu nafni, hann meðtekur mig. En hver sem hneyksl-
ar einn af þessum smælingjum, er á mig trúa, betra
væri honum, að stór kvarnarsteinn væri hengdur
um háls honum og honum væri sökt í sjávardjúp.
7 Vei heiminum vegna hneykslananna; því að óumflý-
janlegt er, að hneykslanirnar komi, en vei þeim
8 manni, sem hneyksluninni veldur. En ef hönd þín
eða fótur þinn hneykslar þig, þá högg hann af og
kasta frá þjer; því að betra er þjer handarvana og
höltum að ganga inn til lífsins, en að hafa tvær
hendur og tvo fætur, og verða kastað í hinn eilífa
9 eld. Og ef auga þitt hneykslar þig, þá ríf það út
og kasta því frá þjer; betra er þjer eineygðum að
ganga inn til lífsins, en að hafa bæði augu og verða
10 kastað í Gehenna eldsins. Sjáið til, að þjer eigi fyrir-
lítið neinn af þessum smælingjum, því að jeg segi
yður, að englar þeirra á himnum sjá ávalt auglit
12 föður míns, sem er á himnum. Hvað virðist yður?
Ef einhver maður ætti hundrað sauði og einn af
þeim viltist frá, mundi hann eigi skilja þá níutíu og
níu eftir og fara upp í fjöllin og leita hins frávilta?

13 Og ef svo fer, að hann finnur hann, sannlega segi
jeg yður, að hann gleðst meir yfir honum en yfir þeim
14 níutíu og níu, sem eigi höfðu vilst burt. Þannig er
það eigi vilji föður yðar, sem er á himnum, að einn
einasti þessara smælingja glatist.
15 En ef bróðir þinn syndgar á móti þjer, þá far
og vanda um við hann að þjer og honum einum
saman; láti hann sjer segjast, þá hefir þú unnið
16 bróður þinn. En láti hann sjer ekki segjast, þá tak að
auki með þjer einn eða tvo, til þess að hvert mál verði
17 staðfest fyrir munn tveggja eða þriggja votta. En
hlýðnist hann þeim eigi, þá seg það söfnuðinum; en
ef hann einnig óhlýðnast söfnuðinum, þá sje hann
18 þjer eins og heiðingi og tollheimtumaður. Sannlega
segi jeg yður, hvað sem þjer bindið á jörðu, skal
vera bundið á himni; og hvað sem þjer leysið á
19 jörðu, skal vera leyst á himni. Enn segi jeg yður, að
ef tveir af yður verða sammála á jörðunni, mun þeim
veitast af föður mínum, sem er á himnum, sjerhver
20 sá hlutur, sem þeir kunna að biðja um; því að hvar
sem tveir eða þrír eru saman komnir í mínu nafni,
þar er jeg mitt á meðal þeirra.
21 Þá gekk Pjetur til hans og mælti við hann:
Herra, hversu oft á bróðir minn að syndga á móti
mjer og jeg að fyrirgefa honum? Alt að sjö sinnum?
22 Jesús segir við hann: Ekki segi jeg þjer: Alt að sjö
23 sinnum, heldur alt að sjötíu sinnum sjö. Fyrir því
er ríki himnanna líkt konungi einum, sem gjöra vildi
24 upp reikning við þjóna sína. En er hann tók að
gjöra upp, var færður til hans einn, er skuldaði tíu
25 þúsund talentur. En er hann hafði ekkert til að

borga, skipaði húsbóndi hans að selja skyldi hann,
konu hans og börn og allar eigur hans, og að skuldin
26 skyldi verða greidd. Þá fjell þjónninn fram, laut
honum og sagði: Herra, haf biðlund við mig, og jeg
27 mun gjalda þjer alt. En herra þjóns þessa kendi í
brjósti um hann, ljet hann lausan og gaf honum upp
28 skuldina. En er hann fór út, hitti þessi þjónn einn
af samþjónum sínum, sem skuldaði honum hundrað
denara; og hann greip hann, tók fyrir kverkar hon-
29 um og sagði: Borga það sem þú skuldar! Samþjónn
hans fjell þá fram, bað hann og sagði: Haf biðlund
30 við mig, og jeg mun borga þjer. En hann vildi eigi,
heldur fór og varpaði honum í fangelsi, uns hann
31 borgaði skuldina. En er nú samþjónar hans sáu hvað
orðið var, urðu þeir mjög hryggir. Og þeir komu og
32 sögðu húsbónda sínum alt, sem orðið var. Þá ljet
húsbóndi hans kalla hann til sín og segir við hann:
Illi þjónn, jeg gaf þjer upp alla hina skuldina, með
33 því að þú baðst mig; bar þá eigi einnig þjer að vera
miskunnsamur við samþjón þinn, eins og jeg var
34 miskunnsamur við þig? Og húsbóndi hans varð
reiður og seldi hann í hendur böðlunum, þangað til
35 hann hefði borgað alla skuldina. Þannig mun einnig
faðir minn himneskur breyta við yður, ef þjer eigi
hver og einn fyrirgefið af hjarta bróður yðar.

19 Og það bar við, er Jesús hafði lokið þessum
orðum, að hann fór burt frá Galíleu og kom
2 til Júdeu-hjeraða, hinumegin við Jórdan. Og mann-
fjöldi mikill fylgdi honum og hann læknaði þá þar.
3 Og Farísear komu til hans, freistuðu hans og
sögðu: Hvort er leyfilegt að skilja við konu sína fyrir

 

4 hvaða sök sem er? En hann svaraði og sagði: Hafið
þjer eigi lesið, að skaparinn frá upphafi skóp þau
5 karl og konu, og sagði: Fyrir því skal maður
yfirgefa föður og móður og búa við eiginkonu sína,
6 og þau tvö skulu verða eitt hold? — Þannig eru þau
ekki framar tvö, heldur eitt hold. Það sem Guð því
7 hefir tengt saman, má eigi maður sundur skilja. Þeir
segja við hann: Hvers vegna bauð þá Móse að gefa
8 skilnaðarskrá og skilja við hana? Hann segir við þá:
Vegna harðúðar hjartna yðar leyfði Móse yður að
skilja við konur yðar. En frá upphafi hefir þetta eigi
9 verið þannig. En jeg segi yður, að hver sem skilur
við konu sína nema fyrir hórdóms sakir, og gengur
að eiga aðra, hann drýgir hór; og hver sem gengur
10 að eiga fráskilda konu, drýgir hór. Lærisveinarnir
segja við hann: Ef svo er farið málefni mannsins
11 gagnvart konunni, þá er ekki gott að kvænast. En
hann sagði við þá: Eigi fá allir höndlað þetta, heldur
12 þeir sem það er gefið. Því að til eru þeir geldingar,
sem svo eru fæddir frá móðurkviði; og til eru þeir
geldingar, sem geltir hafa verið af mönnum, og til eru
þeir geldingar, sem hafa gelt sjálfa sig vegna ríkis
himnanna. Sá höndli þetta, er höndlað getur.

13 Þá voru færð til hans börn, til þess að hann
skyldi leggja hendur yfir þau og biðja; en lærisvein-
14 arnir ávítuðu þá. En Jesús sagði: Leyfið börnunum,
og bannið þeim eigi, að koma til mín, því að slíkra
15 er ríki himnanna. Og hann lagði hendur yfir þau
og fór burt þaðan.

16 Og sjá, maður nokkur kom til hans og sagði:
Meistari, hvað gott á jeg að gjöra, til þess að jeg

17 eignist eilíft líf? En hann sagði við hann: Hví spyr
þú mig um hið góða? Einn er sá sem góður er. En
ef þú vilt inn ganga til lífsins, þá hald boðorðin.
18 Hann segir við hann: Hver? En Jesús segir: Þetta:
Þú skalt eigi morð fremja, þú skalt eigi drýgja hór,
þú skalt eigi stela, þú skalt eigi bera ljúgvitni;
19 heiðra föður þinn og móður, og: Þú skalt elska
20 náungann eins og sjálfan þig. Hinn ungi maður
segir við hann: Alls þessa hefi jeg gætt; hvers er
21 mjer enn vant? Jesús sagði við hann: Ef þú vilt
vera algjör, þá far, sel eigur þínar og gef fátækum,
og þú munt eiga fjársjóð á himni; og kom síðan og
22 fylg mjer. En er hinn ungi maður heyrði þetta, fór
hann burt hryggur; því að hann átti miklar eignir.
23 En Jesús sagði við lærisveina sína: Sannlega
segi jeg yður: Torveldlega mun ríkur maður inn-
24 ganga í ríki himnanna. Og aftur segi jeg yður: Auð-
veldara er fyrir úlfalda að ganga gegnum nálarauga
25 en fyrir ríkan mann að innganga í guðsríkið. En
er lærisveinarnir heyrðu þetta, urðu þeir mjög for-
viða og sögðu: Hver getur þá orðið hólpinn? En
26 Jesús leit til þeirra og sagði við þá: Fyrir mönnum
er þetta ómögulegt, en fyrir Guði eru allir hlutir
27 mögulegir. Þá svaraði Pjetur og sagði við hann:
Sjá, vjer höfum yfirgefið alt og fylgt þjer; hvað
28 munum vjer þá öðlast? En Jesús sagði við þá:
Sannlega segi jeg yður, að þjer, sem hafið fylgt
mjer, munuð í endurfæðingunni, þá er mannsins
sonur situr í hásæti dýrðar sinnar, einnig sitja í tólf
29 hásætum og dæma tólf ættkvíslir Ísraels; og hver
sem yfirgefið hefir hús eða bræður eða systur eða

 

föður eða móður eða börn eða akra, sakir nafns
30 míns, mun fá hundraðfalt og erfa eilíft líf. En margir
þeir er fyrstir eru, skulu verða síðastir, og síðastir
fyrstir.

20 Því að ríki himnanna er líkt húsráðanda ein-
um, er gekk út árla dags, til þess að leigja
2 verkamenn í víngarð sinn. En er hann hafði samið
við verkamennina um denar á dag, sendi hann þá í
3 víngarð sinn. Og hann gekk út um þriðju stundu,
og sá aðra standa á torginu iðjulausa og sagði við
4 þá: Farið þjer einnig í víngarðinn, og mun jeg gefa
5 yður það sem rjettlátt er. Og þeir fóru. Enn gekk
hann út um sjettu og níundu stundu, og gjörði á
6 sömu leið. En er hann gekk út um elleftu stundu,
fann hann aðra standandi og segir við þá: Hví
7 standið þjer hjer allan daginn iðjulausir? Þeir segja
við hann: Af því að enginn hefir leigt oss. Hann
8 segir við þá: Farið þjer einnig í víngarðinn. En er
kveld var komið, segir herra víngarðsins við verk-
stjóra sinn: Kalla þú á verkamennina og gjald þeim
launin, og byrja á hinum síðustu og enda á hinum
9 fyrstu. Og þeir komu, sem leigðir voru um elleftu
10 stundu, og fengu sinn denarinn hver. Og er hinir
fyrstu komu, hugðu þeir, að þeir mundu fá meira,
11 og þeir fengu einnig sinn denarinn hver. En er þeir
höfðu tekið við honum, mögluðu þeir gegn húsbónd-
12 anum og sögðu: Þessir hinir síðustu hafa unnið eina
stund, og þú hefir gjört þá jafna oss, er borið höfum
13 þunga dagsins og hita. En hann svaraði og sagði
við einn þeirra: Vinur, ekki gjöri jeg þjer rangt til.
14 Varstu eigi ásáttur við mig um einn denar? Tak þú

þitt og haf þig á braut. En jeg vil gefa þessum
15 síðasta eins og þjer. Leyfist mjer eigi að gjöra það
sem jeg vil með eigum mínum? Eða er auga þitt ilt,
16 af því að jeg er góður? Þannig munu hinir síðustu
verða fyrstir og hinir fyrstu síðastir.
17 Og er Jesús fór upp til Jerúsalem, tók hann þá
18 tólf lærisveina afsíðis og sagði við þá á leiðinni: Sjá,
vjer förum upp til Jerúsalem, og mannsins sonur
mun framseldur verða æðstu prestunum og fræði-
19 mönnunum, og þeir munu dæma hann til dauða og
framselja hann heiðingjunum, til þess að hæða hann,
húðstrýkja og krossfesta; og á þriðja degi mun hann
upp rísa.
20 Þá kom til hans móðir þeirra Sebedeussona ásamt
sonum sínum, laut honum og beiddist nokkurs af
21 honum. En hann sagði við hana: Hvað vilt þú?
Hún segir við hann: Seg þú, að þessir tveir synir
mínir skuli sitja annar til hægri handar þjer, og hinn
22 til vinstri handar þjer í ríki þínu. En Jesús svaraði
og sagði: Þið vitið eigi hvers þið biðjið. Getið þið
drukkið bikarinn, sem jeg á að drekka? Þeir segja
23 við hann: Það getum við. Hann segir við þá: Þið
skuluð drekka bikar minn; en að sitja mjer til hægri
handar og vinstri handar, þetta er eigi mitt að veita,
heldur veitist það þeim, sem það er fyrirbúið af
24 föður mínum. Og er hinir tíu heyrðu þetta, gramdist
25 þeim við þá tvo bræður. En Jesús kallaði þá til sín
og sagði: Þjer vitið, að þeir sem ríkja yfir þjóðun-
um, drotna yfir þeim, og höfðingjarnir láta þá kenna
26 á valdi sínu; en eigi sje því svo farið yðar á meðal,
en sjerhver sá, er vill verða mikill yðar á meðal,

27 hann skal vera þjónn yðar; og sjerhver sá, er vill
yðar á meðal vera fremstur, hann skal vera þræll
28 yðar; eins og mannsins sonur er eigi kominn, til
þess að láta þjóna sjer, heldur til þess að þjóna
og til þess að gefa líf sitt til lausnargjalds fyrir
marga.
29 Og er þeir fóru út frá Jeríkó, fylgdi honum
30 mikill mannfjöldi. Og sjá, tveir menn blindir sátu
við veginn, og er þeir heyrðu, að Jesús færi þar um,
hrópuðu þeir og sögðu: Herra, miskunna þú okkur,
31 Davíðs sonur! En fólkið hastaði á þá, til þess að
þeir skyldu þegja, en þeir hrópuðu því meir og
sögðu: Herra, miskunna þú okkur, Davíðs sonur!
32 Og Jesús nam staðar, kallaði á þá og sagði: Hvað
33 viljið þið, að jeg gjöri fyrir ykkur? Þeir segja við
34 hann: Herra, það, að augu okkar opnist. En
Jesús kendi í brjósti um þá og snart augu þeirra,
og jafnskjótt fengu þeir aftur sjónina og fylgdu hon-
um eftir.

21 Og er þeir nálguðust Jerúsalem og komu til
Betfage, til Olíufjallsins, þá sendi Jesús tvo
2 lærisveina og sagði við þá: Gangið þið inn í þorpið,
sem gegnt ykkur er, og jafnskjótt munuð þið finna
ösnu bundna og fola hjá henni; leysið hana og færið
3 mjer. Og segi einhver nokkuð við ykkur, þá segið:
Herrann þarf þeirra við; en hann mun þá jafnskjótt
4 senda þau. En þetta varð, til þess að rættist það
5 sem talað er fyrir spámanninn, er segir: *Segið dóttur-
inni Síon: Sjá, konungur þinn kemur til þín hógvær
og ríðandi á asna, og á fola, afkvæmi áburðargrips.*
6 En lærisveinarnir fóru og gjörðu eins og Jesús hafði

7 boðið þeim, komu með ösnuna og folann, og lögðu
8 klæði sín á þau og hann settist á þau ofan. En allur
þorri mannfjöldans breiddi yfirhafnir sínar á veginn,
en aðrir hjuggu lim af trjánum og stráðu á veginn.
9 En mannfjöldinn, þeir sem fóru á undan honum og
þeir sem fylgdu á eftir, hrópuðu og sögðu: Hósanna
syni Davíðs! *Blessaður sje sá, er kemur í nafni*
10 *Drottins!* Hósanna í hæstum hæðum! Og er hann
kom inn í Jerúsalem, komst öll borgin í uppnám og
11 sagði: Hver er þessi? En mannfjöldinn sagði: Það
er spámaðurinn Jesús frá Nasaret í Galíleu.
12 Og Jesús gekk inn í helgidóm Guðs og rak út
alla, er seldu og keyptu í helgidóminum, og hratt
13 um borðum víxlaranna og stólum dúfnasalanna og
segir við þá: Ritað er: *Hús mitt á að nefnast*
14 *bænahús, en þjer gjörið það að ræningjabæli.* Og
blindir og haltir gengu til hans í helgidóminum, og
15 hann læknaði þá. En er æðstu prestarnir og fræði-
mennirnir sáu dásemdarverkin, sem hann gjörði, og
börnin, sem hrópuðu í helgidóminum og sögðu:
Hósanna syni Davíðs! — þá gramdist þeim og þeir
16 sögðu við hann: Heyrir þú hvað þessir segja? En
Jesús segir við þá: Já, hafið þjer aldrei lesið þetta:
*Af munni ungbarna og brjóstmylkinga hefir þú tilbúið*
17 *þjer lof?* Og hann yfirgaf þá og fór út úr borginni,
út til Betaníu og gisti þar.
18 En er hann árla dags gekk aftur til borgarinnar,
19 kendi hann hungurs. Og er hann sá fíkjutrje eitt við
veginn, gekk hann að því og fann ekkert á því nema
tóm lauf, og hann segir við það: Aldrei komi framar
ávöxtur af þjer að eilífu! Og þegar í stað visnaði

20 fíkjutrjeð. Og er lærisveinarnir sáu það, undruðust
þeir og sögðu: Hversu gat fíkjutrjeð visnað svo fljótt?
21 En Jesús svaraði og sagði við þá: Sannlega segi jeg
yður, ef þjer hafið trú, og efist eigi, munuð þjer eigi
aðeins geta gjört það, er fram kom við fíkjutrjeð,
heldur jafnvel þótt þjer segðuð við fjall þetta: Lyftist
þú upp og steypist þú í hafið, — þá mundi það verða.
22 Og sjerhvað það, er þjer beiðist í bæninni og eruð
trúaðir, munuð þjer öðlast.
23 Og er hann var kominn inn í helgidóminn, komu
æðstu prestarnir og öldungar lýðsins til hans, er hann
var að kenna, og sögðu: Með hvaða valdi gjörir þú
24 þetta? Og hver hefir gefið þjer þetta vald? En
Jesús svaraði og sagði við þá? Jeg vil líka leggja
fyrir yður eina spurningu, og ef þjer segið mjer það,
mun jeg einnig segja yður, með hvaða valdi jeg gjöri
25 þetta. Hvaðan var skírn Jóhannesar? Frá himnum
eða frá mönnum? En þeir hugsuðu og sögðu með
sjálfum sjer: Ef vjer segjum: Frá himnum, mun
hann segja við oss: Hví trúðuð þjer honum þá eigi?
26 En ef vjer segjum: Frá mönnum, megum vjer óttast
lýðinn, því að allir halda Jóhannes fyrir spámann.
27 Og þeir svöruðu Jesú og sögðu: Vjer vitum það ekki.
Þá sagði hann og við þá: Þá segi jeg yður eigi held-
28 ur, með hvaða valdi jeg gjöri þetta. En hvað virðist
yður? Maður nokkur átti tvo sonu; og hann gekk
til hins fyrra og sagði: Sonur, far þú, vinn í dag í
29 víngarðinum. En hann svaraði og sagði: Nei, jeg
30 vil ekki; en eftir á sá hann sig um hönd og fór. Og
hann gekk til hins síðara og mælti á sömu leið. En
hann svaraði og sagði: Já, herra, en fór hvergi.

31 Hvor þeirra tveggja gjörði vilja föðursins? Þeir
segja: Hinn fyrri. Jesús segir við þá: Sannlega segi
jeg yður, að tollheimtumenn og skækjur munu ganga
32 á undan yður inn í guðsríkið, því að Jóhannes kom
til yðar á vegi rjettlætisins, og þjer trúðuð honum
eigi, en tollheimtumennirnir og skækjurnar trúðu
honum; en þótt þjer sæjuð það, sáuð þjer yður
eigi að heldur um hönd eftir á, svo að þjer tryðuð
honum.
33 Heyrið aðra dæmisögu: Húsráðandi nokkur
plantaði víngarð og hlóð garð um hann, og gróf
fyrir vínþröng í honum og bygði turn, og seldi hann
34 á leigu víngarðsmönnum og fór úr landi. En er
ávaxtatíminn nálgaðist, sendi hann þjóna sína til
víngarðsmannanna, að taka við ávöxtunum af hon-
35 um. Og víngarðsmennirnir tóku þjóna hans, einn
börðu þeir, og einn drápu þeir, og einn grýttu þeir.
36 Enn sendi hann aðra þjóna, fleiri en hina fyrri; og
37 þeir fóru með þá á sömu leið. En síðast sendi hann
til þeirra son sinn og sagði: Þeir munu bera virð-
38 ingu fyrir syni mínum. En er víngarðsmennirnir sáu
soninn, sögðu þeir sín á milli: Þetta er erfinginn,
förum nú til og drepum hann og höldum arfi hans.
39 Og þeir tóku hann, köstuðu honum út fyrir víngarð-
40 inn og drápu hann. Þegar nú herra víngarðsins kemur,
41 hvað mun hann gjöra við þessa víngarðsmenn? Þeir
segja við hann: Illmennum þeim mun hann herfilega
fyrirfara og víngarðinn mun hann selja öðrum vín-
garðsmönnum á leigu, þeim er gjalda honum ávöxt-
42 una í rjettan tíma. Jesús segir við þá: Hafið þjer
aldrei lesið í ritningunum: *Steinninn, sem smiðirnir*

*höfnuðu, sá hinn sami er orðinn að hyrningarsteini.*
*Þetta stafaði frá Drotni og er undursamlegt fyrir*
43 *augum vorum?* Fyrir því segi jeg yður, að guðsríkið
mun frá yður tekið verða og gefið þeirri þjóð, sem
44 ber ávöxtu þess. Og hver sem fellur á stein þennan,
mun sundurmolast, en þann sem hann fellur yfir,
45 mun hann sundur merja. Og er æðstu prestarnir og
Faríseararnir heyrðu líkingar hans, skildu þeir, að hann
46 talaði um þá. Og þeir vildu taka hann höndum,
en óttuðust fólkið, með því að þeir hjeldu hann fyrir
spámann.

22 Og Jesús tók til máls og talaði aftur við þá í
2 dæmisögum á þessa leið: Líkt er ríki himn-
anna konungi nokkrum, er gjörði brúðkaup sonar
3 síns, og sendi út þjóna sína, að kalla boðsgestina til
4 brúðkaupsins. Og þeir vildu ekki koma. Aftur sendi
hann út aðra þjóna og mælti: Segið boðsgestunum:
Sjá, máltíð mína hefi jeg tilbúið; uxum mínum og
alifje er slátrað, og alt er reiðubúið; komið til brúð-
5 kaupsins. En þeir skeyttu því eigi og fóru burt,
6 einn á búgarð sinn, annar til kaupskapar síns, en
7 hinir tóku þjóna hans, smánuðu þá og drápu. En
konungurinn varð reiður, sendi herlið sitt út og
fyrirfór morðingjum þessum og brendi upp borg
8 þeirra. Síðan segir hann við þjóna sína: Brúðkaupið
er reiðubúið, en boðsgestirnir voru ekki verðugir;
9 farið því út á vegamót og bjóðið öllum þeim, er þjer
10 finnið, til brúðkaupsins. Og þjónar þessir gengu út
á vegina og söfnuðu saman öllum, er þeir fundu,
bæði vondum og góðum; og brúðkaupssalurinn varð
11 fullur af boðsgestum. En er konungurinn kom inn,

til að sjá gestina, leit hann þar mann, er eigi var
12 klæddur brúðkaupsklæðum. Og hann segir við hann:
Vinur, hvernig ert þú kominn hingað inn og hefir
13 eigi brúðkaupsklæði? En hann þagði. Konungurinn
sagði þá við þjónana: Bindið fætur hans og hendur,
og kastið honum út í myrkrið fyrir utan; þar mun
14 vera grátur og gnístran tanna. Því að margir eru
kallaðir, en fáir útvaldir.

15 Þá gengu Farisearnir burt og báru saman ráð
16 sín um, hvernig þeir gætu flækt hann í orði. Og
þeir senda til hans lærisveina sína, ásamt með
Heródesar-sinnum, er segja: Meistari, vjer vitum, að
þú ert sannorður og kennir Guðs veg í sannleika, og
eigi hirðir þú um neinn, því að ekki fer þú að mann-
17 virðingum. Seg oss því, hvað virðist þjer? Leyfist
18 að gjalda keisaranum skatt, eða ekki? En Jesús
þekti ilsku þeirra og sagði: Hví freistið þjer mín,
19 hræsnarar? Sýnið mjer skattpeninginn. En þeir
20 færðu honum denar. Og hann segir við þá: Hvers
mynd og yfirskrift er þetta? Þeir segja við hann:
21 Keisarans. Þá segir hann við þá: Gjaldið þá keis-
aranum það sem keisarans er, og Guði það sem Guðs
22 er. Og er þeir heyrðu þetta, undruðust þeir, og þeir
yfirgáfu hann og gengu burt.

23 Á þeim degi gengu til hans Saddúkear, þeir er
24 segja, að eigi sje til upprisa, og þeir spurðu hann og
sögðu: Meistari, Móse sagði: *Deyi maður barnlaus,
þá skal bróðir hans ganga að eiga konu hans og geta
25 bróður sínum afkvæmi.* Nú voru hjá oss sjö bræður.
Og hinn fyrsti kvæntist og dó, og með því að hann
var barnlaus, eftirljet hann bróður sínum konu sína.

26 Eins hinn annar og hinn þriðji og loks allir sjö.
27 Síðust allra dó konan. Kona hvers þeirra sjö verður
28 hún nú í upprisunni? Því að allir áttu þeir hana.
29 En Jesús svaraði og sagði við þá: Þjer villist, þar
30 eð þjer eigi þekkið ritningarnar nje mátt Guðs, því
að í upprisunni munu menn hvorki kvænast nje
31 giftast, heldur eru þeir eins og englar á himni. En
að því er snertir upprisu framliðinna, — hafið þjer
eigi lesið það, sem talað er af Guði til yðar, er hann
32 segir: *Jeg er Guð Abrahams, og Guð Ísaks, og Guð
Jakobs?* Ekki er hann Guð dauðra, heldur lifenda.
33 Og er mannfjöldinn heyrði þetta, undruðust þeir
kenningu hans.
34 En er Farísearnir heyrðu, að hann hefði gjört
35 Saddúkeana orðlausa, komu þeir saman; og einn af
36 þeim, lögvitringur, freistaði hans og spurði: Meistari,
37 hvert er hið mikla boðorð í lögmálinu? En hann
sagði við hann: *Þú skalt elska Drottin Guð þinn af
öllu hjarta þínu, og af allri sálu þinni, og af öllum
38 huga þínum.* Þetta er hið mikla og fyrsta boðorð.
39 En hið annað er líkt, þetta: *Þú skalt elska náunga
40 þinn eins og sjálfan þig.* Á þessum tveimur boðorð-
um byggist alt lögmálið og spámennirnir.
41 En er Farísearnir voru saman komnir, spurði
42 Jesús þá og sagði: Hvað virðist yður um Krist?
43 Hvers son er hann? Þeir segja við hann: Davíðs.
Hann segir við þá: Hvernig kallar þá Davíð í and-
44 anum hann Drottin, er hann segir: *Drottinn sagði
við minn Drottin: Set þig mjer til hægri handar,
45 þangað til jeg legg óvini þína undir fætur þjer?* Ef
nú Davíð kallar hann Drottin, hvernig er hann þá

46 sonur hans? Og enginn gat svarað honum orði, og
eigi dirfðist heldur neinn upp frá þeim degi framar
að spyrja hann nokkurs.

23 Þá talaði Jesús til mannfjöldans og lærisveina
2 sinna og sagði: Á stóli Móse sitja fræðimenn-
3 irnir og Farísearnir; alt sem þeir segja yður, skuluð
þjer því gjöra og halda, en eftir verkum þeirra
skuluð þjer eigi breyta; því að þeir segja það, en
4 gjöra það eigi. Og þeir binda þungar byrðar og
lítt bærar, og leggja mönnum þær á herðar, en sjálfir
5 vilja þeir ekki snerta þær með fingri sínum. En öll
sín verk gjöra þeir, til þess að sýnast fyrir mönnum,
því að þeir gjöra minnisborða sína breiða og stækka
6 skúfana. Og þeir hafa mætur á helsta sætinu í
7 veislunum og efstu sætunum í samkundunum og að
láta heilsa sjer á torgum, og að vera nefndir »rabbí«
8 af mönnum. En þjer skuluð eigi láta kalla yður
»rabbí«, því að einn er yðar meistari; en þjer allir
9 eruð bræður. Og þjer skuluð eigi kalla neinn föður
yðar á jörðunni; því að einn er faðir yðar, hann sem
10 er á himnum. Eigi skuluð þjer heldur láta yður
leiðtoga kalla; því að einn er leiðtogi yðar, Kristur.
11 Sá sem er yðar mestur, skal vera þjónn yðar.
12 En hver sá er upp hefur sjálfan sig, mun niður-
lægjast, og hver sá er niðurlægir sjálfan sig, mun
upp hafinn verða.

13 En vei yður, fræðimenn og Farísear, þjer hræsn-
arar, að þjer lokið ríki himnanna fyrir mönnunum;
því að þjer gangið þar eigi inn, og leyfið eigi heldur
þeim, er vilja ganga inn, inn að komast.

15 Vei yður, fræðimenn og Farísear, þjer hræsnarar,
því að þjer farið um láð og lög, til þess að ávinna
einn trúskifting, og sem hann er orðinn það, gjörið
þjer hann að hálfu meira Gehenna-barni en þjer
sjálfir eruð.

16 Vei yður, blindir leiðtogar, er segið: Hver sem
sver við musterið, það er markleysa; en hver sem
17 sver við musteris-gullið, hann er skuldbundinn. Þjer
heimskir og blindir, því að hvort er meira: gullið
18 eða musterið, sem helgar gullið? Og: Hver sem
sver við altarið, það er markleysa, en hver sem sver
við fórnargjöfina, sem á því er, hann er skuldbund-
19 inn. Þjer blindir, því að hvort er meira: fórnar-
20 gjöfin eða altarið, sem helgar fórnargjöfina? Hver
sem því sver við altarið, hann sver við það, og við
21 alt, sem á því er. Og hver sem sver við musterið,
22 hann sver við það og við hann, sem í því býr. Og
hver sem sver við himininn, hann sver við hásæti
Guðs og við hann, sem í því situr.

23 Vei yður, fræðimenn og Farísear, þjer hræsnarar,
sem gjaldið tíund af myntu, anís og kúmeni, og
skeytið eigi um það, sem mikilvægara er í lögmálinu:
rjettvísina og miskunnsemina og trúmenskuna. En
24 þetta bar að gjöra og hitt eigi ógjört að láta. Þjer
blindir leiðtogar, sem síið mýfluguna, en svelgið
úlfaldann!

25 Vei yður, fræðimenn og Farísear, þjer hræsnarar,
því að þjer hreinsið bikarinn og diskinn að utan, en
26 að innan eru þeir fullir ráns og ofneyslu. Þú blindi
Farísei, hreinsaðu fyrst bikarinn og diskinn að innan,
til þess að hann verði og hreinn að utan.

27 Vei yður, fræðimenn og Farísear, þjer hræsnarar,
því að þjer líkist kölkuðum gröfum, sem að utan líta
fagurlega út, en eru að innan fullar af dauðra manna
28 beinum og hvers konar óhreinindum. Þannig sýnist
þjer og hið ytra rjettlátir fyrir mönnum, en hið innra
eruð þjer fullir hræsni og rangsleitni.
29 Vei yður, fræðimenn og Farísear, þjer hræsnarar,
því að þjer byggið upp legstaði spámannanna og
30 skreytið leiði hinna rjettlátu og segið: Ef vjer hefð-
um lifað á dögum feðra vorra, hefðum vjer eigi verið
31 samlagsmenn þeirra um blóð spámannanna. Þannig
berið þjer þá sjálfum yður vitni, að þjer sjeuð synir
32 þeirra, er drápu spámennina. Fyllið þá og mæli
33 feðra yðar. Þjer höggormar, þjer nöðru-afkvæmi,
hvernig ættuð þjer að geta umflúið dóm Gehenna?
34 Þess vegna sjá, jeg sendi til yðar spámenn og spek-
inga og fræðimenn; nokkra þeirra munuð þjer lífláta
og krossfesta, og nokkra þeirra munuð þjer húðstrýkja
í samkundum yðar og ofsækja frá einni borg til
35 annarar; til þess að yfir yður komi alt rjettlátt blóð,
sem úthelt hefir verið á jörðunni, frá blóði Abels
hins rjettláta alt til blóðs Sakaríasar Barakíassonar,
sem þjer drápuð á milli musterisins og altarisins.
36 Sannlega segi jeg yður: Alt mun þetta koma yfir
þessa kynslóð.
37 Jerúsalem, Jerúsalem, þú sem líflætur spámenn-
ina og grýtir þá, sem sendir eru til þín, hversu oft
hefi jeg viljað saman safna börnum þínum, eins og
þegar hæna safnar ungum sínum undir vængi sjer;
38 og þjer vilduð það ekki. Sjá, hús yðar skal yður í
39 eyði eftir skilið verða. Því að jeg segi yður: Þjer

munuð alls eigi sjá mig hjeðan af, þangað til þjer
segið: *Blessaður sje sá, er kemur í nafni Drottins!*

24 Og Jesús gekk út úr helgidóminum og fór burt;
og lærisveinar hans gengu til hans, til þess að
2 sýna honum byggingar helgidómsins. En hann tók
til máls og sagði við þá: Sjáið þjer ekki alt þetta?
Sannlega segi jeg yður, eigi mun hjer verða skilinn
eftir steinn yfir steini, er ekki mun verða rifinn
niður.

3 En er hann sat á Olíufjallinu, gengu lærisvein-
arnir til hans og sögðu einslega: Seg þú oss, hvenær
mun þetta verða, og hvert er tákn tilkomu þinnar
4 og enda veraldar? Og Jesús svaraði og sagði við þá:
5 Sjáið til, að enginn leiði yður í villu; því að margir
munu koma í mínu nafni og segja: Jeg er Kristur,
6 og marga munu þeir leiða í villu. En þjer munuð
heyra hernað og hernaðartíðindi. Gefið gætur, að
þjer skelfist eigi; því að það hlýtur að koma fram,
7 en eigi er enn kominn endirinn. Því að þjóð mun
rísa upp gegn þjóð og konungsríki gegn konungsríki.
Bæði mun verða hungursneyð og landskjálftar á
8 ýmsum stöðum. En alt þetta er upphaf hörmung-
9 anna. Þá munu menn framselja yður til þrengingar
og menn munu lífláta yður, og þjer munuð verða
10 hataðir af öllum þjóðum vegna nafns míns. Og þá
munu margir hneykslast og framselja hverjir aðra
11 og hata hverjir aðra. Og margir falsspámenn munu
12 rísa upp og leiða marga í villu; og vegna þess að
ranglætið magnast, mun kærleikur alls þorra manna
13 kólna, en sá, sem stöðugur stendur alt til enda, hann
14 mun hólpinn verða. Og þetta fagnaðarerindi ríkisins

mun prjedikað verða um alla heimsbygðina, til
vitnisburðar öllum þjóðum; og þá mun endirinn
koma.
15 Þegar þjer því sjáið viðurstygð eyðingarinnar,
sem talað er um fyrir Daníel spámann, standandi á
16 helgum stað, — lesarinn athugi það, — þá flýi þeir
17 sem eru í Júdeu, upp á fjöllin. Sá sem er uppi á
þakinu, fari ekki ofan, til þess að sækja það sem er
18 í húsi hans; og sá sem er á akrinum, snúi eigi aftur,
19 til þess að taka yfirhöfn sína. En vei þeim sem
þungaðar eru, og þeim, sem börn hafa á brjósti, á
20 þeim dögum; en biðjið, að flótti yðar verði ekki um
21 vetur nje á hvíldardegi, því að þá mun verða svo
mikil þrenging, að engin hefir þvílík verið frá upp-
hafi veraldar alt til þessa, nje heldur mun verða.
22 Og ef dagar þessir yrðu ekki styttir, kæmist
ekkert hold af; en sakir hinna útvöldu munu
23 þessir dagar verða styttir. Ef einhver þá segir við
yður: Sjá, hjer er Kristur, eða hjer, þá trúið eigi.
24 Því að upp munu rísa falskristar og falsspámenn og
þeir munu gjöra stór teikn og undur, til þess að
25 leiða í villu, ef verða mætti, jafnvel útvalda. Sjá, jeg
26 hefi sagt yður það fyrir. Ef þeir því segja við yður:
Sjá, hann er í óbygðinni, — þá farið eigi út þangað;
27 sjá, hann er í herbergjunum, — þá trúið eigi. Því
að eins og eldingin gengur út frá austri og sjest alt
til vesturs, þannig mun verða tilkoma mannsins sonar.
28 Hvar sem hræið er, þar munu ernirnir safnast.
29 En þegar eftir þrengingu þessara daga mun sólin
sortna og tunglið eigi gefa skin sitt, og stjörnurnar
munu hrapa af himni og kraftar himnanna munu

30 bifast. Og þá mun tákn mannsins sonar sjást á
himninum; og þá munu allar kynkvíslir jarðarinnar
kveina, og þær munu sjá mannsins son komandi á
31 skýjum himins með mætti og mikilli dýrð. Og hann
mun senda út engla sína með hljómsterkum lúðri, og
þeir munu safna saman hans útvöldum frá áttunum
fjórum, himinsendanna á milli.
32 En nemið líkinguna af fíkjutrjenu: Þegar greinin
á því er orðin mjúk og fer að skjóta út laufum, þá
33 vitið þjer að sumarið er í nánd. Þannig skuluð þjer
og vita, að þegar þjer sjáið alt þetta, þá er hann í
34 nánd, fyrir dyrum. Sannlega segi jeg yður, þessi
kynslóð mun eigi líða undir lok, uns þetta alt kemur
35 fram. Himinn og jörð munu líða undir lok, en orð mín
36 munu alls eigi undir lok líða. En um þennan dag
og stund veit enginn, ekki einu sinni englarnir á
himnum, nje sonurinn, heldur aðeins faðirinn einn.
37 En eins og á dögum Nóa, þannig mun verða tilkoma
38 mannsins sonar; því að eins og menn á þeim dögum,
dögunum á undan flóðinu, átu og drukku, kvæntust
og giftu, alt til þess dags, er Nói gekk inn í örkina,
39 og vissu eigi af fyr en flóðið kom og tók þá alla, —
40 þannig mun verða tilkoma mannsins sonar. Þá munu
tveir vera á akri; annar er tekinn og hinn skilinn
41 eftir. Tvær munu mala í kvörn; önnur er tekin og
42 hin skilin eftir. Vakið því, þar eð þjer vitið eigi
43 hvaða dag húsbóndi yðar kemur. En það vitið þjer,
að ef húsráðandinn hefði vitað, á hvaða næturvöku
þjófurinn kæmi, þá hefði hann vakað og eigi látið
44 brjótast inn í hús sitt. Fyrir því skuluð einnig þjer
vera viðbúnir, því að mannsins sonur kemur á þeirri

45 stundu, sem þjer eigi ætlið. Hver er þá hinn trúi
og hygni þjónn, sem húsbóndinn hefir sett yfir hjú
sín, til þess að gefa þeim fæðuna á rjettum tíma?
46 Sæll er sá þjónn, sem húsbóndi hans finnur breyta
47 þannig, er hann kemur. Sannlega segi jeg yður, að
48 hann mun setja hann yfir allar eigur sínar. En ef
49 hinn illi þjónn segir í hjarta sínu: Húsbónda mínum
dvelst, — og hann tekur að berja á samþjónum sín-
50 um, en etur og drekkur með svöllurum, þá mun
húsbóndi þessa þjóns koma á þeim degi, sem hann
væntir hans ekki, og á stundu, sem hann eigi veit
51 af, og höggva hann sundur og láta hann fá hlut-
skifti með hræsnurum; þar mun vera grátur og
gnístran tanna.

25 Þá má líkja ríki himnanna við tíu meyjar, er
tóku lampa sína og fóru út til móts við brúð-
2 gumann. En fimm þeirra voru fávísar og fimm hygnar;
3 því að hinar fávísu tóku lampa sína, en tóku ekki
4 olíu með sér. En hinar hygnu tóku ásamt lömp-
5 um sínum olíu í kerum sínum. En er brúðgumanum
6 dvaldist, syfjaði þær allar og þær sofnuðu. En um
miðnætti var kallað: Sjá, brúðguminn kemur, gangið
7 út til móts við hann. Þá vöknuðu þær meyjarnar
8 allar og bjuggu lampa sína. En hinar fávísu sögðu
við hinar hygnu: Gefið oss af olíu yðar, því að það
9 sloknar á lömpum vorum. En hinar hygnu svöruðu
og sögðu: Engan veginn; það verður ekki nóg bæði
handa oss og yður; farið heldur til kaupmannanna
10 og kaupið handa sjálfum yður. En er þær voru
farnar burt, til að kaupa, kom brúðguminn; og þær
sem viðbúnar voru, gengu með honum inn til brúð-

11 kaupsins, og dyrunum var lokað. En síðar komu og
hinar meyjarnar og sögðu: Herra, herra, ljúk upp
12 fyrir oss. En hann svaraði og sagði: Sannlega segi
13 jeg yður, jeg þekki yður eigi. Vakið því, þar eð þjer
vitið eigi daginn nje stundina.
14 Því að hjer er eins ástatt og fyrir manni nokkr-
um, er var að leggja á stað í utanför, og kallaði til
sín þjóna sína og seldi þeim í hendur eigur sínar.
15 Og einum fekk hann fimm talentur, en öðrum tvær
og hinum þriðja eina, hverjum fyrir sig eftir kröftum
16 hans, og fór úr landi. Þegar í stað fór sá, er fengið
hafði fimm talenturnar, verslaði með þær og græddi
17 aðrar fimm talentur. Sömuleiðis græddi og sá, er
18 tvær fekk, aðrar tvær. En sá er eina hafði fengið,
fór og gjörði gryfju í jörðina og faldi fje húsbónda
19 síns. En eftir langan tíma liðinn kemur húsbóndi
20 þjóna þessara og gjörir reikning við þá. Og sá er
tekið hafði við fimm talentum, kom til hans og færði
honum aðrar fimm talentur og sagði: Herra, fimm
talentur seldir þú mjer í hendur, sjá, jeg hefi grætt
21 aðrar fimm talentur. Húsbóndi hans sagði við hann:
Gott, þú góði og trúi þjónn; yfir litlu varstu trúr,
yfir mikið mun jeg setja þig. Gakk inn til fagnaðar
22 herra þíns. Þá kom og sá með tvær talenturnar og
mælti: Herra, tvær talentur seldir þú mjer í hendur,
23 sjá, aðrar tvær talentur hefi jeg grætt. Húsbóndi
hans sagði við hann: Gott, þú góði og trúi þjónn;
yfir litlu varstu trúr, yfir mikið mun jeg setja þig.
24 Gakk inn til fagnaðar herra þíns. Þá kom og sá, er
tekið hafði við einni talentu, og sagði: Herra, jeg
þekti þig, að þú ert maður harður, sem uppsker, þar

sem þú sáðir ekki, og safnar saman, þar sem þú
25 stráðir ekki; og jeg var hræddur, fór því burt og
26 gróf talentu þína í jörðu; sjá, hjer hefir þú þitt. En
húsbóndi hans svaraði og sagði við hann: Þú illi og
lati þjónn, þú vissir, að jeg uppsker, þar sem jeg sáði
27 ekki, og safna saman, þar sem jeg stráði ekki; þjer
bar því að selja fje mitt í hendur víxlurum; þá hefði
jeg fengið mitt aftur með vöxtum, er jeg kom heim.
28 Takið því af honum talentuna, og fáið þeim er hefir
29 tíu talenturnar; því að sjerhverjum, sem hefir, mun
verða gefið, og mun hann hafa gnægð; en frá þeim
sem eigi hefir, mun jafnvel það sem hann hefir, tekið
30 verða. Og kastið hinum ónýta þjóni út í myrkrið
fyrir utan. Þar mun vera grátur og gnístran tanna.
31 En er mannsins sonur kemur í dýrð sinni og
allir englarnir með honum, þá mun hann sitja í há-
32 sæti dýrðar sinnar, og allar þjóðirnar munu safnast
33 saman frammi fyrir honum, og hann mun skilja þá
hverja frá öðrum, eins og hirðirinn skilur sauðina
frá höfrunum, og hann mun skipa sauðunum sjer til
hægri handar og höfrunum sjer til vinstri handar.
34 Þá mun konungurinn segja við þá til hægri handar:
Komið, þjer hinir blessuðu föður míns, og takið að
erfð ríkið, sem yður var fyrirbúið frá grund-
35 völlun veraldar; því að hungraður var jeg, og
þjer gáfuð mjer að eta; þyrstur var jeg, og þjer
gáfuð mjer að drekka; gestur var jeg, og þjer
36 hýstuð mig; nakinn, og þjer klædduð mig; sjúkur
var jeg, og þjer vitjuðuð mín; í fangelsi var jeg,
37 og þjer komuð til mín. Þá munu hinir rjett-
látu svara honum og segja: Herra, hvenær sáum
vjer þig hungraðan, og fæddum þig, eða þyrstan, og

38 gáfum þjer að drekka? Og hvenær sáum vjer þig
gest, og hýstum þig, eða nakinn og klæddum þig?
39 Og hvenær sáum vjer þig sjúkan eða í fangelsí og
40 komum til þín? Og konungurinn mun svara og segja
við þá: Sannlega segi jeg yður, svo framarlega sem
þjer hafið gjört þetta einum þessara bræðra minna,
41 sem minstir eru, þá hafið þjer gjört mjer það. Þá
mun hann og segja við þá til vinstri handar: Farið
frá mjer, þjer bölvaðir, í eilífa eldinn, sem fyrirbúinn
42 er djöflinum og englum hans. Því að jeg var hungr-
aður, og þjer gáfuð mjer ekki að eta; jeg var þyrst-
43 ur, og þjer gáfuð mjer ekki að drekka; jeg var gest-
ur, og þjer hýstuð mig ekki; nakinn, og þjer klædd-
uð mig ekki; sjúkur og í fangelsi, og þjer vitjuðuð
44 mín ekki. Þá munu og þeir svara og segja: Herra,
hvenær sáum vjer þig hungraðan eða þyrstan eða
gest eða nakinn eða sjúkan eða í fangelsi, og þjón-
45 uðum þjer eigi? Þá mun hann svara þeim og segja:
Sannlega segi jeg yður: Svo framarlega sem þjer hafið
ekki gjört þetta einum þessara, sem minstir eru, þá hafið
46 þjer ekki heldur gjört mjer það. Og þessir skulu fara
burt til eilífrar refsingar, en hinir rjettlátu til eilífs lífs.

26 Og það varð, er Jesús hafði lokið öllum þess-
um ræðum, að hann mælti við lærisveina
2 sína: Þjer vitið, að eftir tvo daga koma páskarnir,
og verður mannsins sonur þá framseldur, til þess að
3 verða krossfestur. Þá söfnuðust saman æðstu prest-
arnir og öldungar lýðsins í höll æðsta prestsins, er
4 Kaífas hjet, og þeir tóku saman ráð sín, til þess að
höndla Jesúm með svikum og ráða hann af dögum.
5 En þeir sögðu: Ekki á hátíðinni, til þess að eigi
verði uppþot meðal lýðsins.

6 En er Jesús var í Betaníu, í húsi Símonar lík-
7 þráa, kom til hans kona, er hafði alabasturs-buðk
með dýrindis smyrslum, og helti yfir höfuð honum,
8 er hann sat yfir borðum. En er lærisveinarnir sáu
9 það, urðu þeir gramir og sögðu: Til hvers er þessi
eyðsla? Því að þetta hefði mátt selja miklu verði
10 og gefa fátækum. En er Jesús varð þess var, sagði
hann við þá: Hvað eruð þjer að mæða konuna?
11 Því að gott verk gjörði hún á mjer; því að ávalt
hafið þjer fátæka menn hjá yður, en mig hafið þjer
12 eigi ávalt. Því að þegar hún helti smyrslum þessum
yfir líkama minn, gjörði hún það til þess að búa mig til
13 greftrunar. Sannlega segi jeg yður: Hvar sem fagn-
aðarerindi þetta verður boðað í öllum heiminum, mun
og þess, er hún gjörði, getið verða, til minningar
um hana.

14 Þá fór einn af þeim tólf, Júdas Ískaríot að nafni,
15 til æðstu prestanna og sagði: Hvað viljið þjer gefa
mjer til þess að jeg framselji yður hann? En þeir
16 greiddu honum þrjátíu silfurpeninga; og upp frá því
leitaði hann færis að svíkja hann.

17 En á fyrsta degi ósýrðu brauðanna komu læri-
sveinarnir til Jesú og sögðu: Hvar viltu að vjer
18 búum þjer páskamáltíðina? En hann sagði: Farið
til borgarinnar til manns nokkurs, og segið við hann:
Meistarinn segir: Minn tími er í nánd; hjá þjer vil
19 jeg halda páska með lærisveinum mínum. Og
lærisveinarnir gjörðu eins og Jesús lagði fyrir þá og
20 efndu til páskamáltíðarinnar. En er kveld var kom-
ið, settist hann til borðs ásamt þeim tólf lærisvein-
21 um. Og er þeir mötuðust, sagði hann: Sannlega

22 segi jeg yður, að einn af yður mun svíkja mig. Og
þeir urðu mjög hryggir og tóku að segja við hann
23 hver um sig: Er það jeg, Herra? En hann svaraði
og sagði: Sá sem dýfði ásamt mjer hendinni í fatið,
24 sá mun svíkja mig. Mannsins sonur fer að sönnu
hjeðan, eins og ritað hefir verið um hann. En vei
þeim manni, sem því veldur að mannsins sonur
verður framseldur; betra væri þeim manni, að hann
25 hefði aldrei fæðst. En Júdas, er sveik hann, svaraði
og sagði: Er það jeg, rabbí? Hann segir við hann:
26 Þú sagðir það. En er þeir mötuðust, tók Jesús brauð,
blessaði og braut það, og gaf lærisveinunum það og
27 sagði: Takið, etið; þetta er líkami minn. Og hann
tók bikar, gjörði þakkir og gaf þeim og sagði:
28 Drekkið af honum allir; því að þetta er blóð mitt,
blóð sáttmálans, sem úthelt er fyrir marga, til synda
29 fyrirgefningar. En jeg segi yður, að hjeðan í frá mun
jeg alls eigi drekka af þessum ávexti vínviðarins, til
þess dags, er jeg drekk hann ásamt yður nýjan í ríki
föður míns.

30 Og er þeir höfðu sungið lofsönginn, fóru þeir út
til Olíufjallsins.

31 Þá segir Jesús við þá: Allir munuð þjer hneyksl-
ast á mjer á þessari nóttu; því að ritað er: *Jeg mun
slá hirðinn, og sauðir hjarðarinnar munu tvístrast.*
32 En eftir að jeg er vakinn frá dauðum, mun jeg fara
33 á undan yður til Galíleu. En Pjetur svaraði og sagði
við hann: Þótt allir hneykslist á þjer, skal jeg þó
34 aldrei hneykslast. Jesús sagði við hann: Sannlega
segi jeg þjer, á þessari nóttu, áður en haninn galar,
35 muntu þrisvar afneita mjer. Pjetur segir við hann:

Og þótt jeg ætti að deyja með þjer, mun jeg alls eigi
afneita þjer. Á líkan hátt mæltu og allir lærisvein-
arnir.
36 Þá kemur Jesús með þeim í garð, er heitir
Getsemane, og hann segir við lærisveina sína: Setj-
37 ist hjer, meðan jeg fer burt og biðst þar fyrir. Og
hann tók með sjer Pjetur og þá tvo sonu Sebedeusar,
38 og tók að hryggjast og titra. Þá segir hann við þá:
Sál mín er sárhrygg alt til dauða; bíðið hjer og vakið
39 með mjer. Og hann gekk lítið lengra áfram, fjell
fram á ásjónu sína og baðst fyrir og sagði: Faðir
minn, ef mögulegt er, þá fari þessi bikar fram hjá
40 mjer; þó ekki sem jeg vil, heldur sem þú vilt. Og
hann kemur til lærisveinanna og finnur þá sofandi,
og hann segir við Pjetur: Gátuð þjer þá eigi vakað með
41 mjer eina stund? Vakið og biðjið, til þess að þjer
fallið eigi í freistni; andinn er að sönnu reiðubúinn,
42 en holdið er veikt. Enn vjek hann burt annað sinn,
baðst fyrir og sagði: Faðir minn, ef þessi bikar
getur eigi farið fram hjá, án þess jeg drekki hann,
43 þá verði þinn vilji. Og hann kom og fann þá aftur
sofandi; því að augu þeirra voru yfirkomin af svefn-
44 þunga. Og hann yfirgaf þá og fór enn á burt, og
baðst fyrir í þriðja sinni og mælti aftur hinum sömu
45 orðum. Þá kemur hann til lærisveinanna og segir
við þá: Sofið seinna og hvílist! Sjá, stundin nálgast,
og mannsins sonur er framseldur í hendur syndara.
46 Standið upp, förum; sjá, sá er í nánd, er mig svíkur.
47 Og meðan hann enn var að tala, sjá, þá kom
Júdas, einn af þeim tólf, og með honum mannfjöldi
mikill, með sverðum og bareflum, frá æðstu prestun-

48 um og öldungum lýðsins. En sá er sveik hann, gaf
þeim merki, segjandi: Sá er jeg kyssi, hann er það.
49 Handtakið hann. Og hann gekk þegar að Jesú og
50 sagði: Heill, rabbí! og kysti hann. En Jesús sagði
við hann. Vinur, hví ert þú kominn hjer! Þá gengu
51 þeir að, lögðu hendur á Jesúm og tóku hann. Og
sjá, einn þeirra er voru með Jesú, rjetti út höndina
og brá sverði, og hann hjó þjón æðsta prestsins og
52 sneið af honum eyrað. Þá segir Jesús við hann:
Slíðra þú sverð þitt; því að allir þeir sem grípa til
53 sverðs, munu farast fyrir sverði. Eða hyggur þú,
að jeg geti ekki beðið föður minn, svo að hann nú
sendi mjer til liðs meira en tólf sveitir engla?
54 Hvernig ættu þá ritningarnar að rætast, að það á
55 þannig að verða? Á þeirri stundu mælti Jesús við
mannfjöldann: Lögðuð þjer á stað, eins og á móti
ræningja, með sverðum og bareflum, til þess að hand-
taka mig? Daglega sat jeg í helgidóminum og kendi,
56 og þjer handtókuð mig ekki. En alt þetta er komið
fram, til þess að ritningar spámannanna rættust. Þá
yfirgáfu allir lærisveinarnir hann og flýðu.
57 En þeir, sem höfðu handtekið Jesúm, færðu hann
til Kaífasar, æðsta prestsins, þar sem fræðimennirnir
58 og öldungarnir voru saman komnir. En Pjetur fylgdi
honum álengdar alt til hallar æðsta prestsins, og
hann gekk þar inn og settist hjá þjónunum, til þess
59 að sjá endalokin. En æðstu prestarnir og alt ráðið
leitaði ljúgvitnis gegn Jesú, til þess að geta líflátið
60 hann; en þeir fundu eigi, þótt margir ljúgvottar
kæmu fram. En loks komu fram tveir og sögðu:
61 Þessi maður hefir sagt: Jeg get brotið musteri Guðs

62 og reist það á þremur dögum. Og æðsti presturinn
stóð upp og sagði við hann: Svarar þú engu? Hvað
63 vitna þessir gegn þjer? En Jesús þagði. Og æðsti
presturinn sagði við hann: Jeg særi þig við Guð
hinn lifanda, að þú segir oss, hvort þú ert Kristur,
64 sonur Guðs. Jesús segir við hann: Þú sagðir það.
En jeg segi yður, að upp frá þessu skuluð þjer sjá
mannsins son sitja til hægri handar máttarins og
65 koma á skýjum himinsins. Þá reif æðsti presturinn
klæði sín og segir: Hann hefir lastmælt! Hvað
þurfum vjer framar votta við? Sjá, nú hafið þjer
66 heyrt lastmælið. Hvað líst yður? En þeir svöruðu
67 og sögðu: Hann er dauða sekur. Þá hræktu þeir
68 í andlit honum og slógu hann hnefum. Sumir börðu
hann með stöfum, segjandi: Spáðu fyrir oss, Kristur;
hver var það sem sló þig?

69 En Pjetur sat fyrir utan í höllinni. Og þerna
ein kom til hans og mælti: Þú varst einnig með
70 Jesú frá Galíleu. En hann neitaði því í áheyrn
71 allra og sagði: Jeg veit ekki hvað þú átt við. En
er hann var kominn út í fordyrið, sá önnur hann,
og sagði við þá er þar voru: Þessi maður var líka
72 með Jesú frá Nasaret. Og aftur neitaði hann því
73 með eiði: Ekki þekki jeg manninn. En litlu síðar
komu þeir að, er þar stóðu, og sögðu við Pjetur:
Sannlega ert þú líka einn af þeim; því að og mál-
74 færi þitt segir til þín. Þá tók hann að formæla sjer
og sverja: Ekki þekki jeg manninn. Og jafnskjótt
75 gól haninn. Og Pjetur mintist orðsins, er Jesús hafði
sagt: Áður en haninn galar, muntu þrisvar afneita
mjer. Og hann gekk út fyrir og grjet beisklega.

27 En er kominn var morgunn, hjeldu allir æðstu
prestarnir og öldungar lýðsins ráðstefnu gegn
2 Jesú, til þess að lífláta hann; og þeir bundu hann,
fóru burt með hann og framseldu hann Pílatusi lands-
höfðingja.
3 Þá er Júdas, sem sveik hann, sá að hann var
dæmdur sekur, þá iðraðist hann og skilaði æðstu
prestunum og öldungunum aftur hinum þrjátíu silfur-
4 peningum, segjandi: Jeg hefi drýgt synd, er jeg
sveik saklaust blóð. En þeir sögðu: Hvað varðar
5 oss um það? Þú verður sjálfur að sjá fyrir því. Og
hann fleygði silfurpeningunum inn í musterið og hafði
6 sig á braut; og hann fór burt og hengdi sig. En
æðstu prestarnir tóku silfurpeningana og sögðu: Það
er eigi leyfilegt að leggja þá í guðkistuna, þar sem
7 þeir eru blóðs verð. En er þeir höfðu haldið ráð-
stefnu, keyptu þeir fyrir þá leirkerasmiðs-akurinn til
8 grafreits fyrir útlendinga. Fyrir því er akur þessi
9 kallaður Blóðakur alt til þessa dags. Rættist þá
það, er talað er fyrir Jeremías spámann, er segir:
*Og þeir tóku silfurpeningana þrjátíu, verð hins metna,*
10 *sem þeir mátu af hálfu Ísraels sona; og þeir gáfu*
*þá fyrir akur leirkerasmiðsins, samkvæmt skipun*
*Drottins til mín.*
11 En Jesús stóð frammi fyrir landshöfðingjanum.
Og landshöfðinginn spurði hann og sagði: Ert þú
konungur Gyðinganna? En Jesús sagði við hann:
12 Þú segir það. Og er nú sakir voru á hann bornar
af æðstu prestunum og öldungunum, svaraði hann
13 engu. Þá segir Pílatus við hann: Heyrir þú ekki,
14 hve mjög þeir vitna á móti þjer? Og hann svaraði

honum eigi, ekki einu orði hans, svo að landshöfð-
15 ingjann furðaði mjög. En á hátíðinni var landshöfð-
inginn vanur að gefa lýðnum lausan einn bandingja,
16 þann er þeir óskuðu. En þeir höfðu þá alræmdan
17 bandingja, Barrabas að nafni. Er þeir nú voru
saman komnir, sagði Pílatus við þá: Hvorn æskið
þjer að jeg gefi yður lausan, Barrabas, eða Jesúm,
18 sem kallast Kristur? Því að hann vissi, að þeir
19 höfðu fyrir öfundar sakir framselt hann. En er hann
sat á dómarastólnum, sendi kona hans til hans og
ljet segja: Eig þú ekkert við þennan rjettláta mann;
því að margt hefi jeg þolað í dag hans vegna í
20 draumi. En æðstu prestarnir og öldungarnir fengu
mannfjöldann til þess að biðja um Barrabas og um
21 að lífláta Jesúm. En landshöfðinginn svaraði og
sagði við þá: Hvorn þessara tveggja viljið þjer, að
jeg gefi yður lausan? En þeir sögðu: Barrabas.
22 Pílatus segir við þá: Hvað á jeg þá að gjöra við
Jesúm, sem Kristur er kallaður? Þeir segja allir:
23 Hann skal krossfestur! En hann sagði: Hvað ilt
hefir hann þá gjört? En þeir æptu þess ákafar og
24 sögðu: Hann skal krossfestur! Þegar nú Pílatus
sjer, að hann kemur engu til leiðar, en að uppnámið
varð aðeins meira, tók hann vatn, þvoði hendur
sínar í augsýn mannfjöldans og mælti: Sýkn er jeg
af blóði þessa rjettláta manns; þjer verðið að sjá
25 fyrir því. Og alt fólkið svaraði: Komi blóð hans
26 yfir oss og yfir börn vor! Gaf hann þeim þá
Barrabas lausan; en ljet húðstrýkja Jesúm og fram-
seldi hann til krossfestingar.

27 Þá tóku hermenn landshöfðingjans Jesúm til sín
inn í höllina, og söfnuðu utan um hann allri her-
28 sveitinni. Og þeir afklæddu hann og lögðu yfir hann
29 skarlatslita kápu; og þeir fljettuðu kórónu af þyrn-
um og settu á höfuð honum, og reyrstaf í hægri
30 hönd honum; og þeir fjellu á knje frammi fyrir
honum, hæddu hann og sögðu: Heill vertu, kon-
ungur Gyðinganna! Og þeir hræktu á hann, tóku
31 reyrstafinn og slógu hann í höfuðið. Og er þeir
höfðu spottað hann, færðu þeir hann úr kápunni,
og færðu hann í hans eigin klæði; og þeir fóru burt
með hann til krossfestingar.

32 En er þeir gengu út, hittu þeir mann frá Kýrene,
er Símon hjet. Þennan mann neyddu þeir til að
33 bera kross hans. Og er þeir komu til staðar, er
Golgota nefnist, það er að segja: hauskúpustaður,
34 gáfu þeir honum að drekka vín beiskjuborið; og er
hann hafði bragðað það, vildi hann eigi drekka.
35 En er þeir höfðu krossfest hann, skiftu þeir klæðum
36 hans á milli sín og köstuðu hlutum um; og þeir
37 settust og gættu hans þar. Og uppi yfir höfði hans
settu þeir sakargift hans svo skráða: *Þessi er Jesús,*
38 *konungur Gyðinganna.* Síðan voru krossfestir með
honum ræningjar tveir, annar til hægri og hinn til
39 vinstri handar. En þeir sem fram hjá gengu, last-
40 mæltu honum, skóku höfuðin og sögðu: Þú sem
brýtur niður musterið og reisir það á þrem dögum,
bjargaðu sjálfum þjer! Ef þú ert sonur Guðs, þá
41 stíg niður af krossinum! Sömuleiðis hæddu og æðstu
prestarnir hann ásamt fræðimönnunum og öldungun-
42 um og sögðu: Öðrum bjargaði hann, sjálfum sjer

getur hann eigi bjargað! Hann er konungur Ísraels!
Stígi hann nú niður af krossinum, og vjer skulum
43 trúa á hann. Hann treysti Guði. Hann frelsi hann
nú, ef hann hefir mætur á honum; því að hann
44 sagði: Jeg er sonur Guðs. Jafnvel ræningjarnir,
sem með honum voru krossfestir, smánuðu hann á
sama hátt.
45 En frá sjettu stundu varð myrkur um alt landið
46 alt til níundu stundar. En um níundu stundu
kallaði Jesús hárri röddu: *Elí, elí, lama sabaktaní!*
það er: Guð minn! Guð minn! hví hefir þú
47 yfirgefið mig? Og er nokkrir þeirra, er þar
48 stóðu, heyrðu það, sögðu þeir: Hann kallar á
Elías. Og jafnskjótt hljóp einn þeirra til og tók
njarðarvött, fylti hann ediki og stakk á reyrstaf,
49 og gaf honum að drekka. En hinir aðrir sögðu:
Bíðum við, sjáum til, hvort Elías kemur til þess að
50 bjarga honum. En Jesús kallaði aftur hárri röddu
51 og gaf upp andann. Og sjá, fortjald musterisins
rifnaði sundur í tvent frá ofanverðu og alt niður í
52 gegn, og jörðin skalf og björgin klofnuðu, og graf-
irnar opnuðust, og margir líkamir sofnaðra helgra
53 manna risu upp, og þeir fóru út úr gröfunum, eftir
upprisu hans, og komu inn í hina helgu borg og
54 birtust þar mörgum. En er hundraðshöfðinginn og
þeir, er með honum gættu Jesú, sáu landskjálftann
og það sem við bar, urðu þeir felmtsfullir mjög og
sögðu: Sannarlega hefir þessi maður verið sonur
55 Guðs. En þar voru margar konur, er horfðu á
álengdar; höfðu þær fylgt Jesú frá Galíleu og þjónað
56 honum. Meðal þeirra var María Magdalena og

María, móðir þeirra Jakobs og Jóse, og móðir þeirra
Sebedeussona.
57 En er kveld var komið, kom maður nokkur
auðugur frá Arímaþeu, Jósef að nafni, sem og sjálfur
58 var orðinn lærisveinn Jesú. Hann fór til Pílatusar
og bað um líkama Jesú. Pílatus skipaði þá að fá
59 honum hann. Og Jósef tók líkið, sveipaði það
60 hreinu línklæði og lagði það í hina nýju gröf sína,
sem hann hafði höggið út í kletti; og hann velti
61 stórum steini fyrir dyr grafarinnar og fór burt. En
María Magdalena var þar og María hin, og sátu þær
andspænis gröfinni.
62 En daginn eftir, sem er næstur á eftir aðfanga-
deginum, komu æðstu prestarnir og Faríseararnir saman
63 hjá Pílatusi og sögðu: Herra, vjer minnumst þess nú,
að svikari þessi sagði í lifanda lífi: Eftir þrjá daga
64 rís jeg upp. Bjóð þú því, að grafarinnar verði gætt
alt til hins þriðja dags, til þess að eigi komi læri-
sveinar hans og steli honum, og segi við lýðinn:
Hann er upprisinn frá dauðum; og mun þá síðari
65 villan verða verri en hin fyrri. Pílatus sagði
við þá: Hjer hafið þjer varðmennina, farið, haldið
66 vörð, svo sem þjer best hafið vit á. En þeir fóru burt,
innsigluðu steininn og gættu grafarinnar ásamt varð-
mönnunum.

28 En eftir hvíldardaginn, þegar lýsti af fyrsta
degi vikunnar, kom María Magdalena og
2 María hin, til að líta eftir gröfinni. Og sjá,
mikill landskjálfti varð, því að engill Drottins
steig niður af himni og kom og velti steininum frá,
3 og settist á hann ofan. En útlit hans var sem leiftur

4 og klæði hans hvít sem snjór. En varðmennirnir
skulfu af hræðslu fyrir honum og urðu sem örendir.
5 En engillinn tók til máls og sagði við konurnar:
Óttist eigi! Því að jeg veit, að þjer leitið að Jesú,
6 hinum krossfesta. Hann er eigi hjer, því að hann
er upprisinn, eins og hann sagði. Komið, sjáið
7 staðinn, þar sem Drottinn lá. Og farið nú með
skyndi og segið lærisveinum hans: Hann er uppris-
inn frá dauðum; og sjá, hann fer á undan yður til
Galíleu; þar munuð þjer sjá hann. Sjá, jeg hefi sagt
8 yður það. Og þær skunduðu burt frá gröfinni, með
ótta og mikilli gleði, og hlupu að flytja tíðindin læri-
9 sveinum hans. Og sjá, Jesús kom á móti þeim og
sagði: Heilar þjer! En þær komu til og gripu um
10 fætur hans og veittu honum lotningu. Þá segir Jesús
við þær: Óttist eigi! farið burt og kunngjörið bræðr-
um mínum, að þeir skuli fara til Galíleu, og þar
munu þeir sjá mig.

11 En er þær voru farnar burt, sjá, þá komu nokkrir
af varðmönnunum til borgarinnar, og kunngjörðu æðstu
12 prestunum alt, sem gjörst hafði. Og er þeir voru
saman komnir ásamt öldungunum, hjeldu þeir ráðstefnu,
13 gáfu hermönnunum mikið fje og mæltu: Segið þjer:
Lærisveinar hans komu á næturþeli og stálu honum,
14 meðan vjer sváfum. Og berist þetta landshöfðingjanum
til eyrna, skulum vjer friða hann, og yður munum
15 vjer gjöra áhyggjulausa. En þeir tóku fjeð, og gjörðu
sem þeim hafði kent verið. Og þessi orðrómur hefir
verið borinn út meðal Gyðinga alt til þessa dags.

16 En þeir ellefu lærisveinar fóru til Galíleu, til
17 fjallsins, sem Jesús hafði boðið þeim. Og er þeir sáu

 

hann, veittu þeir honum lotningu; en nokkrir efuðust.
18 Og Jesús kom til þeirra, talaði við þá og sagði: Alt
19 vald er mjer gefið á himni og jörðu. Farið því og
gjörið allar þjóðirnar að lærisveinum, með því að
skíra þá til nafns föðursins og sonarins og hins heilaga
20 anda, og með því að kenna þeim að halda alt það,
sem jeg hefi boðið yður. Og sjá, jeg er með yður
alla daga alt til enda veraldarinnar.

# Markúsar guðspjall.

1 Upphaf fagnaðarboðskapar Jesú Krists, sonar Guðs.
2 Svo sem ritað er hjá Jesajasi spámanni: —
*Sjá, jeg sendi sendiboða minn á undan þjer, er búa*
3 *mun þjer veg. Rödd manns, er hrópar í óbygðinni:*
*Greiðið veg Drottins og gjörið beinar brautir hans;* —
4 kom Jóhannes fram, sá er skírði í óbygðinni og prje-
5 dikaði iðrunarskírn til syndafyrirgefningar, og gekk
út til hans gjörvöll Júdeubygð og allir Jerúsalem-
búar, og ljetu skírast af honum í ánni Jórdan, ját-
6 andi syndir sínar. En Jóhannes var klæddur úlfalda-
hárum og gyrður leðurbelti um lendar sjer; og fæða
hans var engisprettur og villihunang, og hann prje-
7 dikaði svo mælandi: Sá er mjer máttkari, er eftir
mig kemur, og jeg er þess ekki verður, að jeg

8 krjúpi niður til að leysa skóþvengi hans. Jeg skírði
yður með vatni, en hann mun skíra yður með heilög-
um anda.
9 Og það varð á þeim dögum, að Jesús kom frá
Nasaret í Galíleu og var skírður af Jóhannesi í Jórdan;
10 og jafnskjótt er hann stje upp úr vatninu, sá hann
himnana opnast og andann stíga ofan, eins og dúfu,
11 yfir hann; og rödd kom af himnum: Þú ert sonur
minn hinn elskaði, á þjer hefi jeg velþóknun.
12 Og þegar knýr andinn hann út á eyðimörkina,
13 og hann var á eyðimörkinni fjörutíu daga og hans
var freistað af Satan, og hann var meðal villidýr-
anna; og englarnir þjónuðu honum.
14 En eftir að Jóhannes var framseldur, kom Jesús
til Galíleu og prjedikaði fagnaðarboðskapinn um Guð
15 og sagði: Tíminn er fullnaður og guðsríki er nálægt;
gjörið iðrun og trúið fagnaðarboðskapnum.
16 Og er hann gekk meðfram Galíleu-vatninu, sá
hann Símon og Andrjes, bróður Símonar, er þeir voru
að leggja net á vatninu, því að þeir voru fiskimenn.
17 Jesús sagði við þá: Fylgið mjer, og mun jeg gjöra
18 yður að manna veiðurum. Og þegar í stað yfirgáfu þeir
19 netin og fylgdu honum. Og er hann gekk spölkorn
lengra, sá hann Jakob Sebedeusson og Jóhannes
bróður hans, sem einnig voru á skipi að bæta net
20 sín; og jafnskjótt kallaði hann þá, og þeir yfirgáfu
Sebedeus föður sinn þar á skipinu, ásamt verka-
mönnunum, og fylgdu honum.
21 Og þeir fara inn í Kapernaum, og þegar í stað
gekk Jesús á hvíldardeginum inn í samkunduhús
22 þeirra og kendi. Og undruðust menn mjög kenningu

 

hans, því að hann kendi þeim eins og sá, er vald
23 hafði, og ekki eins og fræðimennirnir. Og jafnskjótt
var í samkunduhúsi þeirra maður nokkur, sem hafði
24 óhreinan anda; hann æpti og sagði: Hvað höfum
vjer saman við þig að sælda, Jesús frá Nasaret? Ert
þú kominn til að tortíma oss? Jeg veit hver þú ert,
25 hinn heilagi Guðs. Og Jesús hastaði á hann og
26 mælti: Þegi þú, og far út af honum. Þá skók hinn
óhreini andi manninn og rak upp hljóð mikið og fór
27 út af honum. Og allir urðu forviða, svo að þeir
spurðu hver annan og sögðu: Hvað er þetta? Ný
kenning! Með valdi skipar hann jafnvel hinum
28 óhreinu öndum, og þeir hlýða honum. Og orðrómur-
inn um hann barst þegar út hvervetna um allar
nágrannabygðirnar í Galíleu.

29 Og jafnskjótt, er þeir voru farnir út úr sam-
kunduhúsinu, komu þeir í hús Símonar og Andrjesar,
30 með Jakobi og Jóhannesi; en tengdamóðir Símonar
lá sóttveik, og þegar segja þeir honum frá henni;
31 og hann gekk að og tók í hönd henni, reisti hana
á fætur, og sóttveikin hvarf frá henni, og hún gekk
þeim fyrir beina.

32 En er kveld var komið og sól var sest, færðu
þeir til hans alla þá er sjúkir voru og þjáðir af
33 öndum, og allur bærinn var saman kominn við
34 dyrnar. Og hann læknaði marga, þá er veikir voru
af ýmsum sjúkdómum, og rak út marga anda, og
hann leyfði ekki öndunum að mæla, af því að þeir
þektu hann.

35 Og árla, löngu fyrir dögun, fór hann á fætur og
36 gekk út, og fór til eyðistaðar, og baðst þar fyrir; og

Símon og þeir, sem með honum voru, veittu hon-
37 um eftirför, og þeir fundu hann, og segja við hann:
38 Allir leita þín. Og hann segir við þá: Vjer skulum
fara annað, í þorpin í grendinni, að jeg fái einnig
prjedikað þar; því að til þess er jeg út genginn.
39 Og hann kom og prjedikaði í samkunduhúsum þeirra
um alla Galíleu og rak út anda.
40 Og líkþrár maður kemur til hans og ákallar
hann; og hann fellur á knje fyrir honum og segir
41 við hann: Ef þú vilt, getur þú hreinsað mig. Og
hann kendi í brjósti um hann, rjetti út höndina,
snart hann og segir við hann: Jeg vil, verðir þú
42 hreinn! Og jafnskjótt hvarf frá honum líkþráin, og
43 hann varð hreinn. Og hann ljet hann þegar fara
44 burt, lagði ríkt á við hann og segir við hann: Gæt
þess að segja engum neitt, en far þú, sýn þig prest-
inum, og fórna þú fyrir hreinsun þína því, sem Móse
45 bauð, þeim til vitnisburðar. En hann gekk burt og
tók að færa þetta mjög í hámæli og hafa það víða
á orði, svo að Jesús mátti ekki framar koma opin-
berlega í nokkra borg, heldur hafðist við úti á óbygð-
um stöðum og komu menn til hans hvaðanæva.

2 Og er hann kom aftur inn í Kapernaum að
nokkrum dögum liðnum, spurðist það að hann
2 væri heima, og margir komu saman, svo að eigi var
lengur rúm fyrir þá, ekki einu sinni fyrir utan
3 dyrnar, og hann talaði til þeirra orðið; og menn
koma og færa til hans lama mann, sem var borinn
4 af fjórum; og er þeir gátu ekki komist nærri honum
fyrir mannfjöldanum, rufu þeir af þakið, þar sem
hann var, og er þeir voru komnir inn úr, láta þeir

5 síga niður sængina, sem hinn lami lá í. Og er Jesús
sjer trú þeirra, segir hann við lama manninn: Sonur,
6 syndir þínar eru fyrirgefnar. En þar sátu nokkrir af
7 fræðimönnunum og hugsuðu í hjörtum sínum: Hví
mælir þessi maður svo? Hann guðlastar. Hver
8 getur fyrirgefið syndir, nema einn, það er Guð? Og
þegar varð Jesús þess áskynja í anda sínum, að þeir
hugsuðu þannig með sjálfum sjer, og segir við þá:
9 Hví hugsið þjer slíkt í hjörtum yðar? Hvort er
auðveldara að segja við hinn lama: Syndir þínar
eru fyrirgefnar, eða að segja: Statt upp, tak sæng
10 þína og gakk? En til þess að þjer vitið, að manns-
ins sonur hefir vald á jörðu til að fyrirgefa syndir
11 — segir hann við lama manninn: — Jeg segi þjer,
statt upp, tak sæng þína og far heim til húss þíns.
12 Og hann stóð upp, og tók jafnskjótt sængina og gekk
út í augsýn allra, svo að allir undruðust og vegsöm-
uðu Guð og sögðu: Aldrei höfum vjer slíkt sjeð.
13 Og aftur gekk hann út fram með vatninu, og
allur mannfjöldinn kom til hans og hann kendi þeim.
14 Og er hann gekk fram hjá, sá hann Leví Alfeusson
sitjandi við tollbúðina, og segir við hann: Fylg mjer!
15 og hann stóð upp og fylgdi honum. Og svo bar við,
að hann sat yfir borðum í húsi hans, og margir toll-
heimtumenn og bersyndugir sátu að borðum með Jesú
og lærisveinum hans; því að þeir voru margir, og
16 þeir fylgdu honum; og er fræðimennirnir meðal
Faríseanna sáu, að hann samneytti hinum bersyndugu
og tollheimtumönnunum, sögðu þeir við lærisveina
hans: Hann etur og drekkur með tollheimtumönnum
17 og bersyndugum. Og er Jesús heyrði það, segir

hann við þá: Ekki þurfa heilbrigðir læknis við,
heldur þeir, sem sjúkir eru; jeg er eigi kominn að
kalla rjettláta, heldur synduga.
18 Og lærisveinar Jóhannesar og Farísearnir föstuðu,
og þeir koma og segja við hann: Hví fasta læri-
sveinar Jóhannesar og lærisveinar Fariseanna, en
19 þínir lærisveinar fasta ekki? Og Jesús sagði við þá:
Hvort mega brúðkaupssveinarnir fasta, á meðan
brúðguminn er hjá þeim? Svo lengi sem þeir hafa
20 brúðgumann hjá sjer, geta þeir ekki fastað; en koma
munu dagar, er brúðguminn verður frá þeim tekinn,
21 og þá munu þeir fasta á þeim degi. Enginn saumar
bót af nýjum dúk á gamalt fat; því að þá nemur
bótin af því, hið nýja af hinu gamla, og rifan verður
22 verri. Og enginn lætur nýtt vín á gamla belgi; því
að þá sprengir vínið belgina, og vínið ónýtist og belg-
irnir; en menn láta nýtt vín á nýja belgi.
23 Og svo bar við, að hann fór um sáðlönd nokkur á
hvíldardegi; og lærisveinar hans tóku að tína öx á
24 leiðinni. Og Farísearnir sögðu við hann: Sjá, hví
gjöra þeir á hvíldardegi það, sem ekki er heimilt?
25 Og hann sagði við þá: Hafið þjer aldrei lesið, hvað
Davíð gjörði, er honum lá á, og hann varð sjálfur
hungraður og menn hans, hvernig hann fór inn í
26 guðshúsið, þegar Abíatar var æðsti prestur, og át
skoðunarbrauðin, sem enginn má eta nema prest-
27 arnir, og gaf einnig mönnum sínum? Og hann
sagði við þá: Hvíldardagurinn varð til mannsins
vegna, og eigi maðurinn vegna hvíldardagsins;
28 svo að mannsins sonur er herra einnig yfir hvíldar-
deginum.

3 Og hann gekk aftur inn í samkunduhúsið, og
2 var þar maður, er hafði visnaða hönd. Og þeir
höfðu gætur á honum, hvort hann mundi lækna
hann á hvíldardegi, til þess að þeir gætu kært hann.
3 Og hann segir við manninn, er visnu höndina hafði:
4 Gakk hjer fram! Og hann segir við þá: Hvort er
leyfilegt á hvíldardegi gott að gjöra eða gjöra ilt, að
5 bjarga lífi eða deyða? En þeir þögðu. Og hann
rendi augum yfir þá með reiði, angraður yfir harðúð
hjartna þeirra, og segir við manninn: Rjett fram
hönd þína! Og hann rjetti hana fram, og hönd hans
6 varð aftur heil. En Fariseearnir gengu út, og gjörðu
þegar ásamt mönnum Heródesar ráð sín gegn honum,
hvernig þeir fengju ráðið hann af dögum.
7 Og Jesús fór með lærisveinum sínum út að vatn-
8 inu, og mikill fjöldi úr Galíleu fór á eftir, og frá
Júdeu og frá Jerúsalem og frá Idúmeu og handan
yfir Jórdan; og úr bygðum Týrusar og Sídonar kom
til hans mikill fjöldi, er þeir heyrðu, hve mikil verk
9 hann gjörði. Og hann sagði við lærisveina sína, að
smábátur skyldi vera til taks handa sjer vegna
mannfjöldans, til þess að þeir þrengdu eigi að hon-
10 um; því að hann læknaði marga, svo að allir þustu
að honum, þeir er plágur höfðu, til að snerta hann.
11 Og hvenær sem hinir óhreinu andar sáu hann, fjellu
þeir fram fyrir honum, og æptu segjandi: Þú ert
12 sonur Guðs. Og hann bauð þeim harðlega að þeir
skyldu eigi gjöra hann kunnan.
13 Og hann gengur upp á fjallið, og kallar til sín
14 þá, er hann sjálfur vildi, og þeir fóru til hans. Og
hann skipaði tólf, að þeir skyldu vera með honum,

og til þess að hann mætti senda þá frá sjer að prje-
15 dika, og hafa vald til að reka anda út; — og Símoni
16 gaf hann nafnið Pjetur, — og Jakob Sebedeus-
17 son og Jóhannes bróður Jakobs, — og hann gaf
þeim báðum nafnið Boanerges, það þýðir þrumu-
18 synir; — og Andrjes og Filippus og Bartólómeus og
Matteus og Tómas og Jakob Alfeusson og Taddeus
19 og Símon Kananea, og Júdas Iskaríot, þann hinn
sama, er sveik hann.

20 Og hann kemur heim, og mannfjöldinn kemur
aftur saman, svo að þeir gátu ekki einu sinni matast.
21 Og er vinir hans heyrðu það, gengu þeir út til að
taka hann, því að þeir sögðu: Hann er ekki með
22 sjálfum sjer. En fræðimennirnir, er komnir voru ofan
frá Jerúsalem, sögðu: Hann hefir Belsebúl, og með
23 fulltingi andaforingjans rekur hann andana út. Og
hann kallaði þá til sín, og talaði til þeirra í líking-
24 um: Hvernig getur Satan rekið Satan út? Og ef
ríki er orðið sjálfu sjer sundurþykkt, þá fær ríki það
25 eigi staðist; og ef heimili er orðið sjálfu sjer sundur-
26 þykkt, þá mun heimili það eigi fá staðist. Og ef
Satan hefir risið upp á móti sjálfum sjer, og er orð-
inn sundurþykkur, fær hann ekki staðist, heldur er
27 úti um hann. Nei, enginn getur farið inn í hús hins
sterka, til að ræna föngum hans, nema hann áður
bindi hinn sterka, og þá mun hann geta rænt hús
28 hans. Sannlega segi jeg yður: Allar syndir munu
mannanna börnum fyrirgefnar verða, og lastmælin,
29 svo mjög sem þeir kunna að lastmæla; en hver sem
lastmælir gegn heilögum anda, fær eigi fyrirgefningu

um aldur, heldur er hann sekur um eilífa synd; —
30 því að þeir sögðu: Hann hefir óhreinan anda.
31 Og móðir hans og bræður hans koma, og stóðu
32 þau úti og sendu til hans og kölluðu á hann. Og
mannfjöldi sat í kringum hann; og þeir segja við
hann: Sjá, móðir þín og bræður þínir eru úti og
33 spyrja um þig. Og hann svarar þeim og segir: Hver
34 er móðir mín og bræður mínir? Og er hann hafði
rent augum yfir þá, er kringum hann sátu, segir
35 hann: Sjá, hjer er móðir mín og bræður mínir! Því
að hver sem gjörir vilja Guðs, sá er bróðir minn og
systir og móðir.

4 Og aftur tók hann að kenna við vatnið, og
afarmikill mannfjöldi safnast að honum, svo að
hann steig upp í bát og sat úti á vatninu; og allur
2 mannfjöldinn var á landi við vatnið. Og hann kendi
þeim margt í dæmisögum og sagði við þá í kenningu
3 sinni: Hlýðið á! Sjá, sáðmaður gekk út að sá;
4 og svo fór, er hann var að sá, að sumt sæðið fjell
5 við götuna, og fuglar komu og átu það upp; og sumt
fjell í grýtta jörð, þar sem það hafði eigi mikinn
jarðveg; og þegar í stað rann það upp, af því að
6 það hafði ekki djúpan jarðveg. Og er sólin kom
upp, skrælnaði það, og sökum þess, að það hafði
7 ekki rót, visnaði það. Og sumt fjell meðal þyrna, en
þyrnarnir uxu upp og kæfðu það, og það bar ekki
8 ávöxt. En sumt fjell í góðu jörðina og kom upp og
óx og bar ávöxt, og gaf af sjer að þrítugföldu og að
9 sextugföldu og að hundraðföldu. Og hann sagði:
Hver sem eyru hefir að heyra, hann heyri!

10 Og er hann varð einn saman, spurðu þeir, sem
í kringum hann voru ásamt þeim tólf, um lík-
11 ingarnar. Og hann mælti við þá: Yður er gefinn
leyndardómur guðsríkis, en hinir, sem fyrir utan eru,
12 fá alt í líkingum, til þess að sjáandi skuli þeir sjá,
og eigi skynja, og heyrandi skuli þeir heyra, og eigi
skilja, svo að eigi snúi þeir sjer, og þeim verði fyrir-
13 gefið. Og hann segir við þá: Skiljið þjer eigi lík-
ingu þessa? Hvernig munuð þjer þá skilja allar
14 líkingarnar? Sáðmaðurinn sáir orðinu; og þessir,
15 sem við götuna eru, eru þeir, þar sem orðinu er sáð,
og er þeir hafa heyrt, kemur Satan jafnskjótt og
16 tekur burt orðið, sem sáð var í þá; og á líkan hátt
eru þessir, sem sáð hefir verið í grýtta jörð, þeir,
sem veita orðinu þegar viðtöku með fögnuði, er þeir
17 heyra það, en hafa eigi rót í sjer, heldur eru óstöð-
ugir; síðan, er þrenging verður eða ofsókn fyrir
18 orðsins sakir, hneykslast þeir þegar í stað. Og aðrir
eru þeir, sem sáð var í þyrnana; þessir eru þeir,
19 sem heyrðu orðið, og áhyggjur heimsins og tál auð-
æfanna og girndir til annara hluta ganga inn og
20 kefja orðið, og það verður ávaxtarlaust. Og hinir
eru þeir, sem sáð var í góðu jörðina, þeir sem heyra
orðið og taka við því og bera ávöxt, þrítugfalt og
sextugfalt og hundraðfalt.

21 Og hann sagði við þá: Hvort kemur ljósið, til
þess að verða sett undir mælikerið, eða undir bekk-
inn? Er það ekki heldur til þess að verða sett á
22 ljósastikuna? Því að eigi er neitt leynt, nema til
þess að það opinberist, nje heldur varð neitt hulið,
23 nema til þess að það kæmi í ljós. Ef einhver hefir

24 eyru að heyra, hann heyri! Og hann sagði við þá:
Gætið að hvað þjer heyrið: Með þeim mæli, sem
þjer mælið, mun yður mælt verða, og við yður mun
25 bætt verða; því að sá sem hefir, honum mun gefið
verða, og sá sem ekki hefir, frá honum mun tekið
verða jafnvel það sem hann hefir.
26 Og hann sagði: Svo er og um guðsríki sem
27 maður kasti sæði á jörðina, og sofi og fari á fætur
nótt og dag, og sæðið grær og vex, hann veit eigi
28 með hverjum hætti: Af sjálfri sjer ber jörðin ávöxt,
29 fyrst stráið, þá axið, þá fult hveitikorn í axinu. En
er ávöxturinn er þroskaður, sendir hann þegar út
kornsigðina, því að uppskeran er komin.
30 Og hann sagði: Hvernig eigum vjer að samlíkja
guðsríki eða í hvaða líkingu eigum vjer að búa það?
31 Líkt er það mustarðskorni; þótt það sje minna en öll
32 frækornin á jörðinni, vex það þó upp, þegar því er
sáð í jörðina, og verður öllum jurtum stærra og fær
stórar greinar, svo að fuglar himins mega hreiður
byggja undir skugga þess.
33 Og í mörgum slíkum líkingum talaði hann fyrir
34 þeim orðið, svo sem þeir gátu numið það. En án
líkingar talaði hann ekki til þeirra, og einslega lagði
hann alt út fyrir sínum eigin lærisveinum.
35 Og á þeim degi, þegar kveld var komið, segir
36 hann við þá: Förum yfir um! Og þeir skilja við
mannfjöldann, og taka hann með sjer í bátnum, eins
37 og hann stóð, og aðrir bátar voru með honum; og
stormhrina mikil rís, og öldurnar fjellu inn í bátinn,
38 svo að lá við að hann fylti. Og sjálfur var hann í
skutnum og svaf á koddanum, og þeir vekja hann

og segja við hann: Meistari, hirðir þú ekki um að
39 vjer förumst? Og hann vaknaði og hastaði á vind-
inn og sagði við vatnið: Þegi þú, haf hljótt um þig!
40 Þá lægði veðrið, og varð blíða logn. Og hann sagði
við þá: Hví eruð þjer hræddir, hafið þjer enn eigi
41 trú? Og þeir skelfdust ákaflega og sögðu hver við
annan: Hver er þá þessi, að bæði vindur og vatn
hlýða honum?

5 Og þeir komu yfir um vatnið í bygð Gerasena.
2 Og óðara en hann var stiginn úr bátnum, kom
í móti honum út úr gröfunum maður með óhreinan
3 anda, er hafðist við í gröfunum, og fekk enginn
lengur bundið hann, ekki einu sinni með hlekkjum,
4 því að oft hafði hann verið bundinn með fótfjötrum
og hlekkjum, og hlekkina hafði hann slitið af sjer
og brotið sundur fótfjötrana, og enginn gat ráðið við
5 hann. Og ávalt var hann nætur og daga í gröfun-
um og á fjöllunum, æpandi og lamdi sjálfan sig
6 grjóti. Og er hann sá Jesúm álengdar, hljóp hann
7 og fjell fram fyrir honum og æpti hárri röddu og
segir: Hvað hefi jeg saman við þig að sælda, Jesús,
sonur Guðs hins hæsta? Jeg særi þig við Guð, að
8 þú kveljir mig eigi. Því að hann sagði við hann:
Þú óhreini andi, far út af manninum; og hann
9 spurði hann: Hvert er heiti þitt? Og hann segir
við hann: Legíó heiti jeg; því að vjer erum margir.
10 Og hann bað hann mikillega að senda þá ekki burt
11 úr bygðinni. En þar var við fjallið stór svínahjörð
12 á beit; og þeir báðu hann segjandi: Send oss í svínin,
13 svo að vjer förum í þau. Og hann leyfði þeim það,
og hinir óhreinu andar fóru út og fóru í svínin, og

hjörðin steyptist niður fyrir þvergnípið í vatnið, um
14 tvö þúsund að tölu, og köfnuðu þau í vatninu; og
þeir, sem hjeldu þeim á beit, flýðu og fluttu fregnina
til borgarinnar og til bygðanna. Og menn komu að
15 sjá, hvað það var, sem gjörst hafði; og þeir koma til
Jesú, og sjá manninn, sem andinn hafði verið í, sitja
klæddan og heilvita, manninn sem hafði haft legíón-
16 ina. Og þeir urðu hræddir, og þeir, sem sjeð höfðu,
sögðu þeim frá, hvað fram hefði komið við manninn,
17 sem andinn var í, og um svínin. Og þeir tóku að
18 biðja hann að fara burt úr hjeruðum þeirra. Og er
hann stje upp í bátinn, bað maðurinn, sem andann
19 hafði haft, hann þess að mega vera með honum; og
hann leyfði honum það eigi, en segir við hann: Far
þú heim til þín og til þinna, og seg þeim, hve mikla
hluti Drottinn hefir gjört fyrir þig og hversu hann
20 hefir miskunnað þjer. Og hann fór burt og tók að
kunngjöra í Dekapolis, hve mikla hluti Jesús hefði
gjört fyrir sig, og undruðust það allir.
21 Og þegar Jesús hafði aftur farið yfir um á bátn-
22 um, safnaðist að honum mikill mannfjöldi; og hann
var við vatnið. Og einn af samkundustjórunum
kemur, Jairus að nafni, og er hann sjer hann, fellur
23 hann til fóta honum, og biður hann mikillega og
segir: Dóttir mín litla er að fram komin; kom og
legg hendur yfir hana, að hún verði heil og haldi
24 lífi. Og hann fór með honum; og mikill mannfjöldi
fylgdi honum, og þröng varð um hann.
25 Og kona, sem hafði haft blóðlát í 12 ár, og hafði
26 þjáðst mikið undir höndum margra lækna og kostað
til aleigu sinni, og engan bata fengið, en öllu heldur

27 farið versnandi, og hafði heyrt um Jesúm, kom í
mannþyrpingunni að baki honum og snart yfirhöfn
28 hans; því að hún sagði: Ef jeg fæ snortið, þótt eigi
29 sje nema yfirhöfn hans, mun jeg heil verða. Og jafn-
skjótt þornaði lind blóðs hennar, og hún kendi á
líkama sínum, að hún var heil orðin af meini sínu.
30 Og er Jesús fann á sjálfum sjer, að krafturinn var
útgenginn frá honum, sneri hann sjer jafnskjótt við
í mannþyrpingunni og sagði: Hver snart yfirhöfn
31 mína? Og lærisveinar hans sögðu við hann: Þú
sjer mannfjöldann þrengja að þjer, og þú segir: Hver
32 snart mig? Og hann litaðist um, til að koma auga á
33 konuna, sem þetta hafði gjört; en hún kom hrædd
og skjálfandi, af því að hún vissi, hvað við sig hafði
fram farið, og fjell fram fyrir hann og sagði honum
34 allan sannleikann. En hann sagði við hana: Dóttir,
trú þín hefir gjört þig heila; far þú í friði, og ver
heil af meini þínu.
35 Meðan hann enn var að mæla, koma menn frá
samkundustjóranum, er segja: Dóttir þín er látin; hví
36 ónáðar þú meistarann lengur? En Jesús gaf eigi gaum
að orðunum, sem töluð voru, og segir við samkundu-
37 stjórann: Óttastu eigi, trúðu aðeins. Og hann leyfði
eigi neinum að fylgjast með sjer, nema Pjetri og
38 Jakobi og Jóhannesi, bróður Jakobs. Og þeir koma
til húss samkundustjórans, og hann sjer þys, menn
39 grátandi og mjög kveinandi; og hann gengur inn og
segir við þá: Hví hafið þjer svo hátt og grátið?
40 Barnið er ekki dáið, heldur sefur. En þeir hlógu að
honum. En hann rekur alla út og tekur með sjer
föður barnsins og móður og þá, sem með honum voru,

41 og gengur inn, þangað sem barnið var. Og hann
tók í höndina á barninu og segir við hana: Talíta
kúmí! það er útlagt: stúlka, jeg segi þjer, rís upp!
42 Og jafnskjótt reis stúlkan upp og gekk um kring;
því að hún var tólf ára. Og þegar í stað urðu þeir
43 frá sjer af mikilli undrun, og hann lagði ríkt á við
þá að láta engan vita þetta, og bauð að gefa henni
að eta.

6 Og hann gekk út þaðan, og hann kemur til
föðurborgar sinnar og lærisveinar hans fylgja
2 honum. Og er hvíldardagur kom, tók hann að kenna
í samkunduhúsinu, og margir, sem á hlýddu, undruðust
stórum og sögðu: Hvaðan kemur þessum manni
þetta? Og hvílík speki er þessum manni gefin, og
3 hvílík kraftaverk gjörast fyrir hendur hans! Er hann
ekki smiðurinn, sonur Maríu, og bróðir Jakobs og
Jóse og Júdasar og Símonar? Og eru ekki systur hans
4 hjer hjá oss? Og þeir hneyksluðust á honum. Og
Jesús sagði við þá: Eigi er spámaður óvirtur nema
í föðurlandi sínu og meðal ættingja sinna og á heimili
5 sínu. Og ekki gat hann gjört þar neitt kraftaverk,
nema hann lagði hendur yfir fáeina sjúka og lækn-
6 aði þá; og hann furðaði sig á vantrú þeirra.

Og hann fór um þorpin þar umhverfis og kendi.
7 Og hann kallar til sín þá tólf, og tók að senda
þá frá sjer, tvo og tvo saman, og gaf þeim vald yfir
8 hinum óhreinu öndum. Og hann bauð þeim að taka
ekkert til ferðarinnar, nema einungis staf, ekki brauð,
9 ekki mal, ekki eirpeninga í belti, en vera þó skóaðir
10 ilskóm; og klæðist eigi tveim kyrtlum. Og hann
sagði við þá: Hvar sem þjer gangið inn í hús, þá

11 dveljist þar, uns þjer farið burt þaðan. Og hver sá
staður, sem eigi veitir yður viðtöku og menn hlýða
eigi á yður, — farið þá burt þaðan og hristið af
yður dustið undir fótum yðar, þeim til vitnisburðar.
12 Og þeir fóru út og prjedikuðu, til þess að menn
13 skyldu gjöra iðrun, og þeir ráku út marga anda, og
smurðu marga sjúka með olíu og læknuðu þá.
14 Og Heródes konungur frjetti þetta — því að nafn
hans var orðið heyrum kunnugt — og hann sagði:
Jóhannes skírari er risinn upp frá dauðum, og þess
15 vegna eru kraftarnir máttugir í honum. En aðrir
sögðu: Það er Elías; og aðrir sögðu: Hann er spá-
16 maður, rjett sem einn af spámönnunum. En er
Heródes heyrði þetta, mælti hann: Jóhannes, sem
17 jeg ljet hálshöggva, hann er upp risinn. Því að sjálfur
hafði Heródes sent menn og tekið Jóhannes höndum
og fjötrað hann í varðhaldi vegna Heródíasar, konu
Filippusar bróður síns, því að hann hafði gengið að
18 eiga hana; því að Jóhannes sagði við Heródes: Þú
19 mátt ekki eiga konu bróður þíns. En Heródías bar
illan hug til hans og vildi deyða hann, og gat það
20 ekki, því að Heródes óttaðist Jóhannes, þar eð hann
vissi, að hann var maður rjettlátur og heilagur, og
verndaði hann; og er hann hafði hlustað á hann,
komst hann í mikinn vanda, og með ánægju hlustaði
21 hann á hann. Og er hentugur dagur kom, er Heródes
á afmælisdegi sínum gjörði veislu gæðingum sínum,
22 hershöfðingjum og helstu mönnum í Galíleu, og dóttir
sjálfrar Heródíasar kom inn og dansaði, geðjaðist hún
Heródesi og þeim, er sátu að borðum með honum;
og konungurinn sagði við stúlkuna: Bið mig hvers

23 þú vilt, og mun jeg veita þjer; og hann hjet henni
með eiði: Hvers sem þú beiðist af mjer, það mun
24 jeg veita þjer, alt að helmingi ríkis míns. Og hún
gekk út og spurði móður sína: Um hvað á jeg að
25 biðja? En hún mælti: Um höfuð Jóhannesar skírara.
Og jafnskjótt kom hún með skyndi inn til konungsins,
bað hann og mælti: Jeg vil að þú þegar í stað gefir
26 mjer á fati höfuð Jóhannesar skírara. Og þó að
konungurinn yrði mjög hryggur, vildi hann ekki
27 óvirða hana sökum eiðanna og boðsmannanna. Og kon-
ungurinn sendi þegar einn varðmanna sinna og bauð
28 að færa sjer höfuð hans. Og hann fór og hjó hann
í varðhaldinu, og hann kom með höfuð hans á fati
og færði stúlkunni, og stúlkan færði það móður sinni.
29 Og er lærisveinar hans frjettu þetta, komu þeir og
tóku lík hans og lögðu það í gröf.

30 Og postularnir koma saman til Jesú, og þeir sögðu
honum frá öllu, er þeir höfðu gjört, og öllu, er þeir
31 höfðu kent. Og hann segir við þá: Komið þjer nú
sjálfir einir saman á óbygðan stað og hvílist um
stund, — því að margir voru komandi og farandi,
og þeir höfðu ekki einu sinni næði til að matast.
32 Og þeir fóru burt á bátnum á óbygðan stað, einir
33 sjer. Og menn sáu þá fara burt, og margir þektu
þá; og menn streymdu þangað saman fótgangandi
34 frá öllum borgunum og komu á undan þeim. Og er
hann steig af skipi, sá hann mikinn mannfjölda, og
hann kendi í brjósti um þá, því að þeir voru sem
sauðir, er eigi hafa hirði, og hann tók að kenna
35 þeim margt. Og er mjög var orðið áliðið dags, komu
til hans lærisveinar hans og sögðu: Staðurinn er

36 óbygður og þegar mjög liðið á daginn. Lát þá fara
frá þjer, svo að þeir geti farið á sveitabýlin og í
þorpin hjer um kring og keypt sjer eitthvað til matar.
37 En hann svaraði og sagði við þá: Gefið þjer þeim
að eta. Og þeir segja við hann: Eigum vjer að
fara og kaupa brauð fyrir tvö hundruð denara, og
38 gefa þeim að eta? En hann segir við þá: Hve mörg
brauð hafið þjer? Farið og gætið að. Og er þeir
höfðu athugað það, segja þeir: Fimm, og tvo fiska.
39 Og hann bauð þeim að láta alla setjast niður í græn-
40 gresið, hvert mötuneyti fyrir sig. Og þeir settust
niður í flokkum, hundrað í sumum, en fimtíu í sum-
41 um. Og hann tók fimm brauðin og fiskana tvo og
leit upp til himins, blessaði og braut brauðin, og
fekk lærisveinunum, til að bera fram fyrir þá; og
42 fiskunum tveim skifti hann meðal allra; og allir
neyttu og urðu mettir. Og þeir tóku upp brotnu
43 brauðin, tólf karfir fullar, og einnig fiskleifarnar.
44 Og þeir, sem brauðanna neyttu, voru fimm þúsund
karlmenn.

45 Og jafnskjótt neyddi hann lærisveina sína til að
fara út í bátinn og fara á undan sjer yfir um til
Betsaída, meðan hann sjálfur kæmi mannfjöldanum
46 frá sjer. Og er hann hafði kvatt þá, fór hann burt
47 til fjallsins að biðjast fyrir. Og er kveld var komið,
var báturinn á miðju vatninu, en hann einn á landi;
48 og er hann sá að róðurinn gekk þeim mjög örðugt,
því að vindurinn var í móti þeim, kemur hann um
fjórðu næturvöku til þeirra gangandi á vatninu og
49 ætlaði að ganga fram hjá þeim. En er þeir sáu
hann gangandi á vatninu, hugðu þeir að það væri

50 vofa, og æptu upp yfir sig; því að allir sáu þeir
hann og urðu felmtsfullir; en hann talaði jafnskjótt
til þeirra og segir við þá: Verið hughraustir, það
51 er jeg, óttist ekki Og hann fór til þeirra upp í
bátinn, og lægði þá veðrið. Og með sjálfum sjer
52 urðu þeir mjög undrandi; því að eigi höfðu þeir
fengið skilning við það, sem fram hafði farið við
brauðin, heldur var hjarta þeirra forhert.

53 Og er þeir höfðu farið yfir um, komu þeir að
54 landi við Genesaret og lögðu þar að; og er þeir stigu
55 af skipinu, þektu menn hann undir eins, og hlupu
um alt það bygðarlag, og tóku að bera sjúklingana
í burðarrekkjum fram og aftur, þar sem þeir heyrðu
56 að hann væri. Og hvar sem hann fór inn, inn í
þorp eða inn í borgir eða inn á sveitabýli, þá lögðu
þeir sjúka menn á torgin og báðu hann, að þeir að-
eins mættu snerta faldinn á yfirhöfn hans; og allir
þeir, er snertu hann, urðu heilir

7 Og að honum safnast Farísearnir og nokkrir af
fræðimönnunum, er komnir voru frá Jerúsalem,
2 og höfðu sjeð, að nokkrir af lærisveinum hans neyttu
matar með vanhelgum höndum, það er að segja:
3 óþvegnum; — því að Farísearnir og allir Gyðingar
eta ekki, nema þeir taki rækilega handlaugar, og
4 fylgja þeir í því setningum fyrri tíðar manna; og
er þeir koma frá torgi, neyta þeir eigi matar, nema
þeir þvoi sjer. Og margt annað er það, er þeir hafa
bundist að gæta: þvottur á bikurum og könnum og
5 eirkötlum. Og Farísearnir og fræðimennirnir spyrja
hann: Hví fylgja lærisveinar þínir ekki setningum
fyrri tíðar manna, heldur neyta matar með vanhelg-

6 um höndum? Og hann sagði við þá: Vel hefir
Jesajas spáð um yður, þjer hræsnarar! Eins og ritað
er: *Þessi lýður heiðrar mig með vörunum, en hjörtu*
7 *þeirra eru langt frá mjer. Og til einskis dýrka þeir
mig, er þeir kenna lærdóma, sem eru manna boðorð.*
8 Þjer skeytið ekki boðum Guðs, en haldið fast við
9 setninga manna. Og hann sagði við þá: Dáfallega
ónýtið þjer boð Guðs, til þess að þjer getið haldið
10 yðar eigin setningar! Því að Móse sagði: Heiðra
föður þinn og móður þína, og: Hver sem formælir
11 föður eða móður, skal dauða deyja. En þjer segið:
Ef maður segir við föður sinn eða móður sína: Það,
sem þjer hefði getað orðið til styrks frá mjer, er
12 korban, það er að segja: heitfje, þá leyfið þjer hon-
um ekki framar að gjöra neitt fyrir föður sinn eða
13 móður sína, og ónýtið þannig orð Guðs með setning-
um yðar, er þjer hafið sett; og margt annað gjörið
14 þjer þessu líkt. Og hann kallaði aftur til sín mann-
fjöldann og sagði við þá: Heyrið mig allir og skiljið.
15 Ekkert er það fyrir utan manninn, sem inn í hann
fer, er geti saurgað hann, heldur það, sem út fer af
17 manninum, það er það, sem saurgar manninn. Og
er hann var genginn inn í hús frá mannfjöldanum,
18 spurðu lærisveinar hans hann um líkinguna. Og
hann segir við þá: Eruð þjer einnig svo skilnings-
lausir? Skiljið þjer ekki, að alt, sem utan að fer inn
19 í manninn, getur ekki saurgað hann; því að ekki fer
það inn í hjarta hans, heldur í magann, og fer út í
saurþróna. Með þessum orðum lýsti hann hreina
20 sjerhverja fæðu. En hann sagði: Það sem út fer af
21 manninum, það saurgar manninn. Því að innan að,

úr hjörtum mannanna, ganga út hinar illu hugsánir,
22 frillulífi, þjófnaður, morð, hórdómur, ágirnd, illmenska,
svik, munaðarlífi, ilt auga, lastmæli, hroki, heimska;
23 alt þetta illa gengur út innan að og saurgar manninn.
24 Og hann tók sig upp þaðan og fór burt til landa-
mæra Týrusar og Sídonar, og hann fór inn í hús
nokkurt og vildi að enginn vissi, og eigi gat hann
25 dulist, heldur heyrði hans jafnskjótt getið kona nokkur,
er átti dóttur, sem hafði óhreinan anda; kom hún og
26 fjell honum til fóta; en konan var grísk, kynjuð úr
Fönikíu sýrlensku, og hún bað hann að reka andann
27 út frá dóttur sinni. En hann sagði við hana: Lofaðu
börnunum að seðjast fyrst, því að það er ekki fallegt
að taka brauðið barnanna og kasta því fyrir hvolp-
28 ana. En hún svaraði og segir við hann: Satt er
það, herra, þó eta hvolparnir undir borðinu af mol-
29 um barnanna. Og hann sagði við hana: Fyrir sakir
þessa orðs þá far hjeðan, andinn er farinn út frá
30 dóttur þinni. Og hún fór heim til sín og fann barnið
lagt á rúmið og andann út farinn.
31 Og aftur fór hann burt frá Týrusarbygðum og
fór um Sídon til Galíleuvatns, um miðjar Dekapolis-
32 bygðir. Og þeir færa honum mann daufan og mál-
haltan, og þeir biðja hann að leggja hönd sína yfir
33 hann. Og hann vjek honum afsíðis frá mannfjöldan-
um, stakk fingrum sínum í eyru honum og hrækti
34 og snart við tungu hans. Og hann leit upp til himins,
andvarpaði og segir við hann: Effata! það er: opnist
35 þú! Og eyru hans opnuðust og haft tungu hans
36 losnaði, og hann talaði rjett. Og hann lagði ríkt á
við þá, að þeir segðu engum frá; en því meir sem

hann bauð þeim, því miklu fremur báru þeir það út.
37 Og þeir undruðust næsta mjög og sögðu: Alt hefir
hann gjört vel, jafnvel daufa lætur hann heyra og
mállausa mæla.

8 Um þessar mundir, er enn var mikill mann-
fjöldi saman kominn og þeir höfðu ekkert til
matar, kallaði hann á lærisveina sína og segir við
2 þá: Jeg kenni í brjósti um mannfjöldann, því að þeir
hafa nú þrjá daga hjá mjer verið, og hafa ekkert
3 til matar; og ef jeg læt þá frá mjer fara fastandi
heim til sín, verða þeir magnþrota á leiðinni; og
4 sumir þeirra eru komnir langt að. Og lærisveinar
hans svöruðu honum: Hvaðan skyldi maður geta
5 mettað þessa menn á brauði hjer í óbygð? Og hann
spurði þá: Hve mörg brauð hafið þjer? En þeir
6 sögðu: Sjö. Og hann býður mannfjöldanum að setj-
ast niður á jörðina, og hann tók brauðin sjö, gjörði
þakkir og braut þau og rjetti lærisveinum sínum, til
þess að þeir bæru þau fram, og þeir báru þau fram
7 fyrir mannfjöldann. Og þeir höfðu fáeina smáfiska;
og er hann hafði blessað þá, bauð hann að þá skyldi
8 og bera fram; og þeir neyttu og urðu mettir. Og
þeir tóku upp brotnu brauðin, sem afgangs voru, sjö
9 karfir. En þeir voru hjer um bil fjórar þúsundir,
10 og hann ljet þá fara. Og jafnskjótt steig hann út á
skipið með lærisveinum sínum, og kom í Dalmanúta-
bygðir.

11 Og Faríseararnir komu út og tóku að þrátta við
hann og kröfðust af honum teikns af himni, til að
12 freista hans; og hann stundi þungan í anda sínum
og segir: Hví krefst þessi kynslóð tákns? Sannlega

segi jeg yður: alls eigi mun tákn verða gefið þessari
13 kynslóð. Og hann skildi við þá, steig aftur á skip
og fór yfir um.
14 Og þeim hafði gleymst að taka með sjer brauð,
og þeir höfðu ekki nema eitt brauð með sjer á skip-
15 inu. Og hann bauð þeim, segjandi: Gefið gætur,
varið yður á súrdeigi Faríseanna og súrdeigi Heródesar.
16 Og þeir töluðu hver við annan og sögðu: Vjer höf-
17 um ekki brauð. Og er Jesús varð þess vís, segir
hann við þá: Hvað eruð þjer að tala um, að þjer
hafið ekki brauð? Skynjið þjer ekki enn nje skiljið?
18 Hafið þjer forhert hjarta? Þjer hafið augu, sjáið þjer
þá ekki? Og þjer hafið eyru, heyrið þjer þá ekki?
19 Og munið þjer ekki? Þegar jeg braut brauðin fimm
handa fimm þúsundunum, hversu margar karfir fullar
af brotnum brauðum tókuð þjer upp? Þeir segja við
20 hann: Tólf. Og þegar jeg braut þau sjö handa
fjórum þúsundunum, hversu margar fullar karfir af
brotnum brauðum tókuð þjer þá upp? Og þeir segja
21 við hann: Sjö. Og hann sagði við þá: Skiljið þjer
eigi enn?
22 Og þeir koma til Betsaída; og menn koma með
blindan mann til hans og biðja hann að snerta hann.
23 Og hann tók í hönd blinda manninum og leiddi hann
út úr þorpinu og hrækti í augu honum, lagði hendur
24 yfir hann, og spurði hann: Sjer þú nokkuð? Og
hann leit upp og mælti: Jeg sje mennina, því að jeg
25 sje þá, rjett eins og trje, á gangi. Síðan lagði hann aftur
hendur sínar yfir augu hans, og sjón hans varð hvöss,
26 og hann varð albata og sá alla hluti glögt. Og hann

sendi hann frá sjer heim til sín, og sagði: Þú mátt
ekki einu sinni fara inn í þorpið.
27 Og Jesús fór út og lærisveinar hans til þorpanna
í kringum Sesareu Filippí, og á leiðinni spurði hann
lærisveina sína og sagði við þá: Hvern segja menn
28 mig vera? Og þeir svöruðu honum, segjandi: Jó-
hannes skírara, og aðrir: Elías; en aðrir: einn af
29 spámönnunum. Og hann spurði þá: En hvern segið
þjer mig vera? Pjetur svaraði og segir við hann:
30 Þú ert Kristur. Og hann lagði ríkt á við þá, að
31 þeir segðu engum um sig. Og hann tók að kenna
þeim, að mannsins sonur ætti margt að líða og verða
útskúfaður af öldungunum og æðstu prestunum og
fræðimönnunum og verða deyddur, og rísa upp eftir
32 þrjá daga. Þetta sagði hann með berum orðum. Og
Pjetur tók hann á einmæli og fór að átelja hann.
33 En hann snerist við, og er hann sá lærisveina sína,
ávítaði hann Pjetur og segir: Haf þig á burt frá
mjer, Satan, því að eigi skynjar þú það, sem Guðs er,
34 heldur það, sem manna er. Og hann kallaði til
sín mannfjöldann, ásamt lærisveinum sínum, og
sagði við þá: Vilji einhver fylgja mjer, þá afneiti
hann sjálfum sjer, og taki upp kross sinn og fylgi
35 mjer; því að hver sem vill bjarga lífi sínu, skal
týna því; en hver sem týnir lífi sínu vegna mín og
36 fagnaðarerindisins, mun bjarga því. Því að hvað
stoðar það manninn, að vinna allan heiminn og
37 fyrirgjöra sálu sinni? Því að hvaða endurgjald
38 mundi maður gefa fyrir sálu sína? Því að hver
sem blygðast sín fyrir mig og mín orð hjá þessari
hórsömu og syndugu kynslóð, fyrir hann mun og

mannsins sonur blygðast sín, þegar hann kemur í
dýrð föður síns með heilögum englum.

9 Og hann sagði við þá: Sannlega segi jeg yður,
af þeim, er hjer standa, eru nokkrir, sem alls
eigi munu smakka dauðann, fyr en þeir sjá guðsríkið
komið með krafti.

2 Og eftir sex daga tekur Jesús þá Pjetur, Jakob og
Jóhannes með sjer og fer með þá eina saman upp á
hátt fjall, og hann ummyndaðist að þeim ásjáandi;
3 og klæði hans urðu skínandi, fannhvít, hvítari en
4 nokkur þófari á jörðu getur gjört. Og þeim birtist
Elías ásamt Móse, og voru þeir á tali við Jesúm.
5 Og Pjetur tók til máls og segir við Jesúm: Rabbí,
gott er að vjer erum hjer; og gjörum þrjár tjaldbúðir,
6 þjer eina, og Móse eina, og Elíasi eina. Því að eigi
vissi hann, hvað hann átti að segja, því að þeir urðu
7 mjög hræddir. Og ský kom, er skygði yfir þá, og
rödd kom út úr skýinu: Þessi er sonur minn, hinn
8 elskaði, hlýðið honum! Og er þeir litu í kringum
sig, sáu þeir alt í einu engan framar nema Jesúm
einn hjá sjer.

9 Og er þeir gengu niður af fjallinu, lagði hann
ríkt á við þá, að þeir segðu engum frá því, er þeir
höfðu sjeð, fyr en mannsins sonur væri risinn upp
10 frá dauðum. Og þeir geymdu orðið og spurðust á
sín í milli, hvað það væri, að rísa upp frá dauðum.
11 Og þeir spurðu hann segjandi: Fræðimennirnir
12 segja að Elías eigi fyrst að koma. Og hann sagði
við þá: Já, Elías kemur fyrst og færir alt í lag; og
hvernig er ritað um mannsins son, að hann skuli
13 líða margt og verða smáður? En jeg segi yður, að

Elías er kominn, og þeir hafa við hann gjört alt, er
þá fýsti, eins og ritað er um hann.
14 Og er þeir komu til lærisveinanna, sáu þeir
mannfjölda mikinn í kringum þá og fræðimenn, er
15 voru að þrátta við þá; og öllum mannfjöldanum
hnykti við, jafnskjótt og þeir sáu hann, og þeir
16 hlupu að og heilsuðu honum. Og hann spurði þá:
17 Um hvað eruð þjer að þrátta við þá? Og einn úr
mannfjöldanum svaraði honum: Meistari, jeg færði
18 til þín son minn, er hefir mállausan anda; og hvar
sem hann tekur hann, slengir hann honum, og hann
froðufellir og gnístir tönnum, og hann visnar upp.
Og jeg sagði við lærisveina þína, að þeir skyldu reka
19 hann út, en þeir gátu það ekki. En hann svarar
þeim og segir: Ó, þú vantrúaða kynslóð, hversu
lengi á jeg að vera hjá yður? Hversu lengi á jeg
20 að umbera yður? Færið hann til mín. Og þeir
færðu hann til hans, og er hann sá hann, teygði
andinn hann strax allan sundur og saman, og hann
21 fjell til jarðar, veltist um og froðufeldi. Og hann spurði
föður hans: Hve langt er síðan þetta kom yfir hann? Og
22 hann sagði: Frá því hann var barn. Og oft hefir hann
kastað honum bæði á eld og í vatn, til að tortíma
honum; en ef þú getur nokkuð, þá sjá aumur á
23 okkur og hjálpa okkur. En Jesús sagði við hann:
24 Ef þú getur! Trúuðum er alt mögulegt. Jafnskjótt
hrópaði faðir sveinsins og sagði: Jeg trúi; hjálpa
25 þú vantrú minni! Nú er Jesús sá, að mannfjöldi
þyrptist að, hastaði hann á hinn óhreina anda og
sagði við hann: Þú dumbi og daufi andi, jeg býð
þjer, far út af honum, og kom eigi framar inn í
26 hann! Og hann hrópaði og teygði hann sundur og

saman og fór út; og sveinninn varð sem nár, svo að
27 margir sögðu: Hann er skilinn við. En Jesús tók
um hönd hans og reisti hann upp, og hann reis á
28 fætur. Og þegar Jesús var kominn inn, spurðu læri-
sveinar hans hann einslega, segjandi: Vjer gátum
29 ekki rekið hann út. Og hann sagði við þá: Þess-
konar getur ekki farið út við neitt nema við bæn.
30 Og þeir fóru burt þaðan og lögðu leið yfir Galí-
leu, og hann vildi ekki að neinn skyldi vita það;
31 því að hann kendi lærisveinum sínum og sagði við
þá: Mannsins sonur verður framseldur í manna
hendur, og þeir munu lífláta hann, og er hann er
32 líflátinn, mun hann upp rísa eftir þrjá daga. En
þeir skildu ekki það sem hann sagði, og þorðu ekki
að spyrja hann.
33 Og þeir komu til Kapernaum, og er hann var
kominn inn í húsið, spurði hann þá: Hvað voruð
34 þjer að ræða um á leiðinni? En þeir þögðu, því að
þeir höfðu verið að tala um það á leiðinni hver við
35 annan, hver þeirra væri mestur. Og hann settist
niður og kallaði til sín þá tólf og segir við þá: Ef
einhver vill vera fremstur, þá sje hann síðastur allra
36 og þjónn allra. Og hann tók ungbarn og setti það
meðal þeirra, og tók það sjer í fang, og sagði við
37 þá: Hver sem meðtekur eitt af slíkum ungbörnum
í mínu nafni, hann meðtekur mig; en hver sem með-
tekur mig, hann meðtekur ekki mig, heldur þann
sem sendi mig.
38 Jóhannes sagði við hann: Meistari, vjer sáum
mann einn, sem í þínu nafni rak út anda, og vjer
bönnuðum honum það, af því að hann fylgdi oss ekki.

39 En Jesús sagði: Bannið honum það ekki; því að
enginn er sá, sem gjörir kraftaverk í mínu nafni,
40 og rjett á eftir getur talað illa um mig. Því að sá
41 sem ekki er á móti oss, hann er með oss; því að
hver sem gefur yður bikar vatns að drekka, af því
að þjer eruð Krists, sannlega segi eg yður, eigi mun
42 hann fara á mis við laun sín. Og hver sem hneykslar
einn af þessum smælingjum, sem á mig trúa, betra
væri honum að stór kvarnarsteinn lægi um háls
43 honum og honum væri varpað í hafið. Og ef hönd
þín hneykslar þig, þá sníð hana af; betra er þjer inn
að ganga handarvana til lífsins en að hafa báðar
hendurnar og fara til Gehenna, í hinn óslökkvandi
45 eld. Og ef fótur þinn hneykslar þig, þá sníð hann
af; betra er þjer höltum inn að ganga til lífsins
en að þú hafir báða fæturna og þjer verði
47 kastað í Gehenna. Og ef auga þitt hneykslar
þig, þá kasta því burt; betra er þjer eineygðum inn
að ganga í guðsríkið, en að þú hafir bæði augu og
48 þjer verði kastað í Gehenna, þar sem ormur þeirra
49 eigi deyr og eldurinn sloknar ekki. Því að sjerhver
50 mun eldi saltast. Saltið er gott; en ef saltið missir
seltu sína, með hverju viljið þjer krydda það? Hafið
salt í sjálfum yður, og haldið friði yðar á milli.

10 Og hann tók sig upp þaðan og kemur í Júdeu-
bygðir og hinumegin Jórdanar, og fjöldi fólks
kemur aftur saman til hans, og kendi hann þeim enn,
2 eins og hann var vanur. Og Farísear komu og
spurðu hann, hvort manni væri leyfilegt að skilja við
3 konu sína, og voru þeir að freista hans. En hann
svaraði og sagði við þá: Hvað hefir Móse boðið yður?

4 En þeir sögðu: Móse leyfði að rita skilnaðarskrá og
5 skilja við hana. En Jesús sagði við þá: Vegna
hjartaharðúðar yðar ritaði hann yður þetta boðorð;
6 en frá upphafi sköpunar gjörði hann þau karl og
7 konu. Fyrir því skal maður yfirgefa föður sinn og
8 móður, og búa við eiginkonu sína; og þau tvö skulu
verða eitt hold. Þannig eru þau ekki framar tvö,
9 heldur eitt hold. Það sem Guð því hefir tengt saman,
10 má eigi maður sundur skilja. Og inni í húsinu spurðu
11 lærisveinarnir hann aftur um þetta. Og hann segir
við þá: Hver sem segir skilið við konu sína og
gengur að eiga aðra, hann drýgir hór gegn henni;
12 og ef hún skilur við mann sinn og giftist öðrum, þá
drýgir hún hór.

13 Og menn færðu börn til hans, til þess að hann
14 skyldi snerta þau, en lærisveinarnir ávítuðu þá. En
er Jesús sá það, gramdist honum það og hann sagði
við þá: Leyfið börnunum að koma til mín og
bannið þeim það ekki, því að slíkra er guðsríkið.
15 Sannlega segi jeg yður: Hver sem ekki meðtekur
guðsríkið eins og barn, mun alls eigi inn í það koma.
16 Og hann tók þau sjer í fang, lagði hendur yfir þau
og blessaði þau.

17 Og er hann var kominn út á veginn, kom maður
hlaupandi, fjell á knje fyrir honum og spurði hann:
Góði meistari, hvað á jeg að gjöra, til þess að jeg
18 erfi eilíft líf? En Jesús sagði við hann: Hví kallar
þú mig góðan? Enginn er góður, nema einn, það er
19 Guð. Þú þekkir boðorðin: Þú skalt ekki morð
fremja; þú skalt ekki drýgja hór; þú skalt ekki
stela; þú skalt ekki bera ljúgvitni; þú skalt ekki

20 fjefletta; heiðra föður þinn og móður. En hann sagði
við hann: Meistari, alls þessa hefi jeg gætt frá æsku
21 minni. En Jesús horfði á hann og fjekk ást á hon-
um og sagði við hann: Eins er þjer vant; far þú
og sel allar eigur þínar og gef fátækum, og munt þú
22 fjársjóð eiga á himni; og kom og fylg mjer. En
hann varð dapur í bragði við þetta orð og fór burt
hryggur, því að hann átti miklar eignir.
23 Og Jesús leit í kring um sig og segir við læri-
sveina sína: Hversu torvelt mun verða fyrir þá,
24 sem auðæfin hafa, að ganga inn í guðsríkið! En
lærisveinarnir urðu forviða við orð hans, en Jesús
tók aftur til máls og segir við þá: Börn mín, hversu
torvelt er fyrir þá, sem treysta auðæfunum, að ganga
25 inn í guðsríkið! Auðveldara er fyrir úlfaldann að
ganga í gegnum nálaraugað, en fyrir ríkan mann að
26 ganga inn í guðsríkið. En þeir urðu öldungis for-
viða og sögðu við hann: Hver getur þá orðið hólp-
27 inn? Jesús horfði á þá og segir: Fyrir mönnum er
það ómögulegt, en ekki fyrir Guði; því að alt er
28 mögulegt fyrir Guði. Pjetur tók til máls og segir
við hann: Sjá, vjer höfum yfirgefið alt og fylgt þjer.
29 Jesús sagði: Sannlega segi jeg yður, enginn er sá,
er hefir yfirgefið heimili, eða bræður eða systur, eða
móður eða föður, eða börn eða akra, vegna mín og
30 vegna fagnaðarerindisins, að ekki fái hann hundrað-
falt, nú á þessum tíma heimili og bræður og systur
og mæður og börn og akra, ásamt ofsóknum,
31 og í hinum komandi heimi eilíft líf. En margir þeir,
er fyrstir eru, skulu verða síðastir, og hinir síðustu
fyrstir.

32 En þeir voru á leiðinni upp til Jerúsalem, og
Jesús gekk á undan þeim, og þeir voru utan við sig;
og þeir, sem fylgdust með, voru hræddir; og hann
tók aftur til sín þá tólf og fór að segja þeim, hvað
33 fram við sig ætti að koma: Sjá, vjer förum upp til
Jerúsalem; og mannsins sonur mun verða framseldur
æðstu prestunum og fræðimönnunum, og þeir munu
dæma hann til dauða, og framselja hann heiðingjun-
34 um. Og þeir munu hæða hann, og þeir munu hrækja
á hann, og þeir munu húðstrýkja hann og deyða, og
eftir þrjá daga mun hann upp rísa.

35 Þá ganga þeir til hans Jakob og Jóhannes, synir
Sebedeusar, og segja við hann: Meistari, okkur
langar til að þú gjörir fyrir okkur það sem við
36 ætlum að biðja um. En hann sagði við þá: Hvað
37 viljið þið að jeg gjöri fyrir ykkur? En þeir sögðu
við hann: Veit okkur að við fáum að sitja annar
til hægri handar þjer, og annar til vinstri handar, í
38 dýrð þinni. En Jesús sagði við þá: Þið vitið ekki,
hvers þið biðjið; getið þið drukkið bikarinn, sem jeg
39 drekk, eða skírst þeirri skírn, sem jeg skírist? En
þeir sögðu við hann: Það getum við. En Jesús
sagði við þá: Bikarinn, sem jeg drekk, munuð þið
drekka, og þið munuð skírast þeirri skírn, sem jeg
40 skírist; en að sitja mjer til hægri handar eða vinstri
handar, er ekki mitt að veita, heldur veitist það
41 þeim, sem það er fyrirbúið. Og er þeir tíu
heyrðu þetta, vaknaði hjá þeim gremja við Jakob
42 og Jóhannes. Og Jesús kallaði þá til sín og segir
við þá: Þjer vitið, að þeir, sem talið er að ríki yfir

þjóðunum, drotna yfir þeim, og höfðingjar þeirra láta
43 þá kenna á valdi sínu; en eigi er því svo farið yðar
á meðal, en sjerhver sá, er vill verða mikill yðar á
44 meðal, hann skal vera þjónn yðar; og sjerhver sá,
er vill yðar á meðal vera fremstur, hann skal vera
45 allra þræll. Því að mannsins sonur er ekki heldur
kominn til þess að láta þjóna sjer, heldur til þess að
þjóna, og til þess að gefa líf sitt til lausnargjalds
fyrir marga.
46 Og þeir koma til Jeríkó. Og þegar hann fór út
úr Jeríkó og lærisveinar hans og mikill mannfjöldi,
sat Bartímeus sonur Tímeusar, blindur beiningamaður,
47 við veginn. Og er hann heyrði, að það var Jesús
frá Nasaret, tók hann að hrópa og segja: Jesú, son-
48 ur Davíðs, miskunna þú mjer! Og margir höstuðu á
hann, til þess að hann skyldi þegja, en hann hróp-
aði því meir: Sonur Davíðs, miskunna þú mjer!
49 Og Jesús nam staðar og sagði: Kallið á hann. Og
þeir kalla á blinda manninn og segja við hann:
Vertu hughraustur, stattu upp, hann kallar á þig.
50 En hann kastaði frá sjer yfirhöfn sinni, stökk á fæt-
51 ur og kom til Jesú. Og Jesús svaraði honum og
sagði: Hvað viltu að jeg gjöri við þig? Og blindi
maðurinn sagði við hann: Meistari, það, að jeg fái
52 aftur sjón mína. En Jesús sagði við hann: Far þú
leiðar þinnar, trú þín hefir frelsað þig. Og jafnskjótt
fekk hann aftur sjónina og fylgdi honum áleiðis.

11 Og er þeir nálgast Jerúsalem og koma til Betfage
og Betaníu við Olíufjallið, sendir hann tvo af
2 lærisveinum sínum og segir við þá: Farið þið í
þorpið, sem gegnt ykkur er, og jafnskjótt er þið

komið inn í það, munuð þið finna fola bundinn, sem
enginn maður enn hefir komið á bak; leysið hann
3 og komið með hann. Og ef einhver segir við ykkur:
Hvers vegna gjörið þið þetta? Þá segið: Herrann
þarf hans við, og hann sendir hann strax aftur hing-
4 að. Og þeir fóru og fundu fola bundinn fyrir dyr-
5 um úti á strætinu og þeir leysa hann. Og nokkrir
af þeim, er þar stóðu, sögðu við þá: Hvers vegna
6 leysið þið folann? En þeir sögðu við þá, eins og
7 Jesús hafði sagt, og þeir ljetu þá fara. Og þeir færa
Jesú folann, og þeir leggja klæði sín yfir hann, og
8 hann settist á bak. Og margir breiddu yfirhafnir
sínar á veginn, aðrir strá, er þeir skáru af ökrunum.
9 Og þeir sem fóru á undan, og þeir, sem fylgdu á
eftir, kölluðu: Hósanna! blessaður sje sá, sem kemur
10 í nafni Drottins! Blessað sje hið komandi konungs-
ríki föður vors Davíðs! Hósanna í hæstum hæðum!
11 Og hann fór inn í Jerúsalem, inn í musterið, og
er hann hafði litið yfir alt, fór hann með þeim tólf
út til Betaníu, af því að kveld var komið.
12 Og morguninn eftir, er þeir voru farnir út úr
13 Betaníu, kendi hann hungurs. Og hann sá álengdar
laufgað fíkjutrje; fór hann þangað, ef hann kynni að
finna eitthvað á því; og er hann kom að því, fann
hann ekkert annað en lauf, því að ekki var fíknatíð.
14 Og hann tók til máls og sagði við það: Enginn
eti ávöxt af þjer framar að eilífu! Og lærisveinar
hans heyrðu þetta.
15 Og þeir koma til Jerúsalem, og hann gekk inn
í helgidóminn og tók til að reka út þá, sem seldu,
og þá, sem keyptu í helgidóminum, og hratt um

16 borðum víxlaranna og stólum dúfnasalanna. Og eigi
leyfði hann, að nokkur bæri ker um helgidóminn.
17 Og hann kendi og sagði við þá: Er ekki ritað:
*Hús mitt á að nefnast bænahús fyrir allar þjóðir?*
18 En þjer hafið gjört það að ræningjabæli. Og æðstu
prestarnir og fræðimennirnir heyrðu það, og velktu
fyrir sjer, hvernig þeir gætu ráðið hann af dögum,
því að þeim stóð ótti af honum, því að allur mann-
fjöldinn undraðist kenningu hans.
19 Og á kveldin fór hann út úr borginni.
20 Og er þeir gengu fram hjá um morguninn, sáu
21 þeir að fíkjutrjeð var visnað frá rótum. Þá mintist
Pjetur þess og segir við hann: Meistari, líttu á,
22 fíkjutrjeð, sem þú formæltir, er visnað. Og Jesús
23 svaraði og segir við þá: Trúið á Guð. Sannlega
segi jeg yður, hver sem segir við fjall þetta: Lyftist
þú upp og steypist þú í hafið! og efar ekki í hjarta
sínu, heldur trúir að svo fari sem hann mælir, hon-
24 um mun verða að því. Fyrir því segi jeg yður:
Hvers sem þjer biðjið og beiðist, þá trúið, að þjer
25 hafið öðlast það, og þjer munuð fá það. Og er þjer
standið og biðjist fyrir, þá fyrirgefið, ef yður þykir
nokkuð við einhvern, til þess að faðir yðar á himn-
um einnig fyrirgefi yður misgjörðir yðar.
27 Og þeir koma aftur til Jerúsalem, og er hann
var á gangi í musterinu, koma til hans æðstu prest-
28 arnir, fræðimennirnir og öldungarnir. Og þeir sögðu
við hann: Með hvaða valdi gjörir þú þetta? Eða
hver hefir gefið þjer þetta vald, að þú gjörir þetta?
29 En Jesús sagði við þá: Jeg vil leggja fyrir yður eina
spurningu, og svarið mjer, og þá mun jeg segja yður,

 

30 með hvaða valdi jeg gjöri þetta. Var skírn Jóhann-
esar frá himnum, eða frá mönnum? Svarið mjer!
31 Og þeir hugleiddu þetta með sjer og sögðu: Ef vjer
segjum: frá himnum, mun hann segja: Hví trúðuð
32 þjer honum þá ekki? En ættum vjer að segja: frá
mönnum? — það þorðu þeir ekki fyrir lýðnum, því
33 að allir hjeldu Jóhannes sannlega fyrir spámann. Og
þeir svöruðu Jesú og segja: Vjer vitum það ekki.
Og Jesús segir við þá: Þá segi jeg yður ekki held-
ur, með hvaða valdi jeg gjöri þetta.

12 Og hann tók að tala til þeirra í líkingum:
Maður nokkur plantaði víngarð, og hlóð garð
um hann og gróf fyrir vínþröng og gjörði turn, og
seldi hann á leigu víngarðsmönnum og fór úr landi.
2 Og á rjettum tíma sendi hann þjón sinn til víngarðs-
mannanna, til að taka við nokkru af ávöxtum vín-
3 garðsins hjá víngarðsmönnunum. Og þeir tóku hann
4 og börðu og sendu hann burt tómhentan. Og aftur
sendi hann til þeirra annan þjón; og þeir veittu hon-
5 um höfuðhögg og svívirtu hann. Og hann sendi
annan, og hann drápu þeir, og marga aðra: suma
6 börðu þeir og suma drápu þeir. Enn átti hann eftir
einn, elskaðan son; hann sendi hann síðastan til
þeirra, og sagði: Þeir munu bera virðingu fyrir syni
7 mínum. En þessir víngarðsmenn mæltu sín í milli:
Þetta er erfinginn, förum nú til og drepum hann, þá
8 fáum vjer arfinn. Og þeir tóku hann og drápu og
9 köstuðu honum út fyrir víngarðinn. Hvað mun nú
herra víngarðsins gjöra? Hann mun koma og tor-
tíma víngarðsmönnunum og gefa öðrum víngarðinn.
10 Hvort hafið þjer eigi heldur lesið þessa ritningu:

*Steinninn, er smiðirnir höfnuðu, sá hinn sami er orð-*
11 *inn að hyrningarsteini. Þetta stafaði frá Drotni, og*
12 *er undursamlegt fyrir augum vorum.* Og þeir vildu
taka hann höndum, en þeir voru hræddir við alþýð-
una, því að þeir skildu, að hann talaði líkinguna til
þeirra; og þeir yfirgáfu hann og gengu á burt.
13 Og þeir senda til hans menn úr flokki Faríse-
anna og Heródesar-sinna, til þess að þeir skyldu veiða
14 hann í orðum. Og þeir koma og segja við hann:
Meistari, vjer vitum að þú ert sannorður og hirðir
eigi um neinn, því að eigi fer þú að mannvirðing-
um, heldur kennir þú Guðs veg í sannleika; hvort
leyfist að gjalda keisaranum skatt, eða ekki? Eigum
15 vjer að gjalda, eða ekki gjalda? En hann sá undir-
hyggju þeirra og sagði við þá: Hví freistið þjer
mín? Færið mjer denar, að jeg sjái hann. En þeir
16 færðu honum hann. Og hann segir við þá: Hvers
mynd og yfirskrift er þetta? En þeir sögðu við hann:
17 Keisarans. En Jesús sagði við þá: Gjaldið keisar-
anum það sem keisarans er, og Guði það sem Guðs
er. Og þá furðaði stórlega á honum.
18 Og Saddúkear koma til hans, þeir er segja, að
upprisa sje ekki til. Og þeir spurðu hann segjandi:
19 Meistari, Móse reit oss það boð: Ef bróðir einhvers
deyr og lætur eftir sig konu og lætur eigi eftir sig
barn, þá gangi bróðir hans að eiga konu hans, og
20 geti bróður sínum afkvæmi. Nú voru sjö bræður, og
hinn fyrsti tók sjer konu, og er hann dó, ljet hann eigi
21 eftir afkvæmi. Og annar bróðirinn gekk að eiga konuna;
og hann dó og ljet eigi eftir sig afkvæmi; og hinn þriðji
22 sömuleiðis; og þeir sjö ljetu eigi eftir sig afkvæmi; síðast

23 allra dó einnig konan. Kona hvers þeirra verður hún nú
24 í upprisunni, því að þeir sjö áttu hana fyrir konu? Jesús
sagði við þá: Er það ekki af því sem þjer villist,
að þjer hvorki þekkið ritningarnar nje mátt Guðs?
25 Því að þegar menn rísa upp frá dauðum, munu þeir
hvorki kvænast nje giftast, heldur eru þeir eins og
26 englar á himnum. En að því er snertir hina dauðu,
að þeir rísa upp, hvort hafið þjer ekki lesið í bók
Móse, þar sem talað er um þyrnirunninn, hvernig Guð
talaði til hans og sagði: Jeg er Guð Abrahams og
27 Guð Ísaks og Guð Jakobs? Ekki er hann Guð dauðra,
heldur lifenda; þjer villist stórlega.

28 Og einn af fræðimönnunum kom og heyrði á orða-
skifti þeirra, og er honum skildist, að hann hafði svarað
þeim vel, spurði hann hann: Hvert boðorð er fyrst allra?
29 Jesús svaraði: Fyrst er þetta: Heyr, Ísrael, Drottinn Guð
30 vor, Drottinn er einn. Og þú skalt elska Drottin Guð
þinn af öllu hjarta þínu og af allri sálu þinni og af
31 öllum huga þínum og af öllum mætti þínum. Annað
er þetta: Þú skalt elska náunga þinn eins og sjálf-
32 an þig. Ekkert annað boðorð er þessum meira. Og
fræðimaðurinn sagði við hann: Sannlega sagðist þjer
vel, meistari, að hann er einn, og enginn er annar en
33 hann. Og að elska hann af öllu hjarta og af öllum
skilningi og af öllum mætti, og að elska náungann
eins og sjálfan sig, er meira en allar brennifórnir og
34 sláturfórnir. Og er Jesús sá að hann svaraði vitur-
lega, sagði hann við hann: Þú ert ekki fjarri guðs-
ríkinu. Og enginn þorði framar að spyrja hann.

35 Og Jesús tók til máls og sagði, er hann var að
kenna í helgidóminum: Hvernig geta fræðimenn-

36 irnir sagt, að Kristur sje sonur Davíðs? Sjálfur
Davíð sagði af heilögum anda: *Drottinn sagði við
minn Drottin: Set þig mjer til hægri handar, þangað*
37 *til jeg gjöri óvini þína að skör fóta þinna.* Sjálfur
Davíð kallar hann Drottin; og hvernig er hann þá
sonur hans? Og hinn mikli mannfjöldi hlýddi fús-
lega á hann.
38 Og í kenningu sinni sagði hann: Varið yður á
fræðimönnunum, sem vilja ganga í dragkyrtlum og
39 vilja láta heilsa sjer á torgunum, og kjósa sjer efstu
sætin í samkundunum og helstu sætin í veislunum,
40 þeir er eta upp heimili ekknanna, og flytja langar
bænir að yfirskini; þeir munu og fá því þyngri dóm.
41 Og hann settist niður gagnvart fjárhirslunni og
horfði á mannfjöldann leggja peninga í fjárhirsluna;
42 og margir auðmenn lögðu mikið. Og ekkja nokkur
fátæk kom og lagði tvo smápeninga, sem er einn
43 eyrir. Og hann kallaði til sín lærisveina sína og
sagði við þá: Sannlega segi jeg yður: þessi fátæka
ekkja lagði meira en allir þeir, er lögðu í fjárhirsl-
44 una; því að þeir lögðu allir af nægtum sínum, en hún
lagði af skorti sínum alt það sem hún átti, alla
björg sína.

13 Og er hann gekk út úr helgidóminum, segir
einn af lærisveinum hans við hann: Meistari,
2 líttu á, hvílíkir steinar og hvílík hús! Og Jesús sagði
við hann: Sjer þú þessi miklu hús? Ekki mun hjer
verða skilinn eftir steinn yfir steini, er eigi verði
rifinn niður.
3 Og er hann sat á Olíufjallinu gegnt helgidóminum,
spurðu þeir Pjetur og Jakob og Jóhannes og Andrjes

4 hann einslega: Seg þú oss, hvenær mun þetta verða og
hvert verður teiknið, er þetta alt á að fullkomnast?
5 En Jesús tók að segja þeim: Gætið þess, að enginn
6 leiði yður í villu. Margir munu koma í mínu nafni,
segjandi: Það er jeg, og marga munu þeir leiða í
7 villu. En er þjer heyrið hernað og hernaðartíðindi,
þá skelfist ekki; þetta hlýtur að koma fram; en ekki
8 er enn kominn endirinn. Því að þjóð mun rísa upp
gegn þjóð og konungsríki gegn konungsríki; landskjálft-
ar munu verða á ýmsum stöðum; hungursneyð mun
verða; þetta er upphaf hörmunganna.
9 En gætið þjer að sjálfum yður, því að menn
munu framselja yður á ráðsamkomur, og í samkund-
um munuð þjer barðir verða, og mín vegna munuð
þjer færðir verða fyrir landshöfðingja og konunga,
10 þeim til vitnisburðar. Og fagnaðarerindið verður
11 fyrst að vera pjedikað öllum þjóðum. Og er þeir
fara með yður til að framselja yður, þá verið ekki
áhyggjufullir fyrir fram um það, hvað þjer eigið að
tala, heldur talið það, sem yður verður gefið á þeirri
sömu stundu; því að það eruð ekki þjer sem talið,
12 heldur heilagur andi. Og bróðir mun framselja bróð-
ur sinn til dauða, og faðir barn sitt; og börn munu
rísa gegn foreldrum sínum og valda þeim dauða.
13 Og þjer munuð verða hataðir af öllum vegna nafns
míns; en sá sem stöðugur stendur alt til enda, hann
mun hólpinn verða.
14 En er þjer sjáið viðurstygð eyðingarinnar standa
þar, er ekki skyldi — lesarinn athugi það, — þá
15 flýi þeir, sem eru í Júdeu, til fjallanna. En sá, sem
er uppi á þakinu, fari ekki ofan, nje gangi inn, til

16 að sækja eitthvað úr húsi sínu. Og sá, sem er úti
á akri, hann snúi ekki aftur, til að taka yfirhöfn
17 sína. En vei þeim, sem þungaðar eru, og þeim, sem
18 börn hafa á brjósti, á þeim dögum. En biðjið, að
19 það verði ekki um vetur; því að þá daga mun verða
slík þrenging, að engin hefir þvílík verið frá upp-
hafi sköpunar, er Guð skapaði, alt til þessa, og mun
20 eigi verða. Og ef Drottinn hefði eigi stytt þá daga,
hefði ekkert hold komist af; en sakir hinna útvöldu,
er hann hefir útvalið, hefir hann stytt dagana. Og
21 ef einhver þá segir við yður: Sjá, hjer er Kristur,
22 eða sjá, þar, þá trúið ekki. Því að upp munu rísa fals-
kristar og falsspámenn, og þeir munu gjöra tákn og
undur, til að leiða afvega, ef verða mætti, hina út-
23 völdu. En hafið gætur á, sjá, jeg hefi sagt yður alt
fyrir.
24 En á þeim dögum, eftir þessa þrenging, mun
25 sólin sortna og tunglið eigi gefa skin sitt; og stjörn-
urnar munu hrapa af himni, og kraftarnir, sem eru í
26 himnunum, munu bifast. Og þá munu menn sjá manns-
ins son komandi í skýjum með miklum mætti og
27 dýrð. Og þá mun hann senda út englana, og hann
mun safna saman sínum útvöldum frá áttunum fjór-
um, frá endimörkum jarðar til endimarka himins.
28 En nemið líkinguna af fíkjutrjenu: þegar greinin
á því er orðin mjúk og fer að skjóta út laufum, þá
29 vitið þjer, að sumarið er í nánd. Þannig skuluð þjer
og vita, að þá er þjer sjáið þetta koma fram, er
30 hann í nánd, fyrir dyrum. Sannlega segi jeg yður: þessi
kynslóð mun ekki líða undir lok, áður en þetta alt
31 kemur fram. Himinn og jörð munu líða undir lok,

32 en orð mín munu ekki undir lok líða. En um þann
dag eða þá stund veit enginn, ekki einu sinni engl-
arnir á himni, nje sonurinn, heldur aðeins faðirinn.
33 Gætið yðar, vakið og biðjið, því að þjer vitið ekki,
34 hvenær tíminn er kominn. Svo sem maður, er dvel-
ur erlendis, hefir yfirgefið hús sitt og falið þjónum
sínum umráðin, hverjum sitt verk, og hefir lagt fyr-
35 ir dyravörðinn að vaka, — þá vakið, því að þjer
vitið ekki, hvenær húsbóndinn kemur, hvort að
kveldi eða um miðnætti, eða um hanagal, eða að
36 morgni, að hann hitti yður ekki sofandi, er hann
37 kemur skyndilega. En það sem jeg segi yður, það
segi jeg öllum: Vakið!

14 En tveim dögum síðar var hátíð páskanna og
ósýrðu brauðanna, og æðstu prestarnir og fræði-
mennirnir velktu fyrir sjer, hvernig þeir gætu höndlað
2 hann með svikum og ráðið hann af dögum. Því að
þeir sögðu: Ekki á hátíðinni, svo að eigi verði upp-
þot hjá lýðnum.

3 Og er hann var í Betaníu í húsi Símonar líkþráa,
kom kona, er hann sat yfir borðum; hafði hún ala-
basturs-buðk með ómenguðum, dýrum nardus-smyrsl-
um; og hún braut alabasturs-buðkinn og helti yfir
4 höfuð honum. En þar voru nokkrir, er gramdist
þetta með sjálfum sjer: Til hvers var verið að eyða
5 þannig smyrslunum? Því að þessi smyrsl hefði mátt
selja fyrir meira en þrjú hundruð denara og gefa
6 fátækum. Og þeir atyrtu hana. En Jesús sagði:
Látið hana í friði! Hvað eruð þjer að mæða hana?
7 Gott verk gjörði hún á mjer; því að jafnan hafið
þjer fátæka menn hjá yður, og er þjer viljið, getið

þjer gjört vel til þeirra, en mig hafið þjer ekki ávalt.
8 Hún gjörði það sem í hennar valdi stóð; hún hefir
fyrirfram smurt líkama minn til greftrunarinnar.
9 En sannlega segi jeg yður, hvar sem fagnaðarerindið
verður prjedikað um allan heiminn, mun þess og
getið verða, sem hún gjörði, til minningar um hana.
10 Og Júdas Ískaríot, einn af þeim tólf, fór til æðstu
11 prestanna, til þess að framselja þeim hann. En er
þeir heyrðu það, urðu þeir glaðir, og hjetu að gefa
honum fje; og hann leitaði færis til að framselja hann.
12 Og á fyrsta degi ósýrðu brauðanna, er menn
slátruðu páskalambinu, segja lærisveinar hans við
hann: Hvert vilt þú að vjer förum, til að búa þjer
13 páskamáltíðina? Og hann sendir tvo af lærisveinum
sínum og segir við þá: Farið til borgarinnar, og
ykkur mun mæta maður, sem ber vatnskrús; fylgið
14 honum; og hvar sem hann kann að fara inn, þá seg-
ið við húsráðandann: Meistarinn segir: Hvar er
herbergið mitt, þar sem jeg megi neyta páskalambs-
15 ins með lærisveinum mínum? Og hann mun sýna
ykkur loftsal mikinn, búinn hægindum, til reiðu, og
16 gjörið þar fyrirbúnað handa oss. Og lærisveinarnir
fóru og komu í borgina, og hittu fyrir alt eins og
hann hafði sagt þeim, og efndu til páskamáltíðarinnar.
17 Og er kveld var komið, kemur hann með þeim
18 tólf. Og er þeir sátu yfir borðum og mötuðust, sagði
Jesús: Sannlega segi jeg yður: Einn af yður, sem
19 etur með mjer, mun svíkja mig. Þeir tóku að hryggj-
ast og segja við hann, hver um sig: Er það jeg?
20 En hann sagði við þá: Það er einn af þeim tólf,
21 sá sem dýfir með mjer í fatið. Því að mannsins

sonur fer að sönnu hjeðan, eins og ritað hefir verið
um hann, en vei þeim manni, sem því veldur að
mannsins sonur verður framseldur; betra væri þeim
manni, að hann aldrei væri fæddur.
22 Og er þeir mötuðust, tók hann brauð, blessaði
og braut það, og gaf þeim og sagði: Takið, þetta
23 er líkami minn. Og hann tók bikar, og gjörði þakk-
24 ir og gaf þeim, og þeir drukku allir af honum. Og
hann sagði við þá: Þetta er blóð mitt, blóð sátt-
25 málans, sem út helt er fyrir marga. Sannlega segi
jeg yður, að hjeðan í frá mun jeg ekki drekka af
ávexti vínviðarins, til þess dags, er jeg drekk hann
nýjan í guðsríkinu.
26 Og er þeir höfðu sungið lofsönginn, fóru þeir út
til Olíufjallsins.
27 Og Jesús segir við þá: Þjer munuð allir hneyksl-
ast, því að ritað er: *Jeg mun slá hirðinn, og sauð-*
28 *irnir munu tvístrast.* En eftir að jeg er vakinn frá
29 dauðum, mun jeg fara á undan yður til Galíleu. En
Pjetur sagði við hann: Þótt jafnvel allir kunni að
30 hneykslast, þá skal jeg þó eigi. Og Jesús segir við hann:
Sannlega segi jeg þjer: í dag, á þessari nóttu, áður
en haninn galar tvisvar, muntu þrisvar afneita mjer.
31 En hann talaði því ákafar: Þó að jeg ætti að deyja
með þjer, mun jeg alls eigi afneita þjer; og á sama
hátt töluðu þeir einnig allir.
32 Og þeir koma í garð, er heitir Getsemane, og hann
segir við lærisveina sína: Setjist hjer, meðan jeg biðst
33 fyrir. Og hann tekur þá Pjetur og Jakob og Jóhannes með
34 sjer, og tók að skjálfa og titra. Og hann segir við þá: Sál

mín er sárhrygg alt til dauða; bíðið hjer og vakið.
35 Og hann gekk lítið lengra áfram, fjell til jarðar og bað,
ef það væri mögulegt, að sú stund liði fram hjá sjer.
36 Og hann sagði: Abba, faðir! alt er þjer mögulegt;
tak þennan bikar frá mjer; þó ekki sem jeg vil, held-
37 ur sem þú vilt. Og hann kemur og finnur þá sofandi;
og hann segir við Pjetur: Símon, sefur þú? gastu
38 ekki vakað eina stund? Vakið og biðjið, til þess að
þjer fallið ekki í freistni; andinn er að sönnu reiðu-
39 búinn, en holdið er veikt. Og enn vjek hann burt
40 og bað með sömu orðum. Og hann kom aftur og fann
þá sofandi, því að augu þeirra voru yfirkomin af
svefnþunga, og þeir vissu ekki, hverju þeir skyldu
41 svara honum. Og í þriðja sinn kemur hann og seg-
ir við þá: Sofið seinna og hvílist; nóg er sofið;
stundin er komin; sjá, mannsins sonur er framseldur
42 í hendur syndaranna. Standið upp, förum; sjá, sá
er í nánd, er mig svíkur.

43 Og jafnskjótt, meðan hann enn var að tala, kemur
Júdas, einn af þeim tólf, og með honum mannfjöldi,
með sverðum og bareflum, frá æðstu prestunum og
44 fræðimönnunum og öldungunum. En svikarinn hafði
gefið þeim merki og sagt við þá: Sá er jeg kyssi,
hann er það; handtakið hann og farið tryggilega
45 burt með hann. Og er hann kom, gengur hann þegar
46 að honum og segir: Meistari! og kysti hann. En
47 þeir lögðu hendur á hann og tóku hann. En einn
af þeim, sem hjá stóðu, brá sverði og hjó til þjóns
48 æðsta prestsins, og sneið af honum eyrað. Og Jesús
tók til máls og sagði við þá: Lögðuð þjer af stað
eins og á móti ræningja, með sverðum og bareflum,

49 til þess að handtaka mig? Daglega var jeg hjá yður
í musterinu og kendi, og þjer handtókuð mig ekki;
en þetta er fram komið, til þess að ritningarnar
50 rættust. Og þeir yfirgáfu hann allir og flýðu.
51 Og maður nokkur ungur fylgdist með honum;
hann var hjúpaður línklæði á berum sjer. Og þeir
52 leggja hönd á hann, en hann ljet eftir línklæðið og
flýði nakinn.
53 Og þeir færðu Jesúm til æðsta prestsins, og hjá
honum koma saman allir æðstu prestarnir og öld-
54 ungarnir og fræðimennirnir. Og Pjetur fylgdi hon-
um álengdar, alt inn í fordyri æðsta prestsins, og
hann sat hjá þjónunum og vermdi sig við logann.
55 En æðstu prestarnir og alt ráðið leitaði vitna gegn
56 Jesú, til að lífláta hann; og fundu engin. Því að
margir báru ljúgvitni í gegn honum, en framburði
57 þeirra bar ekki saman. Og nokkrir stóðu upp og
58 báru ljúgvitni gegn honum, segjandi: Vjer heyrðum
hann segja: Jeg mun brjóta niður musteri þetta, er
með höndum er gjört, og á þrem dögum reisa annað,
59 sem ekki er með höndum gjört. Og ekki bar þeim
60 heldur saman um þetta. Og æðsti presturinn stóð
upp á meðal þeirra og spurði Jesúm, segjandi: Svarar
61 þú alls engu? Hvað vitna þessir gegn þjer? En
hann þagði og svaraði alls engu. Enn spurði æðsti
presturinn hann og segir við hann: Ertu Kristur,
62 sonur hins blessaða? Og Jesús sagði: Jeg er; og
þjer munuð sjá mannsins son sitja til hægri handar
63 máttarins og koma í skýjum himins. En æðsti prest-
urinn reif klæði sín og segir: Hvað þurfum vjer nú
64 framar votta við? Þjer hafið heyrt lastmælið; hvað

líst yður? Og þeir dæmdu hann allir dauða sekan.
65 Og nokkrir tóku að hrækja á hann og hylja ásjónu
hans, og slá hann með hnefum og segja við hann:
Spáðu! Sömuleiðis tóku þjónarnir á móti honum með
stafshöggum.
66 Og er Pjetur var niðri í fordyrinu, kemur ein af
67 þernum æðsta prestsins; og er hún sjer Pjetur vera
að verma sig, horfir hún á hann og segir: Þú varst
68 einnig með manninum frá Nasaret, þessum Jesú. En
hann neitaði og sagði: Hvorki veit jeg nje skil,
hvað þú átt við. Og hann fór út í forgarðinn, og
69 haninn gól. Og þernan sá hann og tók aftur að
segja við þá, sem hjá stóðu: Þessi er einn af þeim.
70 En hann neitaði aftur. Og skömmu síðar sögðu aftur
þeir, er hjá stóðu, við Pjetur: Víst ertu einn af þeim;
71 því að þú ert líka Galíleumaður. En hann tók að
formæla sjer og sverja: Eigi þekki jeg þennan
72 mann, sem þjer eigið við. Og jafnskjótt gól haninn
í annað sinn; og Pjetur mintist orðsins, er Jesús
mælti við hann: Áður en haninn galar tvisvar,
muntu þrisvar afneita mjer. Og er honum kom það
til hugar, grjet hann.

15 Og strax um morguninn hjeldu æðstu prest-
arnir, með öldungunum og fræðimönnunum, og
alt ráðið ráðstefnu, bundu Jesúm, og fóru burt með
2 hann og framseldu hann Pílatusi. Og Pílatus spurði
hann: Ertu konungur Gyðinganna? Og hann svar-
3 aði og segir við hann: Svo er sem þú segir. Og
4 æðstu prestarnir báru á hann margar sakir. En
Pílatus spurði hann aftur og sagði: Svarar þú alls
5 engu? Sjá, hve þungar sakir þeir bera á þig. En

þeir hafa heyrt; en þessir hafa ekki rót, þeir er trúa
14 um stund og falla frá á reynslutíma. En það, er
fjell meðal þyrna, það eru þeir sem hafa heyrt, og
þeir fara og kefjast í áhyggjum og auðæfum og
15 munaði lífsins, og bera ekki þroskaðan ávöxt. En
það í góðu jörðinni, það eru þeir, sem heyrt hafa,
geyma orðið í vönduðu og góðu hjarta, og bera ávöxt
með stöðuglyndi.
16 En enginn sem kveikt hefir ljós, hylur það með
keri, eða setur það undir bekk, heldur setja menn
það í ljósastiku, til þess að þeir, sem inn koma, sjái
17 ljósið. Því að ekkert er leynt, sem ekki muni verða
opinbert, nje nokkuð hulið, sem ekki verði kunnugt
18 og komi í ljós. Gætið þess því, hvernig þjer heyrið;
því að sá sem hefir, honum mun gefið verða; og sá
sem ekki hefir, frá honum mun tekið verða einnig
það, sem hann ætlar sig hafa.
19 En móðir hans og bræður komu til hans, og þau
20 gátu ekki náð fundi hans vegna mannfjöldans. En
honum var sagt: Móðir þín og bræður þínir standa
21 fyrir utan og vilja finna þig. En hann svaraði og
sagði við þá: Móðir mín og bræður mínir eru þessir,
sem heyra Guðs orð og gjöra það.
22 En svo bar við einn daginn, að hann steig
sjálfur á skip og lærisveinar hans; og hann sagði
við þá: Förum til landsins hinumegin við vatnið.
23 Og þeir ljetu frá landi; en er þeir voru á siglingunni,
sofnaði hann. Þá sló stormhrinu niður á vatnið, svo
24 að fylti hjá þeim, og voru þeir hætt komnir. Þeir
fóru þá til hans, vöktu hann og sögðu: Meistari,
meistari! vjer förumst. En hann vaknaði, hastaði á

storminn og ölduganginn, svo að hann sefaðist, og
25 það varð logn. Og hann sagði við þá: Hvar er
trú yðar? En þeir urðu hræddir og undruðust þetta,
og sögðu hver við annan: Hver er þá þessi, að
hann jafnvel skipar vindum og vatni, og það hlýðir
honum?
26 Og þeir lentu við hjerað Gerasena, sem liggur
27 hinumegin gagnvart Galíleu. En er hann steig á
land, kom á móti honum maður nokkur úr borginni,
sem hafði anda; og langan tíma hafði hann ekki
verið í fötum, og hafðist ekki við í húsum, heldur í
28 gröfunum. En er hann sá Jesúm, æpti hann, fjell
fram fyrir hann og sagði með hárri raustu: Hvað
höfum við saman að sælda, Jesú, sonur hins æðsta
29 Guðs? Jeg bið þig, kvel þú mig ekki! Því að hann
bauð hinum óhreina anda að fara út af manninum.
Því að í langa tíma hafði hann dregið hann með sjer;
og hann hafði verið bundinn hlekkjum og fótfjötrum
og hafður í gæslu, og hann hafði slitið fótfjötrana og
30 verið rekinn af andanum í óbygðir. En Jesús spurði
hann: Hvað er nafn þitt? En hann sagði: Legíó;
31 því að margir andar höfðu farið inn í hann. Og
þeir báðu hann að skipa sjer ekki að fara í undir-
32 djúpið. En þar var stór svínahjörð á beit í fjallinu,
og þeir báðu hann að leyfa sjer að fara í þau, og
33 leyfði hann þeim það. En andarnir fóru út af mann-
inum og fóru í svínin, og hjörðin steyptist niður fyr-
34 ir þvergnípið í vatnið og kafnaði. En er hirðarnir
sáu það sem orðið var, flýðu þeir og fluttu fregnina
35 til borgarinnar og bygðanna. En menn fóru út að
sjá þennan atburð, og komu til Jesú og fundu mann-

inn, er andarnir höfðu farið út af, sitjandi klæddan
og heilvita við fætur Jesú, og urðu þeir mjög ótta-
36 slegnir. En þeir sem sjeð höfðu þetta, sögðu þeim
frá, hvernig sá, er andarnir voru í, hafði orðið heill.
37 Og alt fólkið í Gerasena hjeruðum bað hann að fara
burt frá þeim, því að þeir voru haldnir af miklum
38 ótta. Og hann steig á skip og fór til baka. En
maðurinn, sem andarnir höfðu farið út af, bað hann
að mega vera með honum; en hann ljet hann frá
39 sjer fara og mælti: Far þú aftur heim til þín og
seg þú frá, hversu mikið Guð hefir gjört fyrir þig.
Og hann fór og kunngjörði um alla borgina, hve
mikið Jesús hafði fyrir hann gjört.

40 En er Jesús kom aftur, tók mannfjöldinn vel á
móti honum, því að þeir höfðu allir verið að vænta
41 hans. Og sjá, maður kom, að nafni Jaírus, og var
hann forstöðumaður samkunduhússins; og hann fjell
42 til fóta Jesú og bað hann að koma heim til sín; því
að hann átti einkadóttur, hjer um bil tólf ára, og
lá hún fyrir dauðanum. En er hann var á leiðinni,
þrengdist mannfjöldinn að honum.

43 Og kona nokkur, er hafði haft blóðlát í tólf ár
og varið allri eigu sinni til lækna, en eigi getað
44 fengið lækningu hjá neinum, kom að baki honum
og snart fald yfirhafnar hans; stöðvaðist þá þegar í
45 stað blóðlát hennar. Og Jesús sagði: Hver var það,
sem snart mig? Og er allir synjuðu fyrir það, sagði
Pjetur og þeir sem með honum voru: Meistari,
46 mannfjöldinn þrengist að þjer og þrýstir á. En Jesús
sagði: Einhver snart mig, því jeg varð var við að
47 kraftur gekk út frá mjer. En er konan sá, að hún

duldist ekki, kom hún skjálfandi, fjell til fóta honum
og sagði frá frammi fyrir öllum lýðnum, fyrir hverja
sök hún hefði snortið hann, og hvernig hún hefði
48 læknast þegar í stað. En hann sagði við hana:
Dóttir, trú þín hefir frelsað þig; far þú í friði.
49 Er hann var enn að tala, kemur maður frá sam-
kundustjóranum og segir: Dóttir þín er látin, ómaka
50 ekki meistarann. En er Jesús heyrði þetta, svaraði
hann honum: Óttast þú ekki, trú þú einungis, og
51 mun hún heil verða. En er hann kom að húsinu,
leyfði hann engum að fara inn með sjer nema Pjetri,
Jóhannesi og Jakob og föður stúlkunnar og móður
52 hennar. En allir grjetu og syrgðu hana; en hann
sagði: Grátið ekki, því að hún er ekki dáin, heldur
53 sefur hún. Og menn hlógu að honum, því að þeir
54 vissu að hún var dáin. En hann tók í hönd henn-
55 ar, kallaði og sagði: Stúlka, rís þú upp! Og andi
hennar sneri aftur, og hún reis upp þegar í stað; og
56 hann bauð að gefa henni að eta. Og foreldrar henn-
ar urðu frá sjer numdir, en hann bauð þeim að segja
engum frá þessum atburði.

9 En hann kallaði saman þá tólf, og gaf þeim
vald og ráð yfir öllum öndum og til að lækna
2 sóttir. Og hann sendi þá út, til að prjedika Guðs
ríki og til þess að lækna sjúka, og hann sagði við
3 þá: Takið ekkert með til ferðarinnar, hvorki staf nje
mal nje brauð nje silfur, og ekki skuluð þjer hafa
4 tvo kyrtla. Og í hverju því húsi, er þjer gangið inn
í, þar skuluð þjer dvelja og þaðan skuluð þjer leggja
5 á stað. Og þar sem menn eigi skyldu taka á móti
yður, þá hristið dustið af fótum yðar, er þjer farið

6 úr þeirri borg, til vitnis gegn þeim. En þeir fóru
á stað og ferðuðust um þorpin, boðuðu fagnaðarerindið
og læknuðu alstaðar.
7 En Heródes fjórðungshöfðingi heyrði alt það,
sem gjörst hafði, og hann var mjög efablandinn; því
að sumir sögðu, að Jóhannes væri risinn upp frá
8 dauðum, en aðrir, að Elías væri kominn fram, og
sumir, að einn af hinum fornu spámönnum væri ris-
9 inn upp. Og Heródes sagði: Jóhannes hefi jeg látið
hálshöggva, en hver er þessi, sem jeg heyri slíka
hluti um? Og hann leitaði færis að sjá hann.
10 Og er postularnir voru komnir til baka, sögðu
þeir honum frá, hvað þeir hefðu gjört; og hann tók
þá með sjer og fór burt einslega til bæjar, er kallast
11 Betsaída. En er mannfjöldinn varð þess var, fylgdi
hann á eftir honum, og hann veitti þeim viðtöku og
talaði við þá um guðsríki, og læknaði þá, er lækn-
12 ingar þurftu. En degi tók að halla; komu þá þeir
tólf og sögðu við hann: Lát þú mannfjöldann fara
burt, til þess að þeir fari í þorpin og landsbygðina
hjer í kring og nátti sig og fái sjer mat, því að vjer
13 erum hjer á óbygðum stað. En hann sagði við þá:
Gefið þjer þeim að eta. Þeir mæltu þá: Vjer höf-
um ekki meira en fimm brauð og tvo fiska, nema
ef vjer eigum að fara og kaupa vistir handa öllu
14 þessu fólki. Því að það voru um fimm þúsundir
karlmanna. En hann sagði við lærisveina sína:
Látið þjer þá setjast niður í hópum, um fimtíu í
15 hverjum. Og þeir gjörðu svo, og ljetu þá alla setj-
16 ast niður. En hann tók fimm brauðin og fiskana
tvo, leit upp til himins, blessaði þau og braut þau

og fekk lærisveinunum, til að leggja fyrir mann-
17 fjöldann. Og þeir mötuðust allir og urðu mettir. Og
það var tekið upp, sem þeir höfðu afgangs, tólf karf-
ir af brotnum brauðum.

18 En svo bar við, er hann var einn saman á bæn,
að lærisveinar hans voru hjá honum, og spurði hann
19 þá og sagði: Hvern segir fólkið mig vera? En þeir
svöruðu og sögðu: Jóhannes skírara, aðrir Elías, og
aðrir, að einn af hinum fornu spámönnum sje risinn
20 upp. En hann sagði við þá: En þjer, hvern segið
þjer mig vera? Pjetur svaraði þá og sagði: Krist
21 Guðs. En hann lagði ríkt á við þá og bannaði þeim
22 að segja nokkrum þetta, og mælti: Mannsins syni
ber að líða margt og verða útskúfað af öldungunum
og æðstu prestunum og fræðimönnunum, og verða
23 deyddur og verða upp vakinn á þriðja degi. Og
hann sagði við alla: Vilji einhver fylgja mjer, þá
afneiti hann sjálfum sjer og taki upp kross sinn dag-
24 lega og fylgi mjer. Því hver sem vill bjarga lífi
sínu, mun týna því; en hver sem týnir lífi sínu mín
25 vegna, hann mun bjarga því. Því að hvað stoðar
það mann, að hafa unnið allan heiminn, og hafa
26 glatað eða fyrirgjört sjálfum sjer? Því hver sem
blygðast sín fyrir mig og mín orð, fyrir hann mun
mannsins sonur blygðast sín, þegar hann kemur í
27 dýrð sinni og föðursins og heilagra engla. En jeg
segi yður sannlega: af þeim, sem hjer standa, eru
nokkrir,sem alls ekki munu smakka dauðann, fyr en
þeir sjá guðsríkið.

28 Hjer um bil átta dögum eftir ræðu þessa bar svo
við, að hann tók með sjer Pjetur og Jóhannes og

29 Jakob, og fór upp á fjallið til að biðjast fyrir. Og
er hann var að biðjast fyrir, varð útlit ásjónu hans
30 annað, og klæði hans urðu hvít og ljómandi. Og sjá,
31 tveir menn voru að tala við hann, og voru það þeir
Móse og Elías, er sáust í ljóma og töluðu um burtför
hans, er fyrir honum lá að leiða til lykta í Jerúsalem.
32 En Pjetur og þeir, sem með honum voru, voru yfir-
komnir af svefni; en er þeir voru fullvaknaðir, sáu
þeir dýrð hans og þá tvo menn, er stóðu hjá honum.
33 Og svo bar við, er þeir skildust við hann, að Pjetur
mælti við Jesúm: Gott er að vjer erum hjer, meist-
ari; og gjörum nú þrjár tjaldbúðir, þjer eina, Móse
eina og Elíasi eina; en hann vissi ekki hvað hann
34 sagði. En er hann var þetta að mæla, kom ský og
skygði yfir þá, og urðu þeir hræddir, er þeir komu
35 inn í skýið. Og rödd kom út úr skýinu, segjandi:
36 Þessi er sonur minn hinn útvaldi, hlýðið honum. En
í því röddin kom, var Jesús einn. Og þeir þögðu
og sögðu á þeim dögum engum frá neinu af því, sem
þeir höfðu sjeð.

37 En svo bar við daginn eftir, er þeir fóru niður
af fjallinu, að mikill mannfjöldi kom á móti honum.
38 Og sjá, maður nokkur úr mannfjöldanum hrópaði og
sagði: Meistari, jeg bið þig að líta á son minn,
39 því að hann er einkabarn mitt. Og sjá, andi tekur
hann og hann æpir alt í einu upp, og hann teygir
hann, svo að hann froðufellir, og varla víkur hann
40 frá honum og lætur af að kvelja hann. Og jeg bað
lærisveina þína að reka hann út, en þeir gátu það
41 ekki. En Jesús svaraði og sagði: Ó, þú vantrúa og
rangsnúna kynslóð, hversu lengi á jeg að vera hjá

42 yður og umbera yður? Fær þú hingað son þinn. Og
rjett í því að hann var að koma, hreif andinn hann
og teygði hann sundur og saman. Hastaði þá Jesús
á hinn óhreina anda, og læknaði sveininn og gaf hann
43 aftur föður hans. En þeir urðu allir forviða yfir
hátign Guðs.

En er allir voru að undrast yfir öllu því, sem
44 hann gjörði, sagði hann við lærisveina sína: Festið
þessi orð í eyrum yðar; því að mannsins sonur mun
45 verða framseldur í manna hendur. En þeir skildu
ekki orð þetta, og það var hulið fyrir þeim, til þess
að þeir skynjuðu það ekki; og þeir voru hræddir við
að spyrja hann um orð þetta.

46 En sú hugsun kom upp meðal þeirra, hver þeirra
47 mundi vera mestur. En er Jesús sá hugsun hjartna
48 þeirra, tók hann barn og setti það hjá sjer og sagði
við þá: Hver sem veitir þessu barni viðtöku í mínu
nafni, hann veitir mjer viðtöku, og hver sem veitir
mjer viðtöku, hann veitir þeim viðtöku, er mig sendi;
því að sá sem minstur er meðal yðar allra, hann er
mikill.

49 En Jóhannes tók til máls og sagði: Meistari,
vjer sáum mann einn, sem í þínu nafni rak út
anda, og vjer bönnuðum honum það, af því hann
50 fylgir oss ekki. En Jesús sagði við hann: Bannið
það ekki, því að sá sem ekki er á móti yður, hann
er með yður.

51 En svo bar við, er fullnast tóku dagar upphafn-
ingar hans, að hann fastrjeð með sjer að halda beint
52 til Jerúsalem, og sendi sendimenn á undan sjer. Og
þeir fóru og komu inn í Samverja-þorp nokkurt, til

53 að gjöra fyrirbúnað handa honum. Og þeir veittu
honum ekki viðtöku, af því að hann var á leið til
54 Jerúsalem. En er lærisveinar hans, Jakob og Jó-
hannes, sáu það, sögðu þeir: Viltu, herra, að vjer
bjóðum að eldur skuli falla niður af himni og
55 tortíma þeim. En hann snerist við og ávítaði þá.
56 Og þeir fóru í annað þorp.
57 Og er þeir voru á ferð á veginum, sagði maður
nokkur við hann: Jeg vil fylgja þjer, hvert sem þú
58 svo fer. Og Jesús sagði við hann: Refar hafa greni
og fuglar himinsins hreiður, en mannsins sonur á
59 hvergi höfði sínu að að halla. En við annan sagði
hann: Fylg þú mjer! En hann mælti: Herra, leyf
60 mjer fyrst að fara og grafa föður minn. En hann
sagði við hann: Lát hina dauðu grafa sína dauðu,
61 en far þú og boða guðsríki. En annar var og, er
sagði: Jeg vil fylgja þjer, herra, en leyf mjer fyrst
62 að fara og kveðja þá, sem heima hjá mjer eru. En
Jesús sagði við hann: Enginn, sem leggur hönd sína
á plóginn og horfir aftur fyrir sig, er hæfur til guðs-
ríkis.

10 En eftir þetta útvaldi Drottinn aðra sjötíu og
sendi þá á undan sjer, tvo og tvo, í hverja þá
2 borg og stað, sem hann ætlaði að koma til. Og hann
sagði við þá: Uppskeran er mikil, en verkamenn-
irnir eru fáir; biðjið því herra uppskerunnar, að hann
3 sendi út verkamenn til uppskeru sinnar. Farið. Sjá,
4 jeg sendi yður eins og lömb á meðal úlfa. Hafið
ekki með fjegyrðil, ekki mal, ekki ilskó, og heilsið
5 engum á veginum! En hvar sem þjer komið inn í
6 hús, þá segið fyrst: Friður sje í húsi þessu. Og sje

þar nokkurt friðarbarn, mun friður yðar hvíla yfir
honum; en sje það ekki, mun hann hverfa til yðar
7 aftur. Verið kyrrir í því húsi, etið og drekkið það
sem þjer fáið hjá þeim, því að verður er verkamaðurinn
launa sinna. Ekki skuluð þjer flytja yður úr
8 einu húsi í annað. Og hvar sem þjer komið inn í
bæ, og menn veita yður viðtöku, þá neytið þess, er
9 fyrir yður verður sett; og læknið þá, sem þar eru
sjúkir, og segið þeim: Guðsríki er komið nálægt
10 yður. En hvar sem þjer komið í bæ, og menn veita
yður eigi viðtöku, þá farið út á strætin og segið:
11 Jafnvel dustið, sem loðir við fætur vora úr bæ yðar,
þurkum vjer af oss yður til handa; vitið samt þetta,
12 að guðsríki er komið í nánd. Jeg segi yður, að
bærilegra mun verða fyrir Sódómu á þeim degi en
13 fyrir þann bæ. Vei þjer, Korasín; vei þjer, Betsaída;
því að ef þau kraftaverk hefðu gjörð verið í Týrus
og Sídon, sem gjörst hafa í ykkur, mundu þeir fyrir
14 löngu hafa snúið sjer, sitjandi í sekk og ösku. Já,
bærilegra mun verða fyrir Týrus og Sídon í dóminum
15 um en fyrir ykkur. Og þú, Kapernaum! munt þú
verða hafin til himins? Til heljar mun þjer niður-
16 sökt verða. Sá sem hlýðir á yður, hlýðir á mig, og
sá sem fyrirlítur yður, fyrirlítur mig; en sá sem fyrirlítur
mig, fyrirlítur þann sem sendi mig.
17 En þeir sjötíu komu til baka með fögnuði og
sögðu: Herra, jafnvel andar eru oss undirgefnir í
18 þínu nafni. En hann mælti við þá: Jeg sá Satan
19 falla af himni, eins og eldingu. Sjá, jeg hefi gefið
yður vald til að stíga ofan á höggorma og sporðdreka
og yfir öllu óvinarins veldi, og ekkert skal

20 yður minsta mein gjöra. Gleðjist samt ekki yfir því,
að andarnir eru yður undirgefnir, en gleðjist yfir því,
að nöfn yðar eru innrituð á himnum.
21 Samstundis varð hann glaður í heilögum anda
og sagði: Jeg þakka þjer, faðir, herra himins og
jarðar, að þú hefir hulið þetta fyrir spekingum og
vitringum, og hefir auglýst það börnum. Já, faðir,
því að þannig varð það velþóknanlegt fyrir þjer.
22 Alt er mjer í vald gefið af föður mínum, og enginn
veit, hver sonurinn er, nema faðirinn, eða hver faðirinn er, nema sonurinn og sá, sem sonurinn vill
23 opinbera hann. Og hann sneri sjer til lærisveina
sinna og sagði við þá einslega: Sæl eru þau augu,
24 sem sjá það, sem þjer sjáið. Því að jeg segi yður, að
margir spámenn og konungar hafa viljað sjá það,
sem þjer sjáið, og sáu það ekki, og heyra það, sem
þjer heyrið, og heyrðu það ekki.
25 Og sjá, lögvitringur nokkur stóð upp, freistaði
hans og mælti: Meistari, hvað á jeg að gjöra, til
26 þess að eignast eilíft líf? En hann sagði við
hann: Hvað er skrifað í lögmálinu? Hvernig les þú?
27 En hann svaraði og sagði: *Elska skalt þú Drottin
Guð þinn af öllu hjarta þínu og af allri sálu þinni og
af öllum mætti þínum og af öllum huga þínum, og
28 náunga þinn eins og sjálfan þig.* En hann sagði við
hann: Þú svaraðir rjett; gjör þú þetta, og þá muntu
29 lifa. En hann vildi rjettlæta sjálfan sig og sagði við
30 Jesúm: Hver er þá náungi minn? Jesús svaraði og
sagði: Maður nokkur ferðaðist frá Jerúsalem niður
til Jerikó, og hann fjell á meðal ræningja, sem bæði
flettu hann klæðum og börðu hann og fóru síðan

31 burt og ljetu hann eftir hálfdauðan. En af hend-
ingu fór prestur nokkur niður veg þennan, og er
32 hann sá hann, gekk hann fram hjá. Svo fór og
Levíta einum: þegar hann kom til þess staðar og sá
33 hann, gekk hann einnig fram hjá. En Samverji
nokkur, er var á ferð, kom að honum, og er hann
34 sá hann, kendi hann í brjósti um hann, og gekk til
hans og batt um sár hans og helti í þau olíu og víni;
og hann setti hann upp á sinn eigin eyk og flutti
35 hann til gistihúss og bar umhyggju fyrir honum. Og
daginn eftir tók hann upp tvo denara og fekk þá
gestgjafanum og mælti: Al þú önn fyrir honum, og
hvað sem þú kostar meiru til, skal jeg borga þjer,
36 er jeg kem aftur. Hver af þessum þremur sýnist
þjer hafa verið náungi mannsins, sem fjell í hendur
ræningjanna? En hann mælti: Sá sem miskunnar-
37 verkið gjörði á honum. Og Jesús sagði við hann:
Far þú og gjör þú slíkt hið sama.

38 Er þeir nú voru á ferð, kom hann inn í þorp
nokkurt; en kona ein að nafni Marta tók á móti
39 honum í hús sitt. Og hún átti systur, er hjet María,
er jafnvel sat við fætur Drottins og hlýddi á orð
40 hans. En Marta var önnum kafin við mikla þjón-
ustu; og hún gekk til hans og mælti: Herra, hirðir
þú ekki um það, að systir mín lætur mig eina ganga
41 um beina? Seg þú henni þá að hjálpa mjer. En
Drottinn svaraði og sagði við hana: Marta, Marta,
þú ert áhyggjufull og mæðist í mörgu, en eitt er
42 nauðsynlegt. Því að María hefir valið góða hlutann,
sem ekki skal verða tekinn frá henni.

11 Og svo bar við, er hann var á stað nokkrum
að biðjast fyrir, að einn af lærisveinum hans
sagði við hann, þá er hann hafði lokið bænagjörð-
inni: Herra, kenn þú oss að biðja, eins og Jóhannes
2 kendi lærisveinum sínum. En hann sagði við þá:
Er þjer biðjist fyrir, þá segið: *Faðir, helgist nafn*
3 *þitt, komi ríki þitt, gef oss dag hvern vort daglegt*
4 *brauð; og fyrirgef oss syndir vorar, því að vjer sjálfir*
*fyrirgefum og öllum vorum skuldunautum; og leið oss*
*ekki í freistni.*
5 Og hann sagði við þá: Hver yðar skyldi eiga
vin og fara til hans um miðnætti og segja við hann:
6 Vinur, lánaðu mjer þrjú brauð; því að vinur minn
er kominn til mín úr ferð, og jeg hefi ekkert að setja
7 fram fyrir hann; og hinn skyldi svara inni fyrir og
segja: Gjörðu mjer ekki ónæði; dyrnar eru lokaðar,
og börn mín eru ásamt mjer komin í rúmið; jeg get
8 ekki farið á fætur, til að fá þjer þau? Jeg segi yður,
þótt hann fari ekki á fætur og fái honum þau sök-
um þess, að hann er vinur hans, þá mun hann samt
fara á fætur vegna áleitni hans, og fá honum svo
9 mikið sem hann við þarf. Og jeg segi yður: Biðjið,
og yður mun gefast; leitið, og þjer munuð finna;
10 knýið á, og fyrir yður mun upp lokið verða; því að
hver sá fær, sem biður, og sá finnur, sem leitar, og
11 fyrir þeim, sem á knýr, mun upp lokið verða. En
hver faðir yðar á meðal mundi gefa syni sínum stein,
er hann bæði um brauð? eða um fisk, þá gefa hon-
12 um höggorm í staðinn fyrir fisk? eða bæði hann um
13 egg, þá gefa honum sporðdreka? Ef nú þjer, sem
eruð vondir, hafið vit á að gefa börnum yðar góðar

gjaflr, hve miklu fremur mun þá faðirinn á himnum
gefa þeim heilagan anda, sem hann biðja.
14 Og hann rak út mállausan anda, og það varð,
er andinn var farinn út, að þá talaði mállausi maður-
15 inn. Og mannfjöldinn undraðist, en sumir þeirra
sögðu: Með fulltingi Belsebúls, andaforingjans, rekur
16 hann andana út. En aðrir freistuðu hans og kröfðust
17 af honum tákns af himni. En hann, er vissi hug-
renningar þeirra, sagði við þá: Hvert það ríki, sem
er sjálfu sjer sundurþykt, eyðist, og hús fellur á hús.
18 Og ef Satan er nú sjálfum sjer sundurþykkur, hvernig
fær ríki hans þá staðist? Því að þjer segið, að með
19 fulltingi Belsebúls reki jeg anda út. En sje það með
fulltingi Belsebúls að jeg rek út anda, með hvers
fulltingi út reka þá synir yðar þá? Þess vegna skulu
20 þeir vera dómendur yðar. En sje það með fingri
Guðs, að jeg rek anda út, þá er ríki Guðs þegar til
21 yðar komið. Þegar sterkur maður, alvopnaður, varð-
22 veitir hús sitt, þá er alt í friði, sem hann á; en komi
sá, sem sterkari er en hann, og sigri hann, tekur
hann öll hertýgi hans, er hann treysti á, og skiftir
23 herfanginu frá honum. Sá sem ekki er með mjer,
hann er á móti mjer; og sá sem ekki samansafnar
24 með mjer, hann sundurdreifir. Þegar óhreinn andi
er farinn út af manninum, fer hann um vatnslausa
staði og leitar hvíldar, og er hann enga finnur, þá
segir hann: Jeg vil hverfa aftur í hús mitt, þaðan
25 sem jeg fór; og er hann kemur, finnur hann það
26 sópað og prýtt. Þá fer hann og tekur með sjer sjö
aðra anda sjer verri, og þeir fara inn og setjast þar

að; og verður svo hið síðara þess manns verra en
hið fyrra.
27 En svo bar við, er hann var að tala þetta, að
kona nokkur í mannfjöldanum hóf upp rödd sína og
mælti við hann: Sæll er sá kviður, er þig bar,
28 og þau brjóst, en þú mylktir. En hann sagði: Já,
en sælir eru þeir, sem heyra Guðs orð og varð-
veita það.
29 En er mannfjöldinn þyrptist að honum, tók hann
að segja: Þessi kynslóð er vond kynslóð; hún heimtar
tákn, en henni skal ekki verða gefið neitt tákn nema
30 tákn Jónasar. Því að eins og Jónas varð tákn fyrir
Ninívemenn, svo mun og mannsins sonur verða það
31 fyrir kynslóð þessa. Suðurlanda-drotningin mun koma
fram í dóminum ásamt mönnum kynslóðar þessarar
og dæma þá seka, því að hún kom frá endimörkum
jarðarinnar, til að heyra speki Salómons; og sjá, hjer
32 er meira en Salómon. Ninívemenn munu rísa upp í
dóminum ásamt kynslóð þessari og dæma hana seka,
því að þeir gjörðu iðrun við prjedikun Jónasar; og
sjá, hjer er meira en Jónas.
33 Enginn, sem kveikt hefir á lampa, setur hann í
kjallara eða undir ker, heldur í ljósastiku, til þess
34 að þeir, sem inn koma, sjái ljósið. Auga þitt er
lampi líkamans; þegar auga þitt er heilt, þá er og
allur líkami þinn í birtu; en sje það sjúkt, þá er og
35 líkami þinn í myrkri. Gæt því þess, að ljósið, sem
36 í þjer er, sje ekki myrkur. Sje því líkami þinn
allur í birtu og enginn partur hans í myrkri, þá
verður hann allur í birtu, eins og þegar lampi skín
á þig með birtu sinni.

37 En er hann var að tala, bauð Farísei nokkur
honum að taka hjá sjer dagverð. Hann kom inn og
38 settist undir borð. En Faríseinn undraðist, er hann
sá að hann þvoði sjer eigi fyrst á undan máltíðinni.
39 En Drottinn sagði við hann: Þjer Farísear hreinsið
nú bikara yðar og föt að utan, en hið innra hjá yður
40 er fult af ráni og ilsku. Þjer heimskingjar, hefir
ekki sá sem gjörði hið ytra, einnig gjört hið innra.
41 En gefið í ölmusur það sem þar er í, og sjá, þá er
alt yður hreint.
42 En vei yður, þjer Farísear, því að þjer tíundið
myntu og rúðu og allar matjurtir, en gangið fram
hjá rjettinum og kærleikanum til Guðs; en þetta ber
43 að gjöra, og láta hitt eigi ógjört. Vei yður, þjer
Farísear, því að þjer hafið mætur á efstu sætum í
44 samkundunum og kveðjum á torgunum. Vei yður,
því að þjer eruð eins og grafir, sem ekki ber á, og
menn, sem ganga yfir þær, vita eigi af því.
45 En einn af lögvitringunum tók til máls og segir
við hann: Meistari, er þú segir þetta, þá meiðir þú
46 einnig oss. En hann mælti: Vei yður líka, þjer
lögvitringar, því að þjer íþyngið mönnum með þung-
bærum byrðum, og sjálfir snertið þjer byrðarnar ekki
47 með einum fingri. Vei yður, því að þjer byggið upp
legstaði spámannanna, en feður yðar líflétu þá.
48 Þannig eruð þjer vottar og samþykkið athafnir feðra
yðar, því að þeir líflétu þá, en þjer upp byggið leg-
49 staðina. Fyrir því hefir og speki Guðs sagt: Jeg
mun senda til þeirra spámenn og postula; og suma
50 af þeim munu þeir lífláta og ofsækja, til þess að af
þessari kynslóð verði krafið blóð allra spámannanna,

er úthelt hefir verið frá því er heimurinn var
51 grundvallaður, frá blóði Abels til blóðs Sakaríasar,
sem drepinn var milli altarisins og musterisins. Já,
jeg segi yður, þess mun krafist verða af þessari
52 kynslóð. Vei yður, þjer lögvitringar, því að þjer
hafið tekið burt lykil þekkingarinnar; sjálfir hafið
þjer ekki farið inn, og þá sem ætluðu að fara inn,
hindruðuð þjer í því.

53 Og er hann var farinn út þaðan, tóku fræði-
mennirnir og Faríseearnir að ganga hart að honum
54 og að fá hann til að tala um ýmislegt, leggjandi
snörur fyrir hann, til þess að veiða eitthvað af munni
hans.

12 Þegar nú mannfjöldinn var saman kominn í tug-
um þúsunda, svo að hver tróð annan undir, hóf
hann að tala til lærisveina sinna, fyrst og fremst:
2 Varist súrdeig Faríseanna, sem er hræsni. En ekkert
er það hulið, að ekki verði það opinbert, og ekkert
3 það leynt, að ekki verði það kunnugt. Því mun alt
það, sem þjer hafið talað í myrkri, verða heyrt í
ljósinu, og það sem þjer hafið hvíslað í herbergjum,
4 það mun kunngjört verða á þökum uppi. En jeg
segi yður, vinir mínir: Hræðist ekki þá, sem líkam-
ann deyða, og geta ekki að því búnu meira gjört.
5 En jeg skal sýna yður, hvern þjer eigið að hræðast;
hræðist hann, sem eftir að hann hefir líflátið, hefir
vald til að kasta í Gehenna; já, jeg segi yður, hræð-
6 ist hann. Eru ekki fimm spörvar seldir fyrir tvo
smápeninga? Og þó er ekki einn af þeim gleymdur
7 fyrir Guði. Og jafnvel hárin á höfði yðar eru öll
talin; óttist ekki, þjer eruð meira verðir en margir

8 spörvar. En jeg segi yður: hvern þann sem kannast
við mig fyrir mönnum, við hann mun og mannsins
9 sonur kannast fyrir englum Guðs. En þeim, sem
afneitar mjer fyrir mönnum, honum mun verða
10 afneitað fyrir englum Guðs. Og sjerhverjum sem
talar orð á móti mannsins syni, honum mun verða
það fyrirgefið; en þeim sem talar lastmæli gegn
heilögum anda, honum mun ekki fyrirgefið verða.
11 En þegar þeir fara með yður inn í samkunduhús sín
og fram fyrir höfðingja og valdsmenn, verið þá ekki
hugsjúkir, hvernig eða með hverju þjer eigið að
12 verja yður, eða hvað þjer eigið að segja; því að
heilagur andi mun kenna yður á sömu stundu, hvað
segja ber.

13 En einn af mannfjöldanum sagði við hann:
Meistari, seg þú bróður mínum að skifta með mjer
14 arfi okkar. En hann sagði við hann: Maður, hver
hefir sett mig fyrir dómara eða skiftaráðanda yfir
15 ykkur? Og hann sagði við þá: Gefið gætur og var-
ist alla ágirnd; því að einkis líf er innifalið í gnægð
16 þess, sem hann á. Og hann sagði þeim dæmisögu
þessa: Akur ríkismanns nokkurs hafði borið mikinn
17 ávöxt; og hann hugsaði með sjer og sagði: Hvað á
jeg nú að gjöra? því að jeg hefi ekki rúm, þar sem
18 jeg geti látið afurðir mínar. Og hann sagði: Þetta
skal jeg gjöra: rífa niður hlöður mínar og byggja
aðrar stærri, og þar vil jeg safna öllu korni mínu
19 og auðæfum saman. Og jeg skal segja við sálu mína:
Sál mín, þú hefir mikil auðæfi, geymd til margra
20 ára; hvíl þig nú, et og drekk og ver glöð. En Guð
sagði við hann: Heimskingi, á þessari nóttu verður

 

sál þín af þjer heimtuð, og hver fær þá það, sem þú
21 hefir aflað? Svo fer þeim, er safnar sjer fje, og ekki
er ríkur í Guði.
22 En hann sagði við lærisveina sína: Fyrir því
segi jeg yður: Verið ekki hugsjúkir fyrir lífinu,
hvað þjer eigið að eta; ekki heldur fyrir líkama yðar,
23 hverju þjer eigið að klæðast; því að lífið er meira
vert en fæðan, og líkaminn meira en klæðnaðurinn.
24 Gætið að hröfnunum, því að hvorki sá þeir nje upp-
skera og ekki hafa þeir forðabúr nje hlöðu, og þá
fæðir Guð; hve miklu eruð þjer fremri fuglunum!
25 Og hver af yður getur með áhyggjum sínum aukið
26 alin við hæð sína? Fyrst þjer nú ekki einu sinni
getið það sem minst er í varið, hvers vegna eruð
27 þjer þá áhyggjufullir um alt hitt? Gætið að lil-
junum, hversu þær vaxa; þær vinna ekki og spinna
ekki heldur; en jeg segi yður: jafnvel Salómon í allri
dýrð sinni var ekki svo skrýddur sem ein af þeim.
28 Þegar Guð nú skrýðir svo grasið á vellinum, sem
stendur í dag og á morgun verður kastað í ofn,
hversu miklu fremur mun hann klæða yður, þjer lít-
29 iltrúaðir! Og þjer, spyrjið ekki um, hvað þjer skul-
ið eta og hvað þjer skulið drekka, og verið eigi
30 efablandnir; því að eftir þessu öllu sækjast heiðing-
jarnir í heiminum; en faðir yðar veit, að þjer þarfn-
31 ist þessa. Leitið heldur ríkis hans, og þetta mun
32 veitast yður að auki. Ver ekki hrædd, þú litla hjörð,
því að föður yðar hefir þóknast að gefa yður ríkið.
33 Seljið eigur yðar og gefið ölmusu, útvegið yður pyng-
jur, sem ekki fyrnast, ótæmandi fjársjóð á himnum,
þar sem þjófur kemur eigi nálægt og mölur ekki

34 heldur veldur skemdum; því að hvar sem fjársjóður
yðar er, þar mun og hjarta yðar vera.
35 Lendar yðar sjeu gyrtar, og lampar yðar logandi;
36 og verið sjálfir líkir mönnum, er bíða eftir húsbónda
sínum, hve nær hann muni fara úr brúðkaupinu, til
þess að ljúka jafnskjótt upp fyrir honum, er hann
37 kemur og ber að dyrum. Sælir eru þeir þjónar, sem
húsbóndinn finnur vakandi, er hann kemur. Sannlega
segi jeg yður, hann mun binda belti um sig,
láta þá setjast við borð og fara til og þjóna þeim.
38 Finni hann þá svo, hvort sem hann kemur um aðra
eða þriðju næturvöku, þá eru þessir þjónar sælir.
39 En þetta vitið þjer, að ef húsbóndinn hefði vitað, á
hverri stundu þjófurinn mundi koma, þá mundi hann
hafa vakað og ekki látið brjótast inn í hús sitt.
40 Verið þjer og viðbúnir, því að mannsins sonur kemur
á þeirri stundu sem þjer ekki ætlið.
41 En Pjetur mælti: Herra, segir þú líkingu þessa
42 til vor eða til allra? Og Drottinn mælti: Hver er
þá hinn dyggi og hygni ráðsmaður, sem húsbóndi
hans mun setja yfir hjú sín, til að úthluta þeim á
43 rjettum tíma skamti þeirra? Sæll er sá þjónn, er
húsbóndi hans finnur breyta þannig, er hann kemur.
44 Sannlega segi jeg yður, að hann mun setja hann yfir
45 allar eigur sínar. En ef sá þjónn segir í hjarta sínu:
Það dvelst, að húsbóndi minn komi, og tekur að
berja vinnumennina og vinnukonurnar, og bæði eta
46 og drekka og verða ölvaður, þá mun húsbóndi þess
þjóns koma á þeim degi, sem hann væntir ekki, og
á þeirri stundu, sem hann veit ekki af, og höggva
hann sundur og láta hann fá hlutskifti með hinum

47 ótrúu. En sá þjónn, sem veit vilja húsbónda síns,
og hefir ekki viðbúnað nje gjörir vilja hans, mun
48 barinn mörgum höggum. En sá, sem ekki veit hann,
en hefir gjört það, sem verðskuldar högg, mun verða
barinn fáum höggum. En af sjerhverjum, sem mikið
er gefið, mun mikils verða krafist, og af þeim, sem
mikið hefir verið í hendur selt, verður þess meira
heimtað.

49 Jeg er kominn til að varpa eldi á jörðina, og
50 hversu vildi jeg að hann væri þegar kveiktur! En
jeg hefi skírn að skírast, og hversu angistarfullur er
51 jeg, þangað til henni er lokið! Ætlið þjer, að jeg sje
kominn til að gefa frið á jörðunni? Nei, segi jeg
52 yður, heldur sundurþykki. Því að upp frá þessu
munu fimm vera í einu húsi sundurþykkir, þrír á
53 móti tveimur og tveir á móti þremur. Þeir munu
verða sundurþykkir, faðir við son og sonur við föður,
móðir við dóttur og dóttir við móður sína, tengda-
móðir við tengdadóttur sína og tengdadóttir við
tengdamóður sína.

54 Og hann sagði einnig við fólkið: Þá er þjer
sjáið ský draga upp í vestri, segið þjer jafnskjótt:
55 Það kemur regn; og það verður svo. Og er þjer
sjáið sunnanvind blása, þá segið þjer: Það mun
56 verða steikjandi hiti; og það verður. Þjer hræsnarar,
þjer hafið vit á að dæma um útlit jarðarinnar og
himinsins; en þennan tíma, hvernig er því varið, að
57 þjer skulið ekki hafa vit á að dæma um hann? Og
hví dæmið þjer ekki jafnvel af sjálfum yður, hvað
58 rjett sje? Því að þegar þú fer með mótstöðumanni
þínum til valdsmanns, þá kostaðu á veginum kapps

um að skilja sáttur við hann, til þess að hann dragi
þig ekki fyrir dómarann, og dómarinn mun afhenda
þig fangaverðinum, og fangavörðurinn mun varpa
59 þjer í fangelsi. Jeg segi þjer, þú munt alls ekki
komast út þaðan, fyr en þú hefir borgað jafnvel hinn
síðasta eyri.

13 En um sama leyti voru nokkrir viðstaddir, er
sögðu honum frá Galíleumönnunum, hverra blóði
2 Pílatus hafði blandað við fórnir þeirra. Og hann
svaraði og sagði við þá: Haldið þjer að þessir
Galíleumenn hafi verið syndarar fremur öllum öðr-
um Galíleumönnum, af því að þeir hafa orðið fyrir
3 þessu? Nei, segi jeg yður, en ef þjer gjörið ekki
4 iðrun, munuð þjer allir fyrirfarast á líkan hátt. Eða
þeir átján, sem turninn fjell yfir í Sílóam og varð að
bana, haldið þjer að þeir hafi verið sekir fremur
5 öllum þeim mönnum, sem í Jerúsalem búa? Nei,
segi jeg yður, en ef þjer gjörið ekki iðrun, munuð
þjer allir fyrirfarast á sama hátt.

6 Og hann sagði þessa dæmisögu: Maður nokkur
átti fíkjutrje plantað í víngarði sínum, og hann kom
7 og leitaði ávaxtar á því og fann ekki. Hann sagði
þá við víngarðsmanninn: Sjá, nú hefi jeg í þrjú ár
komið og leitað ávaxtar á fíkjutrje þessu og ekki
fundið; högg þú það upp, hvers vegna á það einnig
8 að gjöra jörðina arðlausa fyrir mjer? En hann
svaraði og sagði við hann: Herra, lát það vera enn
þetta árið, þar til jeg hefi grafið um það og borið að
9 áburð, ef það skyldi bera ávöxt framvegis; en verði
það ekki, þá höggur þú það upp.

10 Og hann var að kenna í einu af samkunduhús-
11 unum á sabbatsdegi; og sjá, þar var kona, er haldin
hafði verið af sjúkleiks anda í átján ár; hún var
12 krept og gat alls eigi rjett sig upp. En er Jesús sá
hana, kallaði hann til hennar og sagði við hana:
13 Kona, þú ert orðin laus við sjúkleika þinn! Og hann
lagði hendur yfir hana, og jafnskjótt rjettist hún upp
14 og lofaði Guð En samkundustjórinn, sem líkaði illa,
að Jesús læknaði á sabbatsdegi, tók til máls og sagði
við fólkið: Það eru sex dagar, sem menn eiga að
vinna á, komið því á þeim og látið lækna yður, og
15 ekki á hvíldardegi. En Drottinn svaraði honum og
sagði: Hræsnarar, leysir ekki sjerhver yðar á
hvíldardegi naut sitt eður asna af stalli og leiðir til
16 vatns? Og kona þessi, sem er dóttir Abrahams og
Satan hefir haldið í fjötrum, og það í átján ár,
átti hún ekki að vera leyst úr fjötrum þessum á
17 hvíldardegi? Og er hann sagði þetta, urðu allir
mótstöðumenn hans sjer til minkunar, og alt fólkið
gladdist yfir öllum þeim dásemdarverkum, er hann
gjörði.

18 Hann sagði því: Hverju er guðsríki líkt? Og
19 við hvað á jeg að líkja því? Líkt er það mustarðs-
korni, sem maður tók og setti í jurtagarð sinn; og
það óx og varð að trje, og fuglar himinsins hreiðr-
20 uðu sig í greinum þess. Og aftur sagði hann: Við
21 hvað á jeg að líkja guðsríki? Líkt er það súrdegi,
er kona tók og faldi í þrem mælum mjöls, þangað
til það sýrðist alt saman.

22 Og hann fór um borgir og þorp og kendi, og
23 hann hjelt áleiðis til Jerúsalem. En einhver sagði

við hann: Herra, eru það fáir, sem hólpnir verða?
24 Og hann sagði við þá: Kostið kapps um að komast
inn um þröngu dyrnar; því að margir, segi jeg yður,
25 munu leitast við að komast inn og ekki geta. Frá
þeim tíma er húsbóndinn er upp staðinn og hefir
lokað dyrunum, og þjer takið að standa fyrir utan
og berja á dyrnar, segjandi: Herra, ljúk þú
upp fyrir oss! þá mun hann svara og segja við yður:
26 Jeg þekki yður ekki, hvaðan þjer eruð. Þá munuð
þjer taka að segja: Vjer höfum etið og drukkið
fyrir augum þjer, og á strætum vorum kendir þú.
27 Og hann mun segja: Jeg segi yður, jeg veit ekki
hvaðan þjer eruð; farið frá mjer, allir ranglætisiðk-
28 endur! Mun þar þá verða grátur og gnístran tanna,
er þjer sjáið Abraham, Ísak og Jakob og alla spá-
29 mennina í guðsríki, en yður útrekna. Og menn
munu koma frá austri og vestri, og frá norðri og
30 suðri og sitja til borðs í guðsríkinu. Og sjá, til eru
síðastir, er verða munu fyrstir, og til eru fyrstir, er
verða munu síðastir.
31 Á sömu stundu komu nokkrir Farísear og sögðu
við hann: Far þú og hald á burt hjeðan, því að
32 Heródes ætlar að drepa þig. Og hann sagði við þá:
Farið og segið ref þessum: Sjá, jeg rek anda út og
fullgjöri lækningar í dag og á morgun, og á þriðja
33 degi mun jeg ljúka mjer af. Samt sem áður ber
mjer að halda ferð minni áfram í dag og á morgun
og daginn þar eftir; því að það hæfir ekki, að spámað-
34 ur bíði dauða annarstaðar en í Jerúsalem. Jerúsalem,
Jerúsalem! þú sem líflætur spámennina og grýtir
þá, sem sendir eru til þín, hversu oft hefi jeg viljað

saman safna börnum þínum, eins og hæna ungum
35 sínum undir vængi sjer, og þjer vilduð ekki. Sjá,
hús yðar skal yður eftir skilið verða. En jeg segi
yður: Þjer munuð alls ekki sjá mig, þangað til þjer
segið: *Blessaður sje sá, er kemur í nafni Drottins.*

14 Og svo bar við, er hann kom á hvíldardegi í
hús eins af höfðingjum Faríseanna til máltíðar,
2 að þeir höfðu gætur á honum. Og sjá, frammi fyrir
3 honum stóð maður nokkur vatnssjúkur. Og Jesús tók
til máls og talaði til lögvitringanna og Faríseanna
og sagði: Er leyfilegt að lækna á hvíldardegi eða
4 ekki? En þeir þögðu. Og hann tók á honum og
5 læknaði hann og ljet hann burt fara. Og hann
mælti til þeirra: Nú fellur asni eða naut einhvers
yðar í brunn, mun hann ekki jafnskjótt draga það
6 upp á hvíldardegi? Og þeir gátu engu svarað til
þessa.

7 Og hann sagði þeim, er boðnir voru, líkingu, er
hann tók eftir, hvernig þeir völdu sjer hefðarsætin,
8 og mælti til þeirra: Þegar þjer er boðið af ein-
hverjum til brúðkaups, þá set þig ekki í hefðarsæti,
til þess að ekki fari svo, ef maður fremri þjer að
9 virðingu skyldi vera boðinn af honum, að sá komi,
sem bauð þjer og honum, og segi við þig: Gef þú
þessum manni rúm! og farir þú þá með kinnroða að
10 taka hið ysta sæti. Heldur far þú, er þjer er boðið,
og set þig í hið ysta sæti, til þess að þegar sá kem-
ur, sem bauð þjer, segi hann við þig: Vinur, flyt
þig hærra upp! Mun þjer þá virðing veitast frammi
11 fyrir öllum þeim, er sitja til borðs með þjer. Því
að sjerhver, sem upp hefur sjálfan sig, hann mun

niðurlægjast, og sá sem niðurlægir sjálfan sig, hann
mun upp hafinn verða.
12 Og hann sagði einnig við þann, er honum hafði
boðið: Þegar þú heldur miðdegisverð eða kvöldverð,
bjóð þú þá hvorki vinum þínum, nje bræðrum þín-
um nje ættingjum þínum, ekki heldur ríkum ná-
grönnum þínum, til þess að þeir bjóði þjer ekki
13 aftur, og þú fáir endurgjald. En þegar þú gjörir
heimboð, þá bjóð þú fátækum, vanheilum, höltum
14 og blindum; og þá munt þú verða sæll, þar eð
þeir hafa ekkert að endurgjalda þjer með; því
að þjer mun verða endurgoldið í upprisu hinna rjett-
látu.
15 En er einn af þeim, er til borðsins sátu, heyrði
þetta, sagði hann við hann: Sæll er sá, sem etur
16 brauð í guðsríki. En hann sagði við hann: Maður
nokkur gjörði mikla kvöldmáltíð og bauð mörgum.
17 Og er matmálstími var kominn, sendi hann þjón
sinn, til að segja þeim, er boðnir voru: Komið, því
að alt er þegar tilbúið. Og þeir tóku allir í einu
18 hljóði að afsaka sig. Hinn fyrsti sagði við hann:
Jeg hefi keypt akur, og er mjer nauðsyn á að fara
19 og líta á hann; jeg bið þig, haf mig afsakaðan. Og
annar sagði: Jeg hefi keypt fimm pör akneyta, og
fer jeg nú að reyna þau; jeg bið þig, haf mig
20 afsakaðan. Og annar sagði: Jeg hefi gengið að eiga
21 konu, og þess vegna get jeg ekki komið. Og þjónn-
inn kom og kunngjörði herra sínum þetta. Þá reidd-
ist húsbóndinn og sagði við þjón sinn: Far þú
skjótlega út á stræti og götur borgarinnar og fær þú
inn hingað fátæka og vanheila og blinda og halta.

22 Og þjónninn sagði: Herra, það er gjört, sem þú
23 hefir fyrir skipað, og enn er rúm. Og herrann sagði
við þjóninn: Far þú út á göturnar og að girðing-
unum og þrýstu þeim til að koma inn, til þess að
24 hús mitt verði fult. Því jeg segi yður, að enginn af
mönnum þeim, er boðnir voru, skal smakka kvöld-
máltíð mína.
25 En mikill fjöldi fólks var honum samferða; og
26 hann sneri sjer við og sagði við þá: Ef einhver
kemur til mín og hatar ekki föður sinn og móður og
konu og börn og bræður og systur, og jafnvel einnig
sitt eigið líf, hann getur ekki verið lærisveinn minn.
27 Hver, sem ekki ber sinn eiginn kross og fylgir mjer
28 eftir, getur ekki verið lærisveinn minn. Því að hver
af yður, er ætlar að reisa turn, sest eigi fyrst niður
og reiknar kostnaðinn, hvort hann hafi það, sem þarf
29 til að fullgjöra hann; til þess að eigi fari svo, að
þegar hann er búinn að leggja grundvöllinn, en getur
ekki lokið við smíðið, þá fari allir, sem það sjá, að
30 spotta hann og segja: Maður þessi fór að byggja, en
31 gat ekki lokið við það. Eða hvaða konungur fer í
hernað, til að berjast við annan konung, og sest eigi
fyrst niður og ræður við sig, hvort hann er fær um
með tíu þúsundum að mæta þeim, sem kemur á móti
32 honum með tuttugu þúsundir? Að öðrum kosti mun
hann senda sendimenn til hins, meðan hann er enn
33 langt í burtu, og spyrja um friðarkostina. Þannig
getur þá enginn af yður, er eigi sleppir öllu, sem
34 hann á, verið lærisveinn minn. Saltið er að vísu
gott, en ef saltið sjálft dofnar, með hverju á þá að
35 krydda það? Það er þá hvorki hæfilegt á jörð nje

í áburðarhaug; menn kasta því út. Hver, sem eyru
hefir að heyra, hann heyri!

15 En allir tollheimtumenn og bersyndugir nálg-
2 uðust hann, til að hlýða á hann. En bæði
Faríseearnir og fræðimennirnir mögluðu og sögðu:
Þessi maður tekur að sjer bersynduga og samneytir
þeim.
3 Og hann talaði til þeirra þessa líkingu og sagði:
4 Hver maður af yður, er á hundrað sauði og týnir
einum af þeim, skilur ekki þá níutíu og níu eftir í
óbygðinni og fer eftir þeim er týndur er, þangað til
5 hann finnur hann? Og er hann hefir fundið hann,
6 leggur hann hann glaður á herðar sjer; og er hann
kemur heim, kallar hann saman vini sína og nágranna
og segir við þá: Samgleðjist mjer! því að jeg hefi
7 fundið sauðinn minn, sem týndur var. Jeg segi yður,
þannig mun verða gleði á himnum yfir einum synd-
ugum, sem gjörir iðrun, fremur en yfir níutíu og níu
rjettlátum, er ekki þurfa iðrunar við.
8 Eða hvaða kona, er á tíu drökmur og týnir einni
drökmu, kveikir eigi á lampa, sópar húsið og leitar
9 vandlega, þangað til hún finnur hana? Og er hún
hefir fundið hana, kallar hún saman vinkonur sínar
og grannkonur og segir: Samgleðjist mjer! því að
10 jeg hefi fundið drökmuna, sem jeg týndi. Þannig, segi
jeg yður, verður gleði frammi fyrir englum Guðs yfir
einum syndugum, er gjörir iðrun.
11 Og hann sagði: Maður nokkur átti tvo sonu.
12 Og hinn yngri þeirra sagði við föður sinn: Faðir,
gef mjer þann hluta fjárins, sem kemur í minn hlut.
13 Og hann skifti eign sinni með þeim. Og eigi mörg-

um dögum síðar tók yngri sonurinn alt saman og
ferðaðist burt í fjarlægt land; og þar sóaði hann fje
14 sínu í óhófsömum lifnaði. En er hann hafði eytt öllu,
kom mikil hungursneyð í því landi og hann tók að
15 líða skort. Fór hann þá og rjeðst til borgara eins í
því landi; og hann sendi hann út á búgarða sína, til
16 að gæta svína; og girntist hann þá að seðja sig á
baunum þeim, er svínin átu; og enginn gaf honum
17 neitt. En er hann kom til sjálfs sín, sagði hann:
Hversu margir daglaunamenn hjá föður mínum hafa
18 gnægð matar, en jeg ferst hjer í hungri! Jeg vil taka
mig upp og fara til föður míns og segja við hann:
Faðir, jeg hefi syndgað móti himninum og fyrir þjer;
19 jeg er ekki framar verður að heita sonur þinn. Lát
mig vera eins og einn af daglaunamönnum þínum.
20 Og hann tók sig upp og fór til föður síns. En er
hann var enn þá langt í burtu, sá faðir hans hann
og kendi í brjósti um hann, hljóp og fjell um háls
21 honum og kysti hann. En sonurinn sagði við hann:
Faðir, jeg hefi syndgað móti himninum og fyrir þjer;
22 jeg er ekki framar verður að heita sonur þinn. En
faðirinn sagði við þjóna sína: Komið fljótt með bestu
skikkjuna og færið hann í, dragið hring á hönd hans
23 og skó á fætur honum; og komið með alikálfinn og
24 slátrið, og vjer skulum eta og vera kátir, því að
þessi sonur minn var dauður, og er lifnaður aftur;
hann var týndur, og er fundinn. Og tóku menn nú
25 að verða kátir. En sonur hans hinn eldri var á akri,
og er hann kom og nálgaðist húsið, heyrði hann
26 samsöng og dans. Og hann kallaði á einn af
27 piltunum og spurði, hvað um væri. Og hann sagði

við hann: Bróðir þinn er kominn, og faðir þinn
hefir slátrað alikálfinum, af því að hann fekk hann
28 aftur heilan. En hann reiddist og vildi ekki fara
29 inn. Og faðir hans fór út og lagði að honum. En
hann svaraði og sagði við föður sinn: Sjá, í svo
mörg ár hefi jeg nú þjónað þjer og aldrei breytt út
af boðum þínum, og mjer hefir þú aldrei gefið kiðl-
ing, svo að jeg gæti glatt mig með vinum mínum;
30 en er þessi sonur þinn, sem sóað hefir eigum þínum
með skækjum, er kominn, þá slátraðir þú fyrir hann
31 alikálfinum. En hann sagði við hann: Sonur minn,
32 þú ert alt af hjá mjer, og alt mitt er þitt. En það
var ástæða til að vera glaður og fagna, því að þessi
bróðir þinn var dauður, og er lifnaður aftur, og hann
var týndur, og er fundinn.

16 En hann sagði einnig við lærisveinana: Það var
maður nokkur auðugur, er hafði ráðsmann;
og þessi maður var sakaður við hann um það, að
2 hann sóaði eigum hans. Og hann kallaði á hann og
sagði við hann: Hvað er þetta, er jeg heyri um þig?
Gjör þú reikningsskap ráðsmensku þinnar, því að
3 þú getur ekki lengur haft ráðsmenskuna. En ráðs-
maðurinn sagði með sjálfum sjer: Hvað á jeg að
gjöra, fyrst húsbóndi minn tekur ráðsmenskuna af mjer?
Jeg megna ekki að grafa, en skammast mín fyrir að
4 biðja ölmusu. Jeg veit, hvað jeg skal gjöra, til þess
að þeir taki við mjer í hús sín, er jeg verð settur frá
5 ráðsmenskunni. Og hann kallaði á hvern og einn
af skuldunautum húsbónda síns, og sagði við hinn
6 fyrsta: Hversu mikið skuldar þú húsbónda mínum? En
hann sagði: Hundrað kvartil af olíu. En hann mælti

við hann: Tak brjef þitt og set þig niður og
7 skrifa sem skjótast fimtíu. Síðan sagði hann við
annan: En hversu mikið skuldar þú? Og hann
sagði: Hundrað tunnur hveitis. Hann segir við hann:
8 Tak þú brjef þitt og skrifa þú áttatíu. Og húsbóndinn
hrósaði rangláta ráðsmanninum fyrir það, að hann
hefði breytt svo hyggilega, því að börn þessa heims
eru hygnari gagnvart sinni kynslóð en börn ljóssins.
9 Og jeg segi yður: Gjörið yður vini með mammóni
ranglætisins, til þess að þeir, þegar hann þrýtur, taki
10 við yður í hinar eilífu tjaldbúðir. Sá sem er trúr í
smáu, er einnig trúr í stóru, og sá sem er ranglátur
11 í smáu, er og ranglátur í stóru. Ef þjer því ekki
hafið verið trúir í hinum rangláta mammóni, hver
12 mun þá trúa yður fyrir sannri auðlegð? Og ef þjer
hafið ekki verið trúir í því, sem aðrir eiga, hver mun
13 þá gefa yður það, sem er yðar eigið? Enginn þjónn
getur þjónað tveimur herrum, því að annaðhvort mun
hann hata annan og elska hinn, eða aðhyllast annan
og lítilsvirða hinn. Þjer getið ekki þjónað Guði og
mammóni.

14 En Farísearnir, sem voru menn fjegjarnir, heyrðu
15 alt þetta, og hæddust þeir þá að honum. Og hann
sagði við þá: Þjer eruð mennirnir, sem rjettlætið
sjálfa yður í augsýn mannanna, en Guð þekkir hjörtu
yðar; því að það sem er hátt meðal manna, er við-
16 urstygð í augsýn Guðs. Lögmálið og spámennirnir
náðu alt til Jóhannesar; síðan er fagnaðarboðskapur-
inn um guðsríki prjedikaður, og hver maður þrengir
17 sjer inn í það með valdi. En auðveldara er að him-
inn og jörð líði undir lok en að hið minsta stafstrik

18 lögmálsins gangi úr gildi. Hver sem segir skilið við
konu sína og gengur að eiga aðra, drýgir hór,
og hver sem gengur að eiga konu, sem skilin er við
mann, drýgir hór.
19 En það var maður nokkur ríkur, er klæddist
purpura og dýru líni og lifði hvern dag í dýrðlegum
20 fagnaði. En fátækur maður nokkur, er Lasarus hjet,
hlaðinn kaunum, hafði verið lagður við fordyr hans;
21 og girntist hann að seðja sig af því, er fjell af borði
ríka mannsins, og jafnvel hundar komu og sleiktu
22 sár hans. En svo bar við, að fátæki maðurinn dó
og að hann var borinn af englunum í skaut Abra-
hams; en ríki maðurinn dó einnig og var grafinn.
23 Og er hann hóf upp augu sín í helju, þar sem
hann var í kvölum, sjer hann Abraham álengdar og
24 Lasarus í skauti hans. Og hann kallaði og sagði:
Faðir Abraham, miskunna þú mjer og send Lasarus,
að hann dýfi fingurgómi sínum í vatn og kæli tungu
25 mína, því jeg kvelst í þessum loga. En Abraham
sagði: Minstu þess, sonur, að þú hlaust þín gæði
meðan þú lifðir, og Lasarus á sama hátt hið vonda,
26 en nú er hann hjer huggaður, en þú kvelst. Og auk
alls þessa er á meðal vor og yðar mikið djúp stað-
fest, til þess að þeir, sem vilja fara hjeðan yfir til
yðar, geti það ekki, og að menn komist ekki þaðan
27 yfir til vor. En hann sagði: Þá bið jeg þig, faðir,
28 að þú sendir hann í hús föður míns, því að jeg á
fimm bræður, til þess að hann beri vitni fyrir þeim,
til þess að þeir komi ekki líka í þennan kvalastað.
29 En Abraham segir: Þeir hafa Móse og spámennina,
30 hlýði þeir þeim. En hann sagði: Nei, faðir Abra-

ham, en ef einhver frá hinum dauðu kæmi til þeirra,
31 þá mundu þeir gjöra iðrun. En hann sagði við hann:
Ef þeir ekki hlýða Móse og spámönnunum, munu
þeir ekki heldur láta sannfærast, þótt einhver rísi
upp frá dauðum.

17 En hann sagði við lærisveina sína: Ómögu-
legt er annað en að hneykslanir komi, en vei
2 þeim, er þeim veldur. Betra væri honum að kvarn-
arsteinn lægi um háls honum og að honum væri
varpað í hafið en að hann hneyksli einn af þessum
3 smælingjum. Hafið gát á sjálfum yður. Ef bróðir
þinn syndgar, þá ávíta hann, og ef hann iðrast, þá
4 fyrirgef honum. Og ef hann syndgar á móti þjer
sjö sinnum á dag og kemur sjö sinnum aftur til þín
og segir: Jeg iðrast, þá áttu að fyrirgefa honum.
5 Og postularnir sögðu við Drottin: Auk oss trú.
6 En Drottinn sagði: Ef þjer hafið trú eins og must-
arðskorn, gætuð þjer sagt við mórberjatrje þetta:
Ríf þig upp með rótum og gróðurset þig í hafinu;
7 og það mundi hlýða yður. En hver af yður sem
hefir þjón, er plægir jörð eða gætir fjár, mun segja
við hann, er hann kemur inn af akrinum: Kom
8 þegar í stað og set þig til borðs? Mun hann ekki
heldur segja við hann: Bú þú eitthvað til kvöld-
verðar fyrir mig, og gyrð þig og þjóna mjer, meðan
jeg et og drekk, og eftir það getur þú etið og drukkið?
9 Mun hann þakka þjóninum fyrir að hann gjörði það
10 sem boðið var? Sömuleiðis skuluð einnig þjer, er
þjer hafið gjört alt sem yður var boðið, segja: Ónýt-
ir þjónar erum vjer; vjer höfum gjört það eitt, sem
vjer vorum skyldir til að gjöra.

11 Og svo bar við, er hann var á ferð til Jerúsal-
12 em, að leið hans lá milli Samaríu og Galíleu. Og
er hann kom inn í þorp nokkurt, mættu honum tíu
13 menn líkþráir, er stóðu langt frá. Og þeir hófu upp
raust sína og sögðu: Jesú, meistari, miskunna þú oss!
14 Og er hann leit þá, sagði hann við þá: Farið og
sýnið yður prestunum. Og svo bar við, er þeir fóru,
15 að þeir urðu hreinir. En einn af þeim sneri aftur,
er hann sá, að hann var heill orðinn, og lofaði Guð
16 með hárri raustu, og fjell á ásjónu sína að fótum
17 Jesú og þakkaði honum; og hann var Samverji. En
Jesús svaraði og sagði: Urðu ekki þeir tíu hreinir?
18 Hvar eru þeir níu? Voru engir, sem sneru aftur, til
þess að gefa Guði dýrðina, nema þessi útlendingur?
19 Og hann sagði við hann: Statt upp og far leiðar
þinnar; trú þín hefir gjört þig heilan.

20 En er hann var aðspurður af Faríseunum, hve-
nær guðsríki mundi koma, svaraði hann þeim og
sagði: Guðsríki kemur ekki þannig, að á það verði
21 bent; og ekki munu menn segja: Sjá, það er hjer,
eða það er þar; því sjá, guðsríki er hið innra í yður.

22 Og hann sagði við lærisveinana: Dagar munu
koma, er þjer munuð þrá að sjá einn af dögum
23 mannsins sonar, og þjer munuð ekki sjá hann. Og
menn munu segja við yður: Sjá, hann er þar, sjá,
hann er hjer; farið þá ekki burt nje fylgið þeim.
24 Því að eins og eldingin, er hún leiftrar úr einni átt
undir himninum, skín í annari átt undir himninum,
25 eins mun mannsins sonur verða á degi sínum. En
áður hlýtur hann að líða margt og verða útskúfaður
26 af kynslóð þessari. Og eins og var á dögum Nóa,

 

27 svo mun og verða á dögum mannsins sonar. Menn
átu, drukku, kvæntust og giftust alt til þess dags, er
Nói gekk inn í örkina, og flóðið kom og tortímdi þeim
28 öllum. Sömuleiðis, eins og var á dögum Lots: menn
átu, drukku, keyptu, seldu, plöntuðu og reistu hús.
29 En á þeim degi, er Lot fór úr Sódómu, rigndi eldi
og brennisteini af himni og tortímdi þeim öllum.
30 Eins mun verða á þeim degi, er mannsins sonur
31 opinberast. Sá sem á þeim degi er staddur uppi á
þaki og á muni sína í húsinu, hann fari ekki ofan
til að taka þá; og sömuleiðis snúi sá, sem er á akri,
32 ekki aftur. Minnist konu Lots. Hver sem reynir að
33 ávinna líf sitt, mun týna því, en hver sem týnir því,
34 mun varðveita það. Jeg segi yður: á þeirri nóttu
munu tveir vera í einni hvílu; annar mun verða
35 tekinn, og hinn eftir skilinn. Tvær munu mala sam-
36 an; önnur mun verða tekin, en hin eftir skilin. Og
þeir svara og segja við hann: Hvar, herra? En
hann sagði við þá: Þar sem hræið er, þar munu
og ernirnir safnast.

18 Og hann sagði þeim dæmisögu um það, að
þeir ættu stöðugt að biðja og ekki þreytast,
2 og mælti: Í borg nokkurri var dómari, sem ekki
óttaðist Guð og skeytti ekki um nokkurn mann.
3 En í borg þeirri var ekkja, og hún kom til hans og
mælti: Lát þú mig ná rjetti yfir mótstöðumanni
4 mínum. En hann vildi það ekki um hríð. En síðan
sagði hann við sjálfan sig: Þótt jeg óttist ekki Guð
5 nje skeyti um nokkurn mann, þá vil jeg samt láta
ekkju þessa ná rjetti sínum, vegna þess að hún
gjörir mjer ónæði, til þess að hún sje ekki ávalt að

6 koma og kvelja mig. Og Drottinn sagði: Heyrið,
7 hvað rangláti dómarinn segir. Og mun þá Guð ekki
láta sína útvöldu ná rjetti sínum, þá er hrópa til
8 hans dag og nótt, og er hann seinlátur við þá? Jeg
segi yður: hann mun láta þá ná rjetti sínum skjót-
lega. Alt um það, mun þá mannsins sonur finna
trúna á jörðunni, er hann kemur?
9 En hann sagði líka dæmisögu þessa við nokkra,
sem treystu sjálfum sjer, að þeir væru rjettlátir, og
10 fyrirlitu aðra: Tveir menn gengu upp í helgidóm-
inn, til að biðjast fyrir; annar var Farísei og hinn
11 tollheimtumaður. Faríseinn stóð og baðst þannig
fyrir með sjálfum sjer: Guð, jeg þakka þjer, að jeg
er ekki eins og aðrir menn, ræningjar, óráðvandir,
hórkarlar eða jafnvel eins og þessi tollheimtumaður.
12 Jeg fasta tvisvar í viku, jeg geld tíund af öllu, sem
13 jeg eignast. En tollheimtumaðurinn stóð langt frá,
og vildi ekki einu sinni hefja augu sín til himins,
heldur barði sjer á brjóst og sagði: Guð, ver þú
14 mjer syndugum líknsamur! Jeg segi yður: þessi mað-
ur fór rjettlættur heim til sín fremur en hinn; því
að sjerhver sem upp hefur sjálfan sig, mun niður-
lægjast, en sá sem niðurlægir sjálfan sig, mun upp
hafinn verða.
15 Og menn færðu jafnvel ungbörnin til hans, til
þess að hann snerti þau. En er lærisveinarnir sáu
16 það, ávítuðu þeir þá. En Jesús kallaði þau til sín
og mælti: Leyfið börnunum að koma til mín, og
bannið þeim það eigi; því að slíkra er guðsríkið.
17 Sannlega segi jeg yður: hver sem ekki meðtekur
guðsríkið eins og barn, mun alls eigi inn í það koma.

18 Og höfðingi nokkur spurði hann og sagði: Góði
meistari, hvað á jeg að gjöra, til þess að jeg erfi ei-
19 líft líf? En Jesús sagði við hann: Hví kallar þú
mig góðan? Enginn er góður, nema einn, það er
20 Guð. Þú þekkir boðorðin: *Þú skalt ekki drýgja hór;*
*þú skalt ekki morð fremja; þú skalt ekki stela; þú*
*skalt ekki bera ljúgvitni; heiðra föður þinn og móður.*
21 En hann sagði: Alls þessa hefi jeg gætt frá æsku
22 minni. En er Jesús heyrði það, sagði hann við hann:
Enn er þjer eins vant: sel þú allar eigur þínar og
skift þeim meðal fátækra, og munt þú fjársjóð eiga
23 á himnum; og kom og fylg mjer. En er hann heyrði
þetta, varð hann mjög hryggur, því að hann var
24 auðugur mjög. En er Jesús sá hann, sagði hann:
Hversu torvelt mun verða fyrir þá, sem auðæfin
25 hafa, að ganga inn í guðsríkið! Því að auðveldara
er fyrir úlfaldann að ganga gegnum nálaraugað en
26 fyrir ríkan mann að ganga inn í guðsríkið. En þeir
er heyrðu það, sögðu: Hver getur þá orðið hólpinn?
27 En hann mælti: Það sem ómögulegt er fyrir mönn-
28 um, er mögulegt fyrir Guði. Og Pjetur sagði: Sjá,
29 vjer höfum yfirgefið vort eigið og fylgt þjer. En
hann sagði við þá: Sannlega segi jeg yður, að eng-
inn er sá, sem hefir yfirgefið heimili eða konu eða
30 bræður eða foreldra eða börn vegna guðsríkisins, að
hann fái það ekki margfalt aftur á þessum tíma og
í hinum komandi heimi eilíft líf.

31 En hann tók þá tólf til sín og sagði við þá:
Sjá, vjer förum upp til Jerúsalem, og mun þá alt
það, sem skrifað er af spámönnunum, fullgjörast á
32 mannsins syni. Því að hann mun verða framseldur

heiðingjunum, og hann mun verða hæddur, og honum
mun verða misþyrmt, og það mun verða hrækt á
33 hann; og þeir munu húðstrýkja hann og lífláta, og á
34 þriðja degi mun hann upp rísa. — Og þeir skildu
ekkert af þessu, og þetta orð var þeim hulið, og þeir
skynjuðu ekki það, sem sagt hafði verið.
35 En svo bar við, er hann nálgaðist Jeríkó, að
blindur maður nokkur sat við veginn og beiddist
36 ölmusu. Og er hann heyrði, að fjöldi fólks fór fram
37 hjá, spurði hann, hvað þetta væri. En honum var
38 sagt, að Jesús frá Nasaret færi hjá. Og hann hróp-
aði og sagði: Jesú, sonur Davíðs, miskunna mjer!
39 En þeir sem á undan fóru, höstuðu á hann, til þess
að hann skyldi þegja; en hann hrópaði því meir:
40 Sonur Davíðs, miskunna mjer! Og Jesús nam staðar
og bauð að leiða hann til sín. Og er hann nálgað-
41 ist, spurði hann hann: Hvað vilt þú að jeg gjöri
við þig? Og hann mælti: Herra, það, að jeg fái
42 aftur sjón mína. Og Jesús sagði við hann: Verð þú
43 aftur sjáandi! trú þín hefir gjört þig heilan. Og jafn-
skjótt fekk hann aftur sjónina og fylgdi honum, lof-
andi Guð; og fólkið alt, er sá þetta, vegsamaði Guð.
19 Og hann fór inn í Jeríkó og gekk í gegn-
2 um hana. Og sjá, þar var maður nokkur, er
Sakkeus hjet, og hann var yfirtollheimtumaður og
3 auðugur. Og hann leitaðist við að sjá Jesúm, hver
hann væri, og hann gat það ekki fyrir mannfjöldan-
4 um, því að hann var lítill vexti. Og hann hljóp
fram fyrir og steig upp í mórberjatrje, til þess að hann
gæti sjeð hann, því að leið hans lá þar fram hjá.
5 Og er Jesús kom þangað, leit hann upp og sagði við

hann: Sakkeus, flýt þjer ofan, því að í dag ber mjer
6 að dvelja í húsi þínu. Og hann flýtti sjer ofan og
7 tók á móti honum glaður. Og er þeir sáu þetta,
mögluðu þeir allir og sögðu: Hann er farinn inn, til
8 að gista hjá bersyndugum manni. En Sakkeus gekk
fram og sagði við Drottin: Sjá, herra, helming eigna
minna gef jeg fátækum, og hafi jeg haft nokkuð af
9 nokkrum, gef jeg ferfalt aftur. Og Jesús sagði við
hann: Í dag hefir heill hlotnast húsi þessu, þar eð
10 einnig þessi maður er Abrahams sonur. Því að
mannsins sonur er kominn til að leita að hinu týnda
og frelsa það.

11 En er þeir hlýddu á þetta, bætti hann við og
sagði dæmisögu, því að hann var í nánd við Jerú-
salem, og þeir ætluðu, að guðsríki mundi nú þegar
12 birtast. Hann sagði þá: Maður nokkur göfugur að
ætt ferðaðist í fjarlægt land, til þess að taka við
13 konungdómi og koma síðan aftur. Og hann kallaði
til sín tíu þjóna, seldi þeim í hendur tíu mínur og
sagði við þá: Verslið með þetta, þangað til jeg kem.
14 En landar hans hötuðu hann og sendu erindreka á
eftir honum og sögðu: Vjer viljum ekki að þessi
15 maður sje konungur yfir oss. Og svo bar við, er
hann var kominn aftur og hafði tekið við konung-
dómnum, að hann bauð að kalla til sín þjóna þá, er
hann hafði selt silfrið í hendur, til þess að hann fengi
16 að vita, hvað þeir hefðu grætt. Kom þá hinn fyrsti
og sagði: Herra, mína þín hefir ávaxtast um tíu
17 mínur. Og hann sagði við hann: Gott, þú góði
þjónn, af því að þú varst trúr í mjög litlu, þá skaltu
18 hafa yfirráð yfir tíu borgum. Og hinn annar kom og

sagði: Mína þín, herra, hefir gefið af sjer fimm mín-
19 ur. Og hann sagði sömuleiðis við hann: Þú skalt
20 og ráða yfir fimm borgum. Og enn annar kom og
sagði: Herra, sjá, hjer er mína þín, sem jeg hefi
21 haft geymda í sveitadúki; því að jeg óttaðist þig, þar
eð þú ert maður strangur; þú tekur það, sem þú
ekki niður lagðir, og upp sker það, sem þú ekki
22 sáðir. Hann segir við hann: Eftir þínum eigin orð-
um dæmi jeg þig, þú illi þjónn; þú vissir að jeg er
maður strangur, sem tek það, sem jeg hefi ekki niður
23 lagt, og upp sker það, sem jeg ekki hefi sáð. Og
hvers vegna ljest þú þá ekki fje mitt í banka, og
þá hefði jeg getað fengið það með vöxtum, er jeg kom
24 heim. Og hann sagði við þá, er viðstaddir voru:
Takið mínuna frá honum og fáið hana þeim, sem
25 hefir tíu mínurnar. Og þeir sögðu við hann: Herra,
26 hann hefir tíu mínur. Jeg segi yður, að sjerhverjum
sem hefir, mun verða gefið, en frá þeim sem ekki
hefir, mun jafnvel það, sem hann hefir, tekið verða.
27 En þessa óvini mína, sem ekki vildu að jeg yrði kon-
ungur yfir sjer, færið þá hingað og höggvið þá fyrir
augum mjer.

28 Og er hann hafði þetta sagt, hjelt hann áfram
og fór upp til Jerúsalem.

29 Og svo bar við, er hann nálgaðist Betfage og
Betaníu hjá Olíufjallinu, sem svo er nefnt, að hann
30 sendi tvo af lærisveinunum og mælti: Farið þið í
þorpið þar yfir frá, og er þið komið þangað, munuð
þið finna fola bundinn, sem enginn hefir nokkurn
tíma komið á bak; leysið hann og komið með hann.
31 Og ef einhver spyr ykkur: Hvers vegna leysið þið

hann? Þá segið á þessa leið: Herrann þarf hans
32 við. Þeir fóru, sem sendir voru, og fundu eins og
33 hann hafði sagt þeim. En er þeir leystu folann,
sögðu eigendur hans við þá: Hvers vegna leysið
34 þið folann? Þeir mæltu: Herrann þarf hans við, og
35 færðu hann til Jesú. Síðan köstuðu þeir klæðum
36 sínum yfir folann og settu Jesúm á bak. En er hann
var kominn á stað, breiddu menn yfirhafnir sínar á
37 veginn. En er hann nú nálgaðist og kom þangað,
sem farið er ofan af Olíufjallinu, tók allur flokkur
lærisveina hans að lofa Guð, fagnandi með hárri
raustu, fyrir öll þau kraftaverk, er þeir höfðu sjeð,
38 og mæltu: *Blessaður sje konungurinn, sem kemur í
nafni Drottins*. Friður á himni og dýrð í upphæðum!
39 Og nokkrir af Faríseunum í flokknum sögðu við
40 hann: Meistari, hasta þú á lærisveina þína. En
hann svaraði og sagði: Jeg segi yður, að ef þessir
þegðu, mundu steinarnir hrópa.

41 Og er hann kom nær og sá borgina, grjet hann
42 yfir henni og mælti: Ef einnig þú hefðir á þessum
degi vitað það sem til friðar heyrir! en nú er það
43 hulið fyrir augum þínum. Því að þeir dagar munu
koma yfir þig, að óvinir þínir munu gjöra hervirki
um þig og setjast um þig og þröngva þjer á alla
44 vegu; og þeir munu leggja þig að velli og börn þín,
sem í þjer eru, og ekki skilja eftir stein yfir steini í
þjer, vegna þess að þú þektir ekki tíma vitjunar
þinnar.

45 Og hann gekk inn í helgidóminn, og tók að reka
46 út þá, er voru að selja, og sagði við þá: Ritað er:

*Og hús mitt á að vera bœnahús, en þjer hafið gjört*
*það að rœningjabœli.*
47 Og daglega var hann að kenna í helgidóminum,
en æðstu prestarnir og fræðimennirnir og hinir helstu
menn þjóðarinnar leituðust við að ráða hann af dög-
48 um. Og þeir gátu eigi sjeð, hvað þeir gætu gjört,
því að allur lýðurinn hjelt sjer fast að honum og
hlýddi á hann.
20 Og svo bar við einhvern daginn, er hann var
að kenna lýðnum í helgidóminum og boða
fagnaðarerindið, að æðstu prestarnir og fræðimenn-
2 irnir ásamt öldungunum gengu að honum. Og þeir
töluðu til hans og sögðu: Seg þú oss, með hvaða
valdi gjörir þú þetta, eða hver hefir gefið þjer þetta
3 vald? En hann svaraði og sagði við þá: Jeg vil
4 og leggja spurningu fyrir yður. Segið mjer: Var
5 skírn Jóhannesar frá himnum eða frá mönnum? En
þeir hugleiddu þetta með sjer og sögðu: Ef vjer
segjum: frá himnum, mun hann segja: Hví trúðuð
6 þjer honum þá ekki? En ef vjer segjum: frá mönn-
um, mun allur lýðurinn grýta oss; því að hann er
7 sannfærður um að Jóhannes sje spámaður. Og þeir
8 svöruðu, að þeir vissu eigi, hvaðan hún væri. Og
Jesús sagði við þá: Þá segi jeg yður ekki heldur,
með hvaða valdi jeg gjöri þetta.
9 En hann tók til að segja lýðnum dæmisögu þessa:
Maður nokkur plantaði víngarð og seldi hann á leigu
10 víngarðsmönnum og fór úr landi til langdvala. Og á
rjettum tíma sendi hann þjón til víngarðsmannanna,
til þess að þeir fengju honum nokkuð af ávexti vín-
garðsins; en víngarðsmennirnir börðu hann og sendu

11 hann burt tómhentan. Og aftur sendi hann annan
þjón, en þeir börðu hann einnig og svívirtu og
12 sendu hann burt tómhentan. Og enn sendi hann
hinn þriðja, en þeir veittu honum einnig áverka
13 og köstuðu honum út. En herra víngarðsins sagði:
Hvað á jeg að gjöra? Jeg ætla að senda son minn
hinn elskaða; þeir munu þó bera virðingu fyrir hon-
14 um. En er víngarðsmennirnir sáu hann, báru þeir
ráð sín saman og sögðu: Þetta er erfinginn; drep-
15 um hann, til þess að vjer fáum arfinn. Og þeir köst-
uðu honum út fyrir víngarðinn og drápu hann. Hvað
16 mun nú herra víngarðsins gjöra við þá? Hann mun
koma og tortíma víngarðsmönnum þessum og gefa
öðrum víngarðinn. En er þeir heyrðu þetta, sögðu
17 þeir: Verði það aldrei. En hann leit til þeirra og
mælti: Hvað er þá þetta sem ritað er: *Steinninn,*
*sem smiðirnir höfnuðu, sá hinn sami er orðinn að*
18 *hyrningarsteini?* Hver sem fellur á þennan stein, mun
sundur molast, en þann sem hann fellur yfir, mun
hann sundur merja.

19 Og fræðimennirnir og æðstu prestarnir vildu
leggja hendur á hann á þeirri stundu, en þeir
voru hræddir við lýðinn, því að þeir skildu að hann
20 talaði dæmisögu þessa til þeirra. Og þeir höfðu gætur á
honum og sendu út njósnarmenn, er láta skyldu sem
væru þeir rjettlátir, til þess að þeir gætu haft á orð-
um hans og selt hann í hendur yfirvaldinu og á vald
21 landstjórans. Og þeir spurðu hann og mæltu: Vjer
vitum, meistari, að þú segir og kennir svo sem rjett
er og gjörir þjer engan manna mun, heldur kennir
22 þú í sannleika Guðs veg. Leyfist oss að gjalda keis-

23 aranum skatt, eða ekki? En hann merkti flærð þeirra
24 og sagði við þá: Sýnið mjer denar. Hvers mynd
25 og yfirskrift hefir hann? En þeir sögðu: keisarans.
Og hann sagði við þá: Gjaldið þá keisaranum það
26 sem keisarans er, og Guði það sem Guðs er. Og
þeir gátu ekki haft neitt á orðum hans í viðurvist
lýðsins, og þeir undruðust svar hans og þögðu.
27 Og nokkrir af Saddúkeum, sem segja að eigi sje
til upprisa, komu til hans og spurðu hann og sögðu:
28 Meistari, Móse reit oss það boð, að *ef kvæntur bróðir
einhvers deyr, og hann er barnlaus, þá gangi bróðir
hans að eiga konu hans og geti bróður sínum afkvæmi.*
29 Nú voru sjö bræður; hinn fyrsti tók sjer konu og dó
30 barnlaus; og hinn annar og hinn þriðji gengu að
31 eiga hana; og sömuleiðis einnig þeir sjö; þeir ljetu
32 engin börn eftir sig og dóu. Síðast dó og konan.
33 Kona hvers þeirra verður hún nú í upprisunni, því
34 að þeir sjö áttu hana fyrir konu? Og Jesús sagði
við þá: Börn þessarar aldar kvænast og giftast;
35 en þeir, sem álítast verðir að fá hlutdeild í hinni
öldinni og upprisunni frá dauðum, kvænast hvorki
36 nje giftast; því að þeir geta alls ekki framar dáið,
þar eð þeir eru englum líkir og þeir eru Guðs börn,
37 þar sem þeir eru synir upprisunnar. En að dauðir
upprísi, það hefir jafnvel Móse sýnt, þar sem talað
er um þyrnirunninn, er hann kallar Drottin *Guð*
38 *Abrahams og Guð Ísaks og Guð Jakobs.* En ekki er
hann Guð dauðra, heldur lifenda, því að honum lifa
39 allir. En nokkrir af fræðimönnunum svöruðu og
40 sögðu: Meistari, vel mæltir þú. Því að þeir dirfð-
ust ekki framar að spyrja hann nokkurs.

41 En hann sagði við þá: Hvernig geta menn sagt,
42 að Kristur sje sonur Davíðs? Því að sjálfur Davíð
segir í sálmabókinni: *Drottinn sagði við minn Drott-*
43 *in: set þig mjer til hægri handar, þangað til jeg gjöri*
44 *óvini þína að skör fóta þinna.* Davíð kallar hann þá
Drottin, og hvernig er hann þá sonur hans?
45 En í áheyrn alls lýðsins sagði hann við læri-
46 sveina sína: Varið yður á fræðimönnunum, sem vilja
ganga í dragkyrtlum og hafa mætur á að láta heilsa
sjer á torgum og á efstu sætunum í samkundunum
47 og helstu sætunum í veislunum, þeir er eta upp
heimili ekknanna og flytja langar bænir að yfirskini.
Þeir munu fá þyngri dóm.

21 En er hann leit upp, sá hann hina ríku, er
2 voru að leggja gjafir sínar í fjárhirsluna. Og
hann sá ekkju eina fátæka, er lagði í hana tvo smá-
3 peninga. Og hann sagði: Sannlega segi jeg yður,
að þessi fátæka ekkja hefir meira lagt en hinir allir:
4 því að þessir hafa allir lagt fram til gjafanna af
nægtum sínum, en hún lagði af skorti sínum alla þá
björg, er hún átti.
5 Og er nokkrir sögðu um helgidóminn, að hann
væri prýddur með fögrum steinum og heitgjöfum,
6 sagði hann: Þetta, sem þjer sjáið — þeir dagar
munu koma, að hjer mun ekki verða skilinn eftir
steinn yfir steini, er eigi mun verða rifinn niður.
7 En þeir spurðu hann og sögðu: Meistari, hve nær
mun þá þetta verða og hvert verður táknið, er þetta
8 á að fara að koma fram. Og hann sagði: Gætið
þess, að þjer verðið ekki leiddir í villu, því að margir
munu koma í mínu nafni, segjandi: Það er jeg, og:

9 Tíminn er nálægur; en farið ekki á eftir þeim. En
er þjer heyrið um hernað og upphlaup, þá skelfist
ekki, því að þetta hlýtur fyrst að koma fram, en
endirinn er ekki þá þegar kominn.
10 Þá sagði hann við þá: Þjóð mun rísa gegn þjóð
11 og konungsríki gegn konungsríki, og miklir land-
skjálftar munu verða og á ýmsum stöðum hungurs-
neyð og drepsóttir; og verða munu voðafyrirburðir
12 og tákn mikil af himni. En á undan öllu þessu
munu þeir leggja hendur á yður og ofsækja yður og
framselja yður til samkundnanna og í fangelsi og
draga yður fyrir konunga og landshöfðingja, fyrir
13 sakir nafns míns. Og þetta mun verða yður til
14 vitnisburðar. Látið það því vera fast í huga yðar,
að þjer ekki fyrirfram sjeuð að íhuga, hvernig þjer
15 eigið að verja yður. Því að jeg mun gefa yður
talanda og visku, sem allir mótstöðumenn yðar munu
16 ekki megna að standa á móti eða mótmæla. En
þjer munuð framseldir verða jafnvel af foreldrum og
bræðrum og frændum og vinum, og nokkra af yður
17 munu þeir lífláta. Og þjer munuð verða hataðir af
18 öllum vegna nafns míns; en ekkert hár af höfði yðar
19 skal þó farast. Með stöðuglyndi yðar munuð þjer
ávinna sálir yðar.
20 En er þjer sjáið Jerúsalem umkringda af her-
21 fylkjum, þá vitið, að eyðing hennar er í nánd. Þá
skulu þeir, sem eru í Júdeu, flýja til fjallanna, og
þeir sem eru inni í borginni, flytji sig burt; og þeir
22 sem eru á sveitabýlunum, fari ekki inn í hana. Því
að þetta eru refsingardagar, til þess að uppfyllist alt
23 það sem ritað er. Vei þeim, sem þungaðar eru, og

þeim sem börn hafa á brjósti á þeim dögum, því að
mikil neyð mun þá verða í landinu og reiði yfir lýð
24 þessum. Og þeir munu falla fyrir sverðseggjum og
herleiddir verða til allra þjóða, og Jerúsalem mun
verða fótum troðin af heiðingjum, þangað til tímar
25 heiðingjanna eru fullnaðir. Og tákn munu verða á
sólu, tungli og stjörnum og á jörðunni angist meðal
26 þjóðanna í ráðaleysi við dunur hafs og sjávar; og
menn munu gefa upp öndina af ótta og kvíða fyrir
því, er koma mun yfir heimsbygðina, því að kraftar
27 himnanna munu bifast. Og þá munu menn sjá
mannsins son komandi í skýi með mætti og mikilli
28 dýrð. En þegar þetta tekur að koma fram, þá lítið
upp og lyftið upp höfðum yðar, því að lausn yðar
er í nánd.

29 Og hann sagði þeim líkingu: Gætið að fíkju-
30 trjenu og öllum trjám; þegar þau fara að skjóta
frjóöngum, þá sjáið þjer og vitið af sjálfum yður, að
31 sumarið er í nánd. Þannig skuluð þjer og vita, að
þá er þjer sjáið þetta fram koma, er guðsríki í nánd.
32 Sannlega segi jeg yður, að þessi kynslóð mun ekki líða
33 undir lok, uns þetta alt kemur fram. Himinn og
jörð munu líða undir lok, en mín orð munu ekki
undir lok líða.

34 En gætið sjálfra yðar, að hjörtu yðar ekki ofþyng-
ist við svall og drykkjuskap og áhyggju fyrir þessu
lífi, og komi svo þessi dagur skyndilega yfir yður
35 eins og snara; því að koma mun hann yfir alla þá,
36 sem búa á öllu yfirborði jarðarinnar. Verið því ávalt
vakandi og biðjandi, til þess að þjer megnið að um-

flýja alt þetta, sem fram mun koma, og að standast
frammi fyrir mannsins syni.
37 Á daginn var hann að kenna í helgidóminum,
en á næturnar gekk hann út og hafði náttstað á
38 Olíufjallinu, sem svo er nefnt. Og alt fólkið flyktist
að honum hvern morgun í helgidóminum, til að hlýða
á hann.
22 En hátíð ósýrðu brauðanna nálgaðist, sú er
2 nefnist páskar. Og æðstu prestarnir og fræði-
mennirnir velktu fyrir sjer, hvernig þeir gætu ráðið
hann af dögum, því að þeir voru hræddir við lýðinn.
3 En Satan fór í Júdas, er kallaður var Ískaríot,
4 er var einn í tölu þeirra tólf. Og hann fór og kom
að máli við æðstu prestana og varðforingjana um
5 það, hvernig hann ætti að framselja þeim hann. Og
6 þeir urðu glaðir og ákváðu að gefa honum fje. Og
hann gekk að því og leitaði færis til að framselja
þeim hann, án þess að uppþot yrði.
7 En dagur ósýrðu brauðanna kom, þá er slátra
8 átti páskalambinu. Og hann sendi Pjetur og Jóhannes
og sagði: Farið þið og búið fyrir oss páskamáltíðina,
9 til þess að vjer getum matast. En þeir sögðu við
10 hann: Hvar vilt þú að við búum hana? En hann
sagði við þá: Sjá, þegar þið komið inn í borgina,
mun ykkur mæta maður, sem ber vatnskrús; fylgið
honum til þess húss, er hann fer inn í, og segið við
11 húsráðandann: Meistarinn segir við þig: Hvar er
herbergið, þar sem jeg megi neyta páskalambsins
12 með lærisveinum mínum? Og hann mun sýna ykkur
loftsal mikinn, búinn hægindum; gjörið þar fyrir-

13 búnað. Og þeir fóru og hittu fyrir alt eins og hann
hafði sagt þeim, og efndu til páskamáltíðarinnar.
14 Og er stundin var komin, gekk hann undir borð
15 og postularnir með honum. Og hann sagði við þá:
Hjartanlega hefi jeg þráð að neyta þessarar páska-
16 máltíðar með yður áður en jeg líð; því að jeg segi
yður: Jeg mun ekki neyta hennar, uns hún full-
17 komnast í guðsríki. Og hann tók bikar, gjörði
þakkir og mælti: Takið þetta og skiftið því á meðal
18 yðar; því að jeg segi yður, að jeg mun ekki upp frá
þessu drekka af ávexti vínviðarins, uns guðsríki
19 kemur. Og hann tók brauð, gjörði þakkir, braut það
og gaf þeim og sagði: Þetta er líkami minn, sem
fyrir yður er gefinn; gjörið þetta í mína minningu.
20 Og á sama hátt tók hann eftir kvöldmáltíðina bikar-
inn og mælti: Þessi bikar er hinn nýi sáttmáli í
21 mínu blóði, sem fyrir yður er úthelt. En sjá, hönd
22 þess, er mig svíkur, er á borðinu með mjer. Því að
mannsins sonur fer að sönnu hjeðan, eftir því sem
ákveðið er, en vei þeim manni, sem því veldur að
23 hann verður framseldur. Og þeir tóku að spyrj-
ast á, hver þeirra það mundi vera, er þetta mundi
gjöra.
24 En það hófst líka deila meðal þeirra um það,
25 hver þeirra væri talinn mestur. Og hann sagði við
þá: Konungar þjóðanna drotna yfir þeim, og þeir
sem láta þær kenna á valdi sínu, eru nefndir vel-
26 gjörðamenn. En eigi skuluð þjer svo vera, heldur
verði sá, sem mestur er yðar á meðal, eins og hinn
27 yngsti, og foringinn eins og sá er þjónar. Því að
hvor er meiri, sá sem situr til borðs, eða sá sem

þjónar? Er það ekki sá, sem situr til borðs? En jeg
28 er meðal yðar eins og sá, er þjónar. En þjer eruð
þeir, sem stöðugir hafið verið með mjer í freistingum
29 mínum. Og jeg fæ yður ríki í hendur, eins og faðir
30 minn hefir fengið mjer, til þess að þjer getið etið og
drukkið við borð mitt í ríki mínu; og þjer skuluð
sitja í hásætum og dæma hinar tólf ættkvíslir Ísraels.
31 Símon, Símon, sjá, Satan krafðist yðar, til að sælda
32 yður eins og hveiti; en jeg hefi beðið fyrir þjer, til
þess að trú þín þrjóti ekki, og styrk þú bræður þína,
33 þegar þú síðar ert snúinn við. En hann sagði við
hann: Herra, með þjer er jeg reiðubúinn að fara
34 bæði í fangelsi og dauða. Og hann mælti: Jeg
segi þjer, Pjetur: Haninn mun ekki gala í dag,
fyr en þú hefir þrisvar neitað því, að þú þekkir
mig.

35 Og hann sagði við þá: Þegar jeg sendi yður
út án pyngju, mals og skóa, brast yður þá nokkuð?
36 Og þeir sögðu: Nei, ekkert. Og hann sagði við þá:
En nú skal sá, sem hefir pyngju, taka hana með
sjer, sömuleiðis einnig mal, og sá, sem ekki hefir
37 sverð, skal selja yfirhöfn sína og kaupa það. Því
jeg segi yður, að þetta, sem ritað er, hlýtur að rætast
á mjer: »*og með lögbrotsmönnum var hann talinn*«,
38 því að það, er mig snertir, uppfyllist. En þeir sögðu:
Herra, sjá, hjer eru tvö sverð. Og hann sagði við þá:
Það er nóg.

39 Og hann gekk út og fór eftir venju sinni til
Olíufjallsins, og lærisveinarnir fylgdust og með honum.
40 Og þegar hann var kominn á staðinn, sagði
hann við þá: Biðjið, að þjer fallið ekki í freistingu.

 

41 Og hann fór frá þeim hjer um bil steinsnar og fjell
42 á knje og baðst fyrir, segjandi: Faðir, ef þú vilt,
þá tak þennan bikar frá mjer! En verði þó ekki
43 minn, heldur þinn vilji! Og honum birtist engill af
44 himni, sem styrkti hann. Og er hann var í dauðans
angist, baðst hann enn ákafar fyrir; en sveiti hans
45 varð eins og blóðdropar, er fjellu á jörðina. Og er
hann stóð upp frá bæninni og kom til lærisveinanna,
46 fann hann þá sofandi af hrygð. Og hann sagði við
þá: Hví sofið þjer? Rísið upp og biðjið, til þess að
þjer fallið ekki í freistingu.

47 Meðan hann enn var að tala, sjá, þá kom flokkur
manna, og sá sem Júdas hjet, einn af þeim tólf, gekk
á undan þeim. Og hann gekk að Jesú til að kyssa
48 hann. En Jesús sagði við hann: Júdas, svíkur þú
49 mannsins son með kossi? En er þeir, er hjá honum
voru, sáu hvað verða mundi, sögðu þeir: Herra,
50 eigum vjer að slá með sverði? Og einn af þeim hjó
til þjóns æðsta prestsins og sneið af honum hægra
51 eyrað. En Jesús svaraði og sagði: Látið hjer við
staðar nema. Og hann snart eyrað og læknaði hann.
52 Og Jesús sagði við æðstu prestana og varðforingja
helgidómsins og öldungana, sem komnir voru á móti
honum: Lögðuð þjer af stað eins og móti ræningja
53 með sverðum og bareflum? Þegar jeg daglega var
hjá yður í helgidóminum, þá rjettuð þjer ekki út
hendur gegn mjer, en þetta er yðar tími og vald myrk-
ursins.

54 Og þeir handtóku hann og fóru burt með hann,
og þeir fóru með hann inn í hús æðsta prestsins; en
55 Pjetur fór á eftir álengdar. Og er þeir höfðu kveikt

eld í miðjum hallargarðinum og sest við hann, settist
56 Pjetur meðal þeirra. En þerna nokkur sá hann sitja
við eldsbirtuna og starði á hann og mælti: Þessi
57 maður var líka með honum. En hann neitaði og
58 sagði: Kona, jeg þekki hann ekki. Litlu síðar sá
annar hann og sagði: Þú ert og einn af þeim. En
59 Pjetur sagði: Maður, jeg er það ekki. Og að lið-
inni hjer um bil einni stundu fullyrti og annar maður
þetta og sagði: Í sannleika var þessi maður einnig
60 með honum, því að hann er og Galíleumaður. En
Pjetur mælti: Jeg skil ekki, maður, hvað þú segir.
Og í sama bili, áður en hann hafði slept orðinu, gól
61 haninn. Og Drottinn sneri sjer við og leit til
Pjeturs, og Pjetur mintist orðs Drottins, er hann
mælti við hann: Áður en haninn galar í dag, muntu
62 þrisvar afneita mjer. Og hann gekk út fyrir og
grjet sáran.

63 En þeir menn, sem hjeldu honum, hæddu hann
64 og börðu hann. Og þeir byrgðu fyrir augu hans og
spurðu hann og sögðu: Spá þú, hver er það, sem
65 sló þig? Og margt annað sögðu þeir við hann last-
mælandi.

66 Og er dagur rann, kom öldungaráð lýðsins saman,
bæði æðstu prestar og fræðimenn, og færðu hann á
67 ráðsamkomu sína, og sögðu: Ef þú ert Kristur, þá
seg oss það. En hann sagði við þá: Þótt jeg segi
68 yður það, þá munuð þjer ekki trúa; og ef jeg spyr
69 yður, þá svarið þjer ekki. En upp frá þessu mun
mannsins sonur sitja til hægri handar Guðs kraftar.
70 Og þeir sögðu allir: Ert þú þá sonur Guðs? Og
hann sagði við þá: Þjer segið það, því að jeg er

 

71 það. En þeir sögðu: Hvað þurfum vjer nú framar
vitnis við, því að sjálfir höfum vjer heyrt það af
munni hans?

23 Og þeir stóðu upp, allur hópurinn, og færðu
2 hann til Pílatusar. Og þeir tóku að ákæra
hann, segjandi: Vjer höfum komist að raun um að
þessi maður leiðir þjóð vora afvega, og bannar að
gjalda keisaranum skatt, og segist sjálfur vera Krist-
3 ur konungur. Og Pílatus spurði hann og sagði:
Ertu konungur Gyðinga? En hann svaraði hon-
4 um og sagði: Þú segir það. Og Pílatus sagði við
æðstu prestana og fólkið: Jeg finn enga sök hjá þess-
5 um manni. En þeir urðu því ákafari og sögðu:
Hann æsir upp lýðinn, með því að hann kennir um
alla Júdeu, alt frá Galíleu, þar sem hann byrjaði,
6 og hingað. En er Pílatus heyrði það, spurði hann,
7 hvort maðurinn væri Galílei. Og er hann varð þess
vís, að hann var úr umdæmi Heródesar, sendi hann
hann til Heródesar, sem þessa daga var einnig í
Jerúsalem.

8 En er Heródes sá Jesúm, varð hann næsta glaður,
því að lengi hafði hann langað til að sjá hann, þar
eð hann hafði heyrt um hann; og hann gjörði sjer
9 von um, að sjá eitthvert tákn gjört af honum. Og
hann spurði hann með mörgum orðum, en hann
10 svaraði honum engu. En æðstu prestarnir og fræði-
11 mennirnir stóðu hjá og ákærðu hann harðlega. En
Heródes, ásamt hermönnum sínum, óvirti hann og
spottaði, og lagði um hann ljómandi klæði og sendi
12 hann aftur til Pílatusar. Og þennan dag urðu þeir

Pílatus og Heródes vinir sín á milli, því að áður
hafði verið fjandskapur með þeim.
13 Nú kallaði Pílatus saman æðstu prestana og
14 höfðingjana og fólkið og sagði við þá: Þjer hafið
fært mjer þennan mann, svo sem þann, er leiddi lýð-
inn afvega; og sjá, jeg hefi í viðurvist yðar yfir-
heyrt hann og enga sök fundið hjá manni þessum í
15 því, er þjer ákærið hann fyrir. Ekki heldur Heródes,
því að hann sendi hann aftur til vor. Og sjá, ekk-
ert er það af honum drýgt, sem dauða sje vert.
16 Ætla jeg því að refsa honum og láta hann lausan.
18 En þeir kölluðu upp allir í einu hljóði og sögðu:
Burt með þennan mann, en gef oss Barrabas lausan!
19 en hann var maður, sem varpað hafði verið í fang-
elsi fyrir upphlaup nokkurt, er orðið hafði í borg-
20 inni, og manndráp. Og Pílatus talaði aftur til þeirra,
21 því að hann vildi láta Jesúm lausan. En þeir æptu
22 og sögðu: Krossfestu, krossfestu hann! Og í þriðja
sinn sagði hann við þá: Hvað ilt hefir þá þessi
maður aðhafst? Jeg hefi enga dauðasök fundið hjá
honum; jeg ætla því að refsa honum og láta hann
23 lausan. En þeir sóttu á með ópi miklu og beiddu
um, að hann yrði krossfestur; og hróp þeirra tóku
24 yfir. Og Pílatus lagði þann úrskurð á, að beiðni
25 þeirra skyldi verða fullnægt. Og hann gaf lausan
manninn, sem fyrir upphlaup og manndráp hafði
verið settur í fangelsi, þann er þeir báðu um, en
Jesúm framseldi hann vilja þeirra.
26 Og er þeir leiddu hann út, tóku þeir Símon
nokkurn frá Kýrene, sem kom utan af landsbygð, og

lögðu krossinn á hann, til þess að hann bæri hann
eftir Jesú.
27 En honum fylgdi mikill fjöldi af fólkinu og af
28 konum, sem hörmuðu og grjetu yfir honum. En
Jesús sneri sjer til þeirra og mælti: Jerúsalem-
dætur, grátið ekki yfir mjer, en grátið yfir sjálfum
29 yður og yfir börnum yðar. Því að sjá, þeir dagar
munu koma, að menn munu segja: Sælar eru óbyr-
jur og þau móðurlíf, er ekki hafa barn alið, og þau
30 brjóst, er ekki hafa gefið að sjúga. Þá munu menn
taka að segja við fjöllin: Hrynjið yfir oss! og við
31 hálsana: Hyljið oss! Því að ef menn gjöra þetta við
hið græna trjeð, hvernig mun þá fara fyrir hinu
visna?
32 Með honum voru og færðir til lífláts tveir menn
aðrir, og voru það illvirkjar.
33 Og er þeir komu til þess staðar, sem kallaður
er Hauskúpa, krossfestu þeir hann þar og illvirkjana,
34 annan til hægri handar, en hinn til vinstri. En Jes-
ús sagði: Faðir, fyrirgef þeim, því að þeir vita ekki
hvað þeir gjöra. Og þeir skiftu klæðum hans milli
35 sín og köstuðu hlutum um. Og fólkið stóð og horfði
á; en höfðingjarnir gjörðu og gys að honum og sögðu:
Öðrum bjargaði hann; bjargi hann nú sjálfum sjer,
36 ef hann er hinn smurði Guðs, hinn útvaldi. Sömu-
leiðis hæddu hann hermennirnir, komu og báru hon-
37 um edik og sögðu: Ef þú ert konungur Gyðinganna,
38 þá bjargaðu sjálfum þjer. Yfirskrift var og yfir hon-
um: ÞESSI ER KONUNGUR GYÐINGANNA.
39 En annar af illvirkjunum, sem upp voru hengd-
ir, lastmælti honum og sagði: Ert þú ekki Kristur?

40 Bjargaðu sjálfum þjer og okkur. En hinn svaraði,
ávítaði hann og sagði: Hræðist þú ekki einu sinni
41 Guð, þar sem þú ert þó undir sama dómi? Og við
erum það með rjettu, því að við fáum makleg gjöld
fyrir það, sem við höfum gjört, en þessi hefir ekkert
42 rangt aðhafst. Og hann sagði: Jesú, minst þú mín,
43 þegar þú kemur í ríki þínu! Og hann sagði við
hann: Sannlega segi jeg þjer: í dag skaltu vera með
mjer í Paradís.

44 Og nú var hjer um bil sjetta stund, og myrkur
kom yfir alt landið alt til níundu stundar, við það
45 að sólin misti birtu sinnar. Og fortjald musterisins
46 rifnaði sundur í miðju. Og Jesús kallaði hárri raustu
og sagði: Faðir, í þínar hendur fel jeg anda minn;
og er hann hafði þetta mælt, gaf hann upp andann.
47 Og er hundraðshöfðinginn sá það, er við bar, veg-
samaði hann Guð og sagði: Sannlega var þessi mað-
48 ur rjettlátur. Og er alt fólkið, sem komið hafði
saman til að sjá þetta, sá það er gjörðist, barði það
49 sjer á brjóst og sneri aftur. En allir þeir, sem hon-
um voru kunnugir, og konur þær, er honum höfðu
fylgt úr Galíleu, stóðu langt frá og sáu þetta.

50 Og sjá, maður er nefndur Jósef; hann var ráð-
51 herra, góður maður og rjettvís, og hafði hann ekki
samþykt ráð og athafnir þeirra; hann var frá Aríma-
52 þeu, borg Gyðinga, og vænti guðsríkisins. Þessi
maður gekk til Pílatusar og bað hann um líkama
53 Jesú. Og hann tók hann ofan, sveipaði hann í lín-
klæði, og lagði hann í gröf, höggna út í stein, sem
54 enginn hafði áður legið í. Og það var aðfangadagur,
55 og hvíldardagurinn fór í hönd. Og konur þær, er

komið höfðu með Jesú úr Galíleu, fylgdu eftir og
56 sáu gröfina og hvernig líkami hans var lagður. Og
þær sneru aftur og bjuggu út ilmjurtir og smyrsl.
24 Og hvíldardaginn hjeldu þær kyrru fyrir, sam-
1 kvæmt boðorðinu. En í birtingu hinn fyrsta
dag vikunnar komu þær til grafarinnar með ilmjurt-
2 irnar, er þær höfðu út búið. Og þær fundu steininn
3 veltan frá gröfinni. Og er þær gengu inn, fundu
4 þær ekki líkama Drottins Jesú. Og svo bar við, er
þær skildu ekkert í þessu, sjá, þá stóðu tveir menn
5 hjá þeim í skínandi klæðum. Og er þær urðu mjög
hræddar og hneigðu andlit sín til jarðar, sögðu þeir
við þær: Hví leitið þjer hins lifanda meðal hinna
6 dauðu? Hann er ekki hjer, heldur er hann uppris-
inn; minnist þess, hvernig hann talaði við yður,
7 meðan hann enn var í Galíleu, og sagði, að manns-
ins sonur ætti að verða framseldur í hendur synd-
ugra manna og verða krossfestur og upprísa á þriðja
8 degi. Og þær mintust orða hans, og sneru aftur frá
9 gröfinni, og kunngjörðu alt þetta þeim ellefu og öll-
10 um hinum. En það voru þær María Magdalena og
Jóhanna og María, móðir Jakobs; og hinar aðrar
11 með þeim sögðu postulunum þetta. Og orð þessi
voru í augum þeirra eins og hjegómi, og þeir trúðu
12 konunum ekki. En Pjetur stóð upp og hljóp til graf-
arinnar, og er hann gægðist inn, sá hann líkblæjurn-
ar einar; og hann fór heim, undrandi yfir því sem
við hafði borið.

13 Og sjá, þennan sama dag voru tveir af þeim á
ferð til þorps nokkurs, sem er hjer um bil sextíu
14 skeiðrúm frá Jerúsalem, að nafni Emmaus, og voru

þeir að tala sín í milli um alt þetta, er við hafði
15 borið. Og svo bar við, er þeir voru að tala saman
og ræða um þetta, að sjálfur Jesús nálgaðist þá og
16 slóst í ferð með þeim. En augu þeirra voru haldin,
17 svo að þeir þektu hann ekki. Og hann sagði við þá:
Hvaða samræður eru þetta, sem þið hafið ykkar á
milli á leið ykkar? Og þeir námu staðar, daprir í
18 bragði. Og annar þeirra, að nafni Kleófas, svaraði
og sagði við hann: Ert þú eini aðkomumaðurinn í
Jerúsalem og veist ekki það, sem gjörst hefir í henni
19 á þessum dögum? Og hann sagði við þá: Hvað þá?
En þeir sögðu við hann: Það um Jesúm frá Nasaret,
sem var spámaður, máttugur í verki og orði fyrir
20 Guði og öllum lýðnum; hvernig æðstu prestarnir og
höfðingjar vorir framseldu hann til dauðadóms og
21 krossfestu hann. En vjer vonuðum, að hann væri
sá er frelsa mundi Ísrael; já, og auk alls þessa er í
22 dag þriðji dagurinn síðan þetta bar við. Enn fremur
hafa og konur nokkrar úr vorum flokki, er árla voru
23 við gröfina, gjört oss forviða; þær fundu ekki líkam-
ann, og komu og sögðu, að þær hefðu jafnvel sjeð
24 engla í sýn, sem hefðu sagt hann lifa. Og nokkrir
af þeim, sem með oss voru, fóru til grafarinnar og
fundu alt eins og konurnar höfðu sagt, en hann sáu
25 þeir ekki. Og hann sagði við þá: Ó, þjer heimskir
og í hjartanu tregir til að trúa öllu því, sem spá-
26 mennirnir hafa talað! Átti ekki Kristur að líða
27 þetta og ganga inn í dýrð sína? Og hann byrjaði á
Móse og á öllum spámönnunum, og útlagði fyrir
þeim í öllum ritningunum það, er hljóðaði um hann.
28 Og þeir nálguðust nú þorpið, sem þeir ætluðu til, og

29 hann ljet sem hann ætlaði að fara lengra. Og þeir
lögðu fast að honum og sögðu: Vertu hjá oss, því
að kvölda tekur og liðið er á daginn. Og hann fór
30 inn, til að vera hjá þeim. Og svo bar við, er hann
sat til borðs með þeim, að hann tók brauðið, bless-
31 aði og braut það og fekk þeim. Þá opnuðust augu
þeirra, og þeir þektu hann, og þá varð hann þeim
32 ósýnilegur. Og þeir sögðu hvor við annan: Brann
ekki hjartað í okkur, meðan hann talaði við okkur
á veginum og lauk upp fyrir okkur ritningunum?
33 Og þeir stóðu samstundis upp og fóru aftur til Jerú-
salem og fundu þá ellefu samansafnaða og þá, sem
34 með þeim voru, sem sögðu: Sannarlega er Drottinn
35 upprisinn og hefir birst Símoni. Og hinir sögðu frá
því, sem við hafði borið á veginum, og hvernig þeir
hefðu þekt hann, í því er brauðið var brotið.
36 En þegar þeir voru að tala um þetta, stóð hann
37 sjálfur meðal þeirra og segir við þá: Friður sje
með yður! En þeir urðu skelfdir og hræddir og
38 hugðust sjá anda. Og hann sagði við þá: Hví eruð
þjer óttaslegnir? og hvers vegna vakna efasemdir í
39 hjarta yðar? Lítið á hendur mínar og fætur, að það
er jeg sjálfur. Þreifið á mjer og lítið á; því að andi
hefir ekki hold og bein, eins og þjer sjáið mig hafa.
40 Og er hann hafði þetta mælt, sýndi hann þeim hend-
41 ur sínar og fætur. En er þeir enn þá trúðu ekki
fyrir fögnuði og voru fullir undrunar, sagði hann við
42 þá: Hafið þjer hjer nokkuð til matar? Og þeir
43 lögðu fyrir hann stykki af steiktum fiski. Og hann
tók það og neytti þess frammi fyrir þeim.

44 En hann sagði við þá: Þetta eru þau orð mín,
sem jeg talaði við yður, meðan jeg enn var með yð-
ur, að rætast ætti alt það, sem ritað er í lögmáli
45 Móse og spámönnunum og sálmunum um mig. Síðan
lauk hann upp hugskoti þeirra, til þess að þeir skildu
46 ritningarnar, og sagði við þá: Svo er skrifað, að
Kristur mundi líða og upp rísa frá dauðum á þriðja
47 degi, og að boðað skyldi verða í nafni hans öllum
þjóðum iðrun og syndafyrirgefning, sem byrja skyldi
48 í Jerúsalem. Þjer eruð vottar þessara hluta. Og
49 sjá, jeg sendi fyrirheit föður míns yfir yður; en þjer
skuluð vera kyrrir í borginni, uns þjer íklæðist
krafti frá hæðum.

50 Og hann fór með þá út í nánd við Betaníu, og
51 hann hóf upp hendur sínar og blessaði þá. Og svo
bar við, meðan hann var að blessa þá, að hann
skildist frá þeim og varð upp numinn til himins.
52 Og þeir tilbáðu hann og sneru aftur til Jerúsalem
53 með miklum fögnuði. Og þeir voru stöðugt í helgi-
dóminum og lofuðu Guð.

---

# Jóhannesar guðspjall.

1 Í upphafi var orðið, og orðið var hjá Guði,
2 og orðið var Guð; það var í upphafi hjá Guði.
3 Allir hlutir eru gjörðir fyrir það, og án þess varð

4 ekkert til, sem til er orðið. Í því var líf, og lífið
5 var ljós mannanna; og ljósið skín í myrkrinu, og
6 myrkrið meðtók það ekki. Maður kom fram, sendur
7 af Guði, hann hjet Jóhannes. Þessi maður kom til
vitnisburðar, til þess að vitna um ljósið, til þess að
8 allir skyldu trúa fyrir hann. Ekki var hann ljósið,
9 heldur átti hann að vitna um ljósið. Hið sanna ljós,
sem upplýsir hvern mann, var að koma í heiminn.
10 Hann var í heiminum, og heimurinn varð til fyrir
11 hann, og heimurinn þekti hann ekki. Hann kom til
12 sinna eigin, og hans eigin meðtóku hann ekki. En
öllum þeim sem meðtóku hann, gaf hann vald til að
13 verða Guðs börn, þeim sem trúa á nafn hans, sem
ekki eru af blóði, nje af holds vilja, nje af manns-
14 vilja, heldur af Guði fæddir. Og orðið varð hold og
hann bjó með oss, fullur náðar og sannleika, og vjer
sáum dýrð hans, dýrð sem eingetins sonar frá föð-
15 urnum. Jóhannes vitnar um hann og kallar, segjandi:
Þessi var sá sem jeg sagði um: Hann sem kemur á
eftir mjer, hefir verið á undan mjer; því að hann
16 var fyrri en jeg. Því að af gnægð hans höfum vjer
17 allir fengið, og það náð á náð ofan; því að lögmálið
var gefið fyrir Móse, en náðin og sannleikurinn varð
18 fyrir Jesúm Krist. Guð hefir enginn nokkurn tíma
sjeð; sonurinn eingetni, sem er í skauti föðursins,
hann hefir lýst honum.

19 Og þessi er vitnisburður Jóhannesar, þá er Gyð-
ingarnir sendu til hans frá Jerúsalem presta og Levíta,
20 til þess að spyrja hann: Hver ert þú? Og hann
játaði og neitaði ekki, og hann játaði: Ekki er jeg
21 Kristur. Og þeir spurðu hann: Hvað þá? Ertu

Elías? Og hann segir: Ekki er jeg. Ertu spámað-
22 urinn? Og hann svaraði: Nei. Þeir sögðu þá við
hann: Hver ert þú? til þess að vjer getum gefið
svar þeim, er oss sendu. Hvað segir þú um sjálfan þig?
23 Hann sagði: *Jeg er rödd manns, er hrópar í óbygð-
*inni: Gjörið beinan veg Drottins*, eins og Jesajas spá-
24 maður hefir sagt. En þeir voru sendir frá Faríseunum.
25 Og þeir spurðu hann og sögðu við hann: Hví skírir þú
þá, ef þú ert ekki Kristur, ekki heldur Elías, nje spámað-
26 urinn? Jóhannes svaraði þeim og sagði: Jeg skíri með
vatni; mitt á meðal yðar stendur sá, sem þjer þekkið
27 ekki, hann sem kemur eftir mig, og skóþvengi hans
28 er jeg ekki verður að leysa. Þetta bar við í Betaníu
hinumegin Jórdanar, þar sem Jóhannes var að skíra.
29 Daginn eftir sjer hann Jesúm koma til sín og
segir: Sjá, lambið Guðs, er ber synd heimsins!
30 Hann er sá, sem jeg sagði um: »Eftir mig kemur
maður, sem hefir verið á undan mjer; því að hann
31 var fyrri en jeg«. Og ekki þekti jeg hann, en til þess
að hann yrði kunnur Ísrael, — til þess er jeg kom-
32 inn og skíri með vatni. Og Jóhannes vitnaði og
sagði: Jeg hefi horft á andann stíga niður af himni
33 eins og dúfu, og hann hvíldi yfir honum. Og jeg
þekti hann ekki, en sá sem sendi mig, til þess að
skíra með vatni, hann sagði við mig: Sá sem þú
sjer andann stíga niður yfir og hvíla yfir, hann er sá
34 sem skírir með heilögum anda. Og jeg hefi sjeð það,
og jeg hefi vitnað, að þessi er guðssonurinn.
35 Daginn eftir var Jóhannes þar aftur staddur og
36 tveir af lærisveinum hans. Og hann horfði á Jesúm,
þar sem hann gekk um kring, og segir: Sjá, lambið

37 Guðs! Og lærisveinarnir tveir heyrðu hann tala
38 þetta, og fóru á eftir Jesú. En Jesús sneri sjer við,
og er hann sá þá koma á eftir sjer, segir hann við
39 þá: Hvers leitið þið? En þeir sögðu við hann:
Rabbí — það þýðir útlagt: meistari, — hvar dvelur
þú? Hann segir við þá: Komið, og þá getið þið
sjeð það. Þeir komu þá og sáu hvar hann dvaldi,
og voru hjá honum þann dag. Var það um tíundu
40 stundu. Andrjes, bróðir Símonar Pjeturs, var annar
af þessum tveimur, sem höfðu heyrt til Jóhannesar
41 og farið á eftir honum. Hann finnur fyrst bróður
sinn Símon og segir við hann: Við höfum fundið
42 Messías, það er útlagt: Kristur; og hann fór með
hann til Jesú. Jesús leit á hann og sagði: Þú ert
Símon, sonur Jóhannesar; þú skalt heita Kefas, það
er útlagt: Pjetur.
43 Daginn eftir hafði hann í hyggju að fara á stað
til Galíleu, og hittir Filippus; og Jesús segir við hann:
44 Fylg þú mjer! En Filippus var frá Betsaída, úr borg
45 þeirra Andrjesar og Pjeturs. Filippus finnur Natanael
og segir við hann: Vjer höfum fundið þann, sem
Móse hefir ritað um í lögmálinu og spámennirnir,
46 Jesúm Jósefsson frá Nasaret. Og Natanael sagði við
hann: Getur nokkuð gott verið frá Nasaret? Filippus
47 segir við hann: Kom þú og sjá. Jesús sá Natanael
koma til sín og segir um hann: Sjá, sannarlega er
48 þar Ísraelíti, sem ekki eru svik í. Natanael segir við
hann: Hvaðan þekkir þú mig? Jesús svaraði og sagði
við hann: Áður en Filippus kallaði á þig, sá jeg þig,
49 þar sem þú varst undir fíkjutrjenu. Natanael svar-
aði honum: Rabbí, þú ert sonur Guðs, þú ert kon-

50 ungur Ísraels. Jesús svaraði og sagði við hann:
Trúir þú, af því jeg sagði við þig: Jeg sá þig undir
fíkjutrjenu? Þú skalt sjá það sem þessu er meira.
51 Og hann segir við hann: Sannlega, sannlega segi
jeg yður: Þjer munuð sjá himininn opinn og engla
Guðs stíga upp og stíga niður yfir mannsins son.

2 Og á þriðja degi var haldið brúðkaup í Kana í
2 Galíleu. Og móðir Jesú var þar, en Jesús var
3 og boðinn til brúðkaupsins og lærisveinar hans. Og
er vín þraut, segir móðir Jesú við hann: Þeir hafa
4 ekki vín. Og Jesús segir við hana: Kona, hvað
skiftir þú þjer af mjer? Minn tími er enn ekki
5 kominn. Móðir hans segir við þjónana: Hvað sem
6 hann segir yður, skuluð þjer gjöra. En þar voru
sett sex vatnsker úr steini, samkvæmt hreinsunar-
siðum Gyðinga, og tók hvert þeirra tvo eða þrjá mæla.
7 Jesús segir við þá: Fyllið nú kerin vatni; og þeir
8 fyltu þau á barma. Þá segir hann við þá: Ausið
nú upp og færið kæmeistaranum, og þeir færðu hon-
9 um. En sem kæmeistarinn bergði á vatni því, er að
víni var orðið, og vissi ekki hvaðan það var, — en
þjónarnir, sem vatnið höfðu ausið, vissu það, — kallar
10 kæmeistarinn á brúðgumann og segir við hann: Hver
maður setur fyrst góða vínið fram, en þegar menn
eru orðnir ölvaðir, hið lakara; þú hefir geymt góða
11 vínið þangað til nú. Þessa byrjun jartegnanna gjörði
Jesús í Kana í Galíleu, og opinberaði dýrð sína; og
lærisveinar hans trúðu á hann.

12 Eftir þetta fór hann niður til Kapernaum, hann
sjálfur og móðir hans og bræður og lærisveinar hans,
og voru þau þar nokkra daga.

13 Og páskar Gyðinga fóru í hönd, og Jesús fór
14 upp til Jerúsalem. Og hann fann í helgidóminum
þá, sem seldu naut og sauði og dúfur, og víxlarana
15 sitjandi þar. Og hann gjörði sjer svipu úr köðlum
og rak alla út úr helgidóminum, bæði sauðina og
nautin; og hann steypti niður smápeningum víxlar-
16 anna og hratt um borðum þeirra. Og við dúfnasal-
ana sagði hann: Takið þetta burt hjeðan; gjörið
17 ekki hús föður míns að verslunarbúð. Lærisveinum
hans kom í hug, að ritað er: *Vandlæti vegna húss*
18 *þíns mun uppeta mig.* Gyðingarnir svöruðu þá og
sögðu við hann: Hvert tákn sýnir þú oss, þar eð
19 þú gjörir þetta? Jesús svaraði og sagði við þá:
Brjótið þetta musteri, og á þrem dögum mun jeg reisa
20 það. Þá sögðu Gyðingarnir: Í fjörutíu og sex ár
hefir musteri þetta verið í smíðum, og munt þú reisa
21 það á þremur dögum? En hann talaði um musteri
22 líkama síns. Þegar hann því var upprisinn frá dauðum,
mintust lærisveinar hans, að hann hafði talað þetta, og
þeir trúðu ritningunni og því orði, sem Jesús hafði talað.
23 En er hann var í Jerúsalem á páskunum, á há-
tíðinni, trúðu margir á nafn hans, er þeir sáu tákn
24 hans, þau er hann gjörði. En Jesús sjálfur trúði þeim
eigi fyrir, hver hann væri, því að hann þekti alla,
25 og þurfti þess ekki, að nokkur vitnaði um manninn,
því að hann vissi, hvað með manninum bjó.

3 En það var maður nokkur af flokki Faríseanna,
að nafni Nikódemus, höfðingi meðal Gyðinga.
2 Hann kom til hans um nótt og sagði við hann:
Rabbí, vjer vitum, að þú ert meistari kominn frá
Guði, því að enginn getur gjört þessi tákn, sem þú

3 gjörir, nema Guð sje með honum. Jesús svaraði og
sagði við hann: Sannlega, sannlega segi jeg þjer:
Enginn getur sjeð guðsríki nema hann endurfæðist.
4 Nikódemus segir við hann: Hvernig getur maður
fæðst, þegar hann er orðinn gamall? Hvort getur
hann aftur komist inn í kvið móður sinnar og fæðst?
5 Jesús svaraði: Sannlega, sannlega segi jeg þjer, ef
maðurinn fæðist ekki af vatni og anda, getur hann
6 ekki komist inn í guðsríkið. Það sem af holdinu er
fætt, er hold, og það sem af andanum er fætt, er
7 andi. Undrast þú ekki, að jeg sagði þjer: Yður ber
8 að endurfæðast. Vindurinn blæs, hvar sem hann vill,
og þú heyrir þytinn, en ekki veistu, hvaðan hann
kemur eða hvert hann fer; eins er farið hverjum,
9 sem af andanum er fæddur. Nikódemus svaraði og
10 sagði við hann: Hvernig má þetta verða? Jesús
svaraði og sagði við hann: Þú ert lærimeistari í
11 Ísrael, og veist ekki þetta? Sannlega, sannlega segi
jeg þjer, að vjer tölum það sem vjer vitum, og
vitnum um það, sem vjer höfum sjeð, og vitnisburð
12 vorn meðtakið þjer ekki. Hafi jeg sagt yður jarð-
neska hluti, og þjer trúið eigi, hvernig munuð þjer
13 þá trúa, ef jeg segi yður himneska? Og enginn
hefir stigið upp til himins, nema sá er niður stje af
14 himni, mannsins sonur, sem er á himni. Og eins og
Móse hóf upp höggorminn á eyðimörkinni, þannig á
15 mannsins sonur að verða upp hafinn, til þess að hver,
16 sem trúir, hafi í honum eilíft líf. Því að svo elskaði
Guð heiminn, að hann gaf son sinn eingetinn, til
þess að hver, sem á hann trúir, glatist ekki, heldur
17 hafi eilíft líf. Því að ekki sendi Guð soninn í heim-

inn, til þess að hann skyldi dæma heiminn, heldur
18 til þess að heimurinn skyldi frelsast fyrir hann. Sá
sem trúir á hann, dæmist ekki; sá sem ekki trúir,
er þegar dæmdur, því að hann hefir ekki trúað á
19 nafn eingetins sonar Guðs. En þessi er dómurinn,
að ljósið er komið í heiminn, og mennirnir elskuðu
myrkrið meir en ljósið, því að verk þeirra voru
20 vond. Því að hver sem ilt aðhefst, hatar ljósið og
kemur eigi til ljóssins, til þess að verk hans verði
21 ekki átalin. En sá sem sannleikann gjörir, kemur
til ljóssins, til þess að verk hans verði augljós, því
að þau eru í Guði gjörð.

22 Eftir þetta kom Jesús og lærisveinar hans til
Júdeulands; og þar dvaldist hann ásamt þeim og
23 skírði. En Jóhannes skírði líka í Ainon nálægt
Salem, því að þar var vatn mikið. Og menn komu
24 þangað og ljetu skírast; því að Jóhannesi hafði enn
25 ekki verið varpað í fangelsi. Þá kom upp þræta af
hálfu lærisveina Jóhannesar og Gyðings nokkurs um
26 hreinsanir. Og þeir komu til Jóhannesar og sögðu
við hann: Meistari, sá sem var með þjer hinu-
megin Jórdanar, hann, sem þú vitnaðir um, sjá,
27 hann skírir, og allir koma til hans. Jóhannes svar-
aði og sagði: Enginn maður getur tekið neitt, nema
28 honum sje gefið það af himni. Þjer eruð sjálfir vottar
mínir, að jeg sagði: Ekki er jeg Kristur, heldur:
29 Jeg er sendur á undan honum. Sá sem á brúðina,
hann er brúðgumi, en vinur brúðgumans, sem
stendur hjá honum og hlýðir á hann, gleðst inni-
lega við rödd brúðgumans. Þessi gleði mín er því
30 orðin fullkomin. Hann á að vaxa, en jeg að minka.

31 Sá sem að ofan kemur, er yfir öllum. Sá sem er
af jörðunni, hann er af jörðunni og talar af jörðunni.
32 Sá sem kemur af himni, er yfir öllum; og það sem
hann hefir sjeð og heyrt, það vitnar hann, og vitnis-
33 burð hans meðtekur enginn. En sá sem hefir með-
tekið vitnisburð hans, hefir staðfest, að Guð sje sann-
34 orður. Því að sá, sem Guð sendi, talar Guðs orð,
35 því að ómælt gefur hann andann. Faðirinn elskar
36 soninn og hefir gefið alla hluti í hönd honum. Sá
sem trúir á soninn, hefir eilíft líf, en sá sem óhlýðn-
ast syninum, skal ekki sjá lífið, heldur varir reiði
Guðs yfir honum.

4 Þegar nú Drottinn varð þess vís, að Faríseamir
hefðu frjett, að Jesús fengi fleiri lærisveina og
2 skírði fleiri en Jóhannes, — Jesús skírði þó ekki
3 sjálfur, heldur lærisveinar hans, — yfirgaf hann
4 Júdeu og fór aftur til Galíleu. En hann varð að
5 leggja leið sína um Samaríu. Kemur hann þá til
bæjar í Samaríu, sem Síkar heitir, nálægt landi því,
6 sem Jakob gaf Jósef syni sínum. En þar var Jakobs-
brunnur. Þar eð Jesús nú var orðinn vegmóður,
settist hann rakleiðis niður við brunninn; það var
7 um sjettu stund. Kona nokkur samversk kemur þá,
til þess að ausa upp vatni. Jesús segir við hana:
8 Gef mjer að drekka! því að lærisveinar hans höfðu
farið burt inn í bæinn, til þess að kaupa vistir.
9 Samverska konan segir þá við hann: Hvernig biður
þú, sem ert Gyðingur, mig, samverska konu, um
að drekka? Því að Gyðingar eiga ekki mök við
10 samverska menn. Jesús svaraði og sagði við hana:
Ef þú þektir gjöf Guðs og hver sá er, sem segir við

þig: Gef mjer að drekka! þá mundir þú hafa beðið hann,
11 og hann mundi hafa gefið þjer lifandi vatn. Konan
segir við hann: Herra, þú hefir enga ausu og brunnur-
inn er djúpur; hvaðan hefir þú þá hið lifandi vatn?
12 Eða ertu meiri föður vorum Jakob, sem gaf oss
brunninn og drakk sjálfur úr honum og synir hans
13 og kvikfje? Jesús svaraði og sagði við hana: Hver
sem drekkur af þessu vatni, hann mun þyrsta aftur,
14 en hver sem drekkur af því vatni, sem jeg mun
gefa honum, hann mun að eilífu ekki þyrsta, heldur
mun vatn það, sem jeg mun gefa honum, verða í
15 honum að lind, er sprettur upp til eilífs lífs. Konan
segir við hann: Herra, gef mjer þetta vatn, til þess
að mig skuli ekki þyrsta, nje heldur þurfi jeg að
16 fara hingað, til að ausa upp vatni. Jesús segir við
hana: Far þú, kallaðu á mann þinn og kom hingað.
17 Konan svaraði og sagði við hann: Jeg á engan
mann. Jesús segir við hana: Rjett sagðir þú: Jeg
18 á engan mann; því að þú hefir átt fimm menn, og
sá sem þú átt nú, er ekki maður þinn; þetta hefir
19 þú sagt satt. Konan segir við hann: Herra, jeg sje,
20 að þú ert spámaður. Feður vorir tilbáðu á þessu
fjalli, og þjer segið, að í Jerúsalem sje staðurinn, þar
21 sem tilbiðja eigi. Jesús segir við hana: Trú þú mjer,
kona, sú stund kemur, er þjer hvorki munuð tilbiðja
22 föðurinn á þessu fjalli nje í Jerúsalem. Þjer tilbiðjið
það sem þjer þekkið ekki; vjer tilbiðjum það sem
vjer þekkjum; því að frá Gyðingum er hjálpræðið.
23 En sú stund kemur, og er nú komin, er hinir sönnu
tilbiðjendur skulu tilbiðja föðurinn í anda og sann-
leika, því að einmitt faðirinn leitar slíkra tilbiðjenda.

24 Guð er andi, og þeir sem tilbiðja hann, eiga að til-
25 biðja hann í anda og sannleika. Konan segir við
hann: Jeg veit, að Messías kemur, sem kallast
Kristur; þegar hann kemur, mun hann kunngjöra
26 oss alt. Jesús segir við hana: Jeg er hann, jeg,
sem við þig tala.
27 Og í því bili komu lærisveinar hans og undruð-
ust, að hann var að tala við konu. Þó sagði enginn:
28 Hvað viltu henni? eða: Hvað ertu að tala við hana?
Konan skildi þá eftir skjólu sína, gekk burt inn í
29 bæinn og segir við menn: Komið og sjáið mann,
sem sagði mjer alt, sem jeg hefi aðhafst; mundi ekki
30 þessi maður vera Kristur? Þeir gengu út úr borg-
31 inni og komu til hans. Meðan á þessu stóð, báðu
lærisveinarnir hann og sögðu: Rabbí, neyttu matar!
32 Hann sagði við þá: Jeg hefi fæðu að eta, sem þjer
33 vitið ekki af. Lærisveinarnir sögðu þá hver við
34 annan: Ætli nokkur hafi fært honum að eta? Jesús
segir við þá: Minn matur er að gjöra vilja þess
35 sem sendi mig og fullkomna hans verk. Segið þjer
ekki: Enn eru fjórir mánuðir, þá kemur upp-
skeran? Sjá, jeg segi yður: hefjið upp augu yðar
og lítið á akrana, þeir eru þegar hvítir til uppskeru.
36 Hver sem upp sker, fær laun og safnar ávexti til
eilífs lífs, til þess að bæði sá sem sáir, og sá sem
37 upp sker, geti glaðst sameiginlega. Því að í þessu
efni er orðið satt: »Einn er sá sem sáir, og annar
38 sá er upp sker«. Jeg hefi sent yður til þess að
upp-skera það, sem þjer ekki hafið unnið að;
aðrir hafa erfiðað, en þjer eruð gengnir inn í vinnu
þeirra.

39 En úr þessum bæ trúðu margir af Samverjun-
um á hann fyrir orð konunnar, sem vitnaði: Hann
40 sagði mjer alt, sem jeg hefi aðhafst. Þegar því
Samverjarnir komu til hans, beiddu þeir hann að
41 dveljast hjá sjer; og hann dvaldist þar tvo daga, og
42 miklu fleiri tóku trú fyrir orð hans; og við konuna
sögðu þeir: Það er eigi framar fyrir þitt tal, að
vjer trúum, því að sjálfir höfum vjer heyrt og
vitum, að þessi maður er í sannleika frelsari
heimsins.

43 En eftir þá tvo daga hjelt hann burt þaðan til
44 Galíleu. Því að Jesús vitnaði sjálfur, að spámaður
45 væri ekki í metum í föðurlandi sínu. Er hann nú
kom til Galíleu, tóku Galíleumenn við honum,
sem sjeð höfðu alt það, er hann gjörði á hátíðinni
í Jerúsalem; því að þeir höfðu einnig sótt hátíðina.

46 Hann kom þá aftur til Kana í Galíleu, þar sem
hann gjörði vatnið að víni. Og þar var konungs-
maður nokkur, og lá sonur hans sjúkur í Kapernaum.
47 Þegar hann frjetti, að Jesús væri kominn frá Júdeu
til Galíleu, fór hann til hans og bað hann að koma
og lækna son sinn, því að hann lægi fyrir dauðan-
48 um. Jesús sagði þá við hann: Þjer trúið ekki,
49 nema þjer sjáið tákn og stórmerki. Konungsmaður-
inn segir við hann: Herra, kom þú áður en barnið
50 mitt andast. Jesús segir við hann: Far þú, sonur
þinn lifir. Maðurinn trúði orði því, sem Jesús talaði
51 til hans, og fór burt. En á heimleiðinni mættu
honum þjónar hans og sögðu, að sonur hans væri á
52 lífi. Þá spurði hann þá að, hve nær honum hefði
farið að ljetta; og þeir sögðu við hann: Í gær um

53 sjöundu stundu hvarf sóttin frá honum. Þá sá faðir-
inn, að það var á þeirri stundu, er Jesús hafði
sagt við hann: Sonur þinn lifir. Og hann tók
54 trú og alt hans heimafólk. Þetta var önnur jar-
tegnin, sem Jesús gjörði, er hann kom til Galíleu
frá Júdeu.

5 Eftir þetta var hátíð Gyðinga, og Jesús fór upp
til Jerúsalem.

2 En í Jerúsalem er við sauðahliðið laug, sem
kallast á hebresku Beþesda, og hefir fimm súlnagöng.
3 Í þeim lá fjöldi sjúkra manna, blindra, haltra, vis-
5 inna. En þar var maður nokkur, sem sjúkur hafði
6 verið í þrjátíu og átta ár. Þegar Jesús sá hann
liggja og vissi, að hann þegar hafði lengi sjúkur
verið, segir hann við hann: Viltu verða heill?
7 Sjúklingurinn svaraði honum: Herra, jeg hefi engan
mann, til þess að láta mig í laugina, þegar vatnið
hrærist; en meðan jeg er á leiðinni, fer annar ofan
8 í á undan mjer. Jesús segir við hann: Rís upp, tak
9 sæng þína og gakk. Og jafnskjótt varð maðurinn
heill, tók upp sængina og gekk.

10 En sá dagur var hvíldardagur. Því sögðu Gyð-
ingarnir við hinn læknaða mann: Það er hvíldar-
dagur, og þjer er ekki leyfilegt að bera sængina.
11 En hann svaraði þeim: Sá sem mig gjörði heilan,
12 hann sagði mjer: Tak þú sæng þína og gakk. Þeir
spurðu hann: Hver er sá maður, sem sagði við þig:
13 Tak þú sæng þína og gakk? En læknaði maðurinn
vissi ekki, hver það var, því að Jesús hafði leynst
14 burt, með því að fjöldi fólks var á staðnum. Eftir
þetta hittir Jesús hann í helgidóminum og sagði við

hann: Sjá, þú ert orðinn heill, syndga þú ekki
framar, til þess að þjer vilji ekki annað verra til.
15 Maðurinn gekk burt og sagði Gyðingunum frá, að
16 Jesús væri sá, er hefði gjört sig heilan, og vegna
þess ofsóttu Gyðingarnir Jesúm, að hann gjörði þetta
17 á hvíldardegi. En Jesús svaraði þeim: Faðir minn
18 starfar alt til þessa, jeg starfa einnig. Fyrir því
leituðust Gyðingarnir nú enn frekar við að ráða
hann af dögum, að hann ekki einungis braut hvíldar-
daginn, heldur kallaði einnig Guð föður sinn og
gjörði sjálfan sig Guði jafnan.

19 Jesús svaraði þá og sagði við þá:
Sannlega, sannlega segi jeg yður: Sonurinn
getur ekkert gjört af sjálfum sjer, nema það sem hann
sjer föðurinn gjöra, því að það sem hann gjörir, það
20 gjörir og sonurinn sömuleiðis. Því að faðirinn elskar
soninn og sýnir honum alt, sem hann gjörir, og hann
mun sýna honum meiri verk en þessi, til þess að
21 þjer skulið furða yður. Því að eins og faðirinn upp
vekur hina dauðu og lífgar, þannig lífgar og sonur-
22 inn þá sem hann vill. Því að faðirinn dæmir ekki
heldur nokkurn, heldur hefir hann falið syninum á
23 hendur allan dóm, til þess að allir heiðri soninn eins
og þeir heiðra föðurinn. Sá sem ekki heiðrar son-
24 inn, heiðrar ekki föðurinn, sem sendi hann. Sann-
lega, sannlega segi jeg yður: Sá sem heyrir mitt
orð og trúir þeim sem sendi mig, hefir eilíft líf og
kemur ekki til dóms, heldur hefir hann stigið yfir
25 frá dauðanum til lífsins. Sannlega, sannlega segi jeg
yður: Sú stund kemur, og er nú komin, er hinir
dauðu munu heyra raust Guðs sonar, og þeir, sem

26 heyra, munu lifa. Því að eins og faðirinn hefir líf í
sjálfum sjer, þannig hefir hann einnig gefið syninum
27 að hafa líf í sjálfum sjer; og hann hefir gefið hon-
um vald til að halda dóm, því að hann er mannsins
28 sonur. Undrist ekki þetta, því að sú kemur stund,
er allir þeir sem í gröfunum eru, munu heyra raust
29 hans, og þeir munu ganga út, þeir sem gott hafa
gjört, til upprisu lífsins, en þeir sem ilt hafa aðhafst,
til upprisu dómsins.
30 Ekki megna jeg að gjöra neitt af sjálfum mjer;
jeg dæmi eins og jeg heyri; og minn dómur er rjett-
vís, því að jeg leita ekki míns vilja, heldur vilja þess
31 er sendi mig. Ef jeg vitna um sjálfan mig, þá er
32 vitnisburður minn ekki sannur. Annar er, sem vitn-
ar um mig, og jeg veit, að vitnisburðurinn er sannur,
33 sem hann vitnar um mig. Þjer hafið sent til Jó-
34 hannesar, og hann bar sannleikanum vitni. En
vitnisburðinn tek jeg ekki hjá manni, heldur segi jeg
35 þetta, til þess að þjer verðið hólpnir. Hann var
brennandi og skínandi lampi, en þjer hafið aðeins
36 um stund viljað gleðjast við ljós hans. En jeg hefi
þann vitnisburð, sem meiri er en Jóhannesar, því að
þau verk, sem faðir minn fekk mjer að leysa af
hendi, einmitt þau verk, sem jeg gjöri, vitna um
37 mig, að faðirinn hefir sent mig. Og faðirinn, sem
sendi mig, hann hefir vitnað um mig. Hvorki
hafið þjer nokkurn tíma heyrt rödd hans, nje sjeð
38 ásýnd hans. Og ekki hafið þjer orð hans varanlegt
í yður, því að þeim sem hann sendi, honum trúið
39 þjer ekki. Þjer rannsakið ritningarnar, því að í þeim
hugsið þjer, að þjer hafið eilíft líf, og þær eru það,

40 sem vitna um mig; og ekki viljið þjer koma til mín,
41 til þess að þjer hafið lífið. Jeg tek ekki heiður af
42 mönnum, en jeg þekki yður, að þjer hafið ekki Guðs
43 kærleika í yður. Jeg er kominn í nafni föður míns,
og þjer meðtakið mig ekki. Ef annar kæmi í sínu
44 eigin nafni, munduð þjer meðtaka hann. Hvernig
getið þjer trúað, þjer, sem takið heiður hver hjá
öðrum, en leitið ekki þess heiðurs, sem er hjá Guði
45 einum? Ætlið ekki, að jeg muni ákæra yður fyrir
föðurnum; sá er til sem ákærir yður, Móse, sem þjer
46 hafið bygt von yðar á. Því að ef þjer tryðuð Móse,
þá tryðuð þjer og mjer, því að hann hefir ritað um
47 mig. En ef þjer trúið ekki ritum hans, hvernig ættuð
þjer þá að trúa orðum mínum?

6 Eftir þetta fór Jesús burt til landsins hinu-
megin við Galíleu-vatnið, sem kent er við
2 Tíberías. En mikill mannfjöldi fylgdi honum, því að
menn sáu þau tákn, sem hann gjörði á hinum sjúku.
3 En Jesús fór upp á fjallið og settist þar niður ásamt
4 lærisveinum sínum. En páskar, hátíð Gyðinga, voru
5 í nánd. Þegar Jesús nú hóf upp augu sín og sá, að
fjöldi fólks kom til hans, segir hann við Filippus:
Hvar eigum vjer að kaupa brauð, til þess að menn
6 þessir fái etið? En þetta sagði hann, til þess að
reyna hann, því að sjálfur vissi hann, hvað hann
7 ætlaði sjer að gjöra. Filippus svaraði honum: Brauð
fyrir tvö hundruð denara er ekki nóg handa þeim,
8 til þess að hver einn fái lítið eitt. Segir þá einn af
lærisveinum hans, Andrjes, bróðir Símonar Pjeturs,
9 við hann: Hjer er ungmenni, sem hefir fimm bygg-
brauð og tvo smáfiska, en hvað er þetta handa svo

10 mörgum? Jesús sagði: Látið fólkið setjast niður. En
gras mikið var á staðnum. Settust þá niður karl-
11 mennirnir, að tölu nær fimm þúsundir. Jesús tók þá
brauðin, og er hann hafði gjört þakkir, skifti hann
þeim meðal þeirra, sem sest höfðu niður; sömuleiðis
12 og af fiskunum, svo mikið sem þeir vildu. En er
þeir voru mettir, segir hann við lærisveina sína:
Takið saman brotnu brauðin, sem afgangs eru, til
13 þess að ekkert fari til ónýtis. Þeir söfnuðu þeim þá
saman og fyltu tólf karfir með molum af byggbrauð-
unum fimm, sem gengu af hjá þeim, er neytt höfðu.
14 Þegar fólkið nú sá það tákn, sem hann gjörði, sagði
það: Þessi er sannarlega spámaðurinn, sem á að
koma í heiminn.

15 Þegar Jesús því varð þess var, að þeir ætluðu
að koma og taka hann með valdi, til þess að gjöra
hann að konungi, veik hann aftur afsíðis upp á fjallið
einn saman.

16 En er kveld var komið, fóru lærisveinar hans
17 niður að vatninu, og þeir stigu á skip, og hjeldu yfir
um vatnið til Kapernaum; og það var þegar orðið
18 dimt, og Jesús var enn ekki kominn til þeirra. En
vatnið tók að ókyrrast, því að veður bljes mikið.
19 Þegar þeir nú höfðu róið hjer um bil tuttugu og
fimm eða þrjátíu skeiðrúm, sjá þeir Jesúm gangandi
á vatninu og kominn nálægt skipinu, og þeir urðu
20 hræddir. En hann segir við þá: Það er jeg, óttist
21 ekki. Vildu þeir þá taka hann upp í skipið, og
jafnskjótt kom skipið að landi, þar sem þeir reru að.

22 Daginn eftir sá fólkið, sem stóð hinumegin
vatnsins, að þar hafði eigi verið nema einn bátur og

að Jesús hafði ekki stigið á skip með lærisveinum
sínum, heldur höfðu lærisveinarnir farið einir saman,
23 — aftur á móti voru þar komnir bátar frá Tíberías,
nálægt þeim stað, sem þeir átu brauðið, er Drottinn
24 hafði gjört þakkir; — þegar því fólkið sá, að Jesús
var ekki þar, nje heldur lærisveinar hans, stigu þeir
í bátana og komu til Kapernaum, til þess að leita
25 að Jesú. Og er þeir fundu hann hinumegin vatnsins,
sögðu þeir við hann: Meistari, hve nær komstu hingað?
26 Jesús svaraði þeim og sagði: Sannlega, sannlega
segi jeg yður: Þjer leitið mín ekki af því að þjer
sáuð jartegnir, heldur af því, að þjer neyttuð brauð-
27 anna og urðuð mettir. Aflið yður ekki þeirrar fæðu,
sem eyðist, heldur þeirrar fæðu, sem varir til eilífs
lífs, sem mannsins sonur mun gefa yður: því að hann
28 hefir faðirinn, Guð, innsiglað. Þeir sögðu því við
hann: Hvað eigum vjer að gjöra, til þess að vjer
29 vinnum verk Guðs? Jesús svaraði og sagði við þá:
Þetta er verk Guðs, að þjer trúið á þann, sem hann
30 sendi. Þeir sögðu því við hann: Hvert tákn gjörir
þú þá, til þess að vjer sjáum og trúum þjer? Hvaða
31 verk vinnur þú? Feður vorir átu manna á eyðimörk-
inni, eins og ritað er: *Brauð af himni gaf hann þeim*
32 *að eta.* Þá sagði Jesús við þá: Sannlega, sannlega
segi jeg yður: Ekki gaf Móse yður brauð af himni,
heldur gefur faðir minn yður hið sanna brauð af
33 himni. Því að brauð Guðs er það, sem stígur niður
34 af himni og gefur heiminum líf. Þá sögðu þeir við
35 hann: Herra, gef oss ávalt þetta brauð. Jesús sagði
við þá: Jeg er brauð lífsins. Þann mun ekki hungra,
sem til mín kemur, og þann aldrei þyrsta, sem á mig

36 trúir. En jeg hefi sagt yður, að þjer hafið sjeð mig
37 og trúið þó ekki. Alt, sem faðirinn gefur mjer, mun
koma til mín, og þann, sem til mín kemur, mun jeg
38 alls ekki burt reka. Því að jeg hefi stigið niður af
himni, ekki til þess að gjöra vilja minn, heldur vilja
39 þess er sendi mig. En þetta er vilji hans er sendi
mig, að af öllu því sem hann hefir gefið mjer, skuli
jeg ekki láta neitt glatast, heldur upp vekja það á
40 efsta degi. Því að þetta er vilji föður míns, að hver
sem sjer soninn og trúir á hann, hafi eilíft líf; og jeg
mun upp vekja hann á efsta degi.

41 Þá mögluðu Gyðingarnir um hann, af því að
hann sagði: Jeg er það brauð, sem kom niður af
42 himni. Og þeir sögðu: Er hann ekki Jesús, sonur
Jósefs? Og þekkjum vjer ekki föður hans og móður?
Hvernig segir hann þá nú: Jeg hefi stigið niður af
43 himni? Jesús svaraði og sagði við þá: Möglið ekki
44 yðar á meðal; enginn getur komið til mín, nema faðir-
inn, sem sendi mig, dragi hann, og jeg mun upp vekja
45 hann á efsta degi. Ritað er í spámönnunum: *Þeir
munu allir verða af Guði fræddir;* hver sem heyrir
46 föðurinn og lærir, sá kemur til mín. Ekki að nokkur
hafi sjeð föðurinn, nema sá sem er frá Guði, hann
47 hefir sjeð föðurinn. Sannlega, sannlega segi jeg yður:
48 Sá sem trúir, hefir eilíft líf. Jeg er brauð lífsins.
49 Feður yðar átu manna í eyðimörkinni og dóu. Þetta
50 er brauðið, sem kemur niður af himni, til þess að
51 maður neyti af því og deyi ekki. Jeg er hið lifandi
brauð, sem kom niður af himni; ef nokkur etur af
þessu brauði, mun hann lifa til eilífðar; og það brauð,
sem jeg mun gefa, er hold mitt, heiminum til lífs.

52 Þá þráttuðu Gyðingarnir sín á milli og sögðu:
53 Hvernig getur hann gefið oss hold sitt að eta? Því
sagði Jesús við þá: Sannlega, sannlega segi jeg yður:
Ef þjer ekki etið hold mannsins sonar og drekkið
54 blóð hans, hafið þjer ekki líf í yður. Sá sem etur
hold mitt og drekkur blóð mitt, hefir eilíft líf, og jeg
55 mun upp vekja hann á efsta degi; því að hold mitt
56 er sönn fæða, og blóð mitt er sannur drykkur. Sá
sem etur hold mitt og drekkur blóð mitt, sá er í mjer
57 og jeg í honum; eins og hinn lifandi faðir sendi mig,
og jeg lifi fyrir föðurinn, eins mun sá lifa fyrir mig,
58 sem mig etur. Þetta er það brauð, sem komið er
niður af himni; ekki eins og feðurnir átu og dóu; sá
59 sem etur þetta brauð, mun lifa að eilífu. Þetta sagði
hann í samkundunni, er hann var að kenna í Kap-
ernaum.

60 Margir af lærisveinum hans, sem hlýddu á, sögðu
þá: Hörð er þessi ræða, hver getur hlýtt á hana?
61 En er Jesús vissi með sjálfum sjer, að lærisveinar
hans mögluðu um þetta, sagði hann við þá: Hneykslar
62 þetta yður? Hvað þá, ef þjer sæjuð mannsins son
63 stíga upp þangað, sem hann áður var? Það er and-
inn, sem lífgar, holdið gagnar ekkert; orðin, sem jeg
64 hefi talað við yður, eru andi og eru líf. En þeir eru
nokkrir meðal yðar, sem ekki trúa, — því að Jesús
vissi frá upphafi hverjir þeir voru, sem ekki trúðu,
65 og hver sá var, sem mundi svíkja hann. — Og hann
sagði: Fyrir því hefi jeg sagt við yður: Enginn getur
komið til mín, nema honum sje það gefið af föðurnum.

66 Upp frá þessu fóru margir af lærisveinum hans
burt frá honum aftur, og voru ekki framar með hon-

67 um. Jesús sagði því við þá tólf: Viljið þjer einnig
68 fara burt? Símon Pjetur svaraði honum: Herra, til
hvers ættum vjer að fara? Þú hefir orð eilífs lífs,
69 og vjer höfum trúað og vitum, að þú ert hinn heilagi
70 Guðs. Jesús svaraði þeim: Hefi jeg ekki útvalið
71 yður tólf? Og einn yðar er djöfull! En hann átti
við Júdas, son Símonar Ískaríot, því að hann varð
síðan til að svíkja hann, einn af þeim tólf.
7 Og eftir þetta ferðaðist Jesús um í Galíleu, því
að ekki vildi hann ferðast um í Júdeu, af því að
2 Gyðingarnir sátu um líf hans. En hátíð Gyðinga,
3 laufskálahátíðin, var í nánd. Þá sögðu bræður hans
við hann: Tak þig upp hjeðan og far til Júdeu, til
þess að einnig lærisveinar þínir þar sjái þau verk,
4 sem þú gjörir. Því að enginn sá gjörir nokkuð leyni-
lega, sem alkunnur vill verða; ef þú gjörir þetta, þá
5 sýn þig sjálfan heiminum; því að bræður hans trúðu
6 ekki heldur á hann. Þá segir Jesús við þá: Minn
tími er enn ekki kominn, en yðar tími er jafnan fyrir
7 hendi. Ekki getur heimurinn hatað yður, en mig
hatar hann, af því að jeg vitna um hann, að verk
8 hans eru vond. Farið þjer til hátíðarinnar; jeg fer
ekki að sinni til þessarar hátíðar, því að minn tími
9 er enn ekki fullnaður. Þetta sagði hann við þá, og
var kyr í Galíleu.

10 En er bræður hans voru farnir til hátíðarinnar,
þá fór hann og sjálfur þangað, ekki opinberlega,
11 heldur eins og á laun. Gyðingarnir leituðu hans því
12 á hátíðinni og sögðu: Hvar er hann? Og mikill
kurr var um hann meðal fólksins; nokkrir sögðu:
Hann er góður maður; en aðrir sögðu: Nei, heldur

13 leiðir hann fólkið í villu. Þó talaði enginn opinskátt
um hann af ótta fyrir Gyðingunum.

14 En er hátíðin var hálfnuð, gekk Jesús upp í
15 helgidóminn og kendi. Gyðingana furðaði nú á því,
og þeir sögðu: Hvaðan hefir þessi maður lærdóm
16 sinn og hefir þó enga tilsögn hlotið? Jesús svaraði
þeim því og sagði: Mín kenning er ekki mín, held-
17 ur þess sem sendi mig. Ef sá er nokkur, sem vill
gjöra vilja hans, hann mun, hvað kenninguna snertir,
komast að raun um, hvort hún er frá Guði, eða jeg
18 tala af sjálfum mjer. Sá sem talar af sjálfum sjer,
leitar eigin vegsemdar, en sá er leitar vegsemdar
þess er sendi hann, er sannorður, og ranglæti er ekki
19 í honum. Gaf Móse yður ekki lögmálið, og enginn
yðar heldur lögmálið? Hví sitjið þjer um líf mitt?
20 Fólkið svaraði: Þú hefir anda; hver situr um líf
21 þitt? Jesús svaraði og sagði við þá: Eitt verk
22 gjörði jeg, og yður furðar alla á því. Móse gaf yður
umskurnina, — ekki að hún sje frá Móse, heldur frá
feðrunum, — og þjer umskerið mann á hvíldardegi.
23 Ef maður meðtekur umskurn á hvíldardegi, til þess
að Móse-lögmál verði ekki brotið, reiðist þjer mjer
þá fyrir það, að jeg gjörði allan manninn heilan á
24 hvíldardegi? Dæmið ekki eftir ásýndum, heldur
dæmið rjettlátan dóm.

25 Þá sögðu nokkrir af Jerúsalem-búum: Er það
26 ekki þessi maður, sem þeir sitja um að lífláta? Og
sjá, hann talar opinberlega, og þeir segja ekkert við
hann. Skyldu höfðingjarnir hafa komist að því með
27 sanni, að hann sje Kristur? En um þennan mann
vitum vjer, hvaðan hann er; en þegar Kristur kemur,

28 veit enginn, hvaðan hann er. Jesús kallaði þá, þar
sem hann var að kenna í helgidóminum, og sagði:
Bæði þekkið þjer mig og vitið, hvaðan jeg er. Og
af sjálfum mjer er jeg ekki kominn, en sá er sann-
29 ur, sem sendi mig, en hann þekkið þjer ekki. Jeg
þekki hann, því að jeg er frá honum, og hann hefir
30 sent mig. Þeir leituðust þá við að handtaka hann.
Þó lagði enginn hendur á hann, því að stund hans
31 var enn ekki komin. En margir af fólkinu trúðu á
hann og sögðu: Þegar Kristur kemur, mun hann þá
32 gjöra fleiri jartegnir en þessi maður hefir gjört? Farí-
searnir heyrðu, að fólkið var þannig að þrátta um
hann; og æðstu prestarnir og Farísearnir sendu þjóna,
33 til þess að handtaka hann. Jesús sagði því: Enn
þá er jeg hjá yður lítinn tíma, og fer svo til hans, er
34 sendi mig. Þjer munuð leita mín og þjer munuð
ekki finna mig, og þar sem jeg er, þangað getið þjer
35 ekki komist. Gyðingarnir sögðu þá sín á milli: Hvert
skyldi hann ætla að fara, svo að vjer finnum hann
ekki? Skyldi hann ætla að fara til þeirra, sem
36 dreifðir eru meðal Grikkja, og kenna Grikkjum? Hvað
er þetta orð, sem hann sagði: Þjer munuð leita mín
og þjer munuð ekki finna mig? Og: Þar sem jeg
er, þangað getið þjer ekki komist?

37 En síðasta daginn, hátíðisdaginn mikla, gekk
Jesús fram og kallaði, segjandi: Ef nokkurn þyrstir,
38 þá komi hann til mín og drekki! Sá sem trúir á
mig, úr hans kviði munu, eins og ritningin hefir sagt,
39 renna lækir lifandi vatns. En þetta sagði hann um
andann, er þeir mundu meðtaka, er á hann trýðu,
því að enn þá var andinn ekki gefinn, af því að

40 Jesús var ekki enn þá dýrðlegur orðinn. Því sögðu
nokkrir af fólkinu, sem heyrðu þessi orð: Þetta er
41 sannarlega spámaðurinn. Aðrir sögðu: Þessi maður
er Kristur. En sumir sögðu: Mundi Kristur þá koma
42 frá Galíleu? Hefir ekki ritningin sagt, að Kristur
muni koma af Davíðs sæði og frá Betlehem, þorpinu
43 þar sem Davíð var? Nú varð ágreiningur um hann
44 meðal fólksins. En nokkrir af þeim vildu handtaka
hann, þó lagði enginn hendur á hann.

45 Þjónarnir komu þá til æðstu prestanna og Farí-
seanna, og þeir sögðu við þá: Hví komuð þjer ekki
46 með hann? Þjónarnir svöruðu: Aldrei hefir nokkur
47 maður talað þannig. Faríseanir svöruðu þeim þá:
48 Hvort hafið þjer einnig látið leiðast afvega? Hefir
nokkur af höfðingjunum trúað á hann eða af Farí-
49 seunum? En þessi múgur, sem ekki þekkir lögmálið,
50 — þeir eru bölvaðir! Nikódemus, — sá sem kom til
hans fyrrum, þótt hann væri einn af þeim, — segir
51 við þá: Dæmir lögmál vort nokkurn mann, nema
menn hafi yfirheyrt hann áður og viti, hvað hann
52 hefst að? Þeir svöruðu og sögðu við hann: Ert þú
líka frá Galíleu? Rannsakaðu og sjáðu, að enginn
spámaður kemur fram úr Galíleu.

53 [Og þeir fóru hver heim til sín.

8 En Jesús fór til Olíufjallsins. En snemma morg-
2 uns kom hann aftur í helgidóminn, og alt fólkið
kom til hans, og hann settist niður og kendi þeim.
3 En fræðimennirnir og Farísearnir koma með konu,
sem staðin hafði verið að hórdómi, og leiða hana
4 fram og segja við hann: Meistari, kona þessi er
5 beinlínis staðin að því að drýgja hór. Móse hefir nú

boðið oss í lögmálinu, að slíkar konur skuli grýta;
6 hvað segir þú nú um hana? En þetta sögðu þeir til
að freista hans, til þess að þeir hefðu eitthvað að
ákæra hann fyrir. En Jesús laut þá niður og ritaði
7 með fingrinum á jörðina. En þar eð þeir hjeldu
áfram að spyrja hann, rjetti hann sig upp og sagði
við þá: Sá yðar, sem syndlaus er, kasti fyrstur
8 steini á hana. Og hann laut aftur niður og ritaði á
9 jörðina með fingrinum. En er þeir heyrðu þetta,
gengu þeir burt hver eftir annan, öldungarnir fyrstir,
og Jesús var einn eftir og konan frammi fyrir hon-
10 um. Og Jesús rjetti sig upp og sagði við hana: Kona,
11 hvar eru þeir? Sakfeldi enginn þig? En hún svar-
aði: Enginn, herra. En Jesús sagði: Jeg sakfelli
þig ekki heldur. Far þú; syndga ekki upp frá þessu.]
12 Og enn talaði Jesús til þeirra og sagði: Jeg er
ljós heimsins, hver sem fylgir mjer, mun ekki ganga
13 í myrkrinu, heldur hafa ljós lífsins. Farísearnir
sögðu því við hann: Þú vitnar um sjálfan þig,
14 vitnisburður þinn er ekki sannur. Jesús svaraði og
sagði við þá: Þótt jeg vitni um sjálfan mig, er
vitnisburður minn sannur; því að jeg veit, hvaðan
jeg er kominn og hvert jeg fer. En þjer vitið ekki,
15 hvaðan jeg kem eða hvert jeg fer. Þjer dæmið eftir
16 holdinu; jeg dæmi engan; og jafnvel þótt jeg dæmdi,
er dómur minn sannur, því að jeg er ekki einn, held-
17 ur jeg og faðirinn, sem sendi mig. Það er og ritað
í lögmáli yðar, að vitnisburður tveggja manna sje
18 sannur. Jeg er sá sem vitna um sjálfan mig, og
19 faðirinn, sem sendi mig, vitnar um mig. Þeir sögðu
þá við hann: Hvar er faðir þinn? Jesús svaraði:

Hvorki þekkið þjer mig nje föður minn; ef þjer
20 þektuð mig, þá þektuð þjer og föður minn. Þessi
orð talaði hann hjá fjárhirslunni, er hann var að
kenna í helgidóminum, og enginn lagði hendur á hann,
því að stund hans var enn ekki komin.
21 Hann sagði nú aftur við þá: Jeg fer burt, og þjer
munuð leita mín og deyja í synd yðar. Þangað sem
22 jeg fer, getið þjer ekki komist. Gyðingarnir sögðu
þá: Mun hann ætla að fyrirfara sjer, þar eð hann
segir: Þangað sem jeg fer, getið þjer ekki komist?
23 Og hann sagði við þá: Þjer eruð neðan að, jeg er
ofan að; þjer eruð af þessum heimi, jeg er ekki af
24 þessum heimi. Þess vegna sagði jeg yður, að þjer
munduð deyja í syndum yðar, því að ef þjer trúið
ekki, að jeg sje sá sem jeg er, munuð þjer deyja í
25 syndum yðar. Þeir sögðu þá við hann: Hver ert
þú? Jesús sagði við þá: Einmitt það sem jeg hefi
26 frá upphafi talað til yðar. Jeg hefi margt um yður
að tala og dæma; en hann, sem sendi mig, er sann-
orður, og jeg tala það til heimsins, sem jeg hefi
27 heyrt af honum. Þeir skildu ekki, að hann talaði
28 um föðurinn við þá. Því sagði Jesús: Þegar þjer
hefjið upp mannsins son, þá munuð þjer komast að
raun um, að jeg er það, og að jeg gjöri ekkert af
sjálfum mjer, heldur tala jeg þetta eins og faðirinn
29 hefir kent mjer. Og sá sem sendi mig, er með mjer;
ekki hefir hann látið mig einan, því að jeg gjöri
30 ætíð það sem honum er þóknanlegt. Þegar hann
talaði þetta, tóku margir trú á hann.
31 Jesús sagði því við þá Gyðinga, sem tekið höfðu
trú á hann: Ef þjer haldið stöðugt við orð mitt, þá er-

32 uð þjer sannarlega lærisveinar mínir. Og þjer mun-
uð þekkja sannleikann, og sannleikurinn mun gjöra
33 yður frjálsa. Þeir svöruðu honum: Vjer erum sæði
Abrahams, og höfum aldrei verið þrælar nokkurs
manns; hvernig segir þú þá: Þjer skuluð verða
34 frjálsir? Jesús svaraði þeim: Sannlega, sannlega
segi jeg yður, að sjerhver, sem drýgir syndina, er
35 þræll syndarinnar. En þrællinn dvelur ekki um ald-
ur og æfi í húsinu; sonurinn dvelur þar um aldur.
36 Ef því sonurinn gjörir yður frjálsa, munuð þjer vera
37 sannarlega frjálsir. Jeg veit, að þjer eruð Abrahams
sæði, en þjer leitist þó við að lífláta mig, af því að
38 orð mitt fær ekki rúm hjá yður. Jeg tala það sem
jeg hefi sjeð hjá föður mínum; gjörið þjer þá og það,
39 sem þjer hafið heyrt af föðurnum. Þeir svöruðu og
sögðu við hann: Faðir vor er Abraham. Jesús seg-
ir við þá: Ef þjer væruð Abrahams börn, þá mund-
40 uð þjer vinna Abrahams verk. En nú leitist þjer
við að deyða mig, mann, sem hefi talað til yðar
sannleikann, sem jeg heyrði hjá Guði; þetta gjörði
41 Abraham ekki; þjer gjörið verk föður yðar. Þeir
sögðu við hann: Vjer erum ekki hórgetnir, vjer
42 höfum einn föður, Guð. Jesús sagði við þá: Ef
Guð væri faðir yðar, þá elskuðuð þjer mig, því að
frá Guði er jeg út genginn og kominn; því að ekki
er jeg heldur kominn af sjálfum mjer, en hann hefir
43 sent mig. Hví skiljið þjer ekki mál mitt? Af því að
44 þjer getið ekki hlýtt á orð mitt. Þjer eigið að föður
djöfulinn, og það sem faðir yðar girnist, viljið þjer
gjöra. Hann var manndrápari frá upphafi, og ekki
var hann stöðugur í sannleikanum, því að sannleiki

er ekki í honum; þegar hann talar lygi, talar hann
af sínu eigin, því að lygari er hann og faðir lygar-
45 ans. En af því að jeg tala sannleikann, trúið þjer
46 mjer ekki. Hver yðar sannar á mig synd? Ef jeg
47 tala sannleikann, hví trúið þjer mjer ekki? Sá sem
er af Guði, heyrir Guðs orð; þjer heyrið ekki, vegna
48 þess að þjer eruð ekki af Guði. Gyðingarnir svör-
uðu og sögðu við hann: Segjum vjer ekki rjett, að
49 þú sjert Samverji og hafir anda? Jesús svaraði:
Ekki hefi jeg anda, heldur heiðra jeg föður minn, en
50 þjer smánið mig. En jeg leita ekki míns heiðurs; sá
51 er til, sem leitar hans og dæmir. Sannlega, sann-
lega segi jeg yður: Ef nokkur varðveitir mitt orð,
52 hann skal aldrei að eilífu sjá dauðann. Gyðingarnir
sögðu við hann: Nú vitum vjer, að þú hefir anda.
Abraham er dáinn og spámennirnir, og þú segir: Ef
nokkur varðveitir mitt orð, sá mun aldrei að eilífu
53 smakka dauðann. Ert þú meiri en faðir vor Abra-
ham, sem er dáinn? Spámennirnir eru líka dánir.
54 Hvílíkan gjörir þú sjálfan þig? Jesús svaraði: Ef
jeg vegsama sjálfan mig, er vegsemd mín ekkert.
Það er faðir minn, sem vegsamar mig, hann sem
55 þjer segið, að sje Guð yðar. Og ekki þekkið þjer
hann, en jeg þekki hann, og ef jeg segði: Jeg þekki
hann ekki, þá mundi jeg vera lygari, eins og þjer;
56 en jeg þekki hann og varðveiti orð hans. Abraham
faðir yðar hlakkaði til að sjá minn dag, og hann sá
57 hann og gladdist. Þá sögðu Gyðingarnir við hann:
Þú ert enn ekki fimtugur, og þú hefir sjeð Abraham?
58 Jesús sagði við þá: Sannlega, sannlega segi jeg yð-
59 ur: Áður en Abraham var, er jeg. Þeir tóku þá

steina upp, til að kasta á hann, en Jesús duldist og
fór út úr helgidóminum.

9 Og er hann gekk fram hjá, sá hann mann,
2 sem var blindur frá fæðingu. Og lærisveinar
hans spurðu hann og sögðu: Meistari, hvor hefir
syndgað, þessi maður eða foreldrar hans, að hann
3 skyldi fæðast blindur? Jesús svaraði: Hvorki synd-
gaði hann nje foreldrar hans, heldur er það til þess,
4 að Guðs verk verði opinber á honum. Oss ber að
vinna verk þess er sendi mig, meðan dagur er; það
5 kemur nótt, þegar enginn getur unnið. Meðan jeg
6 er í heiminum, er jeg heimsins ljós. Þá er hann
hafði þetta sagt, hrækti hann á jörðina, gjörði leðju
7 úr hrákanum og reið leðjunni á augu hans. Og hann
sagði við hann: Far þú og þvo þjer í Sílóam-laug,
— sem er útlagt: sendur; — fór hann þá burt og
8 þvoði sjer og kom aftur sjáandi. Þá sögðu nágrann-
arnir og þeir, sem höfðu sjeð hann áður, því hann
var ölmusumaður: Er það ekki sá, sem setið hefir
9 og beiðst ölmusu? Nokkrir sögðu: Það er hann.
Aðrir sögðu: Nei, en hann er líkur honum. Sjálfur
10 sagði hann: Jeg er sá hinn sami. Þeir sögðu þá
11 við hann: Hvernig opnuðust þá augu þín? Hann
svaraði: Maðurinn, sem heitir Jesús, gjörði leðju og
reið á augu mín og sagði við mig: Far þú til Sílóam
og þvo þjer. En er jeg nú fór og þvoði mjer, fekk
12 jeg sjónina. Og þeir sögðu við hann: Hvar er hann?
13 Hann segir: Jeg veit það ekki.

14 Þeir færa nú manninn, sem áður var blindur, til Farí-
seanna; en hvíldardagur var þann dag, er Jesús bjó til leð-
15 juna og lauk upp augum hans. Nú spurðu líka Farísearnir

hann aftur, hvernig hann hefði fengið sjónina; en
hann sagði við þá: Hann lagði leðju á augu mín,
16 og jeg þvoði mjer, og nú er jeg sjáandi. Þá sögðu
nokkrir af Faríseunum: Ekki er maður þessi frá
Guði, fyrst hann heldur ekki hvíldardaginn. En aðrir
sögðu: Hvernig getur syndugur maður gjört slíkar
17 jartegnir? Og ágreiningur var með þeim. Þeir segja
þá aftur við hinn blinda: Hvað segir þú um hann,
þar sem hann lauk upp augum þínum? En hann
18 sagði: Hann er spámaður. En Gyðingarnir trúðu
því þá ekki um hann, að hann hefði verið blindur
og væri orðinn sjáandi, fyr en þeir kölluðu á foreldra
19 mannsins, sem var orðinn sjáandi, og spurðu þau og
sögðu: Er þetta sonur ykkar, sem þið segið, að hafi
verið fæddur blindur? Hvernig er hann þá nú orð-
20 inn sjáandi? Foreldrar hans svöruðu og söðu: Við
vitum, að hann er sonur okkar, og að hann fæddist
21 blindur. En hvernig hann nú er orðinn sjáandi, vit-
um við ekki, eða hver hefir lokið upp augum hans,
það vitum við ekki. Spyrjið hann sjálfan; hann
hefir aldurinn; hann getur sjálfur talað fyrir sig.
22 Þetta sögðu foreldrar hans, vegna þess að þau óttuð-
ust Gyðingana, af því að nú höfðu Gyðingarnir kom-
ið sjer saman um, að ef nokkur maður játaði, að
hann væri Kristur, skyldi hann samkundurækur.
23 Þess vegna sögðu foreldrar hans: Hann hefir aldur-
24 inn, spyrjið hann sjálfan. Þeir kölluðu þá í annað
sinn á manninn, sem hafði verið blindur, og sögðu
við hann: Gef þú Guði dýrðina; vjer vitum, að þessi
25 er syndari. Þá svaraði hann: Hvort hann er synd-
ari, veit jeg ekki; eitt veit jeg, að jeg, sem var

blindur, er nú sjáandi. Þeir sögðu þá við hann:
Hvað gjörði hann við þig? Hvernig lauk hann upp
27 augum þínum? Hann svaraði þeim: Jeg hefi þegar
sagt yður það, og þjer heyrðuð ekki; hvers vegna
viljið þjer heyra það aftur? Hvort viljið þjer líka
28 verða lærisveinar hans? Og þeir atyrtu hann og
sögðu: Þú ert lærisveinn hans, en vjer erum læri-
29 sveinar Móse. Vjer vitum, að Guð hefir talað við
Móse, en um þennan mann vitum vjer ekki, hvaðan
30 hann er. Maðurinn svaraði og sagði við þá: Þá er
þetta þó undarlegt, að þjer vitið ekki, hvaðan hann
31 er, og hann lauk upp augum mínum. Vjer vitum,
að Guð heyrir ekki syndara, en ef einhver er guð-
rækinn og gjörir vilja hans, þann mann heyrir hann.
32 Aldrei hefir það heyrst, að nokkur hafi opnað augu
33 þess, er var fæddur blindur. Væri þessi maður ekki
34 frá Guði, þá gæti hann ekkert gjört. Þeir svöruðu
og sögðu við hann: Allur ert þú í syndum fæddur,
og þú ert að kenna oss! Og þeir ráku hann út.
35 Jesús frjetti, að þeir hefðu rekið hann út, og er
hann fann hann, sagði hann: Trúir þú á Guðs son?
36 Hann svaraði og sagði: Hver er sá, herra, að jeg
37 geti trúað á hann? Jesús sagði við hann: Bæði
hefir þú sjeð hann og hann er sá sem við þig talar.
38 En hann sagði: Jeg trúi, herra! og hann fjell fram
39 fyrir honum. Og Jesús sagði: Til dóms er jeg kom-
inn í þennan heim, til þess að þeir sem ekki sjá,
verði sjáandi, og þeir sem sjáandi eru, verði blindir.
40 Þetta heyrðu þeir af Faríseunum, sem hjá honum
voru, og sögðu við hann: Hvort erum vjer þá líka
41 blindir? Jesús sagði við þá: Ef þjer væruð blindir,

hefðuð þjer ekki synd, en nú segið þjer: Vjer er-
um sjáandi. Synd yðar helzt við.

10 Sannlega, sannlega segi jeg yður: Sá sem ekki
gengur um dyrnar inn í sauðabyrgið, heldur stígur
2 yfir annarstaðar, sá er þjófur og ræningi. En sá sem
gengur inn um dyrnar, hann er hirðir sauðanna.
3 Fyrir honum lýkur dyravörðurinn upp og sauðirnir
heyra raust hans, og hann kallar sauði sína með
4 nafni og fer út með þá. Þegar hann hefir látið út
alla sauði sína, gengur hann á undan þeim og sauð-
irnir fylgja honum, af því að þeir þekkja raust hans;
5 en ókunnugum fylgja þeir alls ekki, heldur munu
þeir flýja frá honum, af því þeir þekkja ekki raust
6 ókunnugra. Þessa líkingu sagði Jesús þeim, en þeir
skildu ekki, hvað það var, sem hann talaði til þeirra.
7 Jesús sagði því aftur við þá: Sannlega, sann-
8 lega segi jeg yður: Jeg er dyr sauðanna. Allir,
sem komu á undan mjer, eru þjófar og ræningjar,
9 en sauðirnir hlýddu þeim ekki. Jeg er dyrnar; ef
einhver gengur inn um mig, sá mun hólpinn verða,
og hann mun ganga inn og ganga út og fá fóður.
10 Þjófurinn kemur ekki nema til þess að stela og slátra
og eyða. Jeg er kominn, til þess að þeir hafi líf og
11 hafi nægtir. Jeg er góði hirðirinn; góði hirðirinn
12 gefur líf sitt út fyrir sauðina; leiguliðinn og sá sem
ekki er hirðir og ekki á sauðina, sjer úlfinn koma,
og yfirgefur sauðina og flýr, — og úlfurinn hremmir
13 þá og tvístrar þeim, — af því að hann er leiguliði
14 og honum er ekki ant um sauðina. Jeg er góði hirð-
15 irinn, og jeg þekki mína, og mínir þekkja mig, eins
og faðirinn þekkir mig og jeg þekki föðurinn; og jeg

16 gef út líf mitt fyrir sauðina. Og jeg hefi aðra sauði,
sem ekki eru af þessu sauðabyrgi; þá byrjar mjer
og að leiða, og þeir munu heyra mína raust; og það
17 mun verða ein hjörð, einn hirðir. Fyrir því elskar
faðirinn mig, að jeg læt líf mitt, til þess að jeg taki
18 það aftur. Enginn tekur það frá mjer, heldur læt
jeg það sjálfviljuglega. Jeg hefi vald til að láta það,
og jeg hefi vald til að taka það aftur. Þetta boðorð
hefi jeg meðtekið af föður mínum.
19 Enn varð ágreiningur meðal Gyðinganna vegna
20 þessara orða. Og margir þeirra sögðu: Hann hefir
21 anda og er óður, hví hlýðið þjer á hann? Aðrir
sögðu: Þetta eru ekki orð manns, sem haldinn er
af anda; mun andi geta opnað augu blindra?
22 Nú kom vígsluhátíðin í Jerúsalem, og þá var
23 vetur. Og Jesús var á gangi í helgidóminum í súlna-
24 göngum Salómons. Þá flyktust Gyðingarnir að hon-
um og sögðu við hann: Hversu lengi ætlar þú að
halda sálum vorum í óvissu? Ef þú ert Kristur, þá
25 seg oss það berlega. Jesús svaraði þeim: Jeg hefi
sagt yður það, en þjer trúið ekki. Verkin, sem jeg
26 gjöri í nafni föður míns, þau vitna um mig. En þjer
trúið ekki, því að þjer eruð ekki af mínum sauðum.
27 Mínir sauðir heyra raust mína, og jeg þekki þá, og
28 þeir fylgja mjer, og jeg gef þeim eilíft líf, og þeir
skulu aldrei að eilífu glatast, og enginn skal slíta þá
29 úr hendi minni. Faðir minn, sem hefir gefið mjer
þá, er öllum meiri, og enginn getur slitið þá úr hendi
30 föðursins. Jeg og faðirinn erum eitt. Enn tóku
31 Gyðingarnir upp steina, til að grýta hann. Jesús
32 svaraði þeim: Mörg góðverk sýndi jeg yður frá

föðurnum; fyrir hvert af þessum verkum grýtið þjer
33 mig? Gyðingarnir svöruðu honum: Fyrir gott verk
grýtum vjer þig ekki, heldur fyrir guðlast og fyrir
það, að þú, sem ert maður, gjörir sjálfan þig að
34 Guði. Jesús svaraði þeim: Er ekki ritað í lögmáli
35 yðar: *Jeg hefi sagt: Þjer eruð guðir.* Ef hann kall-
ar þá guði, sem Guðs orð kom til, og ritningin getur
36 ekki raskast, segið þjer þá við þann, sem faðirinn
helgaði og sendi í heiminn: Þú guðlastar! af því að
37 jeg sagði: Jeg er sonur Guðs? Ef jeg gjöri ekki
38 verk föður míns, þá trúið mjer ekki. En ef jeg
gjöri þau, þá trúið verkunum, þótt þjer ekki trúið
mjer, til þess að þjer vitið og komist að raun um,
39 að faðirinn er í mjer og jeg í föðurnum. Þá leituð-
ust þeir aftur við að taka hann, en hann komst burt
úr höndum þeirra.
40 Og hann fór aftur yfir um Jórdan til þess stað-
ar, þar sem Jóhannes skírði fyrst, og dvaldi þar.
41 Og margir komu til hans, og þeir sögðu: Jóhannes
gjörði að sönnu enga jartegn, en alt það sem Jó-
42 hannes sagði um hann, var satt. Og þar trúðu
margir á hann.

**11** En maður nokkur var sjúkur, Lasarus frá Bet-
aníu, úr þorpi Maríu og Mörtu systur hennar.
2 En María var sú, sem smurði Drottin smyrslum og
þerraði fætur hans með hári sínu, og það var bróðir
3 hennar Lasarus, sem var sjúkur. Sendu þær systur
því til hans og ljetu segja honum: Herra, sjá, sá
4 sem þú elskar, er sjúkur. En er Jesús heyrði það,
sagði hann: Þessi sótt er ekki til dauða, heldur
vegna dýrðar Guðs, til þess að sonur Guðs vegsamist

5 fyrir hana. En Jesús elskaði þau Mörtu og systur
6 hennar og Lasarus. Þegar hann nú heyrði, að hann
væri sjúkur, dvaldi hann þó tvo daga á þeim stað,
7 þar sem hann var. Síðan segir hann eftir þetta við
8 lærisveinana: Förum aftur til Júdeu. Lærisvein-
arnir segja við hann: Meistari, nýlega ætluðu Gyð-
ingarnir að grýta þig, og nú fer þú þangað aftur!
9 Jesús svaraði: Eru ekki tólf stundir í deginum? Ef
einhver er á gangi að degi til, hrasar hann ekki, því
10 að hann sjer ljós þessa heims; en ef hann er á gangi
á næturþeli, hrasar hann, af því að ljósið er ekki í
11 honum. Þetta talaði hann, og eftir það segir hann
við þá; Lasarus vinur vor er sofnaður, en jeg fer
12 nú að vekja hann. Lærisveinarnir sögðu þá við
hann: Herra, ef hann er sofnaður, þá mun honum
13 batna. En Jesús hafði talað um dauða hans, en þeir
14 hjeldu, að hann ætti við hvíld svefnsins; því sagði
Jesús þeim þá með berum orðum: Lasarus er dáinn;
15 og það gleður mig yðar vegna, að jeg var þar ekki,
til þess að þjer skulið trúa. En förum nú til hans.
16 Þá sagði Tómas, sem kallaður er Didymos, við sam-
lærisveina sína: Vjer skulum og fara, til þess að
vjer deyjum með honum.

17 En er Jesús nú kom, varð hann þess vís, að
18 hann hafði þegar legið fjóra daga í gröfinni. En
Betanía var nálægt Jerúsalem, hjer um bil fimtán
19 skeiðrúm þaðan. En margir af Gyðingum voru komnir
til Mörtu og Maríu, til þess að hugga þær eftir bróð-
20 urinn. Þegar Marta nú heyrði, að Jesús kæmi, gekk
21 hún á móti honum, en María sat heima. Marta sagði
þá við Jesúm: Herra, ef þú hefðir verið hjer, væri

22 bróðir minn ekki dáinn. Einnig nú veit jeg, að hvað
sem þú biður Guð um, það mun Guð veita þjer.
23 Jesús segir við hana: Bróðir þinn mun upp rísa.
24 Marta segir við hann: Jeg veit, að hann mun upp
25 rísa í upprisunni á efsta degi. Jesús sagði við hana:
Jeg er upprisan og lífið; sá sem trúir á mig, mun
26 lifa, þótt hann deyi. Og hver sá sem lifir og trúir
á mig, hann skal aldrei að eilífu deyja. Trúir þú
27 þessu? Hún segir við hann: Já, herra, jeg hefi trú-
að, að þú ert Kristur, sonur Guðs, sem kemur í heim-
28 inn. Og er hún hafði þetta mælt, fór hún burt og
kallaði á systur sína Maríu, og sagði einslega: Meist-
29 arinn er hjer og vill finna þig. En hún stóð skjótt
30 upp, er hún heyrði þetta, og fór til hans. En Jesús
var enn ekki kominn til þorpsins, heldur var hann
enn á þeim stað, þar sem Marta hafði mætt honum.
31 Þegar nú Gyðingarnir, sem voru hjá Maríu í húsinu
og voru að hugga hana, sáu, að hún stóð upp og
gekk út í skyndi, fóru þeir eftir henni og hugðu, að
32 hún færi til grafarinnar, til að gráta þar. En er
María nú kom þangað sem Jesús var, og sá hann,
fjell hún honum til fóta og sagði við hann: Herra,
ef þú hefðir verið hjer, væri bróðir minn ekki dáinn.
33 Þegar nú Jesús sá hana gráta og Gyðingana gráta,
sem með henni höfðu komið, hrygðist hann í andan-
34 um og komst sjálfur við og sagði: Hvar hafið þjer
lagt hann? Þeir segja við hann: Herra, kom þú og
35 sjá. Jesús táraðist. Þá sögðu Gyðingarnir: Sjá, hve
36 hann hefir elskað hann. En nokkrir sögðu: Gat
37 ekki þessi maður, sem opnaði augu hins blinda, einnig
sjeð svo um, að þessi maður skyldi ekki deyja?

38 Jesús hrygðist þá aftur með sjálfum sjer og kemur
til grafarinnar; en hún var hellir og lá steinn fyrir
39 honum. Jesús sagði: Takið steininn burt. Marta,
systir hins framliðna, segir við hann: Herra, það er
nú þegar komin nálykt af honum, því að hann hefir
40 legið þar fjóra daga. Jesús segir við hana: Sagði
jeg þjer ekki, að ef þú tryðir, mundir þú sjá dýrð
41 Guðs? Þeir tóku þá steininn burt, en Jesús hóf upp
augu sín og mælti: Faðir, jeg þakka þjer, að þú
42 hefir heyrt mig. Jeg vissi að sönnu, að þú ávalt
heyrir mig, en vegna mannfjöldans, sem stendur hjer
umhverfis, sagði jeg það, til þess að þeir skuli trúa,
43 að þú hafir sent mig. Og er hann hafði þetta mælt,
44 kallaði hann hárri röddu: Lasarus, kom þú út! Og
hinn dáni kom út, bundinn líkblæjum á fótum og
höndum, og fyrir andlit hans var bundinn sveita-
dúkur. Jesús segir við þá: Leysið hann og látið
hann fara.

45 Margir af Gyðingunum, sem komnir voru til
Maríu og höfðu sjeð það sem hann gjörði, trúðu á
46 hann. En nokkrir þeirra fóru til Faríseanna og sögðu
þeim, hvað Jesús hefði gjört.

47 Æðstu prestarnir og Faríseanir söfnuðu því ráð-
inu saman og sögðu: Hvað eigum vjer að gjöra?
48 Því að þessi maður gjörir margar jartegnir. Ef vjer
látum hann nú afskiftalausan, munu allir trúa á hann,
og svo munu Rómverjar koma og taka bæði land
49 vort og þjóð. En einn af þeim, Kaífas, sem það ár
50 var æðsti prestur, sagði við þá: Þjer vitið alls ekk-
ert og hugleiðið ekki heldur, að yður er gagnlegra,
að einn maður deyi fyrir lýðinn, en að öll þjóðin

51 fyrirfarist. En þetta talaði hann ekki af sjálfum
sjer, heldur spáði hann, með því að hann var æðsti
prestur það ár, að Jesús ætti að deyja fyrir þjóðina,
52 og ekki einungis fyrir þjóðina, heldur til þess að
hann einnig safnaði í eina heild hinum sundur dreifðu
53 börnum Guðs. Upp frá þeim degi ráðguðust þeir því
um að lífláta hann.

54 Jesús gekk því ekki framar berlega um meðal
Gyðinganna, heldur fór hann burt þaðan út á lands-
bygðina nálægt eyðimörkinni, til bæjar, sem heitir
Efraím, og þar dvaldist hann ásamt lærisveinunum.
55 En páskar Gyðinga voru í nánd. Og margir fóru úr
landsbygðinni upp til Jerúsalem fyrir páskana, til að
56 hreinsa sig. Þeir leituðu þá að Jesú, og sögðu hver
við annan, þar sem þeir stóðu í helgidóminum: Hvað
virðist yður? Ætli hann komi alls ekki til hátíðar-
57 innar? En æðstu prestarnir og Faríseararnir höfðu þá
gefið þá skipun, að ef nokkur vissi, hvar hann væri,
skyldi hann segja til, svo að þeir gætu handtekið
hann.

12 Sex dögum fyrir páska kom Jesús þá til Bet-
aníu, þar sem Lasarus var, sem Jesús hafði
2 vakið upp frá dauðum. Þá gjörðu menn honum þar
kvöldverð, og Marta gekk um beina, en Lasarus var
3 einn af þeim, sem sátu til borðs með honum. Þá tók
María pund af ómenguðum og dýrum nardus-smyrsl-
um og smurði fætur Jesú, og þerraði með hári sínu
4 fætur hans, en húsið fyltist af ilm smyrslanna. Þá
segir Júdas Ískaríot, einn af lærisveinum hans, sem
5 síðan varð til þess að svíkja hann: Hví voru þessi
smyrsl ekki seld fyrir þrjú hundruð denara og gefin

6 fátækum? En þetta sagði hann ekki af því, að hon-
um væri ant um fátæka, heldur af því að hann var
þjófur; og með því að hann hafði pyngjuna, tók hann
7 það sem í hana var látið. Þá sagði Jesús: Lát hana
í friði; hún hefir geymt þetta til greftrunardags míns;
8 því að fátæka hafið þjer ávalt hjá yður, en mig hafið
þjer ekki ávalt.

9 Nú komst almenningur meðal Gyðinga að því,
að hann væri þar, og þeir komu ekki að eins vegna
Jesú, heldur og til að sjá Lasarus, sem hann hafði
10 vakið upp frá dauðum. En æðstu prestarnir ráðg-
11 uðust um að deyða einnig Lasarus; því að hans vegna
fóru margir Gyðingar og trúðu á Jesúm.

12 Daginn eftir, þegar hinn mikli fjöldi, sem kom-
inn var til hátíðarinnar, heyrði, að Jesús væri að
13 koma til Jerúsalem, tóku þeir pálmaviðargreinar og
gengu út til móts við hann, og þeir hrópuðu: *Hósanna,
blessaður sje sá, sem kemur í nafni Drottins*, Ísraels-
14 konungurinn! En Jesús fekk sjer ungan asna og
15 settist upp á hann, eins og ritað er: *Óttast ekki,
dóttir Síon! sjá, konungur þinn kemur ríðandi á ösnu-
16 fola.* Þetta skildu ekki lærisveinar hans í fyrstu;
en þegar Jesús var dýrðlegur orðinn, mintust þeir
þess, að þetta var ritað um hann, og að þeir höfðu gjört
17 þetta honum til handa. En fólkið, sem var með hon-
um, er hann kallaði Lasarus út úr gröfinni og upp-
18 vakti hann frá dauðum, vitnaði nú. Þess vegna gekk
og múgurinn á móti honum, því að menn höfðu heyrt,
19 að hann hefði gjört þessa jartegn. Þá sögðu Faríse-
searnir sín á milli: Þjer sjáið, að þjer komið engu
til vegar. Sjá, allur heimur eltir hann.

20 En meðal þeirra, sem fóru upp til þess að til-
21 biðja á hátíðinni, voru nokkrir Grikkir. Þeir gengu
þá til Filippusar frá Betsaída í Galíleu, og báðu hann
22 og sögðu: Herra, oss langar til að sjá Jesúm. Fil-
ippus kemur og segir Andrjesi. Andrjes og Filippus
23 koma og segja Jesú. En Jesús svarar þeim og segir:
Stundin er komin, að mannsins sonur verði dýrðlegur.
24 Sannlega, sannlega segi jeg yður: Deyi ekki hveiti-
kornið, sem fellur í jörðina, verður það einsamalt,
25 en deyi það, ber það mikinn ávöxt. Sá sem elskar
líf sitt, glatar því, og sá sem hatar líf sitt í þessum
26 heimi, mun varðveita það til eilífs lífs. Hver sem
þjónar mjer, fylgi mjer eftir, og hvar sem jeg er,
þar skal og þjónn minn vera; hvern sem mjer þjón-
27 ar, hann mun faðirinn heiðra. Nú er sál mín skelfd,
og hvað á jeg að segja? Faðir, frelsa þú mig frá
þessari stundu? En vegna þessa er jeg kominn að
28 þessari stundu. Faðir, gjör nafn þitt dýrðlegt. Þá
kom rödd af himni: Bæði hefi jeg gjört það dýrð-
29 legt og mun aftur gjöra það dýrðlegt. En fólkið,
sem stóð þar og heyrði, sagði þá, að þruma hefði
komið. Aðrir sögðu: Engill talaði við hann.
30 Jesús svaraði og sagði: Ekki mín, heldur yðar vegna
31 kom rödd þessi. Nú gengur dómur yfir heim þenn-
32 an, nú skal höfðingja þessa heims kastað út. Og jeg
mun, er jeg verð hafinn frá jörðu, draga alla til mín.
33 En þetta sagði hann, til þess að tákna, með hvaða
34 dauðdaga hann mundi deyja. Mannfjöldinn svaraði
honum þá: Vjer höfum heyrt í lögmálinu, að Kristur
verði til eilífðar, og hvernig segir þú þá: Mannsins
sonur á að verða hafinn upp? Hver er þessi mannsins

35 sonur? Þá sagði Jesús við þá: Stutta stund er ljósið
enn á meðal yðar; gangið meðan þjer hafið ljósið,
til þess að myrkrið komi ekki yfir yður; og sá sem
36 gengur í myrkrinu, veit ekki hvert hann fer. Meðan
þjer hafið ljósið, þá trúið á ljósið, til þess að þjer
verðið ljóssins synir.

Þetta talaði Jesús og fór burt og fól sig fyrir
37 þeim. En þótt hann hefði gjört svo margar jartegnir
38 í augsýn þeirra, trúðu þeir þó ekki á hann; til þess
að rættist orð Jesajasar spámanns, sem hann hafði
talað: *Drottinn, hver trúði því, sem hann heyrði hjá*
39 *oss? og hverjum opinberaðist armleggur Drottins?* Þess
vegna gátu þeir ekki trúað, því að Jesajas hefir sagt
40 á öðrum stað: *Hann hefir blindað augu þeirra og for-*
*hert hjörtu þeirra, til þess að þeir ekki sjái með aug-*
*unum og skilji með hjartanu og snúi sjer, og jeg lækni þá.*
41 Þetta sagði Jesajas, af því að hann sá dýrð hans og
42 talaði um hann. En þó trúðu einnig margir af höfð-
ingjunum á hann, en vegna Faríseanna játuðu þeir
43 ekki, til þess að þeir yrðu ekki samkundurækir; því
að þeir elskuðu lofstír manna meir en Guðs dýrð.

44 En Jesús kallaði og sagði: Sá sem trúir á mig,
hann trúir ekki á mig, heldur á þann sem sendi mig;
45 og sá sem sjer mig, sjer þann sem sendi mig. Jeg
46 er ljós í heiminn komið, til þess að hver sem á mig
47 trúir, sje ekki í myrkrinu; og ef einhver heyrir orð
mín og gætir þeirra ekki, þá dæmi jeg hann ekki,
því að ekki er jeg kominn til að dæma heiminn,
48 heldur til þess að frelsa heiminn. Sá sem hafnar
mjer og meðtekur ekki orð mín, hefir þann sem
dæmir hann; orðið, sem jeg hefi talað, það mun dæma

49 hann á efsta degi. Því að jeg hefi ekki talað af
sjálfum mjer, heldur hefir faðirinn, sem sendi mig,
sjálfur gefið mjer boðorð, hvað jeg skuli segja og
50 hvað jeg skuli tala. Og jeg veit, að boðorð hans er
eilíft líf; það sem jeg því tala, það tala jeg eins og
faðirinn hefir sagt mjer.

13 En fyrir páskahátíðina — Jesús, sem vissi, að
stund hans var komin, að hann færi burt
úr heimi þessum til föðursins, og hafði elskað sína,
2 þá er í heiminum voru, elskaði þá alt til enda. Og
er kvöldmáltíð stóð yfir — en djöfullinn hafði þegar
skotið því í brjóst Júdasi Símonarsyni Ískaríot, að
3 svíkja hann, og þó að Jesús vissi, að faðirinn hefði
selt honum í hendur alla hluti og að hann var út-
4 genginn frá Guði og fór til Guðs, stendur hann upp
frá máltíðinni og leggur af sjer yfirhöfnina, og hann
5 tók líndúk og gyrti sig. Eftir það hellir hann vatni
í mundlaug, og tók að þvo fætur lærisveinanna og
6 þerra með líndúk þeim, er hann var gyrtur. Kemur
hann þá til Símonar Pjeturs. Hann segir við hann:
7 Herra, þvær þú fætur mína? Jesús svaraði og sagði
við hann: Nú skilur þú ekki það sem jeg gjöri, en
8 seinna munt þú skilja það. Pjetur segir við hann:
Aldrei til eilífðar skalt þú þvo fætur mína. Jesús svar-
aði honum: Ef jeg ekki þvæ þig, hefir þú ekki hlut
9 með mjer. Símon Pjetur segir við hann: Herra, þá
ekki einungis fætur mína, heldur einnig hendurnar
10 og höfuðið. Jesús segir við hann: Sá sem þveginn
er, þarf ekki að þvost nema á fótum, heldur er hann
11 allur hreinn, og þjer eruð hreinir, en ekki allir; því
að hann þekti þann, sem varð til þess að svikja

hann; fyrir því sagði hann: Þjer eruð ekki allir
hreinir.
12 Þegar hann nú hafði þvegið fætur þeirra og tekið
yfirhöfn sína og sest aftur, sagði hann við þá: Skiljið
13 þjer, hvað jeg hefi gjört við yður? Þjer kallið mig:
»meistari!« og »herra!« og þjer mælið rjett, því að
14 jeg er það. Ef þá jeg, herrann og meistarinn, hefi
þvegið fætur yðar, ber einnig yður að þvo hver ann-
15 ars fætur; því að jeg hefi gefið yður eftirdæmi, til
þess að þjer breytið eins og jeg breytti við yður.
16 Sannlega, sannlega segi jeg yður: Ekki er þjónn
meiri en húsbóndi hans; ekki er heldur postuli meiri
17 en sá er sendi hann. Ef þjer skiljið þetta, eruð þjer
18 sælir, ef þjer breytið eftir því. Jeg tala ekki um
yður alla; jeg þekki þá, sem jeg hefi útvalið, en til
þess að ritningin rætist: *Sá sem brauð mitt etur,*
19 *hefir lyft upp hæl sínum á móti mjer.* Hjeðan af segi
jeg yður það, áður en það kemur fram, til þess að þjer
trúið, þegar það er komið fram, að jeg er það.
20 Sannlega, sannlega segi jeg yður: Hver sem með-
tekur þann er jeg sendi, sá meðtekur mig, en sá sem
meðtekur mig, meðtekur hann sem sendi mig.
21 En er Jesús hafði þetta mælt, hrærðist hann í
andanum og vitnaði og sagði: Sannlega, sannlega
22 segi jeg yður, að einn af yður mun svíkja mig. Þá
litu lærisveinarnir hver á annan og voru í óvissu,
23 um hvern hann talaði. Þar var einn af lærisveinum
hans, sem sat til borðs í faðmi Jesú, sá sem Jesús
24 elskaði. Símon Pjetur gefur honum nú bendingu og
segir við hann: Seg þú hver sá er, sem hann talar
25 um? Og er hinn þannig hallaði sjer upp að brjósti

Jesú, segir hann við hann: Herra, hver er það?
26 Þá svaraði Jesús: Hann er það, sem jeg gef bita þann,
sem jeg nú dýfi í. Er hann nú hafði dyfið í, tekur
hann bitann og rjettir Júdasi Símonarsyni Ískaríot.
27 Og eftir að hann hafði fengið bitann, fór Satan inn
í hann. Þá segir Jesús við hann: Það sem þú gjör-
28 ir, það gjör þú skjótt. En enginn þeirra, sem til
borðsins sátu, vissi í hverju skyni hann sagði þetta
29 við hann; því sumir hjeldu, af því að Júdas hafði
pyngjuna, að Jesús hefði sagt honum: Kaup þú það,
sem vjer þurfum til hátíðarinnar, eða að hann skyldi
30 gefa eitthvað fátækum. Þegar hann nú hafði tekið
við bitanum, gekk hann þegar út; en þá var nótt.
31 Þegar hann nú var genginn út, segir Jesús: Nú
er mannsins sonur dýrðlegur orðinn og Guð er orð-
32 inn dýrðlegur í honum, og Guð mun gjöra hann dýrð-
legan í sjer, og mun hann brátt gjöra hann dýrð-
33 legan. Börnin mín, skamma stund er jeg enn þá hjá
yður; þjer munuð leita mín; og eins og jeg sagði við
Gyðingana: Þangað sem jeg fer, getið þjer ekki
34 komist, það segi jeg nú við yður. Nýtt boðorð gef
jeg yður, að þjer elskið hver annan; eins og jeg hefi
35 elskað yður, að þjer einnig elskið hver annan. Af
því skulu allir þekkja, að þjer eruð mínir lærisvein-
ar, ef þjer berið elsku hver til annars.
36 Símon Pjetur segir við hann: Herra, hvert fer
þú? Jesús svaraði: Þangað sem jeg fer, getur þú ekki
37 fylgt mjer nú, en seinna munt þú fylgja mjer. Pjetur
segir við hann: Herra, hvers vegna get jeg ekki
fylgt þjer nú þegar? Jeg vil leggja líf mitt í söl-
38 urnar fyrir þig. Jesús svarar: Vilt þú leggja líf

þitt í sölurnar fyrir mig? Sannlega, sannlega segi
jeg þjer: Ekki mun haninn gala, fyr en þú hefir
afneitað mjer þrisvar.

14 Hjarta yðar skelfist ekki; trúið á Guð og trúið
2 á mig. Í húsi föður míns eru mörg híbýli;
væri ekki svo, hefði jeg sagt yður það. Því jeg fer
3 burt að búa yður stað; og þegar jeg er farinn burt,
og hefi búið yður stað, kem jeg aftur og mun taka
yður til sjálfs mín, til þess að þjer sjeuð og þar sem
4 jeg er. Og þjer þekkið veginn þangað sem jeg fer.
5 Tómas segir við hann: Herra, vjer vitum ekki hvert
þú fer; hvernig skyldum vjer þá þekkja veginn?
6 Jesús segir við hann: Jeg er vegurinn og sannleik-
urinn og lífið; enginn kemur til föðursins nema fyrir
7 mig. Ef þjer hefðuð þekt mig, hefðuð þjer og þekt
föður minn, og hjeðan í frá þekkið þjer hann og
8 hafið sjeð hann. Filippus segir við hann: Herra,
9 sýn þú oss föðurinn, og þá nægir oss. Jesús segir
við hann: Svo langa stund hefi jeg með yður verið,
og þú, Filippus, þekkir mig ekki? Sá sem hefir sjeð
mig, hefir sjeð föðurinn; hvernig segir þú: Sýn þú
10 oss föðurinn? Trúir þú ekki, að jeg er í föðurnum
og faðirinn í mjer? Þau orð, sem jeg tala til yðar,
þau tala jeg ekki af sjálfum mjer; en faðirinn, sem
11 í mjer er, hann gjörir verk sín. Trúið mjer, að jeg
er í föðurnum og faðirinn í mjer; en ef ekki, þá trúið
12 mjer vegna sjálfra verkanna. Sannlega, sannlega
segi jeg yður: Sá sem trúir á mig, mun einnig gjöra
þau verk, sem jeg gjöri; og hann mun gjöra meiri
13 verk en þessi, af því að jeg fer til föðursins; og hvað
sem þjer biðjið um í mínu nafni, það mun jeg gjöra,

14 til þess að faðirinn vegsamist í syninum. Ef þjer
15 biðjið einhvers í mínu nafni, mun jeg gjöra það. Ef
þjer elskið mig, þá munuð þjer halda boðorð mín.
16 Og jeg mun biðja föðurinn, og hann mun gefa yður
annan huggara, til þess að hann sje hjá yður eilíf-
17 lega, anda sannleikans, hann, sem heimurinn getur
ekki meðtekið, af því að hann sjer hann ekki og
þekkir hann ekki heldur; þjer þekkið hann, af því
18 að hann dvelur hjá yður og mun vera í yður. Ekki
mun jeg skilja yður eftir munaðarlausa. Jeg kem til
19 yðar. Innan skamms — og heimurinn mun ekki sjá
mig framar, en þjer munuð sjá mig, því að jeg lifi
20 og þjer munuð lifa. Á þeim degi munuð þjer kom-
ast að raun um, að jeg er í föður mínum, og þjer í
21 mjer, og jeg í yður. Sá sem hefir mín boðorð og
heldur þau, hann er sá sem elskar mig. En sá sem
elskar mig, mun verða elskaður af föður mínum, og
22 jeg mun elska hann og sjálfur birtast honum. Júdas
— ekki Júdas Ískaríot —, segir við hann: Herra,
hvernig stendur á því, að þú vilt sjálfur birtast oss
23 og ekki heiminum? Jesús svaraði og sagði við hann:
Hver sem elskar mig, mun varðveita mitt orð, og
faðir minn mun elska hann, og til hans munum við
24 koma og gjöra okkur bústað hjá honum. Sá sem
ekki elskar mig, hann varðveitir ekki mín orð, og
það orð, sem þjer heyrið, er ekki mitt, heldur föð-
ursins, sem sendi mig.

25 Þetta hefi jeg talað við yður, meðan jeg var hjá
26 yður, en huggarinn, andinn heilagi, sem faðirinn mun
senda í mínu nafni, hann mun kenna yður alt, og
27 minna yður á alt, sem jeg hefi sagt yður. Frið læt

jeg eftir hjá yður, minn frið gef jeg yður, ekki eins
og heimurinn gefur, gef jeg yður. Hjarta yðar skelf-
28 ist ekki nje hræðist. Þjer heyrðuð, að jeg sagði við
yður: Jeg fer burt og kem til yðar; ef þjer elskuð-
uð mig, þá munduð þjer hafa glaðst af því, að jeg
29 fer til föðursins; því að faðirinn er mjer meiri. Og
nú hefi jeg sagt yður það, áður en það kemur fram,
30 til þess að þjer trúið, þegar það er komið fram. Jeg
mun ekki framar tala margt við yður, því að höfð-
ingi heimsins kemur, og í mjer á hann alls ekkert.
31 En til þess að heimurinn viti, að jeg elska föðurinn,
og að jeg gjöri eins og faðirinn hefir boðið mjer, þá
standið upp, förum hjeðan.

15 Jeg er hinn sanni vínviður, og faðir minn er
2 vínyrkinn. Sjerhverja grein á mjer, er ekki
ber ávöxt, sníður hann af, og sjerhverja þá, sem ber
ávöxt, hreinsar hann, til þess að hún beri meiri
3 ávöxt. Þjer eruð þegar hreinir vegna orðsins, sem
4 jeg hefi talað til yðar. Verið í mjer, þá verð jeg
líka í yður. Eins og greinin getur ekki borið ávöxt
af sjálfri sjer, nema hún sje á vínviðinum, þannig
5 ekki heldur þjer, nema þjer sjeuð í mjer. Jeg er
vínviðurinn, þjer eruð greinarnar; sá sem er í mjer
og jeg í honum, hann ber mikinn ávöxt, því að án
6 mín getið þjer alls ekkert gjört. Hver sem ekki er
í mjer, honum verður snarað út eins og greininni,
og hann visnar og menn safna því saman og kasta
7 því á eld og það brennur. Ef þjer eruð í mjer og
orð mín eru í yður, þá biðjið um hvað sem þjer viljið,
8 og það mun veitast yður. Með þessu vegsamast faðir
minn, að þjer berið mikinn ávöxt, og þjer munuð

9 verða mínir lærisveinar. Eins og faðirinn hefir elskað
mig, eins hefi jeg elskað yður; verið í elsku minni.
10 Ef þjer haldið mín boðorð, þá munuð þjer vera í
elsku minni, eins og jeg hefi haldið boðorð föður
11 míns og er í elsku hans. Þetta hefi jeg talað til yðar,
til þess að fögnuður minn sje hjá yður og fögnuður
12 yðar fullkomnist. Þetta er mitt boðorð, að þjer elskið
13 hver annan, eins og jeg hefi elskað yður. Meiri elsku
hefir enginn en þá, að hann lætur líf sitt fyrir vini
14 sína. Þjer eruð vinir mínir, ef þjer gjörið það sem
15 jeg býð yður. Jeg kalla yður ekki framar þjóna,
því að þjónninn veit ekki, hvað herra hans gjörir, en
jeg hefi kallað yður vini, því að jeg hefi kunngjört
yður alt það, sem jeg hefi heyrt hjá föður mínum.
16 Ekki hafið þjer útvalið mig, heldur hefi jeg útvalið
yður og sett yður, til þess að þjer farið og berið
ávöxt, og ávöxtur yðar vari við, til þess að hvað
sem þjer biðjið föðurinn um í mínu nafni, það veiti
17 hann yður. Þetta býð jeg yður, að þjer elskið hver
18 annan. Ef heimurinn hatar yður, þá vitið, að hann
19 hefir hatað mig fyrri en yður. Ef þjer væruð af
heiminum, þá mundi heimurinn láta sjer þykja vænt
um sitt eigið; en af því að þjer eruð ekki af heim-
inum, en jeg hefi útvalið yður af heiminum, vegna
20 þess hatar heimurinn yður. Minnist orðsins, sem jeg
sagði yður: Ekki er þjónn meiri en húsbóndi hans.
Hafi þeir ofsótt mig, þá munu þeir líka ofsækja yð-
ur; hafi þeir varðveitt mitt orð, munu þeir og varð-
21 veita yðar. En alt þetta munu þeir gjöra við yður
vegna nafns míns, af því að þeir þekkja ekki þann,
22 sem sendi mig. Hefði jeg ekki komið og talað til

þeirra, þá hefðu þeir ekki synd, en nú hafa þeir
23 enga afsökun synd sinni. Sá sem hatar mig, sá hatar
24 og föður minn. Ef jeg hefði eigi gjört þau verk á
meðal þeirra, sem enginn annar hefir gjört, þá hefðu
þeir ekki synd; en nú hafa þeir bæði sjeð þau og
25 hatað bæði mig og föður minn. En það er til þess
að rætist orðið, sem ritað er í lögmáli þeirra: *Þeir*
26 *hötuðu mig án saka.* En þegar huggarinn kemur,
sem jeg mun senda yður frá föðurnum, andi sann-
leikans, sem útgengur frá föðurnum, hann mun vitna
27 um mig; en þjer skuluð og vitna, því að þjer hafið
frá upphafi með mjer verið.

16 Þetta hefi jeg talað til yðar, til þess að þjer
2 hneyksluðust ekki. Þeir munu gjöra yður
samkunduræka, já, sú stund kemur, að hver sem líf-
3 lætur yður, mun þykjast veita Guði þjónustu; og
þetta munu þeir gjöra, af því að þeir þektu hvorki
4 föðurinn nje mig. En þetta hefi jeg talað til yðar,
til þess að þjer, þegar sú stund kemur, minnist þess,
að jeg hefi sagt yður það. En jeg hefi ekki sagt
yður þetta frá upphafi, af því að jeg var með yður.
5 En nú fer jeg burt til hans, sem sendi mig, og eng-
6 inn yðar spyr mig: Hvert fer þú? heldur hefir hrygð
fylt hjarta yðar, af því að jeg hefi talað þetta við
7 yður. En jeg segi yður sannleikann: Það er yður
til góðs, að jeg fari burt; því að fari jeg ekki burt,
mun huggarinn ekki koma til yðar, en þegar jeg er
8 farinn, mun jeg senda hann til yðar. Og þegar hann
kemur, mun hann sannfæra heiminn um synd og um
9 rjettlæti og um dóm: Um synd, af því að þeir trúa
10 ekki á mig; en um rjettlæti, af því að jeg fer burt

11 til föðursins og þjer sjáið mig ekki lengur; en um
12 dóm, af því að höfðingi þessa heims er dæmdur. Jeg
hefi enn margt að segja yður, en þjer getið ekki
13 borið það að sinni; en þegar hann, andi sannleikans,
kemur, mun hann leiða yður inn í allan sannleikann,
því að hann mun ekki tala af sjálfum sjer, heldur
mun hann tala alt það, sem hann heyrir, og það sem
14 koma á, mun hann kunngjöra yður. Hann mun veg-
sama mig, því að af mínu mun hann taka og kunn-
15 gjöra yður. Alt það sem faðirinn hefir, er mitt; fyrir
því sagði jeg, að hann taki af mínu og kunngjöri
16 yður. Innan skamms — og þjer sjáið mig ekki, og
17 aftur innan skamms — og þjer munuð sjá mig! Þá
sögðu nokkrir af lærisveinum hans hver við annan:
Hvað er þetta, sem hann segir við oss: »Innan
skamms — og þjer sjáið mig ekki, og aftur innan
skamms — og þjer munuð sjá mig!« og: »Jeg fer til
18 föðursins«? Þeir sögðu því: Hvað er þetta sem hann
segir: »Innan skamms«? vjer skiljum ekki hvað
19 hann talar. Jesús varð þess var, að þeir vildu spyrja
hann, og sagði við þá: Þjer spyrjist á um það, að
jeg sagði: Innan skamms — og þjer sjáið mig ekki,
og aftur innan skamms — og þjer munuð sjá mig.
20 Sannlega, sannlega segi jeg yður: Þjer munuð gráta
og kveina, en heimurinn mun fagna; þjer munuð
verða hryggir, en hrygð yðar mun snúast í fögnuð.
21 Þegar konan elur barn, hefir hún hrygð, því að stund
hennar er komin; en þegar hún hefir alið barnið,
minnist hún ekki framar þjáningarinnar vegna gleð-
22 innar yfir því, að maður er í heiminn borinn; einnig
þjer hafið nú að sönnu hrygð, en jeg mun sjá yður

aftur, og hjarta yðar mun fagna, og enginn tekur
23 fögnuð yðar frá yður. Og á þeim degi munuð þjer
ekki spyrja mig neins. Sannlega, sannlega segi jeg
yður: Hvað sem þjer biðjið föðurinn um, það mun
24 hann veita yður í mínu nafni. Hingað til hafið þjer
einskis beðið í mínu nafni; biðjið, og þjer munuð
öðlast, til þess að fögnuður yðar verði fullkominn.

25 Þetta hefi jeg talað til yðar í líkingum; sú stund
kemur, að jeg mun ekki lengur tala við yður í lík-
ingum, heldur mun jeg berlega segja yður frá föð-
26 urnum; á þeim degi munuð þjer biðja í mínu nafni.
Og ekki segi jeg yður, að jeg muni biðja föðurinn
27 fyrir yður; því að faðirinn sjálfur elskar yður, af
því að þjer hafið elskað mig og hafið trúað, að jeg
28 sje útgenginn frá föðurnum. Jeg útgekk frá föðurn-
um og er kominn í heiminn; jeg yfirgef heiminn aftur
og fer til föðursins.

29 Lærisveinar hans segja: Sjá, nú talar þú ber-
30 lega og mælir enga líkingu. Nú vitum vjer, að þú
veist alt og þarft þess ekki, að nokkur spyrji þig;
þess vegna trúum vjer, að þú sjert frá Guði kominn.
31 Jesús svaraði þeim: Trúið þjer nú? Sjá, sú stund
32 kemur og er þegar komin, að þjer tvístrist hver til
sín og skiljið mig eftir einan; en jeg er ekki einn,
33 því að faðirinn er með mjer. Þetta hefi jeg talað til
yðar, til þess að þjer hafið frið í mjer. Í heiminum
hafið þjer þrenging, en verið hughraustir, jeg hefi
sigrað heiminn.

17 Þetta talaði Jesús, hóf augu sín til himins og
sagði: Faðir, stundin er komin; gjör son þinn
dýrðlegan, til þess að sonurinn gjöri þig dýrðlegan,

2 eins og þú hefir gefið honum vald yfir öllu holdi, til
þess að hann gefi öllum, sem þú gafst honum, eilíft
3 líf. En þetta er hið eilífa líf, að þeir þekki þig einn
sannan Guð og þann sem þú sendir, Jesúm Krist.
4 Jeg hefi gjört þig dýrðlegan á jörðunni, með því að
fullkomna það verk, sem þú fekst mjer að vinna;
5 og nú, gjör þú mig dýrðlegan, faðir, hjá sjálfum þjer
með þeirri dýrð, sem jeg hafði hjá þjer áður en heim-
6 urinn var. Jeg hefi opinberað nafn þitt þeim mönn-
um, sem þú gaft mjer af heiminum; þeir voru þínir
og þú gafst mjer þá; og þeir hafa varðveitt þitt orð.
7 Nú vita þeir, að alt, sem þú hefir gefið mjer, er frá
8 þjer, því að orðin, er þú gafst mjer, hefi jeg gefið
þeim; og þeir hafa meðtekið þau og með sanni kom-
ist að raun um, að jeg er kominn frá þjer, og hafa
9 trúað, að þú hafir sent mig. Jeg bið fyrir þeim;
fyrir heiminum bið jeg ekki, heldur fyrir þeim, sem
10 þú gafst mjer, af því að þeir eru þínir; og alt mitt
er þitt, og þitt er mitt, og jeg er orðinn dýrðlegur í
11 þeim. Jeg er ekki lengur í heiminum, en þeir eru í
heiminum, og jeg kem til þín. Heilagi faðir, varð-
veit þá í þínu nafni, er þú hefir gefið mjer, til þess
12 að þeir sjeu eitt eins og við. Þegar jeg var
hjá þeim, varðveitti jeg þá í þínu nafni, sem þú hefir
gefið mjer; og jeg gætti þeirra, og enginn þeirra týnd-
ist, nema glötunar-sonurinn, til þess að ritningin
13 skyldi rætast. En nú kem jeg til þín; og þetta tala
jeg í heiminum, til þess að þeir hafi í sjálfum sjer
14 fögnuð minn fullkominn. Jeg hefi gefið þeim orð
þitt, og heimurinn hataði þá, af því að þeir eru ekki
af heiminum, eins og jeg er ekki af heiminum.

15 Ekki bið jeg, að þú takir þá úr heiminum, heldur að
16 þú varðveitir þá frá hinu illa. Þeir eru ekki af
17 heiminum, eins og jeg er ekki af heiminum. Helga
18 þú þá í sannleikanum; þitt orð er sannleikur. Eins
og þú hefir sent mig til heimsins, hefi jeg líka sent
19 þá til heimsins; og þeirra vegna helga jeg sjálfan
mig, til þess að þeir einnig skuli vera helgaðir í
20 sannleika. En jeg bið ekki einungis fyrir þessum,
heldur og fyrir þeim, sem trúa á mig fyrir orð þeirra;
21 til þess að þeir sjeu allir eitt, eins og þú, faðir, ert
í mjer og jeg í þjer, til þess að þeir og sjeu í okkur;
til þess að heimurinn skuli trúa, að þú hafir sent
22 mig. Og dýrðina, sem þú hefir gefið mjer, hefi jeg
gefið þeim, til þess að þeir sjeu eitt, eins og við er-
23 um eitt, jeg í þeim og þú í mjer, til þess að þeir
skuli vera fullkomlega sameinaðir; til þess að heim-
urinn skuli komast að raun um, að þú hefir sent mig,
og að þú hefir elskað þá, eins og þú hefir elskað mig.
24 Faðir, jeg vil, að þar sem jeg er, skuli einnig þeir,
sem þú hefir gefið mjer, vera hjá mjer, til þess að
þeir skuli sjá dýrð mína, sem þú hefir gefið mjer;
því að þú hefir elskað mig áður en veröldin var
25 grundvölluð. Rjettláti faðir, og heimurinn þekti þig
ekki, en jeg þekti þig, og þessir hafa komist að raun
26 um, að þú hafir sent mig. Jeg hefi kunngjört þeim
nafn þitt og mun kunngjöra, til þess að kærleikur-
inn, sem þú hefir elskað mig með, sje í þeim og jeg
í þeim.

18 Að svo mæltu gekk Jesús út með lærisveinum
sínum yfir um lækinn Kedron. Þar var gras-
garður; inn í hann gekk hann sjálfur og lærisveinar

2 hans. En Júdas, sem sveik hann, þekti og staðinn,
því að Jesús hafði oftlega komið þar saman ásamt
3 lærisveinum sínum. Þá tók Júdas hersveitina með
sjer og þjóna frá æðstu prestunum og Faríseunum,
og kemur þangað með blysum og lömpum og vopn-
4 um. Þá gekk Jesús, sem vissi alt, sem yfir hann
mundi koma, fram og segir við þá: Að hverjum
5 leitið þjer? Þeir svöruðu honum: Að Jesú frá
Nasaret. Jesús segir við þá: Jeg er hann. En hjá
6 þeim stóð einnig Júdas, sem sveik hann. Þegar hann
nú sagði við þá: Jeg er hann, hopuðu þeir á hæl
7 og fjellu til jarðar. Þá spurði hann þá aftur: Að
hverjum leitið þjer? En þeir sögðu: Að Jesú frá
8 Nasaret. Jesús svaraði: Jeg sagði yður, að jeg væri
hann; ef þjer því leitið að mjer, þá látið þessa fara;
9 til þess að rættist orðið, sem hann sagði: Eigi glat-
aði jeg neinum af þeim, sem þú hefir gefið mjer.
10 Símon Pjetur, sem hafði sverð, brá því nú, hjó til
þjóns æðsta prestsins og sneið af honum hægra eyr-
11 að, en nafn þjónsins var Malkus. Jesús sagði þá við
Pjetur: Sting sverðinu í slíðrin. Ætti jeg ekki að
drekka bikarinn, sem faðirinn hefir gefið mjer?

12 Hersveitin, sveitarforinginn og þjónar Gyðing-
13 anna handtóku nú Jesúm og bundu hann, og færðu
hann fyrst til Annasar, því að hann var tengdafaðir
14 Kaífasar, sem það árið var æðsti prestur. En Kaífas
var sá, sem gefið hafði Gyðingunum það ráð, að
gagnlegt væri, að einn maður dæi fyrir lýðinn.

15 En Símon Pjetur fylgdi Jesú og annar lærisveinn,
en sá lærisveinn var kunnugur æðsta prestinum, og
16 hann gekk inn með Jesú í höll æðsta prestsins, en

16 Pjetur stóð fyrir utan við dyrnar. Þá gekk út hinn
lærisveinninn, sem kunnugur var æðsta prestinum,
17 talaði við dyravörðinn og leiddi Pjetur inn. Þernan,
sem gætti dyranna, segir þá við Pjetur: Ert þú ekki
líka einn af lærisveinum þessa manns? Hann segir:
18 Ekki er jeg það. En þjónarnir og sveinarnir stóðu
þar við kolaeld, sem þeir höfðu kveikt, því að kalt
var, og vermdu sig; en Pjetur stóð og hjá þeim og
vermdi sig.
19 Þá spurði æðsti presturinn Jesúm um lærisveina
20 hans og um kenningu hans. Jesús svaraði honum:
Jeg hefi talað opinberlega fyrir heiminum; jeg hefi
ávalt kent í samkundum og í helgidóminum, þar sem
allir Gyðingar koma saman, og ekkert hefi jeg talað
21 í leyni; hví spyr þú mig? Spyr þú þá sem heyrt
22 hafa, hvað jeg hafi talað við þá; sjá, þeir vita,
hvað jeg hefi sagt. En er hann sagði þetta,
gaf einn af þjónunum, sem hjá stóð, Jesú kinnhest
23 og sagði: Svarar þú svona æðsta prestinum? Jesús svar-
aði honum: Hafi jeg illa mælt, þá sanna þú, að það hafi
24 verið ilt, en hafi jeg talað rjett, hví slær þú mig? Annas
sendi hann nú bundinn til Kaífasar æðsta prests.
25 En Símon Pjetur stóð og vermdi sig. Menn
sögðu þá við hann: Ert þú ekki líka einn af læri-
sveinum hans? Hann neitaði og sagði: Ekki er jeg
26 það. Einn af þjónum æðsta prestsins, sem var frændi
þess, er Pjetur sneið af eyrað, segir þá: Sá jeg þig
27 ekki í grasgarðinum með honum? Þá neitaði Pjetur
aftur, og jafnskjótt gól haninn.
28 Nú færa þeir Jesúm frá Kaífasi til hallar lands-
höfðingjans, en það var snemma morguns, og þeir

 

gengu ekki sjálfir inn í höllina, til þess að þeir
saurguðust ekki, heldur mættu neyta páskalambsins.
29 Pílatus gekk því út til þeirra og segir: Hverja á-
30 kæru færið þjer gegn þessum manni? Þeir svöruðu
og sögðu við hann: Væri hann ekki illræðismaður,
31 þá hefðum vjer ekki framselt þjer hann. Pílatus sagði
þá við þá: Takið þjer hann og dæmið hann eftir
yðar lögum. Þá sögðu Gyðingarnir við hann: Oss
32 leyfist ekki að lífláta nokkurn; til þess að rættist orð
Jesú, er hann sagði, þá er hann gaf til kynna, hvaða
dauða hann mundi deyja.

33 Þá gekk Pílatus aftur inn í höllina og kallaði
Jesúm til sín og sagði við hann: Ert þú konungur
34 Gyðinganna? Jesús svaraði: Mælir þú þetta af
sjálfum þjer, eða hafa aðrir sagt þjer um mig?
35 Pílatus svaraði: Er jeg þá Gyðingur? Þjóð þín og
æðstu prestarnir hafa framselt mjer þig; hvað hefir
36 þú aðhafst? Jesús svaraði: Mitt ríki er ekki af
þessum heimi; væri mitt ríki af þessum heimi,
þá hefðu þjónar mínir barist, til þess að jeg
yrði ekki framseldur Gyðingunum; en nú er
37 mitt ríki ekki þaðan. Pílatus sagði þá við hann:
Eftir því ert þú þá konungur! Jesús svaraði: Þú
segir það, því að jeg er konungur; til þess er jeg
fæddur og til þess kom jeg í heiminn, að jeg skuli
vitna um sannleikann. Hver sem er af sannleikan-
38 um, hlýðir minni röddu. Pílatus segir þá við hann:
Hvað er sannleikur?

Og er hann hafði þetta mælt, gekk hann út aftur
til Gyðinganna og segir við þá: Jeg finn enga sök
39 hjá honum. En það er venja hjá yður, að jeg gefi
yður einn mann lausan á páskunum. Viljið þjer þá,

40 að jeg gefi yður lausan Gyðinga-konunginn? Þeir
æptu þá aftur og sögðu: Ekki hann, heldur Barra-
bas; en Barrabas var ræningi.

19 Þá tók Pílatus Jesúm og húðstrýkti hann.
2 Og hermennirnir fljettuðu kórónu af þyrnum
og settu á höfuð honum, og færðu hann í purpura-
3 kápu; og þeir gengu til hans og sögðu: Heill vert
þú, konungur Gyðinganna! Og þeir gáfu honum
4 kinnhesta. Pílatus gekk þá aftur út og segir við þá:
Sjá, jeg leiði hann nú aftur út til yðar, til þess að
5 þjer vitið, að jeg finn enga sök hjá honum. Jesús
gekk þá út með þyrnikórónuna á höfði og í purpura-
kápunni, og Pílatus segir við þá: Sjá, þar er maður-
6 inn! Þegar nú æðstu prestarnir og þjónarnir sáu
hann, æptu þeir og sögðu: Krossfestu, krossfestu!
Pílatus segir við þá: Takið þjer hann og krossfestið,
7 því að jeg finn enga sök hjá honum. Gyðingarnir
svöruðu honum: Vjer höfum lögmál, og eftir lög-
málinu á hann að deyja, því að hann hefir gjört
8 sjálfan sig að Guðs syni. Þegar nú Pílatus heyrði
9 þetta, varð hann enn hræddari. Og hann gekk aftur
inn í höllina og segir við Jesúm: Hvaðan ertu? En
10 Jesús gaf honum ekkert andsvar. Pílatus segir þá
við hann: Talar þú ekki við mig? Veistu ekki, að
jeg hefi vald til að láta þig lausan, og að jeg hefi
11 vald til að krossfesta þig? Jesús svaraði honum:
Ekki hefðir þú neitt vald yfir mjer, ef þjer hefði
ekki verið gefið það að ofan; fyrir því hefir sá
12 meiri synd, sem seldi mig þjer í hendur. Eftir þetta
leitaðist Pílatus við að láta hann lausan; en Gyðing-
arnir kölluðu og sögðu: Ef þú lætur hann lausan,

þá ert þú ekki vinur keisarans. Hver sem gjörir
sjálfan sig að konungi, hann rís á móti keisaranum.
13 Þegar Pílatus heyrði þessi orð, leiddi hann Jesúm út
og settist á dómstólinn, á stað sem heitir Steinhlað,
14 en á hebresku Gabbata. En þá var aðfangadagur
páska, hjer um bil um sjettu stundu. Og hann segir
15 við Gyðingana: Sjá, þar er konungur yðar! Þá
kölluðu þeir: Burt, burt með hann! Krossfestu
hann! Pílatus segir við þá: Á jeg að krossfesta
konung yðar? Þá svöruðu æðstu prestarnir: Vjer
16 höfum engan konung, nema keisarann. Þá seldi
hann þeim hann í hendur, til þess að hann yrði
krossfestur.

17 Þeir tóku þá Jesúm. Og hann gekk út og bar
kross sinn til svo kallaðs Hauskúpustaðar, sem nefn-
18 ist á hebresku Golgoþa. Þar krossfestu þeir hann og
með honum tvo aðra, sinn til hvorrar handar, en
19 Jesúm í miðið. En Pílatus ritaði líka yfirskrift og
festi á krossinn; en þar var ritað: JESÚS FRÁ
20 NASARET, KONUNGUR GYÐINGANNA. Þessa yfir-
skrift lásu nú margir Gyðingar, því að staðurinn, þar
sem Jesús var krossfestur, var nærri borginni; og
21 hún var rituð á hebresku, latínu og grísku. Þá sögðu
æðstu prestar Gyðinga við Pílatus: Skrifa þú ekki:
Konungur Gyðinganna, heldur að hann hafi sagt: Jeg
22 er konungur Gyðinganna. Pílatus svaraði: Það sem
jeg hefi skrifað, það hefi jeg skrifað.

23 Þegar nú hermennirnir höfðu krossfest Jesúm,
tóku þeir klæði hans og skiftu í fjóra hluti, hverjum
hermanni hlut, líka kyrtilinn; en kyrtillinn var ekki
saumaður, heldur frá ofanverðu niður úr prjónaður.

24 Þeir sögðu því hver við annan: Skerum hann ekki
í sundur, köstum heldur hlut um hann, hver skuli fá
hann; til þess að sú ritning rættist, er segir: *Þeir
skiftu með sjer klæðum mínum og köstuðu hlut um*
25 *kyrtil minn.* Þetta gjörðu nú hermennirnir. En hjá
krossi Jesú stóð móðir hans og móðursystir hans,
26 María, kona Klópa, og María Magdalena. Þegar nú
Jesús sá móður sína og lærisveininn, sem hann elsk-
aði, standa þar, segir hann við móður sína: Kona,
27 sjá, þar er sonur þinn! Síðan segir hann við læri-
sveininn: Sjá, þar er móðir þín! Og frá þeirri stundu
tók lærisveinninn hana heim til sín.
28 Síðan, — er Jesús vissi, að alt var nú þegar
fullkomnað, segir hann, til þess að ritningin skyldi
29 rætast: *Mig þyrstir.* Þar stóð ker fult af ediki. Þeir
settu þá njarðarvött fullan af ediki á ísópslegg og
30 báru honum að munni. Þegar nú Jesús hafði til sín
tekið edikið, sagði hann: Það er fullkomnað! og hann
hneigði höfuðið og gaf upp andann.
31 En þar eð aðfangadagur var, og til þess að líkam-
irnir væru ekki á krossinum um hvíldardaginn, —
því að sá hvíldardagur var mikill, — beiddu Gyðing-
arnir Pílatus, að bein þeirra væru brotin og þeir
32 teknir burt. Hermennirnir komu því og brutu bein
hins fyrsta og hins annars, sem með honum hafði
33 verið krossfestur. En er þeir komu til Jesú og sáu,
að hann var þegar dáinn, brutu þeir ekki bein hans.
34 En einn af hermönnunum lagði spjóti í síðu hans, og
35 jafnskjótt kom út blóð og vatn; og sá hefir vitnað
það sem hefir sjeð, og vitnisburður hans er sannur,
og hann veit, að hann segir satt, til þess að einnig

36 þjer trúið. Því að þetta varð, til þess að sú ritning
37 skyldi rætast: *Bein í því*) skal ekki brotið.* Og enn
segir önnur ritning: *Þeir skulu snúa augum til hans,*
*sem þeir stungu.*
38 En Jósef frá Arimaþeu, sem var lærisveinn Jesú,
en heimullega, vegna ótta fyrir Gyðingunum, bað
síðan Pílatus um, að hann mætti taka líkama Jesú,
og leyfði Pílatus það. Hann kom því og tók líkama
39 hans. En Nikódemus, hann sem í fyrstunni hafði
komið til Jesú um nótt, kom einnig og hafði með
sjer hjer um bil hundrað pund af myrrublönduðu
40 alóe. Þeir tóku nú líkama Jesú og sveipuðu hann í
líndúk með ilmjurtum, eins og siður er hjá Gyðing-
41 um að búa lík til greftrunar. En á þeim stað, þar
sem hann hafði verið krossfestur, var grasgarður, og
í grasgarðinum ný gröf, sem enginn hafði verið enn
42 lagður í. Þar lögðu þeir þá Jesúm — því að gröfin
var þar nærri — vegna aðfangadags Gyðinga.

20 En á fyrsta degi vikunnar kemur María
Magdalena snemma, meðan enn þá var dimt,
til grafarinnar, og sjer að steinninn er tekinn frá
2 gröfinni. Hún hleypur þá og kemur til Símonar
Pjeturs og til hins lærisveinsins, þess, sem Jesús
elskaði, og segir við þá: Þeir hafa tekið Drottin úr
gröfinni, og vjer vitum ekki, hvar þeir hafa
3 lagt hann. Þá fór Pjetur út og hinn lærisveinn-
4 inn, og þeir komu til grafarinnar. En þeir
hlupu saman, og hinn lærisveinninn hljóp hrað-
5 ara en Pjetur, og kom fyrst að gröfinni; og er hann
gægðist inn, sá hann líndúkana liggja þar, en þó

---

*) þ. e. páskalambinu.

6 gekk hann ekki inn. Þá kemur og Símon Pjetur,
sem fylgdi á eftir honum, og gekk inn í gröfina, og
7 hann sjer líndúkana liggja þar, og sveitadúkinn, sem
verið hafði um höfuð hans, ekki liggjandi hjá lín-
dúkunum, heldur út af fyrir sig, samanbrotinn á öðr-
8 um stað. Þá gekk nú einnig hinn lærisveinninn inn,
sem fyrst hafði komið til grafarinnar, og sá, og trúði;
9 því að enn þá skildu þeir ekki ritninguna, að hann
10 átti að rísa upp frá dauðum. Síðan fóru lærisvein-
arnir aftur heim til sín.
11 En María stóð hjá gröfinni úti fyrir grátandi;
þegar hún nú var að gráta, gægðist hún inn í gröf-
12 ina, og sjer tvo engla í hvítum klæðum, sitjandi
annan til höfða, hinn til fóta, þar sem líkami Jesú
13 hafði legið. Og þeir segja við hana: Kona, hví
grætur þú? Hún segir við þá: Af því að þeir hafa
tekið burt Drottin minn, og jeg veit eigi hvar þeir
14 hafa lagt hann. Þegar hún hafði þetta mælt, sneri
hún sjer við og sjer Jesúm standa þar, en hún vissi
15 ekki, að það var Jesús. Jesús segir við hana: Kona,
hví grætur þú? Að hverjum leitar þú? Hún hugði,
að þetta væri grasgarðsvörðurinn, og segir við hann:
Herra, hafir þú borið hann burt, þá segðu mjer,
hvar þú hefir lagt hann, og mun jeg taka hann.
16 Jesús segir við hana: María! Hún sneri sjer við og
segir við hann á hebresku: Rabbúní! sem þýðir:
17 meistari. Jesús segir við hana: Snert þú mig ekki,
því að enn þá er jeg ekki uppstiginn til föður míns;
en far þú til bræðra minna og seg þeim: Jeg stíg
upp til föður míns og föður yðar, til Guðs míns og
18 Guðs yðar. María Magdalena kemur og boðar læri-

sveinunum: Jeg hefi sjeð Drottin! og að hann hafi
sagt henni þetta.
19 En er kveld var komið, þennan sama fyrsta dag
vikunnar, og dyrum hafði verið lokað, þar sem læri-
sveinarnir voru, vegna ótta fyrir Gyðingunum, kom
Jesús og stóð mitt á meðal þeirra og segir við þá: Friður
20 sje með yður! Og er hann hafði mælt þetta, sýndi
hann þeim hendurnar og síðuna. Lærisveinarnir
21 urðu þá glaðir, er þeir sáu Drottin. Jesús sagði þá
aftur við þá: Friður sje með yður! Eins og faðirinn
22 hefir sent mig, eins sendi jeg yður. Og er hann
sagði þetta, bljes hann á þá og segir við þá: Með-
23 takið heilagan anda. Hverjum sem þjer fyrirgefið
syndirnar, þeim eru þær fyrirgefnar, og hverjum, sem
þjer synjið, þeim er synjað.
24 En Tómas, einn af þeim tólf, sem kallaður var
Dídymos, var ekki með þeim, þegar Jesús kom.
25 Hinir lærisveinarnir sögðu þá við hann: Vjer höfum
sjeð Drottin! En hann sagði við þá: Sjái jeg ekki
í höndum hans naglaförin, og láti fingur minn í
naglaförin og leggi hönd mína í síðu hans, þá trúi
jeg alls ekki.
26 Og að viku liðinni voru lærisveinar hans aftur
inni og Tómas með þeim. Þá kemur Jesús, er dyr-
um hafði verið lokað, og stóð mitt á meðal þeirra
27 og sagði: Friður sje með yður! Síðan segir hann
við Tómas: Kom hingað með fingur þinn og sjá
hendur mínar, og kom með hönd þína og legg í
síðu mína; og ver ekki vantrúaður, heldur trúaður.
28 Tómas svaraði og sagði við hann: Drottinn minn
29 og Guð minn! Jesús segir við hann: Af því að þú

hefir sjeð mig, hefir þú trúað; sælir eru þeir sem
ekki sáu, og trúðu þó.
30 Þannig gjörði Jesús og margar aðrar jartegnir í
augsýn lærisveinanna, sem ekki eru ritaðar í þessari
bók. En þetta er ritað, til þess að þjer skulið trúa,
að Jesús er Kristur, sonur Guðs, og til þess að þjer,
er þjer trúið, hafið líf í hans nafni.

---

21 Eftir þetta birtist Jesús aftur lærisveinunum
við Tíberíasvatnið. En hann birtist með þess-
2 um hætti: Þar voru saman þeir Símon Pjetur og
Tómas, sem kallaður er Dídymos, og Natanael frá
Kana í Galíleu og þeir synir Sebedeusar og tveir
3 aðrir af lærisveinum hans. Símon Pjetur segir við
þá: Jeg fer út að fiska. Þeir segja við hann: Vjer
komum líka með þjer. Þeir fóru út og stigu á skip-
4 ið, og þá nótt fengu þeir ekkert. En er birti af degi,
stóð Jesús á ströndinni; þó vissu lærisveinarnir ekki,
5 að það var Jesús. Jesús segir þá við þá: Börnin
góð, hvort hafið þjer nokkuð að eta? Þeir svöruðu:
6 Nei. Hann sagði þá við þá: Leggið netið hægra
megin við skipið, og þjer munuð verða varir. Þeir lögðu
því netið, og gátu nú ekki dregið það fyrir fiskimergð-
7 inni. Þá segir lærisveinn sá, sem Jesús elskaði, við
Pjetur: Það er Drottinn. En er Símon Pjetur heyrði,
að það væri Drottinn, gyrti hann kyrtilinn að sjer,
— því að hann var fáklæddur, — og fleygði sjer í

8 vatnið. En hinir lærisveinarnir komu á bátnum og
drógu netið með fiskinum á eftir sjer, — því að þeir voru
ekki langt frá landi, heldur svo sem tvö hundruð
9 álnir. Þegar þeir nú voru stignir á land, sjá þeir
10 þar vera kolaeld og fisk liggja þar og brauð. Jesús
segir við þá: Komið með nokkuð af fiskunum, sem
11 þjer veidduð. Símon Pjetur fór þá út í bátinn og
dró netið á land, fult af stórum fiskum, hundrað fim-
tíu og þremur; en þó að þeir væru svo margir, rifn-
12 aði netið ekki. Jesús segir við þá: Komið og takið
dagverð. En enginn af lærisveinunum dirfðist að
spyrja hann: Hver ert þú? með því að þeir vissu,
13 að það var Drottinn. Jesús kemur og tekur brauðið
14 og gefur þeim, sömuleiðis og fiskinn. Þetta var nú
í þriðja sinni, sem Jesús birtist lærisveinunum eftir
að hann var upprisinn frá dauðum.

15 En er þeir höfðu matast, segir Jesús við Símon
Pjetur: Símon Jóhannesson, elskar þú mig meira en
þessir? Hann segir við hann: Já, herra, þú veist,
að þú ert mjer kær. Hann segir við hann: Gæt þú
16 lamba minna. Enn segir hann í annað sinn: Símon
Jóhannesson, elskar þú mig? Hann segir við hann:
Já, herra, þú veist að þú ert mjer kær. Hann segir við
17 hann: Hirð þú sauði mína. Hann segir í þriðja sinni við
hann: Símon Jóhannesson, er jeg þjer kær? Þá
hrygðist Pjetur, af því að hann sagði í þriðja sinni
við hann: Er jeg þjer kær? og hann sagði við hann:
Herra, þú þekkir alt; þú veist, að þú ert mjer kær.
18 Jesús segir við hann: Gæt þú sauða minna. Sann-
lega, sannlega segi jeg þjer: Þegar þú varst ungur,
gyrtir þú þig og gekst hvert sem þú vildir; en er þú

eldist, muntu útbreiða hendur þínar, og annar mun
gyrða þig og fara með þig, þangað sem þú vilt ekki.
19 En þetta sagði hann, til þess að tákna, með hvaða
dauða hann skyldi vegsama Guð. Og er hann hafði
þetta mælt, segir hann við hann: Fylg þú mjer!
20 En er Pjetur sneri sjer við, sjer hann lærisvein þann,
sem Jesús elskaði, koma á eftir, þann sama, sem
við kveldmáltíðina hallaði sjer upp að brjósti hans
21 og sagði: Herra, hver er sá sem svíkur þig? Þegar
Pjetur sá hann, segir hann við Jesúm: Herra, en
22 hvað verður um þennan? Jesús segir við hann:
Ef jeg vil, að hann lifi þangað til jeg kem, hvað
23 tekur það til þín? Fylg þú mjer. Því barst sú
saga út til bræðranna, að þessi lærisveinn mundi
ekki deyja; en Jesús sagði ekki við hann, að hann
skyldi ekki deyja, heldur: Ef jeg vil, að hann lifi
þangað til jeg kem, hvað tekur það til þín?

24 Þessi er lærisveinninn, sem vitnar um þetta og hefir ritað þetta, og vjer vitum, að vitnisburður hans er sannur.

25 Það er og margt annað, sem Jesús gjörði, og ætti það alt, hvað eina, að verða ritað upp, hygg jeg, að enda heimurinn mundi ekki rúma þær bækur, sem þá yrðu ritaðar.

# Postulasagan.

---

1 Fyrri frásöguna samdi jeg, Þeófílus, um alt sem
2 Jesús hóf að gjöra og kenna, til þess dags er
hann var upp numinn, eftir að hann hafði fyrir heil-
agan anda boðorð gefið postulunum, er hann hafði
3 valið, sem hann og sýndi sig lifandi eftir písl sína
með mörgum órækum kennimerkjum, er hann ljet þá
sjá sig í fjörutíu daga, og talaði um það, sem guðs-
4 ríki heyrir til; og er hann kom saman við þá, bauð
hann þeim að fara ekki burt úr Jerúsalem, heldur
bíða eftir fyrirheiti föðursins, sem þjer — sagði hann
5 -- hafið heyrt mig tala um, því að Jóhannes skírði
með vatni, en þjer skuluð skírðir verða með heilögum
anda, nú innan fárra daga.

6 Og er þeir nú komu saman, spurðu þeir hann
og sögðu: Herra, endurreisir þú á þessum tíma ríkið
7 handa Ísrael? Og hann sagði við þá: Ekki er það
yðar að vita tíma eða tíðir, sem faðirinn setti af
8 sjálfs síns valdi; en þjer munuð öðlast kraft, er heil-
agur andi kemur yfir yður, og þjer munuð verða
vottar mínir bæði í Jerúsalem og í allri Júdeu og
9 Samaríu og til ystu endimarka jarðarinnar. Og er
hann hafði talað þetta, varð hann upp numinn, að
þeim ásjáandi, og ský nam hann frá augum þeirra.
10 Og er þeir störðu til himins, þegar hann fór burt,
sjá, þá stóðu tveir menn hjá þeim í hvítum klæðum,
11 er sögðu: Galíleumenn, hví standið þjer og horfið til
himins? Þessi Jesús, sem var upp numinn frá yður

til himins, mun koma á sama hátt og þjer sáuð hann
fara til himins.
12 Þá sneru þeir aftur til Jerúsalem frá Olíufjallinu,
sem svo er nefnt og er í nánd við Jerúsalem,
13 hvíldardagsleið þaðan. Og er þeir voru inn komnir,
fóru þeir upp í loftstofuna, þar sem þeir hjeldu til,
þeir Pjetur og Jóhannes og Jakob og Andrjes, Filipp-
us og Tómas, Bartólómeus og Matteus, Jakob Al-
14 feusson og Símon Selótes og Júdas Jakobsson. Allir
þessir voru með einum huga stöðugir í bæninni,
ásamt konunum og Maríu, móður Jesú, og ásamt
bræðrum hans.
15 Og á þessum dögum stóð Pjetur upp á meðal
bræðranna — og þar var saman kominn flokkur
manna, hjer um bil eitt hundrað og tuttugu að tölu
16 — og mælti: Þjer bræður, rætast hlaut ritning sú,
er heilagur andi hafði fyrir sagt, fyrir munn Davíðs,
um Júdas, sem gjörðist leiðtogi þeirra, er höndluðu
17 Jesúm; því að hann var talinn í vorum hóp og hon-
18 um hlotnaðist hlutdeild í þessari þjónustu; — þessi
maður hefir nú eignast reit fyrir laun ranglætisins,
og hann steyptist á höfuðið og brast sundur í miðju,
19 og iðrin öll fjellu út; og það varð kunnugt öllum,
sem í Jerúsalem búa, svo að reitur sá var kallaður
20 á tungu þeirra Akeldama, það er: blóðreitur. — Því
að ritað er í sálmabókinni: *Bústaður hans skal í eyði
verða, og enginn skal í honum búa, og annar taki við
21 embætti hans.* Því hæfir að einhver þeirra manna,
sem með oss hafa verið allar stundir, meðan Drott-
22 inn Jesús gekk inn og út vor á meðal, síðan er skírn
Jóhannesar hófst, til þess dags er hann var upp num-

23 inn frá oss, verði vottur upprisu hans ásamt oss. Og
þeir tóku tvo til, Jósef, kallaðan Barsabas, að auk-
24 nefni Jústus, og Mattías; og þeir báðust fyrir og
sögðu: Drottinn, þú sem þekkir hjörtu allra, sýn
25 þú, hvorn af þessum tveimur þú hefir valið til að
taka sæti þjónustu þessarar og postuladóms, er Júdas
26 varð fráskila, til að fara til síns eigin staðar. Og þeir
hlutuðu um þá, og hluturinn fjell á Mattías, og var
hann talinn með postulunum ellefu.

2 Og er nú var kominn hvítasunnudagurinn, voru
2 þeir allir saman komnir á einum stað; og
skyndilega varð gnýr af himni, eins og aðdynjanda
3 sterkviðris, og fylti alt húsið, sem þeir sátu í; og
þeim birtust tungur, eins og af eldi væru, er kvísl-
4 uðust og settust á einn og sjerhvern þeirra; og þeir
urðu allir fullir af heilögum anda og tóku að tala
öðrum tungum, eins og andinn gaf þeim að mæla.
5 En þar voru Gyðingar búsettir í Jerúsalem, guð-
6 ræknir menn, af öllum þjóðum undir himninum. En
er þetta hljóð heyrðist, kom mannfjöldinn saman, og
honum brá mjög við, því að þeir heyrðu, hver og
7 einn, þá mæla á sína tungu. Og allir urðu forviða
og undruðust, segjandi: Sjá, eru ekki allir þessir,
8 sem tala, Galíleumenn? Og hvernig heyrum vjer,
hver og einn, talað á eigin tungu vorri, er vjer
9 erum fæddir með: Partar og Medar og Elamítar, og
vjer sem heima eigum í Mesopótamíu, Júdeu, Kappa-
10 dókíu, Pontus og Asíu; í Frýgíu og Pamfýlíu,
Egiptalandi og Líbýubygðum við Kýrene, og vjer
11 Rómverjar, sem hjer höfum sest að, bæði Gyðingar,
og þeir, sem gjörst hafa Gyðingar, Kríteyingar og

Arabar, vjer heyrum þá tala á vorum tungum um
12 stórmerki Guðs? En þeir urðu allir frá sjer og for-
viða, og sögðu hver við annan: Hvað ætlar úr þessu
13 að verða? En aðrir höfðu að spotti og sögðu: Þeir
eru drukknir af sætu víni.
14 Og Pjetur reis upp ásamt þeim ellefu, hóf upp
rödd sína og ávarpaði þá: Þjer Gyðingar, og allir
þjer, sem í Jerúsalem búið, þetta sje yður vitanlegt,
15 og ljáið eyru orðum mínum; því að eigi eru þessir
menn drukknir, svo sem þjer ætlið, því að nú er
16 þriðja stund dags; heldur er þetta það, sem sagt
17 hefir verið fyrir Jóel spámann: *Og það mun verða*
*á hinum efstu dögum, segir Guð, að jeg mun úthella*
*af anda mínum yfir alt hold; synir yðar og dætur*
*yðar munu spá, og ungmenni yðar munu sjá sjónir,*
18 *og gamalmenni yðar mun drauma dreyma. Já, einnig*
*yfir þræla mína og yfir ambáttir mínar mun jeg á þeim*
19 *dögum úthella af anda mínum, og þau munu spá. Og*
*jeg mun láta undur verða á himnum uppi og tákn á*
20 *jörðu niðri, blóð og eld og reykjarsvælu. Sólin mun*
*snúast í myrkur og tunglið í blóð, áður en hinn mikli*
21 *og dýrðlegi dagur Drottins kemur. Og svo mun verða,*
22 *að hver sem ákallar nafn Drottins, mun frelsast.* Þjer
Ísraelsmenn, heyrið þessi orð: Jesúm frá Nasaret,
mann þann, er Guð auðkendi fyrir yður með krafta-
verkum og undrum og táknum, sem Guð gjörði fyrir
hann yðar á meðal, svo sem þjer sjálfir vitið, —
23 hann hafið þjer, er hann var framseldur eftir fyrir-
huguðu ráði Guðs og fyrirvitund, neglt á kross með
24 höndum vondra manna og tekið af lífi, — hann upp-
vakti Guð, er hann ljetti af kvölum dauðans, því að

ekki var það mögulegt, að hann skyldi af honum
25 haldinn verða; því að Davíð segir með tilliti til hans:
*Ávalt hafði jeg Drottin fyrir augum mjer, því að hann
er mjer til hægri hliðar, til þess að jeg bifist ekki.*
26 *Fyrir því gladdist hjarta mitt, og tunga mín fagnaði,*
27 *og meira að segja mun og hold mitt hvíla í von. Því
að ekki munt þú eftir skilja sálu mína í helju, og eigi*
28 *heldur munt þú láta þinn heilaga sjá rotnun. Kunna
gjörðir þú mjer lífsins vegu; þú munt mig með fögnuði*
29 *fylla fyrir þínu augliti.* Þjer bræður, skorinort get
jeg við yður talað um ættföðurinn Davíð, að hann er
bæði dáinn og grafinn, og leiði hans er til hjá oss
30 alt til þessa dags. Af því að hann nú var spámaður,
og vissi að Guð hafði með eiði svarið honum, að
31 setja í hásæti hans mann af ávexti lendar hans, sá
hann það fyrir og talaði um upprisu Krists, því að
hvorki var hann eftir skilinn í helju, og eigi heldur
32 sá hold hans rotnun; — þennan Jesúm uppvakti
33 Guð, og erum vjer allir vottar þess. Þegar hann
því nú með Guðs hægri hendi er upp hafinn, og
hefir af föðurnum fengið fyrirheitið um heilagan
anda, hefir hann úthelt honum, sem þjer sjáið og
34 heyrið. Því að ekki stje Davíð til himna, en hann
segir sjálfur: *Drottinn sagði við minn Drottin: Set*
35 *þig mjer til hægri handar, þangað til jeg gjöri óvini*
36 *þína að fótaskör þinni.* Með óbrigðanlegri vissu
viti þá alt Ísraels hús, að Guð hefir gjört hann
bæði að Drotni og að Kristi, þennan Jesúm, sem þjer
krossfestuð.

37 En er þeir heyrðu þetta, stungust þeir í hjörtun
og sögðu við Pjetur og hina postulana: Hvað eigum

38 vjer að gjöra, bræður? En Pjetur sagði við þá:
Gjörið iðrun og sjerhver yðar láti skírast í nafni Jesú
Krists til fyrirgefningar synda yðar, og þjer munuð
39 öðlast gjöf heilags anda; því að yður er ætlað fyrir-
heitið og börnum yðar og öllum þeim, sem í fjarlægð
eru — öllum þeim, sem Drottinn Guð vor kallar til
40 sín. Og með öðrum fleiri orðum bar hann vitni, og
áminti þá, segjandi: Látið frelsast frá þessari rang-
41 snúnu kynslóð. Þeir, sem þá meðtóku orð hans, voru
skírðir, og á þeim degi bættust við hjer um bil þrjú
42 þúsund sálir. Og þeir hjeldu sjer stöðuglega við
kenningu postulanna og samfjelagið og brotning
brauðsins og bænirnar.

43 En ótti kom yfir sjerhverja sál, og mörg undur
44 og tákn gjörðust af postulunum. En allir þeir sem
45 trúðu, voru saman og höfðu alt sameiginlegt, og þeir
seldu eignir sínar og fjármuni, og skiftu því meðal
46 allra, eftir því sem hver hafði þörf til. Og daglega
hjeldu þeir sjer með einum huga stöðugt í helgi-
dóminum og brutu brauð í heimahúsum, og neyttu
47 fæðu með fögnuði og einfaldleik hjartans, og lof-
uðu Guð og höfðu vinsældir af öllum lýð. En
Drottinn bætti daglega við í hópinn þeim, er frels-
ast ljetu.

3 En Pjetur og Jóhannes gengu upp í helgidóm-
2 inn um bænastundina, níundu stund. Og þangað
var borinn maður, er haltur var frá móðurlífi, og
menn lögðu hann daglega við þær dyr helgidómsins,
er nefndar eru hinar fögru, svo að hann bæðist
3 ölmusu af þeim, er inn gengu í helgidóminn. Er
hann sá þá Pjetur og Jóhannes ætla að ganga inn í

4 helgidóminn, beiddist hann ölmusu; en Pjetur horfði
á hann ásamt Jóhannesi og sagði: Líttu á okkur.
5 En hann blíndi á þá í þeirri von að fá eitthvað hjá
6 þeim. En Pjetur sagði: Silfur og gull á jeg ekki,
en það sem jeg hefi, það gef jeg þjer: Í nafni Jesú
7 Krists frá Nasaret, þá gakk þú! Og hann tók í
8 hægri hönd hans og reisti hann á fætur. En jafn-
skjótt urðu fætur hans og öklar styrkir, og hann
spratt upp, stóð og gekk, og fór með þeim inn í
helgidóminn og gekk um kring og hljóp og lofaði
9 Guð, og alt fólkið sá hann ganga um kring og lofa
10 Guð. Og þeir könnuðust við hann, að þetta var
maðurinn, sem sat við fögru dyrnar á helgidóm-
inum, til að beiðast ölmusu, og þeir undruðust og
furðuðu sig stórlega á því, sem fram við hann hafði
komið.

11 En er hann hjelt sjer að Pjetri og Jóhannesi,
flyktist alt fólkið forviða til þeirra í súlnagöngin,
12 sem kend eru við Salómon. En er Pjetur sá það,
ávarpaði hann fólkið: Þjer Ísraelsmenn, hví furðar
yður á þessu? eða hví starið þjer á okkur, eins og
við hefðum af eigin mætti eða guðhræðslu komið
13 því til leiðar, að hann gengur? Guð Abrahams og
Ísaks og Jakobs, Guð feðra vorra, hefir dýrðlegan
gjört þjón sinn Jesúm, sem þjer framselduð og afneit-
uðuð frammi fyrir Pílatusi, er hann hafði ályktað að
14 láta hann lausan. En þjer afneituðuð hinum heilaga
og rjettláta og beiddust að manndrápari yrði gefinn
15 yður; en lífljetuð höfðingja lífsins, sem Guð uppvakti
16 frá dauðum, og að því erum vjer vottar. Og við
trúna á nafn hans hefir nafn hans gjört þennan

mann, er þjer sjáið og þekkið, styrkan, og trúin sem
er fyrir hann, hefir gefið honum þennan albata, fyrir
17 allra yðar augum. Og nú veit jeg, bræður, að þjer
gjörðuð það af vanþekkingu, eins og höfðingjar yðar;
18 en Guð ljet þannig rætast það, sem hann hafði boð-
að fyrirfram fyrir munn allra spámannanna, að hans
19 Smurði skyldi pínast. Gjörið því iðrun og snúið yður,
að syndir yðar verði afmáðar, til þess að endurlíf-
20 gunartímar komi frá augliti Drottins, og hann sendi
21 Krist, sem yður var fyrirhugaður, Jesúm. Við hon-
um á himininn að taka alt til endurreisnartíma allra
hluta, sem Guð hefir talað um fyrir munn sinna
22 heilögu spámanna frá upphafi. Móse hefir sagt: *Spá-
mann mun Drottinn Guð uppvekja yður af bræðrum
yðar eins og mig. Hlýðið honum í öllu, er hann talar
23 til yðar. Og svo mun verða, að sjerhver sál, sem
ekki hlýðir þessum spámanni, skal gjöreyðast úr lýðn-
24 um.* Og allir spámennirnir frá Samúel og þeir sem
á eftir komu, svo margir sem talað hafa, þeir boð-
25 uðu og þessa daga. Þjer eruð synir spámannanna
og sáttmálans, sem Guð gjörði við feður yðar, er
hann sagði við Abraham: *Og af þínu afkvæmi skulu
26 allar ættkvíslir jarðarinnar blessun hljóta.* Fyrir yður
hefir Guð fyrst uppvakið þjón sinn, og hefir sent
hann, til þess að blessa yður, með því að hver og
einn yðar snúi sjer frá illverkum sínum.

4 En meðan þeir voru að tala til fólksins, komu
að þeim prestarnir og varðforingi helgidómsins
2 og Saddúkearnir, sem voru sárgramir af því, að þeir
3 kendu fólkinu og boðuðu upprisu dauðra í Jesú. Og
þeir lögðu hendur á þá og settu þá í varðhald til

4 næsta morguns, því að kveld var komið. En margir
þeirra, er heyrt höfðu orðið, tóku trú, og tala karl-
manna varð um fimm þúsundir.
5 Næsta morgun var það, að höfðingjarnir, öldung-
6 arnir og fræðimennirnir komu saman í Jerúsalem, og
Annas, æðsti presturinn, og Kaífas og Jóhannes og
Alexander og allir, sem voru af æðsta prests ætt.
7 Og þeir leiddu þá fram fyrir sig, og spurðu þá: Með
hvaða krafti, eða í hvaða nafni hafið þið gjört þetta?
8 Þá sagði Pjetur við þá, fyltur heilögum anda: Þjer
9 höfðingjar lýðsins og öldungar! Úr því að í dag er
haldin rannsókn yfir oss vegna góðverks við sjúkan
mann, um það, við hvað þessi maður er heill orðinn,
10 þá sje yður öllum vitanlegt og öllum Ísraelslýð, að í
nafni Jesú Krists frá Nasaret, sem þjer krossfestuð
og Guð uppvakti frá dauðum, einmitt fyrir hann
stendur þessi maður heilbrigður fyrir augum yðar.
11 Hann er steinninn, sem einskis var virtur af yður,
húsasmiðunum, hann er orðinn að hyrningarsteini.
12 Og ekki er hjálpræðið í neinum öðrum, því að eigi
er heldur annað nafn undir himninum, er menn
kunna að nefna, er oss sje ætlað að verða hólpnir í.
13 En er þeir sáu djörfung Pjeturs og Jóhannesar
og komust að því, að þeir voru ólærðir menn og
leikmenn, undruðust þeir. Og þeir könnuðust við þá,
14 að þeir höfðu verið með Jesú. Og er þeir sáu mann-
inn, sem læknaður hafði verið, standa hjá þeim, höfðu
15 þeir ekkert í móti að mæla. Og þeir skipuðu þeim
að ganga út frá ráðinu, báru sig saman og sögðu:
16 Hvað eigum vjer að gjöra við þessa menn? Því að
augljóst er öllum, sem í Jerúsalem búa, að vitanlegt

tákn er orðið af völdum þeirra, og vjer getum ekki
17 neitað því. En til þess að það berist ekki frekar út
meðal lýðsins, þá skulum vjer hóta þeim hörðu,
tali þeir framar í þessu nafni við nokkurn mann.
18 Síðan kölluðu þeir þá fyrir sig og bönnuðu þeim al-
19 gjörlega að tala eða kenna í Jesú nafni. En Pjetur
og Jóhannes svöruðu þeim og sögðu: Dæmið sjálfir,
hvort það sje rjett fyrir augum Guðs, að hlýðnast
20 yður fremur en Guði; því að vjer getum ekki annað
21 en talað það, sem vjer höfum sjeð og heyrt. En þeir
ógnuðu þeim enn frekar, og sleptu þeim, því þeim
hugsaðist ekkert ráð til að hegna þeim vegna fólks-
ins, því að allir lofuðu Guð fyrir þennan atburð;
22 því að maðurinn var yfir fertugt, sem þetta lækn-
ingartákn hafði komið fram við.
23 En er þeim var slept, fóru þeir til fjelaga sinna
og greindu þeim frá öllu því, sem æðstu prestarnir
24 og öldungarnir höfðu við þá talað. En þegar þeir
heyrðu það, hófu þeir með einum huga raust sína til
Guðs og sögðu: *Herra, þú ert sá, sem gjört hefir*
25 *himininn og jörðina og hafið og alt, sem í þeim er,* þú
sem fyrir heilagan anda hefir fyrir munn Davíðs,
föður vors, þjóns þíns, sagt: *Hví æddu heiðingjarnir,*
26 *og hví tóku lýðirnir saman hjegómleg ráð? Konungar*
*jarðarinnar risu upp, og höfðingjarnir tóku sig saman*
27 *gegn Drotni og gegn hans Smurða.* Því að
sannarlega tóku sig saman í borg þessari gegn hin-
um heilaga þjóni þínum Jesú, er þú smurðir, þeir
Heródes og Pontíus Pílatus, ásamt heiðingjunum og
28 lýðum Ísraels, til að gjöra alt það, er hönd þín og
29 ráð þitt hafði fyrirhugað að verða skyldi. Og nú,

Drottinn, lít á hótanir þeirra og veit þjónum þínum
30 með allri djörfung að tala orð þitt, er þú rjettir út
hönd þína til lækninga, og til þess að tákn og
undur verði fyrir nafn þíns heilaga þjóns Jesú.
31 Og er þeir höfðu beðist fyrir, hrærðist staðurinn,
þar sem þeir voru saman komnir, og þeir fyltust
allir heilögum anda, og töluðu orð Guðs með djörfung.
32 En í hinum fjölmenna hóp þeirra, sem trú höfðu
tekið, var eitt hjarta og ein sál, og enginn þeirra
taldi neitt vera sitt, er hann átti, heldur var þeim
33 alt sameiginlegt. Og með miklum krafti báru postul-
arnir vitni um upprisu Drottins Jesú, og mikil náð
34 var yfir þeim öllum; því að eigi var heldur neinn
þurfandi meðal þeirra, því að allir landeigendur og
húseigendur seldu, og komu með andvirði hins selda,
35 og lögðu fyrir fætur postulanna, og sjerhverjum var
úthlutað eftir því sem hann hafði þörf til.
36 Og Jósef, sem kallaður var af postulunum að
viðurnefni Barnabas, — það er útlagt: huggunar
sonur, — levítí, ættaður frá Kípur, átti sáðland og
seldi, og kom með verðið og lagði fyrir fætur postul-
anna.

5 En maður nokkur, Ananías að nafni, seldi, ásamt
2 með Saffíru konu sinni, eign, og dró undan af
verðinu með vitund konu sinnar, og kom með nokk-
3 uð af því og lagði fyrir fætur postulanna. En Pjetur
mælti: Ananías, hví fylti Satan hjarta þitt, svo að
þú skyldir ljúga að heilögum anda og draga undan
4 af jarðarverðinu? Var hún ekki þín, á meðan hún
var í eign þinni, og var ekki söluverðið á þínu valdi?
Hvernig gastu þá látið þjer hugkvæmast slíkt tiltæki?

Ekki hefir þú logið að mönnum, heldur að Guði.
5 Og er Ananías heyrði orð þessi, fjell hann niður og
gaf upp andann, og miklum ótta sló yfir alla þá,
6 sem heyrðu þetta. Og ungu mennirnir stóðu upp og
bjuggu um hann, og báru hann í burt og jörðuðu.
7 Að liðnum svo sem þrem stundum atvikaðist það,
að kona hans kom inn, og vissi eigi hvað við hafði
8 borið. Og Pjetur tók til máls við hana: Seg mjer,
selduð þið jörðina fyrir þetta verð? En hún sagði:
Já, fyrir þetta verð. Pjetur mælti þá til hennar:
9 Hvernig gátuð þið orðið samþykk um að freista anda
Drottins? Sjá, fætur þeirra, sem greftruðu mann
þinn, eru við dyrnar, og þeir munu bera þig út.
10 En hún fjell jafnskjótt niður fyrir fætur honum, og
gaf upp andann, og er ungu mennirnir komu inn,
fundu þeir hana dauða, og þeir báru hana út og grófu
11 hjá manni hennar. Og miklum ótta sló yfir allan
söfnuðinn og yfir alla þá sem heyrðu þetta.
12 En fyrir hendur postulanna gjörðust mörg tákn
og undur meðal lýðsins, og þeir voru allir með ein-
13 um huga í súlnagöngum Salómons. En af hinum
dirfðist enginn að samlagast þeim, en lýðurinn mikl-
14 aði þá. Og því fremur bættust trúaðir Drotni, fjöldi
15 bæði karla og kvenna; svo að þeir jafnvel báru sjúka
menn út á strætin og lögðu þá á legubekki og í burð-
arrekkjur, til þess að, þótt ekki væri meira en að
skuggann af Pjetri, er hann gekk um, skyldi bera á
16 einhvern þeirra. En einnig streymdi að mannfjöld-
inn úr borgunum umhverfis Jerúsalem, og höfðu með
sjer sjúka menn og þjáða af óhreinum öndum, og
hlutu þeir allir lækningu.

17 En æðsti presturinn reis upp, og allir þeir, sem
með honum voru — sem voru flokkur Saddúkeanna
18 — og þeir fyltust vandlæti; og þeir lögðu hendur á post-
19 ulana, og settu þá í almennings-varðhald. En engill
Drottins opnaði um nótt dyr fangelsisins, og leiddi
20 þá út og sagði: Farið og gangið fram, og talið í
21 helgidóminum til lýðsins öll þessi lífsins orð. Og er
þeir höfðu heyrt þetta, gengu þeir í dögun inn í
helgidóminn og kendu. En æðsti presturinn kom,
og þeir sem með honum voru, og kölluðu saman
ráðið og alla öldunga Ísraelssona, og sendu til varð-
22 haldsins, til að láta sækja þá. En þjónarnir komu og
fundu þá ekki í fangelsinu, og þeir sneru aftur og
23 sögðu frá, svo mælandi: Varðhaldið fundum vjer að
öllu leyti tryggilega læst, og varðmennina standandi
fyrir dyrunum, en er vjer lukum upp, fundum vjer
24 engan inni. En er þeir heyrðu þessi orð, bæði varð-
foringi helgidómsins og æðstu prestarnir, urðu þeir
ráðþrota með þá, og vissu ekki hvað úr þessu ætlaði
25 að verða. En þá kom maður og bar þeim þá frjett:
Sjá, mennirnir sem þjer settuð í fangelsið, standa í
26 musterinu og eru að kenna lýðnum. Þá fór varðfor-
inginn með þjónunum og sótti þá, þó án ofbeldis,
27 því að þeir óttuðust fólkið, að þeir yrðu grýttir. Og
er þeir voru komnir með þá, leiddu þeir þá fram
fyrir ráðið, og æðsti presturinn spurði þá, og sagði:
28 Stranglega buðum vjer yður, að kenna ekki í þessu
nafni, og sjá, þjer hafið fylt Jerúsalem með kenningu
29 yðar, og viljið leiða yfir oss blóð þessa manns. En
Pjetur og postularnir svöruðu og sögðu: Framar ber
30 að hlýða Guði en mönnum. Guð feðra vorra hefir

uppvakið Jesúm, sem þjer hengduð upp á trje og tók-
31 uð af lífi; þennan hefir Guð upp hafið með hægri
hendi sinni, til að vera foringi og frelsari, til að veita
32 Ísrael afturhvarf og synda-fyrirgefningu. Og vjer
erum vottar að þessum atburðum, og heilagur andi,
sem Guð hefir gefið þeim, er honum hlýða.
33 En er þeir heyrðu þetta, fyltust þeir bræði og
34 voru ráðnir í að deyða þá. En í ráðinu stóð þá upp
Farísei nokkur, Gamalíel að nafni, lögfróður maður,
vel metinn af öllum lýðnum; hann bauð að mennirnir
35 væru látnir fara út stundarkorn. Og hann sagði við
þá: Þjer Ísraelsmenn, athugið vel, hvað þjer gjörið
36 við þessa menn; því að fyrir skömmu var það að Þevdas
reis upp, og ljet ekki svo lítið yfir sjer. Til hans hylt-
ust nær fjögur hundruð manns; en hann var drepinn,
og allir þeir sem að honum hnigu, tvístruðust og urðu
37 að engu. Eftir hann reis upp Júdas frá Galíleu á
dögum skrásetningarinnar og fekk fólk til fylgis við
sig. Hann fyrirfórst líka, og allir þeir dreifðust sem
38 að honum hnigu. Og nú segi jeg yður: Látið þessa
menn eiga sig og sleppið þeim, því að ef þetta ráð
eða verk þetta er af mönnum, verður það að engu;
39 en ef það er af Guði, þá megnið þjer ekki að yfirbuga
þá. Eigi má yður það henda, að þjer jafnvel berjist
40 gegn Guði. Og þeir samsintu honum og kölluðu á
postulana og húðstrýktu þá, og fyrirbuðu þeim að tala
41 í Jesú nafni, og ljetu þá lausa. Þeir fóru nú burt úr
augsýn ráðsins, glaðir yfir því að þeir höfðu verið
42 virtir þess að líða háðung vegna nafnsins, og ljetu
eigi af að kenna dag hvern í helgidóminum og heima,
og boða fagnaðarerindið um Krist Jesúm.

6 En á þessum dögum, er vaxa tók fjöldi lærisvein-
anna, kom upp kurr hjá Hellenistum gegn
Hebreum út af því, að ekkjur þeirra væru settar hjá
2 við hina daglegu þjónustu. Og þeir tólf kölluðu þá
lærisveinahópinn saman og sögðu: Ekki hæfir að
vjer yfirgefum Guðs orð, til að þjóna fyrir borðum.
3 Komið því, bræður, auga á sjö vel kynta menn í
yðar hóp, sem fullir eru af anda og visku, og mun-
4 um vjer setja þá yfir þetta starf; en vjer munum
halda oss stöðugt að bæninni og þjónustu orðsins.
5 Og allri samkomunni líkaði talið vel, og þeir kusu
Stefán, mann fullan af trú og heilögum anda, og
Filippus og Prokórus og Níkanor og Tímon og
Parmenas og Nikolás frá Antíokkíu, sem tekið
6 hafði Gyðinga trú. Og þeir leiddu þá fram fyrir
postulana, og þeir báðust fyrir og lögðu hendur
yfir þá.
7 Og orð Guðs efldist og tala lærisveinanna í Jerú-
salem fór stórum vaxandi, og mikill fjöldi presta
gekk til hlýðni við trúna.
8 En Stefán gjörði, fullur af náð og krafti, undur
9 og tákn mikil meðal fólksins. Þá risu upp nokkrir
menn úr samkundunni, sem kend er við Líbertína og
Kýreninga og Alexandríumenn, og úr flokki Kilikíu- og
10 Asíumanna, og þráttuðu við Stefán. Og þeir gátu
ekki staðið í gegn viskunni og andanum, sem hann
11 talaði af. Þá settu þeir út menn, er sögðu: Vjer
höfum heyrt hann tala lastmælisorð gegn Móse og
12 Guði. Og þeir æstu upp fólkið og öldungana og
fræðimennina, og veittust að honum og gripu hann
13 og fóru með hann til ráðsins. Og þeir leiddu fram

ljúgvotta, er sögðu: Þessi maður lætur ekki af að
14 tala orð gegn þessum heilaga stað og lögmálinu, því
að vjer höfum heyrt hann segja, að þessi Jesús frá
Nasaret muni niðurbrjóta stað þennan og breyta þeim
15 siðum, sem Móse hefir sett oss. Og öllum, sem í
ráðinu sátu, varð starsýnt á hann, og virtist þeim
ásjóna hans vera sem engils ásjóna.

7 Og æðsti presturinn sagði: Er þessu svo varið?
Og hann mælti:

2 Heyrið mig, bræður og feður! Guð dýrðarinnar
birtist föður vorum Abraham, er hann var í Mesó-
pótamíu, áður en hann bjó í Haran, og sagði við
3 hann: *Far þú burt úr landi þínu og frá ættfólki þínu*
4 *og far til landsins, sem jeg mun vísa þjer á.* Þá fór
hann burt úr Kaldealandi og bjó í Haran. Og eftir
að faðir hans var látinn, ljet Guð hann flytja sig
búferlum þaðan til þessa lands, sem þjer nú byggið.
5 Og eigi gaf hann honum erfð í landinu, ekki svo
mikið sem eitt fótmál, en hann hjet honum að *gefa*
*honum það til eignar og niðjum hans eftir hann*, er
6 hann enn var barnlaus. Og Guð talaði á þá leið, *að*
*niðjar hans mundu búa sem útlendingar í landi sem*
*þeir ættu ekki, og menn mundu þá undir þrældóm*
7 *leggja og þjá þá í fjögur hundruð ár. Og þjóðina,*
*sem þeir munu vera í þrælkun hjá, mun jeg dæma,*
sagði Guð. *Og eftir það munu þeir í burt fara og*
8 *þjóna mjer á þessum stað.* Og hann gaf honum um-
skurnar-sáttmála. Og síðan gat Abraham Ísak og
umskar hann á áttunda degi, og Ísak gat Jakob og
9 Jakob þá tólf ættfeður. Og ættfeðurnir öfunduðu
10 Jósef og seldu hann til Egiptalands, en Guð var með

honum og frelsaði hann úr öllum þrengingum hans,
og gaf honum hylli og visku fyrir augum Faraós,
Egiptalands konungs, og hann skipaði hann höfðingja
11 yfir Egiptaland og yfir alt sitt hús. Nú kom hallæri
yfir alt Egiptaland og Kanaan og mikil þrenging, og
12 feður vorir höfðu ekki lífsbjörg. En er Jakob heyrði
að korn væri til í Egiptalandi, sendi hann feður vora
13 af stað í fyrra skiftið. Og í seinna skiftið sagði Jósef
til sín við bræður sína, og Faraó varð kunn ætt Jósefs.
14 En Jósef sendi menn eftir Jakob föður sínum og öllu
15 ættfólki sínu, sjötíu og fimm sálum. Og Jakob fór
niður til Egiptalands og andaðist, hann og feður
16 vorir. Og þeir voru fluttir þaðan til Síkem og lagð-
ir í grafreitinn, er Abraham hafði keypt fyrir silfur
17 af sonum Hemors í Síkem. En er nálgast tók tími
fyrirheitisins, sem Guð hafði heitið Abraham, óx
18 fólkið og margfaldaðist í Egiptalandi, þangað til ann-
ar konungur tók völd yfir Egiptalandi, er eigi vissi
19 skyn á Jósef. Hann beitti slægð við kyn vort og
ljek feður vora svo illa, að þeir urðu að bera út
ungbörn sín, til þess að þau skyldu eigi lífi halda.
20 Um þessar mundir fæddist Móse og var frábærlega
fríður; þrjá mánuði var hann fóstraður í húsi föður
21 síns. Og er hann var út borinn, tók dóttir Faraós
22 hann upp og fóstraði hann sem sinn son. Og Móse
var fræddur í allri speki Egipta, og hann var mátt-
23 ugur í orðum sínum og verkum. Og er Móse var
fertugur að aldri, kom honum í hug að vitja bræðra
24 sinna, Ísraels sona. Og er hann sá einn þeirra verða
fyrir ójöfnuði, rjetti hann hluta hans, hefndi þess sem
25 meingerðina þoldi, og drap egiptska manninn. Og

hann hugði að bræður sínir mundu skilja, að fyrir
hans hönd gæfi Guð þeim frelsi, en þeir skildu það
26 ekki. Og næsta dag kom hann að þeim, er þeir
voru að berjast, og vildi stilla til friðar með þeim,
og sagði: Góðir menn, þið eruð bræður, hví beitið
27 þið ójöfnuði hvor við annan? En sá sem ójöfnuði
beitti við náunga sinn, hratt honum frá sjer, og sagði:
Hver skipaði þig höfðingja og dómara yfir okkur?
28 Þú munt þó ekki vilja drepa mig, eins og þú drapst
29 egiptska manninn í gær? Við þessi orð flýði Móse
og hafðist við sem útlendingur í Midíanslandi og gat
30 þar tvo sonu. Og að fjörutíu árum liðnum birtist
honum engill í eyðimörku Sinaí-fjalls, í eldsloga í
31 runni. Og er Móse sá það, undraðist hann sýnina,
og er hann gekk til og vildi hyggja að, hljómaði
32 rödd Drottins: *Jeg er guð feðra þinna, Guð Abrahams
og Isaks og Jakobs.* En Móse skelfdist og þorði ekki
33 að að hyggja. En Drottinn sagði við hann: *Leys af
þjer skó þína, því að staðurinn, sem þú stendur á, er
34 heilög jörð. Gjörla hefi jeg sjeð þjáningu lýðs míns, sem
er á Egiptalandi, og hefi heyrt andvörp þeirra, og jeg
er nú ofan kominn til að frelsa þá. Og kom nú, jeg
35 vil senda þig til Epiptalands.* Þennan Móse, er þeir
afneituðu, segjandi: Hver skipaði þig höfðingja og
dómara? — þann hinn sama sendi Guð bæði sem
höfðingja og frelsara, með fulltingi engilsins, er hon-
36 um birtist í runninum. Þessi maður leiddi þá út, er
hann hafði gjört undur og tákn á Egiptalandi og á
37 Rauðahafinu og á eyðimörkinni í fjörutíu ár. Þetta er
sá Móse, sem sagði við sonu Ísraels: *Spámann mun
38 Guð uppvekja yður af bræðrum yðar, líkan mjer.* Þessi

er sá sem var í söfnuðinum á eyðimörkinni með
englinum, er við hann talaði á Sínaí-fjalli, og með
feðrum vorum, hann sem tók á móti lifandi boðum,
39 til að gefa oss. Og eigi vildu feður vorir hlýðnast
honum, heldur hrundu þeir honum frá sjer og sneru sjer
í hjörtum sínum til Egiptalands og sögðu við Aron:
40 Gjör oss guði, er fari fyrir oss, því að vjer vitum
ekki, hvað af Móse þeim er orðið, sem oss leiddi
41 brott af Egiptalandi. Og á þeim dögum smíðuðu þeir
kálf og færðu skurðgoðinu fórn, og voru kátir yfir
42 sínum handaverkum. En Guð sneri sjer frá þeim og
ofurseldi þá til þess að þjóna her himinsins, eins og
ritað er í bók spámannanna: *Færðuð þjer mjer, Ísraels
hús, sláturdýr og fórnir í fjörutíu ár á eyðimörkinni?*
43 *Og þjer báruð búð Móloks og stjörnu guðsins Refan,
myndirnar, sem þjer smíðuðuð, til þess að tilbiðja þær;
og jeg mun flytja yður búferlum austur fyrir Babýlon.*
44 Feður vorir höfðu vitnisburðar-tjaldbúðina á eyðimörk-
inni, eins og hann hafði fyrir skipað, er mælti við
Móse, að hann skyldi gjöra hana eftir þeirri fyrir-
45 mynd, sem hann hafði sjeð. Við henni tóku og feð-
ur vorir og fluttu hana með Jósúa inn í landið, —
er var í eignarhaldi heiðingjanna, en þá rak Guð út
46 frá augsýn feðra vorra, — alt til daga Davíðs. Hann
fann náð hjá Guði og bað að hann mætti koma upp
47 bústað fyrir Jakobs Guð. En Salómon bygði honum
48 hús. En eigi býr hinn hæsti í því, sem með hönd-
49 um er gjört, eins og spámaðurinn segir: *Himininn er
mitt hásæti og jörðin skör fóta minna; hvaða hús munuð
þjer mjer reisa,* segir Drottinn, *eða hver er hvíldarstað-
50 ur minn? Hefir ekki hönd mín gjört alla þessa hluti?*

51 Þjer harðsvíraðir og óumskornir í hjörtum og á eyr-
um, þjer standið ávalt í gegn heilögum anda, þjer
52 eins og feður yðar. Hver var sá af spámönnunum,
er feður yðar ofsóttu eigi? Og þá drápu þeir, er
fyrirboðuðu tilkomu hins rjettláta, en hans framsel-
53 jendur og banamenn hafið þjer nú orðið, þjer sem
lögmálið fenguð við umsýslan engla, og hafið eigi
varðveitt það.
54 En er þeir heyrðu þetta, fyltust þeir bræði í hjört-
55 um sínum og gnístu tönnum gegn honum. En hann
horfði til himins, fullur af heilögum anda, og leit
dýrð Guðs og Jesúm standandi við hægri hönd Guðs,
56 og sagði: Sjá, jeg sje himnana opna og mannsins son
57 standandi til hægri handar Guði. En þeir æptu hárri
röddu og byrgðu fyrir eyru sjer og rjeðust að honum
samhuga, og þeir hröktu hann út úr borginni og
58 grýttu hann. Og vottarnir lögðu yfirhafnir sínar að
59 fótum ungum manni, er Sál hjet. Og þeir grýttu
Stefán, sem ákallaði og sagði: Herra Jesú, meðtak
60 þú anda minn. Og hann fjell á knje og æpti hárri
röddu: Drottinn, lát þá ekki gjalda þessarar syndar.
Og er hann hafði þetta mælt, þá sofnaði hann.

8 Og Sál ljet sjer vel líka líflát hans. En mikil
ofsókn hófst á þeim degi gegn söfnuðinum í
Jerúsalem, og allir tvístruðust út um bygðir Júdeu og
2 Samaríu, nema postularnir. En guðhræddir menn
greftruðu Stefán og gjörðu kveinan mikla yfir honum.
3 En Sál eyddi söfnuðinum; hann óð inn í hvert hús
og dró þaðan bæði karla og konur og seldi í varð-
hald.

4 En þeir sem nú tvístraðir voru, fóru víðsvegar og
5 boðuðu orð fagnaðarerindisins. En Filippus fór norð-
ur til borgarinnar í Samaríu og prjedikaði þeim Krist.
6 Og fólkið gaf samhuga gaum orðum Filippusar, er
7 það heyrði þau og sá táknin, sem hann gjörði; því
að margir voru þeir, er höfðu óhreina anda; fóru
þeir út af þeim, hrópandi hárri röddu, og margir
8 lama menn og haltir læknuðust. Og mikill fögnuð-
ur varð í þeirri borg.

9 En maður nokkur, Símon að nafni, var fyrir í
borginni, hann var töframaður og vakti undrun Sama-
10 ríuþjóðarinnar, og þóttist vera eitthvað stórt. Til
hans hnigu allir, smáir sem stórir, segjandi: Þessi
11 maður er kraftur Guðs, er mikill nefnist. En þeir
hnigu að honum, af því að hann hafði í langa tíð
12 vakið undrun þeirra með töfrum. Nú sem menn
trúðu Filippusi, er hann boðaði þeim fagnaðarerindið
um guðsríki og nafn Jesú Krists, ljetu bæði karlar
13 og konur skírast. En Símon tók líka trú, og er
hann var skírður, hjelt hann sjer stöðugt til Filippus-
ar, og hann undraðist, er hann sá tákn og mikil
kraftaverk gjörast.

14 En er postularnir, þeir er í Jerúsalem voru, heyrðu,
að Samaría hefði tekið við orði Guðs, sendu þeir til
15 þeirra þá Pjetur og Jóhannes. Þeir fóru norður
þangað og báðu fyrir þeim, að þeir mættu öðlast
16 heilagan anda; því að hann hafði alls eigi enn kom-
ið yfir neinn þeirra, aðeins voru þeir skírðir til
17 nafns Drottins Jesú. Síðan lögðu þeir hendur yfir
18 þá, og meðtóku þeir heilagan anda. En er Símon sá,

að heilagur andi veittist fyrir yfirlagning handa post-
19 ulanna, færði hann þeim fje og sagði: Gefið mjer
einnig þetta vald, til þess að hver sá, er jeg legg
20 hendur yfir, meðtaki heilagan anda. En Pjetur
sagði við hann: Þrífist aldrei silfur þitt, nje sjálfur
þú, af því að þú hugðist að eignast gjöf Guðs fyrir
21 fje; hvorki átt þú hlut nje arf í orði þessu, því að
22 hjarta þitt er ekki rjett fyrir augum Guðs. Snú því
huga þínum frá þessari ilsku þinni, og bið Drottin,
23 ef þjer kynni að fyrirgefast hugsun hjarta þíns; því
að jeg sje að þú ert í beiskju-galli og ranglætis-fjötri.
24 En Símon svaraði og sagði: Biðjið þjer fyrir mjer
til Drottins, að ekkert komi yfir mig af því, sem
þjer hafið mælt.

25 Er þeir nú höfðu vitnað og talað orð Drottins,
sneru þeir aftur til Jerúsalem, og boðuðu fagnaðar-
erindið í mörgum þorpum Samverja.

26 En engill Drottins talaði til Filippusar og sagði:
Statt upp og gakk suður á veginn, sem liggur ofan
frá Jerúsalem til Gasa. — Hann liggur um óbygðir.
27 — Og hann stóð upp og fór. Og sjá, þar var etí-
ópskur maður, hirðmaður og höfðingi hjá Kandake
Etíópa-drotningu, sem settur var yfir alla fjárhirslu
hennar; hafði hann komið til Jerúsalem til að biðj-
28 ast fyrir. Og hann var á heimleið, og sat í vagni
29 sínum, og las Jesajas spámann. En andinn sagði við
Filippus: Gakk að og halt þjer að vagni þessum.
30 Og Filippus skundaði þangað, og heyrði hann vera
að lesa Jesajas spámann, og sagði: Hvort skilur þú
31 það sem þú ert að lesa? En hann sagði: Hvernig
ætti jeg reyndar að geta það, nema einhver leiðbeindi

mjer? Og hann bað Filippus stíga upp og setjast hjá
32 sjer. En innihald ritningar þeirrar, er hann las, var
þetta: *Eins og sauður var hann til slátrunar leiddur,*
*og eins og lambið þegir hjá þeim, er klippir það, eins*
33 *lýkur hann ekki upp munni sínum. Í niðurlægingunni*
*endaði dómur hans; hver getur útmálað kynslóð hans,*
34 *því að líf hans er hrifið burt af jörðunni?* En hirð-
maðurinn tók til máls og sagði við Filippus: Jeg bið
þig, um hvern segir spámaðurinn þetta? um sjálfan
35 sig, eða um einhvern annan? Og Filippus lauk upp
munni sínum, og tók til á ritning þessari, og boðaði
36 honum fagnaðarerindið um Jesúm. En er þeir fóru
áfram veginn, komu þeir að vatni nokkru, og hirð-
maðurinn segir: Sjá, hjer er vatn, hvað hamlar mjer
37 að skírast? Og hann ljet vagninn standa við.
38 Og þeir stigu báðir niður í vatnið, Filippus og hirð-
39 maðurinn, og hann skírði hann. En er þeir stigu
upp úr vatninu, hreif andi Drottins Filippus burt, og
hirðmaðurinn sá hann alls ekki framar, heldur fór
40 hann leiðar sinnar fagnandi. En Filippus kom fram
í Asdod, og fór hann um og boðaði öllum borgunum
fagnaðarerindið, uns hann kom til Sesareu.

9 En Sál, sem enn þá bljes ógnum og manndráp-
um gegn lærisveinum Drottins, gekk til æðsta
2 prestsins og beiddist brjefa af honum til Damaskus, til
samkundanna, til þess, ef hann fyndi einhverja þessa
vegar, hvort heldur karla eða konur, þá mætti hann
3 fara með þá í böndum til Jerúsalem. En er hann á
ferðinni var kominn í nánd við Damaskus, leiftraði
4 skyndilega um hann ljós af himni, og hann fjell til
jarðar og heyrði rödd segja við sig: Sál, Sál, hví

5 ofsækir þú mig? En hann sagði: Hver ert þú,
herra? Og hann sagði: Jeg er Jesús, sem þú ofsæk-
6 ir. En statt upp og gakk inn í borgina, og þjer mun
7 verða sagt, hvað þú átt að gjöra. En mennirnir,
sem voru samferða honum, stóðu mállausir, heyrðu
8 þeir að vísu raustina, en sáu engan. Og Sál stóð
upp af jörðinni, en þegar hann lauk upp augunum,
sá hann ekkert, og þeir leiddu hann við hönd sjer og
9 fóru með hann inn í Damaskus. Og þrjá daga var
hann sjónlaus, og át hvorki nje drakk.

10 En lærisveinn nokkur var í Damaskus, sem hjet
Ananías, og Drottinn sagði við hann í sýn: Ananías!
11 En hann sagði: Sjá, hjer er jeg, Drottinn. En Drott-
inn sagði við hann: Statt upp og gakk í stræti það,
sem kallast hið beina, og spyr þú uppi í húsi Júdas-
12 ar mann frá Tarsus, er Sál heitir. Því, sjá, hann
biðst fyrir, og hann hefir sjeð mann, Ananías að
nafni, koma og leggja hendur yfir sig, til þess hann
13 fengi aftur sýn. En Ananías svaraði: Drottinn, jeg
hefi heyrt af mörgum um mann þennan, hversu mik-
ið ilt hann hefir gjört þínum heilögu í Jerúsalem.
14 Og hjer hefir hann umboð frá æðstu prestunum til
15 að leggja í bönd alla þá, sem ákalla nafn þitt. En
Drottinn sagði við hann: Far þú, því að þessi mað-
ur er mjer útvalið ker til að bera nafn mitt fram
16 fyrir heiðingja og konunga og Ísraels sonu; því að jeg
mun sýna honum, hversu mikið honum ber að líða
17 fyrir míns nafns sakir. Og Ananías fór af stað og
gekk inn í húsið og lagði hendur yfir hann og mælti:
Sál, bróðir, Drottinn hefir sent mig, Jesús, sá er birt-
ist þjer á veginum, sem þú komst, til þess að þú

18 fengir aftur sýn þína og fyltist heilögum anda. Og
jafnskjótt fjell eins og hreistur af augum hans, og
hann fekk sýn sína. Og hann stóð upp og ljet skír-
19 ast, og hann neytti matar og styrktist.
Og hann var nokkra daga hjá lærisveinunum í
20 Damaskus. Og strax prjedikaði hann í samkunduhús-
21 unum um Jesúm, að hann væri Guðs son. En allir
þeir sem heyrðu það, undruðust stórum og sögðu:
Er þetta ekki maðurinn, sem í Jerúsalem eyddi þeim,
er ákölluðu þetta nafn, og kom hingað til að fara
22 með þá í böndum til æðstu prestanna? En Sál
styrktist æ betur, og hnekti Gyðingum þeim, sem
bjuggu í Damaskus, er hann sannaði, að sá hinn
sami væri Kristur.
23 En að allmörgum dögum liðnum tóku Gyðingar
24 ráð sín saman, að taka hann af lífi. En Sál fekk
25 vitneskju um svikráð þeirra. Og þeir gættu enda
borgarhliðanna nótt og dag, til þess að þeir gætu
tekið hann af lífi, en lærisveinarnir tóku hann um
nótt og hleyptu honum út um borgarvegginn, með
því að láta hann síga ofan í vandlaupi.
26 Og er hann kom til Jerúsalem, reyndi hann til
að samlaga sig lærisveinunum, og allir hræddust
hann, og trúðu því ekki, að hann væri lærisveinn.
27 En Barnabas tók hann að sjer, og fór með hann
til postulanna, og skýrði þeim frá, hvernig hann
hafði á veginum sjeð Drottin, og að hann hafði talað
við hann, og hversu einarðlega hann hafði talað í
28 Jesú nafni í Damaskus. Og hann gekk út og inn
hjá þeim í Jerúsalem og talaði einarðlega í nafni
29 Drottins. Og hann talaði bæði og þráttaði við

Hellenistana, en þeir höfðu með höndum að ráða
30 hann af dögum. En er bræðurnir urðu þess vísir,
fóru þeir með hann niður til Sesareu, og sendu hann
áfram til Tarsus.
31 Nú hafði söfnuðurinn frið um alla Júdeu og Galí-
leu og Samaríu, uppbygður og framgangandi í ótta
Drottins, og jókst við uppörvun heilags anda.
32 En svo bar til, er Pjetur ferðaðist um kring, allra
að vitja, að hann kom einnig niður til hinna heilögu,
33 sem bjuggu í Lýdda. Og þar fann hann mann
nokkurn, Eneas að nafni, er í átta ár hafði legið rúm-
34 fastur, og var hann lami. Og Pjetur sagði við hann:
Eneas, Jesús Kristur læknar þig; statt upp og bú
35 um þig; og jafnskjótt stóð hann upp. Og allir þeir
sem áttu heima í Lýdda og Saron sáu hann, og þeir
hinir sömu sneru sjer til Drottins.
36 En í Joppe var lærisveinn, kona, Tabíta að nafni,
sem útlagt heitir Dorkas; hún var auðug af góðum
37 verkum og ölmusugjörðum, sem hún veitti; en á
þeim dögum bar svo til, að hún tók sótt og andað-
38 ist, og menn lauguðu hana og lögðu í loftstofu. Nú
er Lýdda í grend við Joppe, og höfðu lærisveinarnir
heyrt, að Pjetur var þar, og sendu tvo menn til hans
með þeirri bæn: Dvel eigi að koma alla leið til vor!
39 Og Pjetur tók sig upp og fór með þeim, og er hann
var kominn, fóru þeir með hann inn í loftstofuna,
og allar ekkjurnar flyktust að honum grátandi, og
sýndu kyrtla og yfirhafnir, sem Dorkas hafði gjört,
40 meðan hún var hjá þeim. En Pjetur ljet þær allar
út fara, og fjell á knje og baðst fyrir, og hann sneri
sjer að líkinu og sagði: Tabíta, rís upp! Og hún

lauk upp augunum, og er hún sá Pjetur, settist hún
41 upp. En hann rjetti henni hönd sína og reisti hana
á fætur, og hann kallaði á hina heilögu og ekkjurnar,
42 og leiddi hana fram lifandi. En þetta varð hljóðbært
43 um alla Joppe, og margir trúðu á Drottin. Og það
fór svo, að hann dvaldist allmarga daga í Joppe hjá
Símoni nokkrum sútara.

10 Maður nokkur var í Sesareu, Kornelíus að
nafni, hundraðshöfðingi í hersveitinni, er heitir
2 hin ítalska. Hann var ráðvandur maður og óttaðist
Guð, og alt hans heimili, og gaf hann lýðnum miklar
3 ölmusur, og var jafnan á bæn til Guðs. Hann sá
berlega í sýn, hjer um bil um níundu stundu dags,
engil Guðs koma inn til sín og segja við sig: Korn-
4 elíus! En hann starði á hann og varð mjög hrædd-
ur og sagði: Hvað er það, herra? En hann sagði
við hann: Bænir þínar og ölmusugjörðir eru stignar
5 upp til minningar fyrir Guði. Og send þú nú menn
til Joppe, og lát sækja Símon nokkurn, að viður-
6 nefni Pjetur; hann gistir hjá Símoni nokkrum sútara,
7 sem á hús við sjóinn. En er engillinn, sem til hans
talaði, var farinn, kallaði hann á tvo af heimamönn-
um sínum og ráðvandan hermann, af þeim er honum
8 voru handgengnastir. Og hann sagði þeim frá öllu
og sendi þá til Joppe.

9 En daginn eftir, er þeir voru á leiðinni og nálg-
uðust bæinn, stje Pjetur upp á húsþakið til að biðjast
10 fyrir, um sjettu stund. Og hann hungraði og vildi
matast, en meðan menn voru að matreiða, varð hann
11 frá sjer numinn, og hann sjer himininn opinn, og hlut
nokkurn koma niður, eins og stóran dúk, er á fjór-

12 um skautum var látinn síga niður til jarðar; og voru
þar á öll ferfætt dýr og skriðdýr jarðarinnar og fugl-
13 ar himinsins, og honum barst rödd: Rís upp, Pjetur,
14 slátra og et! En Pjetur sagði: Nei, Drottinn, engan
veginn, því að aldrei hefi eg etið neitt vanheilagt og
15 óhreint. Og aftur kom rödd til hans í annað sinn:
Það sem Guð hefir gjört hreint, skalt þú ekki meta
16 vanheilagt. Þetta gjörðist þrem sinnum, og jafnskjótt
var hluturinn upp numinn til himins.
17 En er Pjetur var nú í mestu óvissu um, hvað sýn-
in, sem hann sá, mundi þýða, sjá, þá höfðu menn-
irnir, sem sendir voru af Kornelíusi, spurt uppi hús
18 Símonar og stóðu við fordyrið, kölluðu þeir og
spurðu, hvort Símon, að viðurnefni Pjetur, væri þar
19 gestkomandi. En er Pjetur var að hugsa um sýnina,
20 sagði andinn við hann: Sjá, þrír menn leita þín.
Rís nú upp og stíg ofan, og far hiklaust með þeim,
21 því að jeg hefi sent þá. En Pjetur gekk niður til
mannanna og sagði: Sjá, jeg er sá, sem þjer leitið að.
22 Hvers vegna eruð þjer hjer komnir? En þeir sögðu:
Kornelíus hundraðshöfðingi, rjettlátur maður og guð-
hræddur, sem hefir góðan orðstír hjá allri þjóð Gyð-
inganna, fekk bendingu af heilögum engli að láta
23 sækja þig heim til sín og heyra orð af þjer. Síðan
bauð hann þeim inn og veitti þeim beina.
En daginn eftir tók hann sig upp og fór burt
með þeim, og nokkrir af bræðrunum frá Joppe fóru
24 með honum. En daginn eftir komu þeir inn í Ses-
areu. En Kornelíus bjóst við þeim og hafði boðið til
25 sín frændum sínum og virktavinum. En er svo bar
til að Pjetur gekk inn, kom Kornelíus á móti honum

og fjell til fóta honum og veitti honum lotningu.
26 En Pjetur reisti hann upp og sagði: Statt upp, jeg
27 er maður sem þú. Og hann ræddi við hann, og
gekk inn, og finnur þar marga menn saman komna.
28 Og hann sagði við þá: Þjer vitið, hvílík óhæfa það
er fyrir mann, sem er Gyðingur, að samlaga sig eða
koma til manns af annari þjóð, og þó hefir Guð
sýnt mjer, að jeg á engan mann að kalla vanheilagan
29 eða óhreinan; fyrir því kom jeg og mótmælalaust, er
eftir mjer var sent. Nú spyr jeg, í hvaða skyni þjer
30 hafið sent eftir mjer. Og Kornelíus mælti: Fyrir
rjettum fjórum dögum var jeg að biðjast fyrir, um
níundu stund, í húsi mínu, og sjá, maður stóð frammi
31 fyrir mjer í skínandi klæðum og mælir: Kornelíus,
bæn þín er heyrð, og þinna ölmusugjörða er minst
32 fyrir Guði. Nú skalt þú senda menn til Joppe og
boða á fund þinn Símon, að viðurnefni Pjetur, hann
33 gistir í húsi Símonar sútara við sjóinn. Fyrir því
sendi jeg jafnskjótt til þín, og gjörðir þú vel, er þú
komst. Nú erum vjer þá allir hjer við fyrir augsýn
Guðs, til að heyra alt sem þjer er af Drotni um
34 boðið. En Pjetur lauk upp munni sínum og mælti:
Sannlega skil jeg nú, að Guð fer ekki í mann-
35 greinarálit, heldur er honum þóknanlegur í hverri
36 þjóð sá er hann óttast og stundar rjettlæti. Orðið, sem
hann sendi Ísraels sonum, er hann boðaði fagnaðar-
erindið um frið fyrir Jesúm Krist — hann er Drott-
37 inn allra —, erindið þekkið þjer, sem flutt var um
alla Júdeu, er hann byrjaði í Galíleu eftir skírnina,
38 sem Jóhannes prjedikaði — um Jesúm frá Nasaret,
hversu Guð smurði hann heilögum anda og krafti;

hann gekk í kring, gjörði gott og græddi alla, sem
af djöflinum voru undirokaðir, því að Guð var með
39 honum, og vjer erum vottar alls þess, er hann gjörði,
bæði í landi Gyðinganna og í Jerúsalem; hann
deyddu þeir jafnvel, er þeir festu hann á trje. —
40 Þann hinn sama uppvakti Guð á þriðja degi, og ljet
41 hann birtast, ekki öllum lýðnum, heldur vottunum,
sem áður voru af Guði kjörnir, oss sem átum og
drukkum með honum, eftir að hann var risinn upp
42 frá dauðum. Og hann bauð oss að prjedika lýðnum
og vitna, að hann er sá af Guði fyrirhugaði dómari
43 lifenda og dauðra. Honum bera allir spámennirnir
vitni, að sjerhver, sem á hann trúir, fái fyrir hans
nafn fyrirgefning synda.

44 Meðan Pjetur var enn að mæla þessi orð, fjell
45 heilagur andi yfir alla þá, er orðið heyrðu, og hinir
trúuðu, sem umskornir voru, urðu forviða, — allir þeir
sem komið höfðu með Pjetri, — að gjöf heilags anda
46 skyldi einnig vera úthelt yfir heiðingjana; því að þeir
47 heyrðu þá tala tungum og mikla Guð. Þá tók Pjetur
til máls: Getur nokkur varnað þeim vatnsins, svo
að þeir ekki skírist, er þeir hafa fengið heilagan
48 anda eins og vjer? Og hann bauð að þeir skyldu
skírðir verða í nafni Jesú Krists. Síðan báðu þeir
hann að standa við nokkra daga.

11 En postularnir og bræðurnir, sem voru í Júdeu,
heyrðu að heiðingjarnir hefðu einnig tekið við
2 orði Guðs. Og er Pjetur var kominn upp til Jerú-
3 salem, átöldu hinir umskornu hann og sögðu: Þú
hefir farið inn til óumskorinna manna og samneytt
4 þeim. En Pjetur tók til frá upphafi og skýrði þeim

5 frá öllum málavöxtum og mælti: Jeg var í borginni
Joppe að biðjast fyrir og sá frá mjer numinn sýn,
hlut nokkurn koma niður, eins og stór dúkur væri
látinn síga niður á fjórum skautum frá himninum,
6 og hann kom til mín, og jeg starði á hann og athug-
aði, og sá ferfætt dýr jarðarinnar og villidýr og
7 skriðdýr og fugla himinsins, og jeg heyrði einnig
rödd segja við mig: Rís upp, Pjetur, slátra og et!
8 En jeg sagði: Nei, Drottinn, engan veginn, því að
aldrei hefir neitt vanheilagt eða óhreint komið mjer í
9 munn. En í annað sinn svaraði rödd af himni:
Það sem Guð hefir gjört hreint, skalt þú ekki meta
10 vanheilagt. Þetta gjörðist þrem sinnum, og aftur var
11 alt dregið upp til himins. Og sjá, samstundis stóðu
þrír menn við húsið, sem jeg var í, sendir frá Ses-
12 areu til mín, og andinn sagði mjer að fara með þeim,
án alls greinarmunar. Samferða mjer urðu og þessir
13 sex bræður, og vjer gengum inn í hús mannsins, og
hann sagði oss, hvernig hann hefði sjeð engilinn í
húsi sínu, er stóð þar og sagði: Send þú til Joppe
14 og lát sækja Símon, að viðurnefni Pjetur. Hann mun
orð til þín mæla, og fyrir þau munt þú hólpinn
15 verða og alt heimili þitt. En jafnskjótt og jeg fór
að tala, fjell heilagur andi yfir þá, eins og yfir oss í
16 upphafi, og jeg mintist orða Drottins, er hann sagði:
Jóhannes skírði að vísu með vatni, en þjer skuluð
17 skírðir verða með heilögum anda. Ef Guð hefir þá
gefið þeim sömu gjöf og oss, er vér tókum trú á
Drottin Jesúm Krist, hvernig var jeg þess þá um-
18 kominn að standa í gegn Guði? En er þeir heyrðu
þetta, þögnuðu þeir og vegsömuðu Guð, segjandi:

Guð hefir þá einnig gefið heiðingjunum afturhvarf
til lífs.
19 Þeir sem nú höfðu tvístrast vegna þrengingar-
innar, sem reis út af Stefáni, fóru alla leið til
Fönikíu og Kípur og Antíokkíu og töluðu ekki orðið
20 við neinn mann nema Gyðinga eina. En nokkrir
þeirra voru menn frá Kípur og Kýrene, og er þeir
hinir sömu komu til Antíokkíu, töluðu þeir og til
Grikkja og boðuðu fagnaðarerindið um Drottin Jesúm.
21 Og hönd Drottins var með þeim, og mikill fjöldi,
22 sem tók trú, sneri sér til Drottins. Og fregnin um
þá barst til eyrna safnaðarins, sem var í Jerúsalem,
23 og þeir sendu Barnabas til Antiokkíu. Þegar hann
kom og sá náðina Guðs, gladdist hann, og áminti
hann alla um að halda sjer við Drottin með ein-
24 dregnu hjarta; því að hann var góður maður, fullur
af heilögum anda og trú, og allmikill fjöldi bættist
25 Drottni. Og hann fór til Tarsus til að leita Sál uppi,
26 og er hann hafði fundið hann, fór hann með hann
til Antíokkíu, og varð það af, að þeir voru saman
heilt ár í söfnuðinum og kendu fjölda fólks, og í
Antíokkíu voru lærisveinarnir fyrst kallaðir kristnir.
27 En á þessum dögum komu spámenn frá Jerúsalem
28 niður til Antíokkíu; gekk einn þeirra fram, Agabus
að nafni, og af andanum boðaði hann fyrir, að koma
mundi yfir alla heimsbygðina mikil hungursneyð; kom
29 hún fram á dögum Kládíusar. En lærisveinarnir
kváðu svo á, að hver og einn af þeim skyldi senda
nokkuð, eftir efnum sínum, til hjálpar bræðrunum,
30 sem bjuggu í Júdeu, sem þeir og gjörðu, og sendu
Barnabas og Sál með það til öldunganna.

12 En um þessar mundir hóf Heródes konungur
handa til að misþyrma nokkrum af söfnuðinum,
2 og ljet hann höggva Jakob, bróður Jóhannesar, með
3 sverði. En er hann sá að Gyðingum líkaði það vel,
hjelt hann áfram og ljet einnig taka Pjetur, en þá
4 voru dagar ósýrðu brauðanna, og er hann hafði handtekið
hann, ljet hann setja hann í fangelsi og fekk
hann til gæslu fjórum ferningum hermanna, og ætlaði
hann sjer eftir páskana að leiða hann fram fyrir lýðinn.
5 Pjetur var þá haldinn í fangelsi, og stöðug bænagjörð
6 til Guðs var af söfnuðinum haldin fyrir honum. En
er Heródes ætlaði að fara að leiða hann fram, svaf
Pjetur þá nótt milli tveggja hermanna, bundinn með
tveim fjötrum, og varðmenn fyrir dyrum úti gættu
7 fangelsisins. Og sjá, þá kom engill Drottins, og ljós
skein í klefanum, og hann laust á síðu Pjetri og vakti
hann, svo mælandi: Rís upp skjótt; og fjötrarnir
8 fjellu af höndum honum. Og engillinn sagði við
hann: Gyrð þig og bind á þig ilskó þína; og hann
gjörði svo. Og hann segir við hann: Far þú í
9 yfirhöfn þína og fylg mjer. Og hann gekk út og
fylgdi honum, og ekki vissi hann, að þetta, sem engillinn
gjörði, væri svo í raun og veru, heldur hugðist
10 hann sjá sýn. Og er þeir höfðu gengið fram hjá
innri og ytri verðinum, komu þeir til járnhliðsins,
er liggur til borgarinnar, og laukst það upp af sjálfu
sjer fyrir þeim, og fóru þeir út um það og gengu
áfram eitt stræti, og þá skildi engillinn alt í einu við
11 hann. Og þegar Pjetur kom til sjálfs sín, sagði hann:
Nú veit jeg sannlega að Drottinn hefir sent engil
sinn og hrifið mig úr hendi Heródesar og frá allri

12 eftirvænting Gyðingalýðs. Og er hann hafði komið
þessu fyrir sig, gekk hann að húsi Maríu, móður
Jóhannesar — að viðurnefni Markús, — en þar voru
13 allmargir saman komnir og báðust fyrir. En er hann
knúði hurð fordyrisins, gekk stúlka fram, að nafni
14 Róde, til að vita hver þar væri, og er hún þekti
málróm Pjeturs, gáði hún eigi fyrir fögnuði að ljúka
upp fordyrinu, heldur hljóp hún inn og sagði, að
15 Pjetur stæði fyrir utan fordyrið. En þeir sögðu við
hana: Þú ert frávita. En hún stóð fast á því, að
svo væri. En þeir sögðu: Það er þá engill hans.
16 En Pjetur hjelt áfram að berja að dyrum, og er þeir
17 luku upp, sáu þeir hann og urðu forviða. En hann
benti þeim með hendinni að þegja, og skýrði þeim
frá, hvernig Drottinn hefði leyst sig út úr fangelsinu,
og mælti: Segið Jakob og bræðrunum frá þessu.
18 Og hann gekk út og fór í annan stað. En er dagur
rann, varð meira en lítið uppþot hjá hermönnunum
19 út af því, hvað af Pjetri væri orðið. En er Heródes
hafði látið leita hans, og fann hann ekki, hjelt hann
rannsókn yfir varðmönnunum og bauð að fara með
þá til lífláts, og fór úr Júdeu niður til Sesareu og
sat þar um kyrt.

20 En hann var harla gramur Týringum og Sídóning-
um, og komu þeir með einu ráði til hans, og fengu
í fylgi með sjer Blastus stallara konungsins, og báð-
uðst friðar, af því að land þeirra fekk vistir frá landi
21 konungsins. Og á ákveðnum degi klæddist Heródes
konungsskrúða og settist í hásætið og hjelt ræðu til
22 þeirra; en lýðurinn kallaði: Guðs rödd er þetta, en
23 eigi manns; en þegar í stað sló engill Drottins hann,

sökum þess að hann gaf ekki Guði dýrðina, og var
hann etinn upp af möðkum og dó.
24 En orð Guðs efldist og útbreiddist.
25 En Barnabas og Sál sneru aftur frá Jerúsalem
að afloknu erindi sínu, og tóku með sjer Jóhannes,
að viðurnefni Markús.

13 En í Antíokkíu voru í söfnuðinum þar spámenn
og kennarar, þeir Barnabas og Símeon, er
Niger nefnist, og Lúkíus frá Kýrene og Manaen,
2 samfóstri Heródesar fjórðungsstjóra, og Sál. Og er
þeir voru að þjóna Drotni og föstuðu, sagði heilagur
andi: Takið frá, mjer til handa, þá Barnabas og Sál,
3 til þess verks, sem jeg hefi kallað þá til. Síðan föst-
uðu þeir og báðust fyrir, og lögðu hendur yfir þá og
ljetu þá fara.
4 Er þeir nú voru sendir út af heilögum anda, fóru
5 þeir niður til Selevkíu og sigldu þaðan til Kípur. Og
er þeir voru komnir til Salamis, boðuðu þeir orð
Guðs í samkunduhúsum Gyðinga. En þeir höfðu og
6 Jóhannes að þjóni. Og er þeir höfðu farið um alla
eyna til Pafos, hittu þeir fyrir töframann nokkurn,
7 falsspámann, Gyðing, Bar-Jesús að nafni. Hann var
hjá landstjóranum Sergíusi Páli, vitrum manni; hann
boðaði þá Barnabas og Sál á fund sinn og girntist
8 að heyra Guðs orð. En í gegn þeim stóð Elýmas,
töframaðurinn, — því að svo er útlagt nafn hans; —
reyndi hann að gjöra landstjórann fráhverfan trúnni.
9 En Sál, sem og er nefndur Páll, hvesti á hann aug-
10 un og sagði, fyltur heilögum anda: Þú sem fullur
ert allra vjela og hvers kyns illræðis, djöfuls sonur-
inn, óvinur alls rjettlætis, lætur þú eigi af að rangsnúa

11 rjettum vegum Drottins? Og nú, sjá, hönd Drottins
kemur yfir þig, og þú munt verða blindur og ekki sjá
sól um tíma. Og þegar í stað fjell yfir hann þoka
og myrkur, og hann gekk um kring og leitaði að
12 mönnum til að leiða sig. Þá tók landstjórinn trú, er
hann sá þennan atburð, og undraðist stórum kenningu
Drottins.
13 En þeir Páll lögðu út frá Pafos og komu til Perge
í Pamfilíu, en Jóhannes skildi við þá og sneri aftur
14 til Jerúsalem. En þeir hjeldu áfram frá Perge, og
komu til Antíokkíu í Pisidíu og gengu inn í sam-
15 kunduhúsið á hvíldardegi og tóku sjer sæti. En eftir
upplestur lögmálsins og spámannanna sendu sam-
kundustjórarnir til þeirra og sögðu: Þjer bræður,
ef þjer hafið eitthvert ávarpsorð til fólksins, þá takið
16 til máls. Þá stóð Páll upp og benti til hljóðs með
hendinni og sagði:
Þjer Ísraelsmenn, og þjer sem óttist Guð, hlýðið á:
17 Guð lýðs þessa, Ísraels, útvaldi feður vora og hóf veg
lýðsins í útlegðinni á Egiptalandi *og með upprjettum*
18 *armlegg leiddi hann þá út úr því.* Og um fjörutíu
19 ára skeið *fóstraði hann þá í eyðimörkinni.* Og eftir að
hann hafði *eytt sjö þjóðum í Kanaanslandi*, gaf hann
20 þeim að erfðum land þeirra, um fjögur hundruð og
fimtíu ára skeið; og eftir þetta gaf hann þeim dóm-
21 ara, alt til Samúels spámanns. Og síðan báðu þeir
um konung, og Guð gaf þeim Sál Kísson, mann af
22 Benjamíns ætt, í fjörutíu ár. En er hann hafði afsett
hann, hóf hann Davíð þeim til konungs, sem hann
og vitnaði um, segjandi: *Jeg hefi fundið Davíð*, son
Ísaí, *mann eftir mínu hjarta*, er gjöra mun allan vilja

23 minn. Af þessa manns sæði ljet Guð, samkvæmt
24 fyrirheiti, Jesúm koma, Ísrael að frelsara, er Jóhannes
hafði á undan komu hans boðað iðrunarskírn öllum
25 Ísraelslýð. En er Jóhannes var að enda skeið sitt,
sagði hann: Hvað hyggið þjer mig vera? — Jeg er það
ekki; en, sjá, annar kemur eftir mig, og er jeg eigi
26 verður þess, að leysa skó af fótum honum. Þjer bræður,
synir af kynstofni Abrahams, og þjer yðar á meðal,
27 sem Guð óttist, oss er sent orð þessa hjálpræðis; því
að þeir sem í Jerúsalem búa og höfðingjar þeirra
þektu hann eigi, og með því að dæma hann, upp-
fyltu þeir orð spámannanna, sem upp eru lesin
28 hvern hvíldardag. Og þó að þeir fyndu enga dauða-
sök hjá honum, báðu þeir Pílatus að hann yrði líf-
29 látinn. En er þeir höfðu látið fram koma alt, sem
um hann var ritað, tóku þeir hann ofan af trjenu og
30 lögðu í gröf. En Guð reisti hann frá dauðum
31 og var hann sjeður marga daga af þeim, sem með honum
höfðu farið frá Galíleu upp til Jerúsalem, og eru þeir
32 hinir sömu nú vottar hans hjá fólkinu. Og vjer boð-
um yður fagnaðarerindið um fyrirheitið, sem feðrun-
um var gefið, að Guð hefir látið það rætast við börn
33 vor, er hann uppreisti Jesúm, eins og líka er ritað í
öðrum sálminum: *Þú ert sonur minn, í dag hefi jeg*
34 *getið þig.* En um það, að hann hefir uppreist hann
frá dauðum, svo að hann mun eigi framar hverfa
aftur til rotnunar, hefir hann talað svo: *Jeg mun gefa*
35 *yður hið heilaga, óbrigðula, sem Davíð var heitið.* Fyrir
því segir hann og í öðrum sálmi: *Eigi munt þú láta*
36 *þinn heilaga kenna rotnunar;* því að Davíð sofnaði,
eftir að hann hafði þjónað Guðs ráði í sinni eigin

kynslóð, og safnaðist til feðra sinna og kendi rotn-
37 unar, en sá er Guð uppvakti, kendi ekki rotnunar.
38 Yður sje því vitanlegt, bræður mínir, að yður er fyrir
39 hann boðuð synda-fyrirgefning, og hver sá er trúir,
rjettlætist í honum af öllu því, er þjer gátuð eigi rjett-
40 læst af við lögmál Móse. Gætið nú þess, að eigi
komi yfir yður það, sem sagt hefir verið hjá spá-
41 mönnunum: *Sjáið, þjer smáendur, og undrist og verðið
að engu, því að verk vinn jeg á dögum yðar, verk sem
þjer alls ekki munduð taka trúanlegt, þó að einhver
segði yður frá því.*
42 En er þeir gengu út, báðu menn að orð þessi
43 væru til þeirra töluð næsta hvíldardag. Og er sam-
komunni var slitið, fylgdu margir Gyðingar og guð-
ræknir trúskiftingar þeim Páli og Barnabasi, og töl-
uðu þeir til þeirra, og hvöttu þá til að halda sjer
stöðuglega við náð Guðs.
44 En á næsta hvíldardegi kom nálega allur bærinn
45 saman til að heyra Guðs orð. En er Gyðingar litu
mannfjöldann, fyltust þeir vandlæti, og mæltu á móti
46 ræðum Páls og lastmæltu. En Páll og Barnabas töl-
uðu einarðlega og sögðu: Svo hlaut að vera, að til
yðar væri Guðs orð fyrst talað. Þar sem þjer nú
hrindið því burt og metið sjálfa yður ekki verða ei-
47 lífs lífs, sjáið, þá snúum vjer oss til heiðingjanna; því
að svo hefir Drottinn boðið oss: *Jeg hefi sett þig til
að vera ljós heiðinna þjóða, að þú værir hjálpræði alt
48 til ystu endimarka jarðarinnar.* En er heiðingjarnir
heyrðu þetta, glöddust þeir og vegsömuðu orð Guðs,
og allir þeir, sem ætlaðir voru til eilífs lífs, tóku trú.
49 Og orð Drottins breiddist út um alt hjeraðið.

50 En Gyðingarnir æstu upp guðræknar hefðarkonur og
fyrirmenn borgarinnar, og vöktu ofsókn gegn Páli og
51 Barnabasi, og ráku þá út fyrir landamæri sín. En
þeir hristu duftið af fótum sjer í gegn þeim og fóru
52 til Íkóníum. En lærisveinarnir fyltust fögnuði og
heilögum anda.

14 En svo bar við í Íkoníum, að þeir gengu saman inn í samkunduhús Gyðinganna, og töluðu
2 svo, að mikill fjöldi Gyðinga og Grikkja tók trú. En
Gyðingarnir, sem vantrúaðir voru, vöktu æsing og
illan hug í sálum heiðingjanna gegn bræðrunum.
3 Dvöldu þeir þar nú alllangan tíma og töluðu einarðlega í Drotni, sem bar orði náðar sinnar vitni, með
því að láta tákn og undur gjörast fyrir hendur þeirra.
4 Skiftist nú allur borgarlýður í tvo flokka, og voru
sumir með Gyðingunum, en aðrir með postulunum.
5 En er til þess var stofnað bæði af heiðingjunum og
Gyðingunum, ásamt yfirmönnum þeirra, að smána þá
6 og grýta, þá flýðu þeir, er þeir komust að því, til
borganna Lýstra og Derbe í Lýkaóníu og hjeraðinu
7 umhverfis, og þar voru þeir að boða fagnaðarerindið.
8 En í Lýstra sat maður nokkur máttvana í fótum,
9 haltur frá móðurlífi, er aldrei hafði gengið. Maður
þessi heyrði á mál Páls, og Páll festi augu á honum,
og sá að hann hafði trú til þess að geta orðið heill,
10 og sagði með hárri raustu: Stattu upprjettur á fætur
11 þína; og hann spratt upp og gekk. En er múgurinn sá hvað Páll gjörði, hófu þeir upp raust sína og
sögðu á lýkaónsku: Guðirnir eru í manna líki stignir
12 niður til vor. Kölluðu þeir Barnabas Seif, en Pál
kölluðu þeir Hermes, af því að hann hafði orð fyrir

13 þeim. Og presturinn í hofi Seifs, sem var fyrir utan
borgina, kom með naut og kransa að hliðunum, og
ætlaði hann og fólkið með honum að færa fórnir.
14 En er postularnir, þeir Barnabas og Páll, heyrðu þetta,
rifu þeir klæði sín og stukku inn í mannþröngina og
15 hrópuðu og sögðu: Menn, hví gjörið þjer slíkt? Menn
erum vjer sem þjer, yður líkir, sem erum að boða yð-
ur fagnaðarerindið um að þjer skulið hverfa frá þess-
um hjegómlegu hlutum til lifandi Guðs, *sem gjört hefir*
16 *himininn, jörðina og hafið og alt sem í þeim er;* hann
sem um liðnar aldir hefir leyft öllum þjóðum að ganga
17 þeirra vegu, og þó hefir hann ekki látið sjálfan sig
án vitnisburðar, þar sem hann gjörði gott, og gaf
yður regn af himnum og frjóvsamar árstíðir, og fylti
18 hjörtu yðar fæðu og fögnuði. Og það var með naum-
indum að þeir gátu með þessum orðum fengið fólkið
til að hætta við að færa þeim fórnir.
19 En þá komu Gyðingar frá Antíokkíu og Íkóníum
og fengu þeir fólkið á sitt mál, og menn grýttu Pál
og drógu hann út úr borginni og hugðu hann dáinn.
20 En er lærisveinarnir stóðu í kring um hann, reis hann
upp og gekk inn í borgina, og morguninn eftir fór
21 hann þaðan með Barnabasi til Derbe. Og er þeir
höfðu boðað þeirri borg fagnaðarerindið, og gjört all-
marga að lærisveinum, sneru þeir aftur til Lýstra og
22 til Íkóníum og til Antíokkíu, og styrktu sálir læri-
sveinanna, og áminntu þá að vera staðfastir í trúnni,
og að vjer eigum að ganga inn í guðsríki í gegnum
23 margar þrengingar. Og er þeir höfðu látið þá kjósa
sjer öldunga í hverjum söfnuði, fólu þeir þá með föst-
um og bænahaldi Drotni, sem þeir höfðu fest trú á.

24 Og þeir fóru um Pisidíu og komu til Pamfilíu, og
25 er þeir höfðu talað orðið í Perge, fóru þeir niður til
26 Attalíu, og sigldu þaðan til Antíokkíu; en þaðan höfðu
þeir verið faldir náð Guðs til verksins, sem þeir nú
27 höfðu fullnað. Og er þeir voru komnir þangað, og
höfðu stefnt saman söfnuðinum, sögðu þeir frá, hversu
mikið Guð hafði látið þá framkvæma, og að hann
28 hefði lokið upp trúar-dyrum fyrir heiðingjunum. Og
þeir dvöldu alllengi hjá lærisveinunum.

15 Og nokkrir komu ofan frá Júdeu og kendu
bræðrunum svo: Eigi getið þjer hólpnir orðið,
2 nema þjer látið umskerast að sið Móse. En er upp
kom allmikil misklíð og þræta milli þeirra og Páls og
Barnabasar, rjeðu menn af, að Páll og Barnabas og
nokkrir aðrir af þeim skyldu fara á fund postulanna og
öldunganna, upp til Jerúsalem, út af þessum ágreiningi.
3 Söfnuðurinn fylgdi þeim síðan á veg, og þeir fóru
um Föníkíu og Samaríu og sögðu frá afturhvarfi heið-
4 ingjanna, og glöddu stórlega alla bræðurna. En þeg-
ar þeir voru komnir til Jerúsalem, var þeim vel
tekið af söfnuðinum og postulunum og öldungunum,
og sögðu þeir frá, hversu mikið Guð hafði látið þá
5 framkvæma. En nokkrir risu upp af flokki Faríseanna,
þeir er trú höfðu tekið, og sögðu: Þá ber að um-
skera og bjóða þeim að halda lögmál Móse.

6 En postularnir og öldungarnir komu saman til að
7 líta á þetta mál. En er mikið hafði verið um það
þráttað, reis Pjetur upp og sagði við þá:

Þjer bræður, þjer vitið að fyrir löngu kjöri Guð yð-
ar á meðal að heiðingjarnir skyldu fyrir munn minn
8 heyra orð fagnaðarerindisins og taka trú. Og Guð,

sem hjörtun þekkir, bar þeim vitni, er hann gaf þeim
9 heilagan anda eins og oss; og engan mun gjörði hann
á oss og þeim, er hann hafði hreinsað hjörtu þeirra
10 með trúnni. Hvað eruð þjer þá nú að freista Guðs,
með því að leggja ok á háls lærisveinanna, er hvorki
11 feður vorir nje vjer megnuðum að bera? En vjer trú-
um því, að vjer verðum hólpnir fyrir náðina Drottins
Jesú á sama hátt og þeir.

12 Og allur múgurinn þagði, og menn hlýddu á Barna-
bas og Pál, er þeir sögðu frá, hversu mörg tákn og
undur Guð hafði látið þá framkvæma meðal heiðing-
13 janna. En er þeir voru þagnaðir, tók Jakob til máls
og sagði:

14 Þjer bræður, hlýðið á mig. Símeon hefir skýrt
frá, hvernig Guð í fyrstu ljet sjer umhugað um að taka
15 nafni sínu lýð á meðal heiðingjanna, og í samræmi
16 við þetta eru orð spámannanna, svo sem ritað er: *Eftir*
*þetta mun jeg aftur hverfa og endurreisa hina föllnu*
*tjaldbúð Davíðs, og reisa við rústir hennar, og gjöra*
17 *hana upp aftur, svo að mennirnir, sem eftir eru leifðir,*
*leiti Drottins, og allir heiðingjarnir, sem nafn mitt hefir*
18 *verið nefnt yfir,* segir Drottinn, *sem gjörir þetta, sem*
19 *kunnugt er frá eilífð.* Fyrir því er það minn úrskurð-
ur, að ekki skuli íþyngja þeim, er af heiðingjunum
20 snúa sjer til Guðs, heldur að vjer ritum þeim, að þeir
skuli halda sig frá allri flekkun af skurðgoðum, og
21 frá frillulífi og frá köfnuðu og frá blóði; því að Móse
hefir frá fornu fari þá, er hann prjedika í hverri
borg, með því að hann er lesinn upp í samkundunum
hvern hvíldardag.

22 Postulunum og öldungunum ásamt öllum söfnuð-
inum leist þá að senda menn, til þess kjörna úr sínum
hóp, með Páli og Barnabasi til Antíokkíu, þá Júdas,
er kallaður var Barsabas, og Sílas, mikils virta menn
23 meðal bræðranna, og rituðu með þeim: Postul-
arnir og öldungarnir, bræðurnir, senda bræðrunum
í Antíokkíu, Sýrlandi og Kilikíu, er áður voru heiðn-
24 ir, kveðju sína. Með því að vjer höfum heyrt að
nokkrir, er út hafa gengið frá oss, hafi óróað yður
með orðum sínum og truflað sálir yðar, án þess að
25 vjer hefðum þeim neitt um boðið, þá hefir oss litist,
er vjer vorum orðnir samhuga, að senda til yðar til
þess kjörna menn með vorum elskulegu Barnabasi og
26 Páli, mönnum, er lagt hafa líf sitt í hættu fyrir nafn
27 Drottins vors Jesú Krists. Vjer höfum því sent Júdas
28 og Sílas, og boða þeir yður hið sama munnlega; því
að heilögum anda og oss hefir litist, að leggja eigi
frekari byrðar á yður en þetta, sem nauðsynlegt er,
29 að þjer haldið yður frá skurðgoðafórnum og frá blóði
og frá köfnuðu og frá frillulífi. Ef þjer varist þetta,
mun yður vegna vel. Verið sælir.

30 Þeir voru þá látnir fara af stað og komu niður til
Antíokkíu og kölluðu þá alla saman og skiluðu brjef-
31 inu. En er menn lásu það, urðu þeir glaðir yfir
32 þeirri huggun. Og Júdas og Sílas, er sjálfir voru og
spámenn, áminntu bræðurna með mörgum orðum og
33 styrktu þá. Og er þeir höfðu dvalið þar um hríð,
ljetu bræðurnir þá fara í friði til þeirra, er höfðu
35 sent þá. En Páll og Barnabas hjeldu kyrru fyrir í
Aníokkíu og kendu og boðuðu ásamt mörgum öðrum
orð Drottins.

36 Eftir nokkra daga sagði Páll við Barnabas: Hverf-
um aftur og vitjum bræðranna í sjerhverri borg, þar
sem vjer höfum boðað orð Drottins, hvernig þeim
37 líður. En Barnabas vildi líka taka með Jóhannes, er
38 kallaður var Markús. En Páli þótti eigi rjett að taka
þann mann með, er hljóp frá þeim í Pamfilíu, og
39 fylgdist ekki með þeim til verksins. Varð nú áköf
deila, svo að þeir skildu hvorir við aðra, og tók
40 Barnabas Markús með sjer og sigldi til Kípur. En
Páll kaus sjer Sílas og fór af stað, falinn náð Drott-
41 ins af bræðrunum. Og hann fór um Sýrland og
Kilikíu og styrkti söfnuðina.

16 Og hann kom líka til Derbe og Lýstra, og sjá,
lærisveinn nokkur var þar, Tímóteus að nafni,
sonur trúaðrar konu af Gyðinga ætt, en faðir-
2 inn var grískur. Hann hafði góðan orðstír hjá
3 bræðrunum í Lýstra og Íkóníum; hann vildi Páll
láta fara með sjer, og tók hann og umskar hann sök-
um Gyðinga, er voru í þeim bygðum, því að allir
4 vissu þeir, að faðir hans var grískur. Og er þeir
fóru um borgirnar, lögðu þeir fyrir menn að varðveita
boð og úrskurði postulanna og öldunganna í Jerúsal-
5 em. Styrktust nú söfnuðirnir í trúnni og fjölguðu
dag frá degi.

6 Og þeir fóru um Frýgíu og Galataland, en heilag-
7 ur andi varnaði þeim að tala orðið í Asíu. Og sem þeir
voru komnir að Mýsíu, gjörðu þeir tilraun til að fara
8 til Bitýníu, en andi Jesú leyfði þeim það eigi. Og
þeir fóru fram hjá Mýsíu og komu niður til Tróas.
9 Og um nótt vitraðist Páli sýn: Maður nokkur make-
dónskur stóð hjá honum, og bað hann segjandi:

10 Kom yfir til Makedóníu og hjálpa oss. En jafnskjótt og hann hafði sjeð þessa sýn, leituðumst vjer
við að komast af stað til Makedóníu, þar sem vjer
ályktuðum, að Guð hefði kallað oss, til þess að boða
þeim fagnaðarerindið.
11 Nú lögðum vjer út frá Tróas og sigldum beint til
12 Samótrake, en næsta dag til Neapolis, og þaðan til
Filippí, sem er helsta borgin í þeim hluta Makedóníu,
og er nýlenda. Í þeirri borg dvöldum vjer nokkra
13 daga, og hvíldardaginn gengum vjer út fyrir hliðið,
fram með á, þar sem vjer hugðum vera stað til
bænahalds, og settumst niður og töluðum við
14 konurnar, sem komu þar saman. Og kona nokkur
guðhrædd, Lýdía að nafni, úr Þýatíra-borg, er seldi
purpura, hlýddi á, og opnaði Drottinn hjarta hennar,
15 svo að hún gaf gaum að ræðu Páls. Og er hún var
skírð og heimili hennar, bað hún oss og sagði: Ef
þjer álítið mig trúa Drotni, þá gangið inn í hús mitt
og takið þar dvöl; og hún lagði fast að oss.
16 Og svo bar við, er vjer vorum á leið til bænahaldsstaðarins, að oss mætti þerna nokkur, sem hafði
spásagnaranda og ávann húsbændum sínum mikið fje
17 með því að spá; hún elti Pál og oss og hrópaði og sagði: Menn þessir eru þjónar Guðs hins
18 hæsta, og boða þeir oss veg hjálpræðis. Og þetta
gjörði hún í marga daga. En Páli fjell það illa, og
hann sneri sjer við og sagði við andann: Jeg býð
þjer í nafni Jesú Krists að fara út af henni, og hann
fór út á samri stundu.
19 En er húsbændur hennar sáu, að ábatavon þeirra
var farin, handtóku þeir Pál og Sílas og drógu þá á

20 torgið fyrir valdsmennina. Og er þeir höfðu farið
með þá til höfuðsmannanna, sögðu þeir: Menn þess-
ir gjöra mestu óspektir í borg vorri, eru þeir Gyð-
21 ingar, og boða siði þá, sem oss, rómverskum mönn-
22 um, leyfist hvorki að þýðast né fylgja. Og múgur-
inn reis og í gegn þeim, og höfuðsmennirnir flettu
23 þá klæðum og skipuðu að berja þá með stöfum. Og
er þeir höfðu lostið þá mörgum höggum, vörpuðu
þeir þeim í fangelsi, og buðu fangaverðinum að gæta
24 þeirra vandlega. Og er hann hafði fengið slíka skip-
un, varpaði hann þeim í innra fangelsið og feldi
25 stokk á fætur þeim. En um miðnætti báðust þeir
Páll og Sílas fyrir, og lofsungu Guði, og bandingj-
26 arnir hlustuðu á þá. Þá varð skyndilega landskjálfti
mikill, svo að grundvöllur fangelsisins titraði, og jafn-
skjótt opnuðust allar dyr, og fjötrarnir fjellu af öllum.
27 Og er fangavörðurinn hrökk upp úr svefni og sá
fangelsisdyrnar opnar, dró hann sverð sitt og ætlaði að
fyrirfara sjer, af því að hann hugði að bandingjarnir
28 væru flúnir. En Páll kallaði hárri raustu, og sagði:
Gjör þú sjálfum þjer ekkert mein, því að vjer erum
29 hjer allir. Og hann bað um ljós og stökk inn, og
fjell óttasleginn til fóta Páli og Sílasi og leiddi þá út,
30 og sagði: Herrar, hvað á jeg að gjöra, til þess að jeg
31 verði hólpinn? En þeir sögðu: Trú þú á Drottin
Jesúm, og þú munt verða hólpinn og heimili þitt.
32 Og þeir fluttu honum orð Drottins og öllum á
33 heimili hans. Og á þessari sömu næturstund tók
hann þá með sjer og þvoði benjar þeirra, og hann
34 var skírður og alt fólk hans þegar í stað. Og hann
fór með þá upp í hús sitt, bar þeim mat, og var

fagnandi, er hann hafði tekið trú á Guð með öllu
heimafólki sínu.
35 En er dagur rann, sendu höfuðsmennirnir vandsveina,
36 og ljetu segja: Lát þú menn þessa lausa. En fangavörð-
urinn flutti Páli þau orð: Höfuðsmennirnir hafa sent boð
um, að þið skylduð lausir látast; gangið því nú út og farið
37 í friði. En Páll sagði við þá: Þeir hafa fyrir allra augum
barið oss ódæmda, þó að vjer sjeum rómverskir menn,
og hafa varpað oss í fangelsi, og nú ætla þeir að
hleypa oss út á laun. Ekki skal svo vera, heldur
38 komi þeir sjálfir og leiði oss út. Og vandsveinarnir
fluttu höfuðsmönnunum þessi orð. En þeir urðu
hræddir, er þeir heyrðu að þeir væru menn rómversk-
39 ir, og þeir komu og friðmæltust við þá, leiddu þá út
40 og báðu þá að fara burt úr borginni. Og er þeir
voru gengnir út úr fangelsinu, fóru þeir heim til
Lýdíu, fundu þar bræðurna og hughreystu þá, og
hjeldu síðan af stað.

17 En er þeir höfðu farið um Amfípólis og Apol-
lóníu, komu þeir til Þessalóníku, en þar áttu Gyð-
2 ingar samkunduhús. Og eftir venju sinni gekk Páll inn
til þeirra og þrjá hvíldardaga átti hann tal við þá út
af ritningunum, lauk þeim upp fyrir þeim og setti
3 þeim fyrir sjónir, að Kristur átti að líða og rísa upp
frá dauðum, og að Jesús — sem jeg boða yður —
4 hann er einmitt Kristur. Og nokkrir af þeim ljetu
sannfærast, og gengu í flokk með þeim Páli og Sílasi,
svo og mikill fjöldi guðrækinna Grikkja og mikils-
5 háttar konur ekki allfáar. En Gyðingarnir fyltust vand-
læti og tóku með sjer nokkra vonda menn af götu-
skrílnum, vöktu uppþot og hleyptu borginni í upp-

nám og þustu að húsi Jasons og gjörðu tilraun til að
6 færa þá fyrir lýðinn. En er þeir fundu þá ekki,
drógu þeir Jason og nokkra bræður fyrir borgarstjór-
ana og hrópuðu: Mennirnir, sem vakið hafa óeirðir
um alla heimsbygðina, þeir eru líka komnir hingað,
7 og Jason hefir tekið á móti þeim, og allir þessir
menn breyta á móti boðum keisarans, þar sem þeir
8 segja, að annar sje konungur, og það sje Jesús. Og þeir
æstu upp múginn og borgstjórana, er heyrðu þetta.
9 Og er þeir höfðu tekið vörslu fyrir Jason og hina,
sleptu þeir þeim.
10 Og jafnskjótt ljetu bræðurnir þá Pál og Sílas
fara af stað um nótt til Beröu, og er þeir voru þangað
11 komnir, gengu þeir inn í samkunduhús Gyðinga. En
þeir voru göfuglyndari en mennirnir í Þessaloníku,
þar sem þeir tóku við orðinu með mjög fúsu geði, og
rannsökuðu daglega ritningarnar, hvort þessu væri
12 þannig varið. Margir af þeim tóku nú trú og ekki
13 allfátt af tignum grískum konum og karlmönnum. En
er Gyðingarnir í Þessaloníku fengu að vita, að í Ber-
öu væri einnig orð Guðs boðað af Páli, komu þeir
14 og hleyptu líka í múginn þar ólgu og æsingu. En
bræðurnir sendu þá jafnskjótt með Pál af stað, alla
leið til sjávar, en Sílas og Tímóteus urðu þar eftir.
15 En þeir sem fluttu Pál, fóru með hann alla leið til
Aþenu, og er þeir höfðu tekið við skipun til Sílasar
og Tímóteusar, að þeir kæmu hið bráðasta til hans,
fóru þeir leiðar sinnar.
16 En meðan Páll beið þeirra í Aþenu, fyltist andinn
í brjósti honum sárri gremju, er hann sá að borgin
17 var full af skurðgoðum. Í samkunduhúsinu átti hann

því tal við Gyðingana og guðsdýrkendur, og á torginu
18 dag hvern við þá, sem urðu á vegi hans. En nokkr-
ir Epíkúringar og stóiskir heimspekingar gáfu sig líka
í orðakast við hann. Sögðu sumir: Hvað mun skraf-
finnur sá hafa að flytja? Aðrir sögðu: Hann virðist
boða ókenda guði; af því að hann boðaði fagnaðar-
19 erindið um Jesúm og upprisuna. Og þeir tóku hann
og fóru með hann upp á Aresarhæð og sögðu: Get-
um vjer fengið að vita, hver þessi nýja kenning er,
20 sem þú fer með? Því að eitthvað nýstárlegt flytur
þú oss til eyrna; fýsir oss nú að vita hvað þetta er. —
21 En allir Aþenumenn og gestir, sem sest hafa þar að,
gáfu sjer ekki tóm til annars fremur en að segja eða
22 heyra eitthvað nýtt. — En Páll stóð á miðri Aresar-
hæð og tók til máls:

Aþenumenn, þjer komið mjer svo fyrir sjónir, að þjer
23 í öllum greinum sjeuð miklir trúmenn, því er jeg gekk
hjer um og skygndist eftir helgidómum yðar, fann jeg
meðal annars altari, sem á var ritað: »Ókunnum
guði«. Það sem þjer nú dýrkið óafvitandi, það boða
24 jeg yður: Guð sem gjörði heiminn og alt sem í hon-
um er, hann, sem er herra himins og jarðar, býr ekki
25 í musterum, sem með höndum eru gjörð, og ekki
verður honum heldur þjónað af höndum manna, eins
og hann þyrfti nokkurs við, þar sem hann sjálfur
26 gefur öllum líf og anda og alla hluti; og hann ljet út
frá einum sjerhverja þjóð manna byggja alt yfirborð
jarðarinnar, er hann hafði ákveðið fyrirsetta tíma og
27 takmark bólstaða þeirra, svo að þær skyldu leita Guðs,
ef verða kynni, að þær mættu þreifa á honum og
hann finna, enda þótt hann sje eigi langt frá hverjum

28 og einum af oss, því að í honnm lifum, hrærumst og
erum vjer, eins og líka nokkur af skáldunum hjá yður
29 hafa sagt: »Því að vjer erum líka hans ættar«. Fyrst
vjer erum nú Guðs ættar, megum vjer ekki ætla að
guðdómurinn sje líkur gulli eða silfri eða steini: mynd
30 gjörðri af mannlegum hagleik og hugviti. Guð hefir
þá sjeð í gegnum fingur við tíðir vanviskunnar, en
nú boðar hann mönnunum að þeir allir skuli alstaðar
31 gjöra iðrun; með því að hann hefir ákveðið dag, á
hverjum hann mun láta mann, sem hann hefir fyrir-
hugað, dæma heimsbygðina með rjettvísi, og hefir
hann veitt öllum fullvissu um það, með því að hann
reisti hann frá dauðum.

32 Er þeir nú heyrðu nefnda upprisu dauðra, gjörðu
sumir gys að, en aðrir sögðu: Vjer munum hlusta á
33 þetta hjá þjer í annað sinn. Þannig skildi Páll við
þá. Og nokkrir menn, sem hjeldu sjer til hans, tóku
trú; á meðal þeirra var og Díónýsíus Areopagíti og
kona, Damaris að nafni, og aðrir ásamt þeim.

18 Eftir þetta fór Páll úr Aþenu og kom til Ko-
2 rintu. Og þar fann hann fyrir Gyðing nokkurn,
Akvílas að nafni, ættaðan frá Pontus, nýkominn frá
Ílalíu, og Priskillu konu hans, því að Kládíus hafði
skipað svo fyrir, að allir Gyðingar skyldu fara burt
3 úr Róm. Hann fór til þeirra, og af því að báðir
stunduðu sömu iðn, settist hann að hjá þeim, og þeir
unnu að verki sínu, því að iðn þeirra var tjaldgjörð.
4 En hann átti viðræður við menn í samkunduhúsinu
hvern hvíldardag, og sannfærði bæði Gyðinga og
Grikki.

5 En er þeir Sílas og Timóteus komu norðan frá
Makedóníu, var Páll allur í orðinu, og vitnaði fyrir
6 Gyðingum að Jesús væri Kristur. En er þeir stóðu
í gegn og lastmæltu, hristi hann duftið af klæðum
sínum og sagði við þá: Blóð yðar komi yfir höfuð
yðar, jeg er hreinn; upp frá þessu fer jeg til heið-
7 ingjanna. Og hann fór þaðan og kom í hús manns
nokkurs, er hjett Títus Jústus, sem dýrkaði Guð, og
8 var hús hans rjett hjá samkunduhúsinu. En Krispus
samkundustjóri tók trú á Drottin og alt heimili hans,
og margir Korintumenn, sem á hlýddu, tóku trú og
9 ljetu skírast. En Drottinn sagði um nótt við Pál í
sýn: Óttast þú eigi, heldur tala þú og þeg ekki;
10 því að jeg er með þjer, og enginn skal ráðast að
þjer til að vinna þjer mein, því að jeg á margt fólk
11 í þessari borg. Og hann sat þar um kyrt þrjú miss-
iri, og kendi orð Guðs á meðal þeirra.
12 En þegar Gallíón var landstjóri í Akkeu, risu
Gyðingar með einum huga gegn Páli og drógu hann
13 fyrir dómstólinn og sögðu: Maður þessi telur menn
14 á að dýrka Guð gagnstætt lögmálinu. En er Páll
ætlaði að opna munninn, sagði Gallíón við Gyðing-
ana: Ef hjer væri um nokkuð saknæmt eða eitthvert
ódæði að ræða, þá væri ástæða fyrir mig að sinna
15 yður, Gyðingar; en ef það eru deilur um orð og nöfn
og lögmál það sem þjer hafið, þá ráðið sjálfir fram
16 úr því; dómari í slíkum efnum vil jeg ekki vera. Og
17 hann rak þá burt frá dómstólnum. Og allur mann-
söfnuðurinn tók Sóstenes, samkundustjórann, og þeir
börðu hann fyrir framan dómstólinn, og alt þetta ljet
Gallíón sig engu skifta.

18 En Páll var þar enn um kyrt allmarga daga; síðan
kvaddi hann bræðurna og sigldi til Sýrlands, og með
honum Priskilla og Akvílas, eftir að hann hafði látið
skera hár sitt í Kenkreu, — því að heit hvíldi á hon-
19 um. — Og þeir komu til Efesus og þar ljet hann
þau eftir, en sjálfur gekk hann inn í samkunduhúsið
20 og átti samræður við Gyðinga. En er þeir báðu hann
að standa lengur við, samsinti hann því ekki, heldur
21 kvaddi þá og sagði: Jeg skal hverfa aftur til yðar, ef
22 Guð vill, og hann ljet í haf frá Efesus, og er hann
var kominn til Sesareu, fór hann upp eftir, og heils-
23 aði söfnuðinum, og fór niður til Antíokkíu. Og er
hann hafði dvalið þar um hríð, hjelt hann af stað,
og fór eins og leið liggur um Galataland og Frýgíu
og styrkti alla lærisveinana.

24 En Gyðingur nokkur, Apollós að nafni, ættaður
frá Alexandríu, kom til Efesus; hann var maður vel
25 máli farinn og fær í ritningunum; hann var fræddur
um veg Drottins, og var brennandi í andanum, og
talaði og kendi kostgæfilega um Jesúm, en þekti að-
26 eins skírn Jóhannesar. Þessi maður tók að tala djarf-
lega í samkunduhúsinu, og er Priskilla og Akvílas
höfðu hlustað á hann, tóku þau hann að sjer, og útlist-
27 uðu rækilegar fyrir honum Guðs veg. En er hann fýsti
að fara yfir um til Akkeu, hvöttu bræðurnir hann til
þess og rituðu lærisveinunum að veita honum viðtöku.
Og er hann var þangað kominn, varð hann fyrir náð-
ina þeim til mikillar nytsemi, sem trú höfðu tekið;
28 því að harðlega hrakti hann Gyðingana í allra áheyrn,
og sannaði af ritningunum að Jesús væri Kristur.

19 En svo bar við, meðan Apollós var í Korintu,
að Páll kom til Efesus, eftir að hann hafði
farið um upplöndin, og hitti þar fyrir nokkra læri-
2 sveina, og hann sagði við þá: Fenguð þjer heilagan
anda, er þjer tókuð trú? En þeir sögðu við hann:
Nei, vjer höfum eigi svo mikið sem heyrt, að heilag-
3 ur andi sje til. Og hann sagði: Upp á hvað eruð
þjer þá skírðir? En þeir sögðu: Upp á skírn Jó-
4 hannesar. En Páll sagði: Jóhannes skírði iðrunar-
skírn, er hann sagði lýðnum að trúa á þann, sem
5 eftir sig kæmi, það er að segja á Jesúm. En er þeir
höfðu heyrt það, þá ljetu þeir skírast til nafns Drott-
6 ins Jesú. Og er Páll hafði lagt hendur yfir þá, kom
heilagur andi yfir þá, og þeir töluðu tungum og spáðu.
7 Og alls voru þeir sem næst tólf manns.
8 Og hann gekk inn í samkunduhúsið og talaði
djarflega um þrigga mánaða tíma, og átti viðræður við
menn og sannfærði um það, sem heyrir til guðsríki.
9 En er nokkrir forhertust og höfnuðu trúnni, og ill-
mæltu veginum í áheyrn fólksins, sagði hann skilið
við þá og greindi lærisveinana frá þeim, og hjelt
10 daglega samræður í skóla Týrannusar. Og þessu fór
fram í tvö ár, svo að allir þeir, sem í Asíu bjuggu,
11 heyrðu orð Drottins, bæði Gyðingar og Grikkir. Og
Guð gjörði óvenjuleg kraftaverk fyrir hendur Páls,
12 svo að jafnvel voru bornir út til sjúkra af líkama
hans sveitadúkar eða forklæði, og sjúkdómarnir viku
13 frá þeim og illir andar fóru út af þeim. En nokkrir
umrennandi Gyðingar, sem voru særingamenn, tóku
sjer og fyrir, að nefna yfir þeim, er höfðu illa anda,
nafn Drottins Jesú, segjandi: Jeg særi yður við Jes-

14 úm, sem Páll prjedikar. — En þeir, er þetta frömdu,
voru sjö synir Skeva nokkurs æðsta prests, Gyðinga
15 ættar. — En illi andinn svaraði og sagði við þá:
Jesúm kenni jeg og Pál þekki jeg; en hverjir eruð þið?
16 Og maðurinn, sem illi andinn var í, flaug á þá, keyrði
þá báða undir sig og ljek þá hart, svo að þeir flýðu
17 naktir og særðir út úr húsinu. En þetta varð kunn-
ugt bæði öllum Gyðingum og Grikkjum, er búa í
Efesus, og ótta sló yfir þá alla, og nafn Drottins Jesú
18 miklaðist. Og margir þeirra, sem við trú höfðu tekið,
komu og gjörðu játningu og sögðu frá athæfi sínu.
19 Og allmargir af þeim, er farið höfðu með kukl, báru
bækurnar saman og brendu þær öllum ásjáandi, og
þeir reiknuðu saman verð þeirra, og taldist það vera
20 fimtíu þúsund silfurpeningar. Svo kröftuglega óx og
efldist orð Drottins.

21 Eftir að þetta var um garð gengið, ásetti Páll sjer
í anda að ferðast um Makedóníu og Akkeu og fara
síðan til Jerúsalem og sagði: Þegar jeg hefi verið
22 þar, ber mjer líka að sjá Róm. Og hann sendi til
Makedóníu tvo af þeim, er honum þjónuðu, þá Tímó-
teus og Erastus, en dvaldi sjálfur um tíma í Asíu.

23 En í þann tíma hófst eigi lítið uppþot út af veg-
24 inum; því að maður nokkur var þar, Demetríus að
nafni; hann var silfursmiður; bjó hann til Artemisar
musteri úr silfri, og veitti smiðum eigi litla atvinnu.
25 Hann stefndi þeim saman og öðrum, sem að slíku
unnu, og sagði: Góðir menn, þjer vitið að á þessari
26 atvinnu stendur velmegun vor; og þjer sjáið og heyrið,
að ekki einungis í Efesus, heldur nær um gjörvalla
Asíu, hefir Páll þessi með fortölum sínum snúið fjölda

fólks, þar sem hann segir, að eigi sjeu þeir guðir, sem
27 með höndum eru gjörðir. Nú horfir þetta ekki ein-
ungis iðn vorri til smánar, heldur einnig til þess að
helgidómur hinnar miklu gyðju Artemisar verði eins-
kis virtur; já, jafnvel að hún, sem öll Asía og heims-
28 bygðin dýrkar, verði svift tign sinni. Og er þeir
heyrðu þetta, urðu þeir afarreiðir, æptu upp og sögðu:
29 Mikil er Artemis Efesusmanna! Og öll borgin komst
í uppnám, og þeir þustu með einum huga til leik-
sviðsins, og gripu og höfðu með sjer þá Kajus og
Arístarkus, menn frá Makedóníu, sem voru förunautar
30 Páls. En er Páll vildi ganga inn í mannþröngina,
31 leyfðu lærisveinarnir honum það ekki. En nokkrir
af leikstjórunum, sem voru vinir hans, sendu jafnvel
til hans og báðu hann að hætta sjer ekki inn á leik-
32 sviðið. Þeir hrópuðu nú sitt hver, því að mannsöfn-
uðurinn var í uppnámi, og flestir vissu ekki, hvers
33 vegna þeir voru saman komnir. Og menn drógu
Alexandar fram úr mannþrönginni, af því að Gyðingar
ýttu honum fram; en Alexander bandaði með hend-
34 inni og vildi verja mál sitt fyrir fólkinu. En er þeir
urðu þess vísir, að hann var Gyðingur, æptu allir ein-
um munni og hrópuðu í nærfelt tvær stundir: Mikil
35 er Artemis Efesusmanna! En ritarinn sefaði fólkið
og mælti: Efesusmenn, hver er sá maður, er ekki
viti, að borg Efesusmanna geymir musteris hinnar
36 miklu Artemisar og hins himinfallna líkneskis? Þar
sem þetta er nú ómótmælanlegt, þá ber yður að vera
37 stiltir og ekki hrapa að neinu, því að þjer hafið dregið
þessa menn hingað, sem hvorki hafa rænt helgidóma
38 nje lastmælt gyðju vorri. Hafi nú Demetríus og smið-

irnir, sem honum fylgja, kærumál við nokkurn, þá
eru þingdagar haldnir, og til eru landstjórar; eigist
39 þeir lög við. En ef þjer hafið annars að krefja, þá
40 má gjöra út um það á löglegri samkomu; því að vjer
eigum jafnvel á hættu, að verða sakaðir um upphlaup
fyrir þetta í dag, þar eð ekkert verður borið fyrir,
41 sem vjer getum mælt slíku uppþoti bót með. Að svo
mæltu ljet hann mannsöfnuðinn skiljast að.

20 En eftir að uppþotið var hætt, sendi Páll eftir
lærisveinunum, áminti þá og kvaddi þá og fór
2 burt áleiðis til Makedóníu. Og er hann hafði farið
um þau hjeruð og hafði ámint þá með mörgum orð-
3 um, kom hann til Grikklands. Og er hann hafði
verið þar þrjá mánuði, og Gyðingar sátu á svikráðum
við hann, er hann ætlaði að leggja af stað sjóveg til
Sýrlands, tók hann það ráð að snúa aftur um Make-
4 dóníu. En honum fylgdu alla leið til Asíu Sópater
Pýrrusson frá Beröu, og af Þessalóníkumönnum Arí-
starkus og Sekúndus, og Gajus frá Derbe og Tímó-
5 teus, og Asíumennirnir Týkíkus og Trófímus. En
6 þeir fóru á undan og biðu vor í Tróas. En vjer
sigldum eftir daga ósýrðu brauðanna burt frá Filippí,
og komum til þeirra í Tróas á fimta degi, og þar
stóðum vjer við sjö daga.

7 En er vjer vorum saman komnir, fyrsta dag vik-
unnar, til þess að brjóta brauðið, átti Páll samræður
við þá, með því að hann ætlaði að fara burt morgun-
8 inn eftir, og teygði hann talið til miðnættis. En
mörg ljós voru í loftstofunni, þar sem vjer vorum
9 saman komnir. En í glugganum sat ungmenni eitt,
Evtýkus að nafni; á hann fjell þungur svefn, og er

Páll ræddi svo lengi, datt hann, yfirkominn af svefn-
inum, ofan af þriðja lofti og var tekinn upp andvana.
10 Og Páll gekk ofan, lagðist niður að honum og tók
utan um hann og sagði: Gjörið engan hávaða, því
11 að líf er með honum. Og hann fór upp og braut
brauðið og neytti og talaði enn um hríð fram í dögun;
12 síðan fór hann leiðar sinnar. En þeir fóru með
sveininn lifandi og hugguðust mikillega.
13 En vjer, sem áður höfðum stigið á skip, sigldum
til Assus og ætluðum þar að taka Pál á skip, því að
svo hafði hann fyrir lagt, en sjálfur ætlaði hann að
14 ganga. Og er hann hafði hitt oss í Assus, tókum
15 vjer hann á skip og komum til Mitýlene. Og þaðan
sigldum vjer og komum næsta dag á móts við Kíos.
Og daginn eftir lögðumst vjer undir Samos, og næsta
16 dag komum vjer til Míletus. Því að Páll hafði ásett
sjer að sigla fram hjá Efesus, til þess að það kæmi
ekki fyrir hann, að honum dveldist í Asíu, því að
hann hraðaði ferð sinni, ef honum yrði auðið að
komast til Jerúsalem hvítasunnudaginn.
17 En frá Míletus sendi hann til Efesus og boðaði
18 til sín öldunga safnaðarins, og er þeir voru komnir
til hans, sagði hann við þá:
Þjer vitið með hverjum hætti jeg var hjá yður alla
19 stund frá þeim fyrsta degi, er jeg kom til Asíu, að jeg
þjónaði Drotni í allri auðmýkt og með tárum og í raun-
um, sem fyrir mig komu af svikráðum Gyðinganna,
20 og hversu jeg hlífðist eigi við að boða yður og kenna
21 alt nauðsynlegt, opinberlega og í heimahúsum, er jeg
vitnaði bæði fyrir Gyðingum og Grikkjum um aftur-
hvarfið til Guðs og trú á Drottin vorn Jesúm Krist.

22 Og nú, sjá, bundinn í anda er jeg á leið til Jerúsal-
23 em, vitandi eigi, hvað þar muni mæta mjer, nema
hvað heilagur andi birtir mjer í hverri borg og segir,
24 að fjötrar og þrengingar bíði mín. En eigi er orði
að því eyðandi, að lífið sje dýrmætt fyrir mig sjálfan
móts við það að fullna skeið mitt og þjónustuna, er
jeg tók við af Drotni Jesú, að vitna um fagnaðarerindi
25 Guðs náðar. Og nú, sjá, jeg veit, að eigi munuð þjer
framar sjá ásjónu mína, allir þjer, er jeg var á ferðinni
26 hjá, boðandi ríkið; þess vegna vitna jeg fyrir yður,
daginn þennan í dag, að jeg er hreinn af blóði allra;
27 því að eigi hlífðist jeg við að boða yður alt Guðs ráð.
28 Hafið gát á sjálfum yður og allri hjörðinni, þar sem
heilagur andi setti yður biskupa, til þess að gæta safnaðar
Guðs, sem hann hefir aflað sjer með sínu eigin blóði.
29 Jeg veit að inn muni koma til yðar eftir burtför mína
30 ólmir vargar, sem eigi þyrma hjörðinni. Og af yður
sjálfum munu rísa upp menn, er fara með rangsnúna
lærdóma, til þess að teygja lærisveinana á eftir sjer.
31 Vakið því og verið þess minnugir, að í þrjú ár ljet jeg
eigi af, nótt og dag, með tárum að áminna einn og
32 sjerhvern. Og nú fel jeg yður Guði og orði náðar hans,
sem máttugt er að uppbyggja yður og gefa arfleifð með
33 öllum þeim, sem helgaðir eru. Jeg hefi eigi girnst silfur
34 eða gull eða klæði nokkurs manns. Sjálfir vitið þjer,
að hendur þessar unnu fyrir öllu því, er jeg þurfti að
35 hafa og þeir, er með mjer voru. Í öllu sýndi jeg
yður, að með því að vinna svo, verðum vjer að taka
að oss hina óstyrku og minnast orða Drottins Jesú,
að hann sjálfur sagði: Sælla er að gefa en þiggja.

36 Og er hann hafði þetta mælt, fjell hann á knje
37 og baðst fyrir ásamt þeim öllum. Og allir tóku sáran
38 að gráta og fjellu um háls Páli og kystu hann, og
voru allra hryggastir yfir orði því, sem hann hafði
mælt, að þeir mundu aldrei framar líta auglit hans.
Og þeir fylgdu honum til skips.

21 Og er vjer höfðum slitið oss frá þeim og höfð-
um siglt af stað, fórum vjer beina leið til Kos,
2 og næsta dag til Ródus og þaðan til Patara. Þar
hittum vjer skip, er var að fara yfir um til Fönikíu,
3 stigum vjer á það og sigldum af stað. En er vjer
fengum landsýn af Kípur, ljetum vjer hana á bakborða
og sigldum til Sýrlands, og tókum höfn í Týrus,
4 því að þar átti skipið að leggja upp farminn. Og
eftir að vjer höfðum fundið lærisveinana, dvöldum
vjer þar sjö daga. Menn þessir sögðu Páli fyrir and-
5 ann, að eigi skyldi hann stíga fæti í Jerúsalem. En
er svo kom að vjer höfðum fullnað dagana, fórum
vjer burt og hjeldum leiðar vorrar, og allir fylgdu
þeir oss á veg, með konum og börnum, alla leið út
fyrir borgina, og vjer fjellum á knje í fjörunni og
6 báðumst fyrir, og kvöddum hverjir aðra og stigum
á skip, en hinir sneru aftur heim til sín.

7 En þegar vjer höfðum lokið sjóferðinni frá Týrus,
komum vjer til Tólemais, og vjer heilsuðum bræðrun-
8 um og dvöldum hjá þeim einn dag. Og daginn eftir
fórum vjer á burt og komum til Sesareu, og vjer
gengum inn í hús Filippusar trúboða, sem var einn af
9 þeim sjö, og dvöldum hjá honum. Hann átti fjórar
10 dætur, meyjar, er spáðu. Og er vjer stóðum þar við
ekki allfáa daga, kom spámaður nokkur ofan frá Júdeu,

11 Agabus að nafni. Og hann kom til vor, tók upp
belti Páls, batt fætur sína og hendur og mælti: Þetta
segir heilagur andi: Svo munu Gyðingar í Jerúsalem
binda manninn, sem á þetta belti, og framselja hann
12 í hendur heiðingjum. En er vjer heyrðum þetta, báð-
um bæði vjer hann og þeir sem þar áttu heima, að
fara ekki upp til Jerúsalem. Þá tók Páll til máls:
13 Hví gjörið þjer þetta, að gráta og hrella hjarta mitt?
Því að jeg er eigi að eins reiðubúinn til að láta
binda mig í Jerúsalem, heldur og að deyja þar fyrir
14 nafn Drottins Jesú. Og er hann ljet eigi telja sjer
hughvarf, þögnuðum vjer og sögðum: Verði Drott-
ins vilji.

15 Og að þessum dögum liðnum, bjuggumst vjer til
16 ferðar og fórum upp til Jerúsalem. Og oss urðu
samferða nokkrir af lærisveinunum frá Sesareu og
fóru þeir með oss til Mnasons nokkurs frá Kípur, sem
var gamall lærisveinn, og skyldum vjer gista hjá honum.

17 Og er vjer komum til Jerúsalem, tóku bræðurnir
18 oss feginsamlega. Og næsta dag gekk Páll með oss
19 til Jakobs, og allir öldungarnir komu þangað. Og er
hann hafði heilsað þeim, inti hann þeim skilmerki-
lega hvað eina, sem Guð hafði gjört fyrir þjónustu
20 hans meðal heiðingjanna. Og þeir vegsömuðu Guð,
er þeir heyrðu það, og sögðu við hann: Þú sjer, bróð-
ir, hve margir tugir þúsunda það eru meðal Gyðinga,
sem trú hafa tekið, og allir eru þeir vandir að því,
21 að lögmálið sje haldið. En þeim hefir verið sagt það
um þig, að þú kennir öllum Gyðingum, er búa með-
al heiðingja, fráhvarf frá Móse, þar sem þú segir, að
þeir skuli hvorki umskera börn sín, nje fylgja siðun-

22 um. Hvað á þá að gjöra? Víst munu þeir spyrja
23 það, að þú ert kominn. Gjör því nú þetta sem vjer
segjum þjer. Hjá oss eru fjórir menn, sem bundnir
24 eru heiti; tak þú menn þessa að þjer og lát hreinsast
með þeim, og ber kostnaðinn fyrir þá, að þeir geti
rakað höfuð sín, og mega þá allir sjá, að ekkert er
til í því, sem þeim hefir verið sagt um þig, heldur
25 gætir þú lögmálsins sjálfur í breytni þinni. En að
því er snertir heiðingjana, sem við trú hafa tekið, þá
höfum vjer gefið út brjef og úrskurðað, að þeir skuli
varast bæði skurðgoðafórnir og blóð og það sem
26 kafnað er og frillulífi. Síðan tók Páll að sjer menn-
ina, og daginn eftir, er hann hafði hreinsast látið með
þeim, gekk hann inn í helgidóminn, og ljet vita að
hann mundi enda út hreinsunardagana, þangað til
fórnin væri framborin fyrir einn og sjerhvern þeirra.
27 En er að því var komið að dagarnir sjö væru á
enda, sáu Gyðingar frá Asíu hann í helgidóminum,
og komu öllu fólkinu í uppnám, og lögðu hendur á
28 hann og hrópuðu: Þjer Ísraelsmenn, veitið nú lið.
Þetta er maðurinn, sem alstaðar er öllum að kenna í
gegn lýðnum og lögmálinu og stað þessum. Og nú
hefir hann meira að segja farið með Grikki inn í
29 helgidóminn og saurgað þennan heilaga stað. Því að
þeir höfðu áður sjeð Trófímus frá Efesus með honum
í borginni, og hugðu að Páll hefði farið með hann
30 inn í helgidóminn. Og öll borgin varð uppvæg og
fólkið þusti saman, og þeir tóku Pál og drógu hann
út fyrir helgidóminn, og jafnskjótt var dyrunum læst.
31 En er þeir vildu lífláta hann, barst foringjanum yfir
hersveitinni fregn um það, að öll Jerúsalem væri í

32 uppnámi. Hann tók þegar í stað með sjer hermenn
og hundraðshöfðingja og hljóp niður til þeirra; en er
þeir sáu hersveitarforingjann og hermennina, hættu
33 þeir að berja Pál. Hersveitarforinginn kom þá að og
tók hann og skipaði að binda hann með tveimur við-
jum, og spurði hver hann væri og hvað hann hefði
34 gjört En sitt kallaði hver úr mannfjöldanum, og er
hann gat ekkert áreiðanlegt fengið að vita sökum
óróans, bauð hann að fara skyldi með hann upp í
35 kastalann. Og er komið var á tröppurnar, urðu her-
36 mennirnir að bera hann vegna ofsans í fólkinu, því
að múgur manns fylgdi eftir, hrópandi: Burt með
hann!

37 Og þegar fara átti með Pál inn í kastalann,
segir hann við hersveitarforingjann: Leyfist mjer að
tala nokkur orð við þig? En hann sagði: Kant þú
38 grísku? Ekki ert þú þá egiptski maðurinn, sem fyrir
nokkru vakti styrjöld og fór með fjögur þúsund morð-
39 ingja út á eyðimörkina. En Páll sagði: Jeg er Gyð-
ingur, frá Tarsus í Kilikíu, borgari í alkunnum bæ;
40 og jeg bið þig, leyf mjer að tala til fólksins. Og er
hann hafði veitt leyfið, nam Páll staðar á tröppunum
og bandaði hendinni til fólksins, og er gott hljóð
fekst, talaði hann til þeirra á hebreska tungu og sagði:

22 Þjer bræður og feður, hlustið nú á málsvörn
mína fyrir yður.

2 En er þeir heyrðu hann ávarpa sig á hebreska
tungu, urðu þeir enn hljóðari, og hann segir:

3 Jeg er Gyðingur, fæddur í Tarsus í Kilikíu, en
alinn upp í borg þessari við fætur Gamalíels, fræddur
í strangleika feðra-lögmálsins, og var Guðs vandlætari,

4 eins og þjer allir eruð í dag, sá hinn sami, sem of-
sótti þennan veg alt að dauða, færði í hlekki og seldi
5 í fangelsi bæði karla og konur, eins og æðsti prest-
urinn mun bera mjer vitni um og alt öldungaráðið;
hjá þeim fekk jeg enda brjef til bræðranna, og fór til
Damaskus í þeim tilgangi, að flytja einnig þá, er þar
væru, bundna til Jerúsalem, til þess að þeim yrði
6 hegnt. En svo bar við, er jeg var á ferðinni og nálg-
aðist Damaskus, um hádegisbil, að um mig leiftraði
7 skyndilega ljós mikið af himni. Og jeg fjell til jarð-
ar og heyrði raust, er sagði við mig: Sál, Sál, hví
8 ofsækir þú mig? En jeg svaraði: Hver ert þú, herra?
Og hann sagði við mig: Jeg er Jesús frá Nasaret,
9 sem þú ofsækir. Mennirnir, sem með mjer voru, sáu
að vísu ljósið, en heyrðu ekki raust þess, er við mig
10 talaði. En jeg sagði: Hvað á jeg að gjöra, herra? En
Drottinn sagði við mig: Rís upp og far til Damask-
us, og þar mun þjer verða sagt um alt það, sem þjer
11 er ætlað að gjöra. En þar sem jeg gat ekki sjeð vegna
ljómans af ljósi þessu, kom jeg til Damaskus, leiddur
12 við hönd af samferðamönnum mínum. En Ananías
nokkur, maður guðrækinn eftir lögmálinu, sem hafði
góðan orðstír hjá öllum Gyðingum, er þar bjuggu,
13 kom til mín, gekk að mjer og sagði við mig: Sál
bróðir, lít þú upp. Og jeg leit upp á hann á sömu
14 stundu. En hann sagði: Guð feðra vorra hefir fyr-
irhugað þig til að þekkja vilja sinn og sjá hinn rjett-
15 láta og heyra raust af munni hans; því að þú skalt
honum vottur vera hjá öllum mönnum um það sem
16 þú hefir sjeð og heyrt. Og hvað dvelur þig nú? Rís
upp og lát skírast og afþvo syndir þínar, ákallandi

17 nafn hans. En svo bar við, er jeg var kominn aftur
til Jerúsalem og baðst fyrir í helgidóminum, að jeg
18 varð frá mjer numinn, og sá hann, segjandi við mig:
Flýt þjer og far sem skjótast burt úr Jerúsalem, því
að þinn vitnisburð um mig munu þeir ekki meðtaka.
19 Og jeg sagði: Drottinn, þeir vita sjálfir, að jeg er
maðurinn, sem hnepti í fangelsi og húðstrýkti í sam-
20 kunduhúsunum þá sem trúðu á þig, og þegar úthelt
var blóði Stefáns, vottar þíns, stóð jeg bæði sjálfur
þar yfir og ljet mjer vel líka og varðveitti klæði þeirra,
21 sem tóku hann af lífi. Og hann sagði við mig: Far
þú, því að jeg mun senda þig til heiðingja, langt í
burtu.

22 Alt að þessu orði hlýddu þeir á hann, en nú hófu
þeir upp raust sína, segjandi: Burt með slíkan mann
23 af jörðinni, því að eigi hæfir að hann lifi! Og er
þeir æptu upp og köstuðu af sjer klæðum sínum og
24 jusu mold í loft upp, skipaði hersveitarforinginn að
fara með hann inn í kastalann, og sagði að kúga skyldi
hann til sagna með svipuhöggum, til þess að hann
fengi að vita, fyrir hverja sök þeir hrópuðu svo gegn
25 honum. Og er þeir höfðu strengt hann undir svipu-
höggin með taugum, sagði Páll við hundraðshöfðing-
jann, er hjá stóð: Leyfist yður að húðstrýkja rómversk-
26 an mann, og það ódæmdan? Og er hundraðshöfð-
inginn heyrði það, fór hann til hersveitarforingjans,
inti honum frá og sagði: Hvað ert þú að gjöra?
27 Því að maður þessi er rómverskur. Hersveitarforing-
inn kom þá og sagði við hann: Seg mjer, ert þú
28 rómverskur? En hann sagði: Já. Og hersveitarfor-
inginn svaraði: Fyrir ærið fje keypti jeg þennan borg-

arrjett. En Páll sagði: Jeg er meira að segja með
29 honum fæddur. Og jafnskjótt viku þeir frá honum,
er áttu að yfirheyra hann, og hersveitarforinginn varð
hræddur, er hann varð þess vís, að hann var róm-
verskur, og af því að hann hafði látið binda hann.
30 Daginn eftir, er hann vildi vita með vissu, um
hvað hann væri kærður af Gyðingum, leysti hann
hann og bauð að æðstu prestarnir og alt ráðið skyldi
koma saman, og hann kom með Pál og leiddi hann
fram fyrir þá.

23 En Páll hvesti augun á ráðið og mælti: Þjer
bræður, jeg hefi hegðað mjer fyrir Guði með góðri
2 samvisku í sjerhverri grein, alt til þessa dags. En
æðsti presturinn Ananías skipaði þeim, er hjá honum
3 stóðu, að ljósta hann á munninn. En þá sagði Páll
við hann: Guð mun ljósta þig, þú kalkaði veggur!
Og situr þú til að dæma mig samkvæmt lögmálinu,
4 og skipar að jeg sje lostinn á móti lögmálinu? En
þeir, sem hjá stóðu, sögðu: Atyrðir þú æðsta prest
5 Guðs? Og Páll sagði: Ekki vissi jeg, bræður, að
hann væri æðsti prestur; því að ritað er: *Þú skalt*
6 *ekki illmæla höfðingja lýðs þíns.* En með því að Páll
vissi að einn hluti þeirra voru Saddúkear, en annar
hlutinn Farísear, þá hrópaði hann upp í ráðinu: Þjer
bræður, jeg er Farísei, sonur Farísea. Jeg er lögsótt-
7 ur fyrir vonina og upprisu dauðra. En er hann
sagði þetta, varð deila milli Faríseanna og Saddúkeanna
8 og þingheimurinn varð ósamþykkur; því að Saddúkear
segja, að ekki sje til upprisa og eigi heldur engill, nje
9 andi, en Farísear viðurkenna hvorttveggja. Nú varð
hávaði mikill, og nokkrir fræðimenn af flokki Farí-

seanna risu upp og fluttu mál sitt með kappi og
sögðu: Ekkert ilt finnum vjer hjá manni þessum.
Ef nú andi skyldi hafa talað við hann eða engill!
10 En er nú varð mikil deila, óttaðist hersveitarforing-
inn, að Páll yrði slitinn í sundur af þeim, og skipaði
herliðinu að fara niður, til að hrífa hann frá þeim og
fara með hann í kastalann.
11 En nóttina eftir kom Drottinn til hans og sagði:
Vertu hughraustur, því að eins og þú hefir vitnað um
mig í Jerúsalem, svo ber þjer og að vitna í Róm.
12 En er dagur kom, gjörðu Gyðingar samtök og
strengdu þess heit með formælingu, að þeir skyldu
hvorki eta nje drekka, fyr en þeir hefðu Pál af dög-
13 um ráðið, og voru þeir yfir fjörutíu, sem þetta sam-
14 særi gjörðu. Og menn þessir fóru til æðstu prest-
anna og öldunganna og sögðu: Með formælingu höf-
um vjer fastlega strengt þess heit, að bergja einskis
15 fyr en vjer höfum Pál af dögum ráðið. Nú skuluð
þjer ásamt ráðinu gjöra hersveitarforingjanum
aðvart um það, að hann láti fara með hann niður til
yðar, svo sem þjer vilduð kynna yður mál hans enn
skýrar, en vjer erum reiðubúnir til að vega hann,
16 áður en hann kemst alla leið. En systursonur Páls
heyrði um fyrirsátina og kom og fór inn í kastalann
17 og sagði Páli frá. En Páll kallaði til sín einn af
hundraðshöfðingjunum og mælti: Far þú með þenn-
an unga mann til hersveitarforingjans; því að hann
18 hefir nokkuð að segja honum. Hann tók hann þá
og fór með hann til hersveitarforingjans og segir:
Bandinginn Páll kallaði mig til sín og bað mig að
fara með þennan unga mann til þín, sem hefir eitt-

19 hvað að segja þjer. Og hersveitarforinginn tók í hönd
honum og fór með hann afsíðis og spurði: Hvað er
20 það sem þú hefir að segja mjer? En hann sagði:
Gyðingar hafa komið sjer saman um að biðja þig, að
þú á morgun látir fara með Pál niður í ráðið, og
ætti það svo að heita, að þú ætlaðir ítarlegar að
21 rannsaka mál hans. En lát þú nú ekki að orðum
þeirra, því að meir en fjörutíu menn úr þeirra flokki
sitja fyrir honum, og hafa þeir hinir sömu strengt
þess heit með formælingu, að eta hvorki nje drekka,
fyr en þeir hafi vegið hann, og eru þeir nú reiðu-
22 búnir og bíða eftir skeyti frá þjer. Hersveitarforing-
inn ljet unga manninn þá fara burt og bauð honum:
Engum mátt þú segja, að þú hafir gjört mjer aðvart
23 um þetta. Og hann kallaði til sín tvo af hundraðs-
höfðingjunum og sagði: Búið tvö hundruð hermenn,
sjötíu riddara og tvö hundruð skotmenn, að þeir
24 fari til Sesareu, eftir þriðju stund nætur; hafið og til reiðu
fararskjóta handa Páli, til þess að þjer komið honum
25 heilum á hófi til Felix landstjóra. Og hann ritaði
brjef svo hljóðandi:
26 Kládíus Lýsías sendir kveðju hinum göfuga land-
27 stjóra Felix. Þennan mann höfðu Gyðingar hand-
tekið, og lá við að þeir tækju hann af lífi; kom jeg
þá þar að með hermönnum og bjargaði honum, er
28 jeg komst að því, að hann var rómverskur. Og er
jeg vildi vita, fyrir hverja sök þeir kærðu hann, fór
29 jeg með hann niður í ráð þeirra; komst jeg þá að
raun um, að hann var kærður fyrir ágreining um
lögmál þeirra, en engin sök var honum gefin, er
30 dauða varðaði eða böndum. En þar sem jeg hefi

fengið vísbendingu um, að setið væri á svikráðum
við manninn, sendi jeg hann tafarlaust til þín, og
hefi jeg jafnframt boðið kærendunum að flytja erindi
sitt um hann fyrir þjer.
31 Hermennirnir tóku þá Pál, eins og þeim var um
boðið, og fóru með hann um nótt til Antípatris.
32 En daginn eftir sneru þeir aftur til kastalans, en ljetu
33 riddarana fara með honum. Þeir fóru inn í Sesareu
og skiluðu brjefinu til landstjórans og færðu Pál fyrir
34 hann. En hann las brjefið og spurði, úr hverju skatt-
landi hann væri, og er hann fekk að vita, að hann
35 var frá Kilikíu, sagði hann: Jeg mun prófa mál þitt,
þegar kærendur þínir eru líka komnir; og hann bauð
að láta geyma hans í höll Heródesar.

24 En eftir fimm daga fór æðsti presturinn Ana-
nías ofan þangað og voru með honum nokkrir
öldungar og Tertúllus nokkur mælskumaður, og báru
menn þessir fyrir landstjóranum sakir fram gegn Páli.
2 Og er hann var kallaður fyrir, hóf Tertúllus kæru
sína og sagði:
3 Vjer viðurkennum það mjög þakksamlega, göfugi
Felix, að fyrir þitt tilstilli sitjum vjer í góðum friði,
og í öllum greinum og alstaðar hefir fólk þetta fengið
4 rjettarbætur fyrir þína forsjá. En svo að jeg tefji þig
sem minst, bið jeg að þú af mildi þinni viljir heyra
5 oss stuttlega. Svo er mál vaxið, að vjer höfum geng-
ið úr skugga um, að maður þessi er drepsótt og
kveikir upphlaup hjá öllum Gyðingum um víða ver-
6 öld, og er forsprakki villuflokks Nasareanna, og gjörði
hann meira að segja tilraun til að vanhelga musterið.
8 Þennan mann tókum vjer höndum. Hjá honum get-

ur þú, er þú prófar sjálfur, fengið að vita um alt
9 þetta, sem vjer kærum hann fyrir. Og Gyðingar tóku
undir sakargiftirnar, og kváðu þetta satt vera.
10 Og Páll svaraði, er landstjórinn benti honum að
taka til máls:
Þar sem jeg veit að þú hefir í mörg ár verið dóm-
11 ari þessa fólks, er mjer ljúft að verja mál mitt; með
því að þú getur fengið að vita, að ekki eru meir en
tólf dagar síðan jeg kom upp til Jerúsalem að biðjast
12 fyrir. Og hvorki hittu þeir mig í helgidóminum í
orðaþrætu við nokkurn mann, eða að jeg væri að æsa
fólk til óspekta, og eigi heldur í samkunduhúsunum,
13 nje út um bæinn, og ekki geta þeir heldur sannað
14 það fyrir þjer, sem þeir nú kæra mig um. En þetta
játa jeg þjer, að jeg þjóna Guði feðra vorra samkvæmt
þeim vegi, sem þeir kalla villuflokk, og trúi jeg öllu
því sem í lögmálinu stendur, og því sem í spámönn-
15 unum er ritað, og hefi þá von til Guðs, sem þeir
og sjálfir hafa, að upp muni rísa bæði rjettlátir og
16 ranglátir. Fyrir því tem jeg mjer og sjálfur að hafa
jafnan góða samvisku gagnvart guði og mönnum.
17 En eftir mörg ár kom jeg til að færa fólki mínu öl-
18 musugjafir og bera fram fórnir. Er jeg var að þessu
og hafði látið hreinsast í helgidóminum, komu þeir
að mjer, og var þar enginn mannsöfnuður um mig
og ekkert uppþot; en þar voru Gyðingar nokkrir frá
19 Asíu, og hefðu þeir átt að vera komnir fyrir þig, og
bera fram kæru, ef þeir fyndu mjer eitthvað til saka,
20 eða segi þessir menn sjálfir til, hvað saknæmt þeir
21 hafi fundið, þegar jeg stóð fyrir ráðinu. Það skyldi
þá vera þetta eina orð, er jeg kvað upp með, þegar

jeg stóð meðal þeirra: Fyrir upprisu dauðra er jeg í
dag lögsóttur frammi fyrir yður.
22 Felix frestaði nú málinu fyrir þeim, af því að
honum var allkunnugt um veginn, og mælti: Þegar
Lýsías hersveitarforingi kemur ofan hingað, skal jeg
23 skera úr máli yðar. Og hann bauð hundraðshöfðing-
janum að láta hann vera í varðhaldi, og að vægilega
væri með hann farið, og eigi skyldi hann meina
neinum af vinum hans að veita honum þjónustu.
24 En nokkrum dögum seinna kom Felix með eigin-
konu sinni Drúsillu, sem var Gyðinga ættar, og ljet
sækja Pál, og hlýddi á mál hans um trúna á Krist
25 Jesúm. En er hann talaði um rjettlæti, bindindi og
komandi dóm, skelfdist Felix og mælti: Far burt að
sinni; en þegar jeg fæ tóm, mun jeg láta kalla þig.
26 Með fram gjörði hann sjer og von um, að Páll
mundi gefa sjer fje; því var það líka, að hann ljet
27 alloft sækja hann og átti tal við hann. En þegar tvö
ár voru liðin, tók Porkíus Festus við landstjórn af
Felix, og af því að Felix vildi afla sjer hylli Gyð-
inga, ljet hann Pál eftir í böndum.

25 Er Festus nú hafði tekið við skattlandinu, fór
hann þrem dögum síðar frá Sesareu upp til Jerú-
2 salem. Og æðstu prestarnir og helstu menn Gyðinga
3 báru fyrir honum sakir fram gegn Páli, og þeir báðu
hann að vera sjer hliðhollan gegn honum, og lögðu
að honum að láta koma með hann til Jerúsalem, og
bjuggu honum fyrirsát, til þess að vega hann á leið-
4 inni. En Festus svaraði, að Páll væri í varðhaldi í
Sesareu, og sjálfur ætlaði hann bráðlega að fara
5 þangað. Þeir sem völdin hafa hjá yður, segir hann,

skulu því verða samferða ofan eftir og kæra hann,
ef maðurinn er eitthvað brotlegur.
6 En er hann hafði dvalið hjá þeim í mesta lagi átta
eða tíu daga, fór hann niður til Sesareu, og daginn
eftir settist hann á dómstólinn og bauð að leiða Pál
7 fram. En er hann var þar kominn, stóðu Gyðing-
arnir, sem farið höfðu ofan frá Jerúsalem, í kring um
hann og báru á hann margar og þungar sakir, sem
8 þeir gátu ekki sannað. En Páll bar fram sjer til
varnar: Jeg hefi hvorki brotið neitt gegn lögmáli
Gyðinga, nje gegn helgidóminum, nje gegn keisaranum.
9 En Festus, sem vildi koma sjer vel við Gyðinga,
svaraði Páli og sagði: Vilt þú fara upp til Jerúsalem,
og að þú sjert þar lögsóttur fyrir mjer í þessu máli?
10 En Páll sagði: Nú stend jeg fyrir dómstóli keisarans,
og þar ber að lögsækja mig. Gyðingum hefi jeg
11 engan órjett gjört, sem þú og fullvel veist. Ef jeg
nú er brotlegur og hefi framið eitthvað, sem dauða
er vert, þá mæli jeg mig ekki undan dauða, en ef
ekkert er hæft í því, sem þessir menn kæra mig
fyrir, á enginn með að selja mig á vald þeirra. Jeg
12 skýt máli mínu til keisarans. Þá svaraði Festus, eftir
að hann hafði borið sig saman við ráðunauta sína:
Til keisarans hefir þú skotið máli þínu, til keisarans
skalt þú fara.
13 Að nokkrum dögum liðnum kom Agrippa konung-
ur og Berníke til Sesareu, og sögðu Festus velkom-
14 inn. En er þau dvöldu þar allmarga daga, skýrði
Festus konunginum frá máli Páls og sagði: Maður
15 nokkur er af Felix eftir skilinn í böndum. Um hann
báru æðstu prestarnir og öldungar Gyðinga fram sakir,

þegar jeg kom til Jerúsalem, og kröfðust áfellisdóms
16 yfir honum. Jeg svaraði þeim, að ekki væri það venja
Rómverja að selja nokkurn mann öðrum á vald, fyr
en hinn kærði hefði kærendurna fyrir sjer og ætti
17 kost á að bera fram vörn gegn sakargiftinni. Er
þeir nú voru komnir hjer saman, ljet jeg engan drátt
á verða og settist daginn eftir á dómstólinn og skip-
18 aði að leiða fram manninn. Er nú kærendurnir
komu fram, báru þeir eigi fram sakir um hann fyr-
19 ir nein þau illræði, er jeg hafði búist við, heldur
áttu þeir í einhverjum deilum við hann um átrúnað
sjálfra þeirra, og um Jesúm nokkurn, látinn mann,
20 sem Páll sagði lifa. Er jeg nú var í vandræðum með
rannsókn þessa máls, spurði jeg, hvort hann vildi
fara til Jerúsalem, og vera þar lögsóttur í þessu
21 máli. En er Páll skaut máli sínu og krafðist þess
að hann væri hafður í haldi, til þess er hátignin gæti
kveðið upp úrskurð, skipaði jeg að hann skyldi hafður
í haldi, þangað til jeg gæti sent hann til keisarans.
22 En Agrippa sagði við Festus: Mig fýsir líka að heyra
manninn sjálfur. Á morgun, segir hann, skalt þú
fá að hlusta á hann.

23 Daginn eftir kom þá Agrippa og Berníke, með
mikilli viðhöfn, og gengu þau, ásamt hersveitarforing-
junum og hinum æðstu mönnum borgarinnar, inn í
málstofuna, og var Páll að boði Festusar leiddur
24 fram. Og Festus tekur svo til máls: Agrippa kon-
ungur, og þjer menn allir, sem hjá oss eruð staddir,
þjer sjáið mann þennan, og hefir öll alþýða Gyðinga
lagt að mjer um hann, bæði í Jerúsalem og hjer, og
25 sagt hástöfum, að ekki ætti hann lengur að lifa. En

jeg komst að raun um, að hann hefir ekkert það
framið, sem dauða er vert, og rjeð jeg af, er hann
sjálfur skaut máli sínu til hátignarinnar, að senda
26 hann. Nú hefi jeg ekkert áreiðanlegt að skrifa herra
vorum um hann; þess vegna hefi jeg leitt hann fram
fyrir yður og einkum fyrir þig, Agrippa konungur,
svo að jeg, að framfarinni rannsókn, hefði eitthvað að
27 skrifa; því að mjer líst óskynsamlegt að senda band-
ingja og tjá eigi um leið sakir þær, sem á hann eru
bornar.

26 En Agrippa sagði við Pál: Nú er þjer leyfi-
legt að tala þínu máli. Páll rjetti þá út hönd-
ina og bar fram vörn sína:
2 Sæll þykist jeg þess, Agrippa konungur, að jeg á
fyrir þjer í dag að halda uppi vörn fyrir mig gegn
3 öllu því, sem Gyðingar saka mig um, þar sem þú
þekkir manna best alla siðu Gyðinga og ágreinings-
mál; fyrir því bið jeg þig, að þú viljir þolinmóðlega
4 hlýða á mál mitt. Hvernig líferni mitt hefir verið
frá æskuárum, vita allir Gyðingar, þar sem jeg hefi
frá fyrstu alið aldur minn hjá þjóð minni og í Jerú-
5 salem, og hafa þeir þekt mig að því frá upphafi, vilji
þeir um það vitni bera, að jeg hefi lifað sem Farísei,
6 samkvæmt strangasta flokki átrúnaðar vors. Og nú
stend jeg undir lögsókn vegna vonarinnar um fyrir-
7 heitið, er Guð gaf feðrum vorum, sem vorar tólf
kynkvíslir með kappsamlegri guðsdýrkun nótt og dag
vænta að hreppa. Fyrir þessa von er jeg, konungur,
8 kærður af Gyðingum. Hvernig farið þjer að telja það
9 ótrúlegt, að Guð uppveki dauða? Jeg fyrir mitt leyti
taldi mjer líka skylt, að beita mjer mjög á móti nafni

10 Jesú frá Nasaret, sem jeg og gjörði í Jerúsalem, og bæði
hnepti jeg marga af hinum heilögu í fangelsi, er jeg
hafði fengið vald til þess af æðstu prestunum, og er
11 þeir voru af lífi teknir, galt jeg því jákvæði, og í öll-
um samkundunum refsaði jeg þeim þrásinnis og
neyddi þá til að lastmæla, og jeg æddi svo frekt gegn
þeim, að jeg fór enda til borga erlendis að ofsækja
12 þá. Er jeg í þessum erindum var á leið til Damask-
13 us, með valdi og umboði frá æðstu prestunum, sá jeg,
konungur, á veginum, um miðjan dag, ljós af himni
sólu bjartara leiftra um mig og þá, sem mjer voru
14 samferða. Og er vjer allir fjellum til jarðar, heyrði jeg
rödd, er sagði við mig á hebreska tungu: Sál, Sál,
hví ofsækir þú mig? Erfitt verður þjer að spyrna móti
15 broddunum. En jeg sagði: Hver ert þú, herra? En
16 Drottinn sagði: Jeg er Jesús, sem þú ofsækir. En rís
þú upp og statt á fætur þína; því að til þess birtist
jeg þjer, til þess að kjósa þig að þjóni og að votti
bæði um það, hvernig þú sást mig, og um það,
17 hvernig jeg mun birtast þjer, er jeg tek þig út úr lýðn-
18 um og út úr heiðingjunum, sem jeg sendi þig til, til
að opna augu þeirra, svo að þeir snúi sjer frá myrkri
til ljóss og frá Satans valdi til Guðs, svo að þeir
öðlist synda-fyrirgefningu og arf með þeim, sem helg-
19 aðir eru fyrir trúna á mig. Fyrir því gjörðist jeg,
Agrippa konungur, eigi óhlýðinn hinni himnesku
20 vitrun, heldur boðaði jeg fyrst þeim í Damaskus og
í Jerúsalem og um alla Júdeu-bygð og heiðingjunum,
að gjöra iðrun og hverfa til Guðs og vinna verk sam-
21 boðin iðruninni. Fyrir þá sök gripu Gyðingar mig í
22 helgidóminum og leituðust við að taka mig af lífi; en

með því að jeg hefi hlotið fulltingi frá Guði, stend jeg
alt til þessa dags, vitnandi bæði fyrir smáum og stór-
um, og mæli ekki annað en það, sem bæði spámenn-
23 irnir hafa sagt að fram mundi koma, og Móse: að
Kristur ætti að líða, og að hann mundi fyrstur við
upprisuna frá dauðum boða ljós bæði lýðnum og heið-
ingjunum.

24 Og er hann var þetta að mæla sjer til varnar, seg-
ir Festus með hárri raustu: Óður ert þú orðinn,
25 Páll, hið mikla bókvit þitt gjörir þig óðan. En Páll
segir: Ekki er jeg óður, göfugi Festus, heldur mæli
26 jeg sannleiks og stillingar orð; því að konungurinn
ber skyn á þetta, og við hann tala jeg líka einarðlega,
því að eigi ætla jeg að neitt af þessu sje honum dul-
27 ið, því að eigi hefir þetta gjörst í afkima. Trúir þú,
Agrippa konungur, spámönnunum? Jeg veit að þú
28 trúir. En Agrippa sagði við Pál: Með litlu hyggur
29 þú, að þú munir gjöra mig kristinn! En Páll sagði:
Þess bið jeg Guð, hvort sem það er með litlu eða
miklu, að ekki einungis þú, heldur og allir sem til
mín heyra í dag, verði slíkir sem jeg er, að undan
teknum þessum fjötrum.

30 Og konungurinn stóð upp og landstjórinn og Bern-
31 íke og þeir sem sátu þar ásamt þeim. Og er þeir
voru burt gengnir, töluðu þeir hverjir við aðra og
sögðu: Þessi maður fremur ekkert, sem dauða er
32 vert eða banda. En Agrippa sagði við Festus: Mann
þennan hefði mátt lausan láta, ef hann hefði ekki
skotið máli sínu til keisarans.

27 En þegar úrskurðað var, að vjer skyldum
sigla til Ítalíu, seldu þeir Pál og nokkra aðra
bandingja í hendur hundraðshöfðingja, er Júlíus hjet,
2 úr Hátignar-hersveitinni. Og vjer stigum á skip frá
Adramýttíum, sem átti að sigla til bæjanna með Asíu-
ströndum, og ljetum í haf; og Arístarkus, makedónsk-
3 ur maður frá Þessaloníku, var oss samferða. Og á
öðrum degi komumst vjer til Sídon. Og Júlíus var
mannúðlegur við Pál, og leyfði honum að fara á fund
4 vina sinna og njóta hjúkrunar. Og þaðan ljetum vjer
í haf og sigldum undir Kípur, því að vindar voru
5 andstæðir. Og er vjer höfðum siglt yfir hafið fyrir
Kilikíu og Pamfilíu, komum vjer til Mýra í Lýkíu.
6 Og þar hitti hundraðshöfðinginn fyrir skip frá Alex-
andríu, er sigla átti til Ítalíu, og ljet oss stíga á það.
7 En siglingin gekk tregt í allmarga daga, og er vjer
með herkjum vorum komnir móts við Knídus, bægði
vindur oss og vjer sigldum undir Krít við Salmóne,
8 og beittum með naumindum fram með henni, og
komumst á stað einn, sem kallast Góð-hafnir, í grend
við borgina Lasea.

9 Og er enn leið drjúgur tími og sjóferðir tóku þeg-
ar að verða hættulegar, því að fastan var nú líka um
10 liðin, rjeð Páll þeim og sagði við þá: Það sje jeg, góðir
menn, að sjóferðin muni verða með hrakningum og miklu
tjóni, ekki einungis á farminum og skipinu, heldur
11 og fyrir líf vort. En hundraðshöfðinginn trúði betur
skipstjóranum og skipseigandanum en því er Páll
12 sagði. Og þar eð höfnin var óhentug til vetrarlegu,
varð það flestra ráð að leggja til hafs þaðan, ef þeir
kynnu að ná til Fönix og hafa þar vetrarlegu; er sú

13 höfn á Krít og veit til útsuðurs og útnorðurs. Og
er hægur sunnanvindur kom á, hugðust þeir að hafa
ráð þetta í hendi sjer og heimtu upp akkeri, og sigldu
14 fram með Krít nálægt landi. En áður en langt leið,
skall á af landi ofan ofviðri, sem kallað er Evrakvíló.
15 Og er skipið hrakti og ekki varð beitt upp í vindinn,
16 slógum vjer undan og ljetum reka. Og er vjer höfð-
um hleypt undir litla ey, sem hjet Káda, var það með
17 naumindum að vjer gátum bjargað bátnum; drógu þeir
hann upp og gripu til bjargráða og lögðu strengi um
skipið, og þar eð þeir óttuðust að þá mundi bera
upp á Sýrtuna, feldu þeir akreiðann og ljetu svo reka.
18 En er ofviðrið hrjáði oss, ruddu þeir skipið daginn
19 eftir. Og á þriðja degi köstuðu þeir út með eigin
20 höndum áhöldum skipsins. Og er hvorki sást til
sólar nje stjarna marga daga og illviðrið, sem á lá,
var ekki lítið, þá var loks öll von úti um það að vjer
21 kæmumst af. Og er menn höfðu lengi verið matar-
lausir, stóð Páll upp á meðal þeirra og mælti: Góðir
menn, þjer hefðuð átt að hlýða mjer og leggja ekki út
frá Krít, og komast hjá hrakningum þessum og tjóni.
22 En nú ræð jeg yður að þjer sjeuð með öruggum huga,
því að enginn yðar mun lífi týna, en skipið mun
23 farast; því að á þessari nóttu stóð hjá mjer engill þess
Guðs, sem jeg tilheyri, sem jeg og þjóna, og mælti:
24 Óttast þú eigi, Páll; fyrir keisarann átt þú að koma;
og sjá, Guð hefir náðarsamlega gefið þjer alla þá, sem
25 með þjer eru á sjóferðinni. Verið því, menn, með
öruggum huga, því að jeg treysti Guði, að svo muni
26 fara, sem við mig hefir verið mælt. En oss hlýtur
að bera upp á einhverja ey.

27 En þegar fjórtánda nóttin var komin, og oss var
að hrekja í Adríahafinu, grunaði skipverjana um mið-
28 nættisskeið, að þeir væru að nálgast land. Og vörp-
uðu þeir botnsökku og fundu tuttugu faðma dýpi,
síðan færðust þeir lítið eitt og vörpuðu aftur botn-
29 sökku og fundu fimtán faðma dýpi. Og af því að
þeir óttuðust að oss kynni að bera upp á sker, köst-
uðu þeir fjórum akkerum úr skutnum, og óskuðu að
30 dagur rynni. En er sjómennirnir leituðust við að
flýja úr skipinu og ljetu bátinn niður síga á sjóinn,
undir því yfirskini, að þeir vildu fá akkerum út kom-
31 ið úr framstafninum, sagði Páll við hundraðshöfðing-
jann og hermennina: Ef menn þessir eru ekki kyrrir
32 í skipinu, getið þjer ekki komist lífs af. Hermennirnir
hjuggu þá á festar bátsins, og ljetu hann detta niður.
33 En þangað til birta færi, hvatti Páll alla að neyta
matar og sagði: Það er nú komið á fjórtánda dag-
inn, sem þjer hafið beðið fastandi og einskis neytt;
34 því hvet jeg yður að taka fæðu, því að það verður
yður til bjargar; því að ekki mun farast eitt hár af
35 höfði neins yðar. Að svo mæltu tók hann brauð,
gjörði Guði þakkir í allra augsýn, braut og tók að
36 eta. Og nú hrestust allir og þeir fóru líka að mat-
37 ast. Og alls vorum vjer á skipinu tvö hundruð sjö-
38 tíu og sex sálir. Og er þeir höfðu etið sig metta,
ljettu þeir á skipinu með því að kasta korninu í sjó-
39 inn. Og er dagur rann, þektu þeir ekki landið; en
þeir sáu vík nokkra með fjöru, og rjeðu þeir af að
halda þangað skipinu, ef þeir mættu því við koma.
40 Losuðu þeir nú um akkerin og ljetu þau eftir í sjón-

um, leystu um leið stýrisböndin og drógu upp rá-
seglið og ljetu vindinn standa í það og hjeldu til fjör-
41 unnar. En þeir lentu á rifi í sjónum, og skipið rakst
á grunn og stóð að framan og hrærðist hvergi, en
42 skuturinn tók að liðast í sundur af hafrótinu. En
hermennirnir ætluðu að drepa bandingjana, til þess að
enginn þeirra skyldi komast undan á sundi og forða
43 sjer. En hundraðshöfðinginn, sem vildi forða Páli,
aftraði þessari fyrirætlun þeirra, og bauð að þeir, sem
syndir væru, skyldu kasta sjer út og leita fyrstir til
44 lands, og hinir sumpart á plönkum, sumpart á ein-
hverju úr skipinu. Og þannig tókst það, að allir
komust heilir til lands.

28 Og er vjer nú höfðum komist af, fengum vjer að
2 vita að eyjan hjet Melíta. Og útlendingarnir auð-
sýndu oss einstaka mannelsku; því að þeir kyntu bál
og tóku á móti oss öllum vegna hrakveðursins sem
3 á var og kuldans. En Páll vatt saman hrísvöndul og
lagði á eldinn; skreið þá út naðra undan hitanum og
4 festi sig á hendi hans. Og er útlendingarnir sáu kvik-
indið hanga við hönd hans, sögðu þeir sín á milli:
Áreiðanlega er maður þessi manndrápari, fyrst
refsinornin lofaði honum ekki að lifa, eftir að hann
5 komst af úr sjávarháskanum. En hann hristi kvikindið
6 af sjer í eldinn og varð ekkert meint við. En þeir
bjuggust við, að hann mundi bólgna upp eða detta
sviplega dauður niður. En er þeir höfðu beðið þess
lengi og sáu ekkert frábrugðið verða á honum, skiftu
þeir um og sögðu hann guð vera.

7 En í grendinni við stað þennan átti jarðeignir
helsti maðurinn á eynni, Públíus að nafni. Hann tók á
móti oss og veitti oss vinsamlega gistingu í þrjá daga.
8 En það vildi svo til, að faðir Públíusar lá sjúkur með
hitaköstum og blóðsótt, og gekk Páll inn til hans og
baðst fyrir og lagði hendur yfir hann, og læknaði hann.
9 Og eftir að þetta hafði við borið, komu hinir aðrir, þeir
10 er sjúkir voru á eynni, og urðu læknaðir. Og höfðu
þeir oss líka í miklum hávegum, og er vjer lögðum
til hafs, veittu þeir oss það sem vjer þurftum að hafa.
11 Og eftir þrjá mánuði lögðum vjer til hafs á skipi
frá Alexandríu, sem legið hafði við eyna um vetur-
12 inn og var með merki Tvíburanna. Og vjer tókum
13 höfn í Sýrakúsu og dvöldum þar þrjá daga. Þaðan
sigldum vjer í kring og komum til Regíum, og að degi
liðnum fengum vjer sunnanvind og komum á öðrum
14 degi til Púteólí. Þar hittum vjer bræðurna, og báðu
þeir oss að dvelja hjá sjer í sjö daga, og síðan fórum
15 vjer til Róm. Og þaðan komu bræðurnir, er þeir
höfðu frjett um oss, til móts við oss alla leið út til
Appíusartorgs og Þríbúða, og er Páll sá þá, gjörði
hann Guði þakkir og hrestist í huga.

16 Og er vjer komum inn í Róm, var Páli leyft að
búa út af fyrir sig ásamt hermanninum, sem gætti
hans.

17 En svo bar við eftir þrjá daga, að hann stefndi til
sín helstu mönnum Gyðinga, og er þeir voru saman
komnir, sagði hann við þá: Þjer bræður, þó að jeg
hafi ekkert aðhafst gegn lýðnum eða feðra-siðunum,
var jeg frá Jerúsalem seldur bundinn í hendur Róm-

18 verja. Og er þeir höfðu prófað mig, vildu þeir mig
lausan láta, af því að engin dauðasök fanst hjá mjer.
19 En er Gyðingar mæltu á móti, neyddist jeg til að skjóta
máli mínu til keisarans; þó eigi svo að skilja, að jeg
20 hefði nokkuð að kæra þjóð mína fyrir. Af þessari
orsök hefi jeg nú kallað yður hingað, svo að jeg
mætti sjá og tala við yður; því að vegna vonar Ísra-
21 els ber jeg þessa hlekki. Og þeir sögðu við hann:
Vjer höfum hvorki fengið brjef um þig frá Júdeu,
og eigi hefir heldur neinn af bræðrunum komið hingað
22 og borið eða talað nokkuð ilt um þig; en rjett þykir
oss að heyra af þjer, hvað þjer býr í huga, því að
um flokk þennan er oss kunnugt, að alstaðar er hon-
um mótmælt.

23 Og þeir tóku til dag við hann, og komu mjög
margir til hans í herbergi hans, og frá því um morg-
uninn og til kvölds setti hann þeim fyrir sjónir og
vitnaði fyrir þeim um guðsríki og reyndi að sannfæra þá
24 um Jesúm, bæði af lögmáli Móse og spámönnunum. Og
sumir sannfærðust við það, sem talað var, en sumir
25 trúðu ekki. Og ósamþykkir sín á milli fóru þeir
burt, eftir að Páll hafði svo að orði kveðið: Nú kem-
ur það fram, sem heilagur andi mælti fyrir munn
Jesajasar spámanns við feður yðar, er hann sagði:
26 *Far til lýðs þessa og seg: Með eyrunum munuð þjer
heyra, og alls eigi skilja, og sjáandi munuð þjer sjá, og
27 alls eigi skynja. Því að hjarta lýðs þessa er sljótt
orðið, og á eyrunum eru þeir orðnir daufir, og augum
sínum hafa þeir lokað, til þess að þeir sæju eigi með
augunum og heyrðu með eyrunum og skynjuðu með*

28 *hjartanu og sneru sjer, og jeg læknaði þá.* Vita skuluð
þjer því, að þetta hjálpræði Guðs er sent heiðingjun-
um, og þeir munu og þekkjast það.
30 Og hann var tvö árin full í eigin leiguherbergi,
og tók á móti öllum þeim, sem komu inn til hans,
31 og prjedikaði um guðsríki og fræddi um Drottin
Jesúm Krist með allri djörfung, tálmunarlaust.

# Brjef Páls postula til Rómverja.

1 Páll þjónn Jesú Krists, kallaður til postula,
2 kjörinn til að boða fagnaðarerindi Guðs, sem
hann áður gaf fyrirheit um fyrir spámenn sína í helgum
3 ritningum, um son hans, sem eftir holdinu er fæddur
4 af sæði Davíðs, en eftir anda heilagleikans er með
krafti innsettur svo sem Guðs sonur fyrir upprisu
5 dauðra, — Jesúm Krist, Drottin vorn, sem vjer höf-
um öðlast náð fyrir og postuladóm til trúar-hlýðni
6 meðal allra heiðingjanna vegna nafns hans; en meðal
þeirra eruð þjer einnig, þjer, Jesú Krists kölluðu, —
7 til allra Guðs elskuðu, sem eru í Róm, heilögu sam-
kvæmt köllun.

Náð sje með yður og friður frá Guði föður vor-
um og Drotni Jesú Kristi.

8 Fyrst þakka jeg Guði mínum fyrir Jesúm Krist
fyrir yður alla, af því að orð fer af trú yðar í öllum
9 heiminum. Því að Guð, sem jeg þjóna í anda mínum
með fagnaðarerindi sonar hans, er mjer þess vottur,
hve óaflátanlega jeg minnist yðar, er jeg ávalt í bæn-
10 um mínum beiðist þess, að mjer mætti loks einhvern
11 tíma auðnast með vilja Guðs að koma til yðar. Því
að jeg þrái að sjá yður, til þess að jeg fái veitt yður
einhverja andlega náðargjöf, til þess að þjer styrkist,
12 en það er, til þess að uppörvast á meðal yðar fyrir
13 hina sameiginlegu trú yðar og mína. En jeg vil
ekki, að yður, bræður, skuli vera ókunnugt um, að
jeg hefi oftsinnis ásett mjer að koma til yðar, — en
hefi verið hindraður alt til þessa, — til þess að jeg
mætti fá einhvern ávöxt einnig á meðal yðar, eins
14 og á meðal annara heiðinna þjóða. Jeg er í skuld
bæði við Grikki og útlendinga, vitra og fávísa;
15 þannig er jeg fyrir mitt leyti fús til að boða fagn-
16 aðarerindið einnig yður, sem eruð í Róm. Því að
jeg fyrirverð mig ekki fyrir fagnaðarerindið; því
að það er kraftur Guðs til hjálpræðis hverjum þeim
17 er trúir, bæði Gyðingi fyrst og grískum. Því að rjett-
læti Guðs opinberast í því fyrir trú til trúar, eins og
ritað er: En *hinn rjettláti skal lifa fyrir trú.*

18 Því að reiði Guðs opinberast af himni yfir sjer-
hverjum óguðleika og rangsleitni þeirra manna, er
19 drepa niður sannleikanum með rangsleitni; með því
að það, er vitað verður um Guð, er augljóst á meðal
20 þeirra, því að Guð hefir birt þeim það. Því að hið
ósýnilega eðli hans, bæði hans eilífi kraftur og guð-
dómleiki, er sýnilegt frá sköpun heimsins, með því

að það verður skilið af verkunum, til þess að þeir
21 sjeu án afsökunar, þar sem þeir hafa ekki, þótt þeir
þektu Guð, vegsamað hann eins og Guð nje þakkað
honum, heldur gjörst hjegómlegir í hugsunum sínum
og hið skynlausa hjarta þeirra hjúpast myrkri.
22 Þegar þeir kváðust vera vitrir, urðu þeir heimsk-
23 ingjar og breyttu dýrð hins ódauðlega Guðs í líkingu
myndar dauðlegs manns og fugla og ferfætlinga og
skriðkvikinda.
24 Þess vegna hefir Guð ofurselt þá fýsnum hjartna
þeirra til saurlifnaðar, til þess að þeir sín á milli
25 smánuðu líkami sína. Þeir hafa umhverft sannleika
Guðs í lygi, og göfgað og dýrkað skepuna í stað
skaparans, hans, sem er blessaður að eilífu. Amen.
26 Fyrir því hefir Guð ofurselt þá girndum svívirð-
ingarinnar; því að bæði hefir kvenfólk þeirra breytt
27 eðlilegum samförum í óeðlilegar, og eins hafa líka
karlmennirnir hætt eðlilegum samförum við kven-
manninn og brunnið í losta sínum hver til annars;
karlmenn framið skömm með karlmönnum og tekið
út á sjálfum sjer makleg málagjöld villu sinnar.
28 Og eins og þeir hirtu ekki um að varðveita
þekkinguna á Guði, ofurseldi Guð þá ósæmilegu hug-
arfari, svo að þeir gjörðu það sem ekki er tilhlýði-
29 legt, er þeir voru fyltir alls konar rangsleitni, vonsku,
ágirnd, ilsku, fullir öfundar, manndrápa, deilu, svik-
30 semi, illmensku, rógberar, bakmálugir, guðshatarar,
smánarar, hrokafullir, gortarar, hrekkvísir, foreldrum
31 óhlýðnir, óskynsamir, óáreiðanlegir, kærleikslausir,
32 miskunnarlausir, — menn, sem þekkja Guðs rjett-
lætisdóm, að þeir, er slíkt fremja, eru dauðasekir,

og þó ekki einungis gjöra þetta, heldur og láta þeim,
er gjöra það, velþóknun sína í tje.

2 Fyrir því hefir þú, maður, sem dæmir, hver
sem þú ert, enga afsökun. Því að þar sem þú
dæmir annan, fyrirdæmir þú sjálfan þig; því að þú,
2 sem dæmir, fremur hið sama. En vjer vitum, að
dómur Guðs er sannleika samkvæmt yfir þeim, er
3 slíkt fremja. En hugsar þú það, maður, þú sem
dæmir þá, er slíkt fremja, og gjörir sjálfur hið sama,
4 að þú fáir umflúið dóm Guðs? Eða lítilsvirðir þú
ríkdóm gæsku hans og umburðarlyndis og langlyndis,
og veist ekki, að gæska Guðs leiðir þig til iðrunar?
5 En með harðúð þinni og iðrunarlausa hjarta safnar
þú sjálfum þjer reiði á reiðidegi og degi opinberunar
6 rjettdæmis Guðs, sem mun gjalda sjerhverjum eftir
7 verkum hans; þeim sem með staðfestu í góðu verki
leita vegsemdar og heiðurs og ódauðleika, eilíft líf,
8 og þeim, sem leiðast af flokksfylgi og óhlýðnast
sannleikanum, en hlýðnast ranglætinu, reiði og óvild;
9 þrenging og angist kemur yfir sjerhverja mannssál,
er ilt fremur, bæði Gyðingsins fyrst og hins gríska;
10 en vegsemd og heiður og friður hlotnast sjerhverjum,
er gjörir hið góða, bæði Gyðingnum fyrst og hinum
11 gríska. Því að hjá Guði er ekki manngreinarálit.
12 Því að allir þeir, sem syndgað hafa án lögmáls,
munu og án lögmáls tortímast, og allir þeir, sem
syndgað hafa undir lögmáli, munu dæmast fyrir lög-
13 mál. Því að ekki eru heyrendur lögmálsins rjett-
látir fyrir Guði, heldur munu gjörendur lögmálsins
14 rjettlættir verða. Því að þegar heiðingjar, sem ekki
hafa lögmál, gjöra ósjálfrátt það sem lögmálið býður,

þá eru þeir, þótt ekki hafi þeir neitt lögmál, sjálfum
15 sjer lögmál; þeir sýna, að verk lögmálsins er ritað í
hjörtum þeirra, með því að samviska þeirra ber
vitni og hugrenningarnar sín á milli ásaka eða líka
16 afsaka, á þeim degi, er Guð mun dæma hið dulda
hjá mönnunum samkvæmt fagnaðarerindi mínu fyrir
Jesúm Krist.
17 Ef nú þú nefnist Gyðingur og styðst við lögmál
18 og stærir þig af Guði, og þekkir vilja hans og kant
að meta rjett þá hluti, sem munur er á, þar sem þú
19 ert uppfræddur af lögmálinu, treystir sjálfum þjer til
að vera leiðtogi blindra, ljós þeirra, sem eru í myrkri,
20 tyftunarmaður fávísra, fræðari óvita, af því að þú
hefir snið þekkingarinnar og sannleikans í lögmálinu,
21 — þú sem þannig fræðir aðra, fræðir þú ekki sjálfan
þig? Þú, sem prjedikar, að ekki skuli stela, stelur
22 þú? Þú, sem segir, að ekki skuli drýgja hór, drýgir
þú hór? Þú, sem hefir andstygð á skurðgoðum,
23 rænir þú helgidóma? Þú, sem hrósar þjer af lög-
máli, óvirðir þú Guð með yfirtroðslu lögmálsins?
24 Því að, eins og ritað er: *Nafn Guðs verður yðar vegna*
25 *fyrir lasti meðal heiðingjanna.* Því að vísu er um-
skurn gagnleg, ef þú heldur lögmálið, en ef þú ert
yfirtroðslumaður lögmálsins, er umskurn þín orðin að
26 yfirhúð. Ef því yfirhúðin gætir rjettlætiskrafa lög-
málsins, mun þá ekki yfirhúð hans verða reiknuð
27 sem umskurn? og mun ekki hin meðfædda yfirhúð,
sem heldur lögmálið, dæma þig, sem með bókstaf og
28 umskurn ert yfirtroðslumaður lögmálsins? því að
ekki er sá Gyðingur, sem er það hið ytra, og ekki
29 það umskurn, sem er það hið ytra á holdinu. En

sá er Gyðingur, sem er það hið innra og umskurnin
er umskurn hjartans í anda, en ekki í bókstaf, og lofstír
hans er ekki af mönnum, heldur af Guði.

3 Hvað hefir þá Gyðingurinn umfram? Eða hvert
2 er gagn umskurnarinnar? Mikið í öllu tilliti.
Fyrst er þá það, að þeim hefir verið trúað fyrir orð-
3 um Guðs; því að hvað um það, þótt nokkrir hafi
reynst ótrúir, — mundi ótrúmenska þeirra að engu
4 gjöra trúfesti Guðs? Fjarri fer því. Látum Guð
vera sannorðan, en sjerhvern mann lygara, eins og
ritað er: *Til þess að þú megir reynast rjettlátur í*
*orðum þínum og vinna, þegar menn fara í mál við*
5 *þig.* En ef ranglæti vort sannar rjettlæti Guðs, hvað
eigum vjer þá að segja? Hvort mundi Guð vera
ranglátur, er hann lætur reiðina yfir dynja? — Jeg tala
6 á mannlegan hátt. — Fjarri fer því. Hvernig ætti
7 Guð þá að dæma heiminn? En ef sannleiki Guðs
hefir fyrir lygi mína eflst honum til dýrðar, hvers
8 vegna dæmist jeg þá enn sem syndari? Og eigum vjer
þá ekki, — eins og oss er lastmælt fyrir, og eins og
sumir segja, að vjer kennum, — að gjöra hið illa,
til þess að hið góða komi fram? Dómur slíkra manna
er verðskuldaður.

9 Hvað þá? Höfum vjer þá nokkuð fyrir oss að
bera? Nei, alls ekki. Vjer höfum þegar áður gefið
bæði Gyðingum og Grikkjum að sök, að þeir væru
10 allir undir synd, eins og ritað er: *Ekki er neinn*
11 *rjettlátur, ekki einn? Ekki er neinn vitur, ekki neinn,*
12 *sem leitar Guðs. Allir eru þeir fallnir frá, allir*
*saman orðnir duglausir; ekki er neinn, sem auðsýnir*
13 *gæsku, ekki svo mikið sem einn einasti. Opin gröf*

*er barki þeirra, með tungum sínum draga þeir á*
14 *tálar, höggorma eitur er undir vörum þeirra. Munnur*
15 *þeirra er fullur bölvunar og beiskju. Fljótir eru*
16 *fætur þeirra til að úthella blóði. Tortíming og eymd*
17 *er á vegum þeirra, og veg friðarins þekkja þeir ekki.*
18 *Fyrir augum þeirra er enginn guðsótti.*
19 En vjer vitum, að alt, sem lögmálið segir, það
talar það til þeirra, sem eru undir lögmálinu, til þess
að sjerhver munnur þagni og allur heimurinn verði
20 sekur fyrir Guði, með því að ekkert hold rjettlætist
fyrir honum af verkum lögmálsins; því að fyrir
21 lögmál kemur þekking syndar. En nú hefir rjett-
læti Guðs opinberast án lögmáls, sem vitnað er um
22 af lögmálinu og spámönnunum, það er: rjettlæti Guðs
fyrir trú á Jesúm Krist öllum þeim til handa, sem
23 trúa; því að ekki er greinarmunur; því að allir hafa
24 syndgað og skortir Guðs dýrð, og þeir rjettlætast án
verðskuldunar af náð hans fyrir endurlausnina, sem
25 er í Kristi Jesú, er Guð framsetti sem friðþægingar-
meðal fyrir trúna á blóð hans, til að auglýsa rjett-
læti sitt, — með því að Guð hafði í umburðarlyndi
26 sínu umborið hinar áður drýgðu syndir, — til þess
að auglýsa rjettlæti sitt á yfirstandandi tíma, til þess
að geta sjálfur verið rjettlátur og rjettlætt þann, sem
27 er af Jesú trú. Hvar er þá hrósunin? Hún er úti-
lokuð. Með hvaða lögmáli? Verkanna? Nei, held-
28 ur með lögmáli trúar. Vjer álítum því að maður-
29 inn rjettlætist af trú án lögmáls-verka. Eða er Guð
einungis Guð Gyðinga? Ekki líka heiðingja? Jú,
30 líka heiðingja; svo sannarlega sem Guð er einn,
sem mun rjettlæta umskurn af trú og yfirhúð fyrir

31 trúna. Gjörum vjer þá lögmálið að engu með trúnni?
Fjarri fer því; heldur staðfestum vjer lögmálið.
4 Hvað eigum vjer þá að segja að forfaðir vor
Abraham hafi úr býtum borið eftir holdinu?
2 Því að ef Abraham rjettlættist af verkum, þá hefir
3 hann hrósunarefni, en ekki fyrir Guði. Því að
hvað segir ritningin: *En Abraham trúði Guði, og*
4 *það var reiknað honum til rjettlætis.* En þeim, sem
vinnur, verða launin reiknuð ekki af náð, heldur
5 eftir verðleika; hinum þar á móti, sem ekki vinnur,
en trúir á hann, sem rjettlætir óguðlegan, verður
6 trú hans reiknuð til rjettlætis. Eins og líka Davíð
lýsir þann mann sælan, sem Guð tilreiknar rjettlæti
7 án verka: *Sælir eru þeir, sem afbrotin eru fyrirgefin*
8 *og syndir þeirra huldar. Sæll er sá maður, sem*
9 *Drottinn tilreiknar ekki synd.* Nær þá sæluboðun
þessi til umskurnarinnar? Eða líka til yfirhúðarinn-
ar? Því að vjer segjum: Trúin var Abraham til
10 rjettlætis reiknuð. Hvernig var hún þá tilreiknuð
honum? Umskornum eða óumskornum? Ekki um-
11 skornum, heldur óumskornum. Og hann fekk tákn
umskurnarinnar sem innsigli trúar-rjettlætisins, sem
hann hafði meðan hann var óumskorinn, til
þess að hann skyldi vera faðir allra þeirra, sem trúa
12 óumskornir, til þess að rjettlætið tilreiknist þeim, og
faðir hinna umskornu, þeirra, sem ekki aðeins eru
umskornir, heldur og feta í fótspor þeirrar trúar,
13 er faðir vor Abraham hafði óumskorinn. Því að
ekki var Abraham eða sæði hans fyrir lögmál gefið
fyrirheitið, að hann skyldi verða erfingi heimsins,
14 heldur fyrir trúar-rjettlæti; því að ef lögmálsmenn-

irnir eru erfingjar, er trúin ónýtt og fyrirheitið að
15 engu gjört. Því að lögmálið orkar reiði; en þar
sem ekki er lögmál, þar er ekki heldur yfirtroðsla.
16 Fyrir því er það af trú, til þess að það sje af náð,
svo að fyrirheitið mætti stöðugt standa fyrir alt
sæðið, ekki fyrir það eitt, sem er af lögmálinu,
heldur og fyrir það, sem er af trú Abrahams, hans,
17 sem er faðir vor allra — eins og ritað er: *Föður
margra þjóða hefi jeg sett þig*, — frammi fyrir hon-
um, sem hann trúði á, Guði, sem lífgar hina dauðu
og kallar það, sem ekki er til, eins og það væri til.
18 Hann trúði gegn von með von, til þess að hann
skyldi verða faðir margra þjóða, samkvæmt því sem
19 sagt hafði verið: *Svo skal sæði þitt verða.* Og án
þess að veiklast í trúnni leit hann á ellihruman
líkama sjálfs sín, — hann var nálega tíræður, — og
20 hið útdauða móðurlíf Söru; en um fyrirheit Guðs
efaðist hann ekki með vantrú, heldur gjörðist styrk-
21 ur í trúnni, svo að hann gaf Guði dýrðina, og var
þess fullviss, að hann er máttugur að efna það, sem
22 hann hefir lofað. Fyrir því var það honum og til
23 rjettlætis reiknað. En að það var honum tilreiknað,
24 það var ekki ritað hans vegna einungis, heldur líka
vor vegna, sem það mundi tilreiknað verða, þeim
sem trúa á hann, sem uppvakti Jesúm, Drottin
25 vorn, frá dauðum, hann, sem vegna misgjörða
vorra var framseldur og vegna rjettlætingar vorrar
uppvakinn.

5 Rjettlættir af trú höfum vjer því frið við Guð
2 fyrir Drottin vorn Jesúm Krist, sem vjer og
höfum aðgang fyrir með trúnni til þessarar náðar,

sem vjer stöndum í, og vjer hrósum oss af von um
3 dýrð Guðs; en ekki það eitt, heldur hrósum vjer oss
líka af þrengingunum, með því að vjer vitum, að
4 þrengingin verkar þolgæði, en þolgæðið fullreynd,
5 en fullreyndin von. En vonin lætur ekki til skamm-
ar verða, því að kærleika Guðs er úthelt í hjörtum
6 vorum fyrir .heilagan anda, sem oss er gefinn. Því
að meðan vjer enn vorum óstyrkir, dó Kristur á til-
7 teknum tíma fyrir óguðlega. Því að varla deyr
nokkur fyrir rjettlátan mann; því fyrir góðan mann
8 kynni ef til vill einhver að vilja deyja. En Guð
auðsýnir kærleika sinn til vor, þar sem Kristur er
fyrir oss dáinn meðan vjer enn vorum í syndum
9 vorum. Miklu fremur munum vjer þá nú, rjettlættir
fyrir blóð hans, frelsaðir verða frá reiðinni fyrir
10 hann. Því að ef vjer, þá er vjer vorum óvinir, urð-
um sættir við Guð fyrir dauða sonar hans, þá mun-
um vjer miklu fremur, er vjer verðum í sátt teknir,
11 frelsaðir verða fyrir líf hans. Og ekki það eitt,
heldur hrósum vjer oss líka af Guði fyrir Drottin
vorn Jesúm Krist, sem vjer nú höfum öðlast sáttar-
gjörðina fyrir.

12 Þess vegna, eins og syndin kom inn í heiminn
fyrir einn mann, og dauðinn fyrir syndina, og dauð-
inn þannig er runninn til allra manna, af því að
13 allir hafa syndgað, — því að alt fram að lögmáli
var synd í heiminum; en synd tilreiknast ekki, meðan
14 ekki er lögmál. Samt sem áður hefir dauðinn ríkt
frá Adam til Móse einnig yfir þeim, sem ekki höfðu
syndgað í líkingu við yfirtroðslu Adams, sem er
15 fyrirmynd hans, er átti að koma. En ekki er náðar-

gjöfinni eins háttað og misgjörðinni. Því að ef hinir
mörgu dóu fyrir misgjörð hins eina manns, þá hefir
miklu fremur náð Guðs og gjöf streymt ríkulega til
hinna mörgu í náð hins eina manns Jesú Krists.
16 Og ekki er gjöfinni eins varið og því, sem varð
fyrir hinn eina mann, er syndgaði; því að dómurinn
varð til fyrirdæmingar vegna eins, en náðargjöfin til
17 sýknunar vegna misgjörða margra. Því að ef dauð-
inn vegna misgjörðar hins eina manns ríkti fyrir
hinn eina mann, þá munu miklu fremur þeir, sem
meðtaka gnóttir náðarinnar og rjettlætis-gjafarinnar,
18 ríkja í lífi fyrir hinn eina Jesúm Krist. Eins og því
af misgjörð eins leiddi fyrirdæmingu fyrir alla menn,
þannig leiðir og af rjettlætis-verki eins rjettlæting til
19 lífs fyrir alla menn. Því að eins og hinir mörgu
urðu að syndurum fyrir óhlýðni hins eina manns,
þannig munu og hinir mörgu verða rjettlættir fyrir
20 hlýðni hins eina. En hjer við bættist svo lögmál, til þess
að misgjörðin ykist; en þar sem syndin jókst, þar
21 flóði náðin yfir enn meir; til þess að eins og
syndin ríkti fyrir dauðann, svo skyldi og náðin
ríkja fyrir rjettlæti til eilífs lífs fyrir Jesúm Krist,
Drottin vorn.

6 Hvað eigum vjer þá að segja? Eigum vjer að
halda áfram í syndinni, til þess að náðin auk-
2 ist? Fjarri fer því. Vjer, sem dóum syndinni, hvern-
3 ig ættum vjer framar að lifa í henni? Eða vitið
þjer ekki, að allir vjer, sem skírðir erum til Krists
4 Jesú, erum skírðir til dauða hans? Vjer erum því
greftraðir með honum fyrir skírnina til dauðans, til
þess að eins og Kristur var upp vakinn frá dauðum

fyrir dýrð föðursins, svo skulum vjer og ganga í
5 endurnýung lífsins. Því að ef vjer erum orðnir sam-
grónir honum fyrir líkingu dauða hans, munum vjer
6 einnig vera það fyrir líkingu upprisu hans, með því
að vjer vitum þetta, að vor gamli maður er með
honum krossfestur, til þess að líkami syndarinnar
skuli að engu verða og vjer ekki framar þjóna synd-
7 inni; því að sá, sem dauður er, er rjettlættur frá synd-
8 inni. En ef vjer erum með Kristi dánir, trúum vjer
9 því, að vjer og munum með honum lifa, með því að
vjer vitum, að Kristur, upp vakinn frá dauðum, deyr
ekki framar, dauðinn drotnar ekki lengur yfir hon-
10 um. Því að það, að hann dó, dó hann syndinni
einu sinni, en það, að hann lifir, lifir hann Guði.
11 Þannig skuluð þjer líka álíta yður sjálfa vera dauða
syndinni, en lifandi Guði í Kristi Jesú.
12 Látið því ekki syndina ríkja í dauðlegum líkama
13 yðar, svo að þjer hlýðnist girndum hans. Fram-
bjóðið ekki heldur syndinni limi yðar að ranglætis-
vopnum, heldur frambjóðið sjálfa yður Guði sem
lifnaða frá dauðum og limi yðar Guði sem rjett-
14 lætisvopn. Því að synd skal ekki drotna yfir yður;
því að ekki eruð þjer undir lögmáli, heldur undir
náð.
15 Hvað þá? Eigum vjer að syndga, af því að vjer
erum ekki undir lögmáli, heldur undir náð? Fjarri
16 fer því. Vitið þjer ekki, að þeim sem þjer fram-
bjóðið sjálfa yður fyrir þjóna til hlýðni, þess þjónar
eruð þjer, sem þjer hlýðið, hvort heldur er syndar
17 til dauða, eða hlýðni til rjettlætis? En þökk sje
Guði, að þjer voruð þjónar syndarinnar, en urðuð

af hjarta hlýðnir þeirri mynd kenningarinnar, sem
18 þjer voruð á vald gefnir, og gjörðust þjónar rjettlæt-
19 isins eftir að hafa verið leystir frá syndinni. Jeg
tala á mannlegan hátt, sökum veikleika holds yðar.
Því að eins og þjer hafið framboðið limi yðar óhrein-
leikanum og ranglætinu fyrir þjóna til ranglætis, svo
skuluð þjer nú frambjóða limi yðar rjettlætinu fyrir
20 þjóna til helgunar. Því að þegar þjer voruð þjónar
21 syndarinnar, þá voruð þjer lausir við rjettlætið. Hvaða
ávöxtu höfðuð þjer þá? Þá sem þjer nú blygðist
22 yðar fyrir; því að endalok þeirra er dauði. En nú,
með því að þjer eruð leystir frá syndinni, en eruð
orðnir þjónar Guðs, þá hafið þjer ávöxt yðar til helg-
23 unar og sem endalokin eilíft líf; því að laun syndar-
innar er dauði, en náðargjöf Guðs er eilíft líf í Kristi
Jesú, Drotni vorum.

7 Eða vitið þjer ekki, bræður, — jeg er hjer að
tala til þeirra, sem lögmál þekkja, — að lög-
málið drotnar yfir manninum svo lengi sem hann
2 lifir. Því að gift kona er að lögum bundin mannin-
um, meðan hann lifir. En deyi maðurinn, er hún
3 leyst undan lögmáli mannsins. Því mun hún hór-
kona teljast, ef hún, að manninum lifandi, verður
annars manns; en deyi maðurinn, er hún laus undan
lögmálinu, svo að hún er ekki hórkona, þótt hún
4 verði annars manns. Fyrir því, bræður mínir, eruð
og þjer deyddir lögmálinu fyrir líkama Krists, til
þess að þjer skylduð tilheyra öðrum, honum, sem
var upp vakinn frá dauðum, til þess að vjer mætt-
5 um bera Guði ávöxt. Því að þegar vjer vorum í
holdinu, störfuðu ástríður syndanna, þær sem lögmálið

hafði vakið, í limum vorum, svo að vjer bærum dauð-
6 anum ávöxt. En nú erum vjer leystir undan lög-
málinu, þar sem vjer erum dánir því, sem áður
hélt oss bundnum, svo að vjer þjónum í nýung anda,
en ekki í fyrnsku bókstafs.
7 Hvað eigum vjer þá að segja? Er lögmálið
synd? Fjarri fer því. En, satt er það, jeg þekti
ekki syndina nema fyrir lögmálið; því að jeg hefði
ekki vitað um girndina, hefði ekki lögmálið sagt: Þú
8 skalt ekki girnast. En er syndin hafði tekið tilefni
af boðorðinu, kom hún til leiðar í mjer alls konar
9 girnd, því að án lögmáls er syndin dauð. Jeg lifði
einu sinni án lögmáls; en er boðorðið kom, lifnaði
10 syndin við, en jeg dó. Og boðorðið, sem átti að verða
11 til lífs, það reyndist mjer að vera til dauða; því að
syndin, sem tók tilefni af boðorðinu, dró mig á tálar
12 og deyddi með því. Þannig er þá lögmálið heilagt
13 og boðorðið heilagt og rjettlátt og gott. Varð þá hið
góða mjer til dauða? Fjarri fer því. Nei, það var
syndin, til þess að hún birtist sem synd, er hún með
því, sem gott er, olli mjer dauða, — til þess að syndin
14 yrði fyrir boðorðið ákaflega syndug. Því að vjer
vitum, að lögmálið er andlegt; en jeg er holdlegur,
15 seldur undir syndina. Því að jeg veit ekki hvað
jeg aðhefst; því að það, sem jeg vil, það gjöri
16 jeg ekki, en það, sem jeg hata, það gjöri jeg. En ef
jeg nú gjöri einmitt það sem jeg ekki vil, þá sam-
17 sinni jeg lögmálinu, að það sje gott. En nú er það
ekki framar jeg sjálfur, sem gjöri þetta, heldur synd-
18 in, sem í mjer býr. Því að jeg veit, að ekki býr
neitt gott í mjer, það er í holdi mínu; því að vilja

veitir mjer auðvelt, en að framkvæma hið góða, ekki.
19 Því að hið góða, sem jeg vil, gjöri jeg ekki, en hið
20 vonda, sem jeg ekki vil, það gjöri jeg. En ef jeg
gjöri það sem jeg vil ekki, þá er það ekki lengur
jeg sjálfur, sem framkvæmi það, heldur syndin, sem í
21 mjer býr. Þannig reynist mjer það þá regla fyrir mig,
sem vil gjöra hið góða, að hið illa er mjer tamast.
22 Því að samkvæmt hinum innra manni hefi jeg mæt-
23 ur á lögmáli Guðs; en jeg sje annað lögmál í limum
mínum, sem berst á móti lögmáli hugskots míns, og
hertekur mig undir lögmál syndarinnar, sem er í
24 limum mínum. Jeg aumur maður! Hver mun frelsa
25 mig frá líkama þessa dauða? Jeg þakka Guði fyrir
Jesúm Krist, Drottin vorn. Svo þjóna jeg þá sjálfur
lögmáli Guðs með hugskoti mínu, en lögmáli syndar-
innar með holdinu.

8 Svo er þá nú engin fyrirdæming fyrir þá, sem
2 eru í Kristi Jesú; því að lögmál lífsins anda hefir í
Kristi Jesú frelsað mig frá lögmáli syndarinnar og
3 dauðans. Því að það, sem lögmálinu var ómögulegt,
að því leyti sem það mátti sín einkis fyrir holdinu,
það gjörði Guð, er hann, með því að senda sinn eigin
son í líkingu syndar-holds og vegna syndarinnar, fyrir-
4 dæmdi syndina í holdinu, til þess að rjettlætiskrafa
lögmálsins uppfyltist á oss, sem ekki göngum eftir
5 holdi, heldur eftir anda. Því að þeir sem ganga eftir
holdi, hyggja á það, sem holdsins er, en þeir sem
6 ganga eftir anda, á það sem andans er. Því að
hyggja holdsins er dauði, en hyggja andans líf og
7 friður; því að hyggja holdsins er fjandskapur gegn
Guði, með því að hún lýtur ekki lögmáli Guðs, enda

8 getur hún það ekki. En þeir sem eru holdsins menn,
9 geta ekki þóknast Guði. En þjer eruð ekki holds-
ins menn, heldur andans menn, svo framarlega sem
andi Guðs býr í yður. En hafi einhver ekki anda
10 Krists, þá er sá ekki hans. En ef Kristur er í yður,
þá er líkaminn að sönnu dauður vegna syndarinnar,
11 en andinn líf vegna rjettlætisins. En ef andi hans,
sem vakti Jesúm frá dauðum, býr í yður, þá mun
hann, sem vakti Krist Jesúm frá dauðum, og gjöra
lifandi dauðlega líkami yðar fyrir þann anda hans,
sem býr í yður.

12 Svo erum vjer þá, bræður, í skuld, ekki við hold-
13 ið, svo að vjer skyldum lifa eftir holdinu; því
að ef þjer lifið eftir holdinu, munuð þjer deyja, en
ef þjer deyðið með andanum gjörðir líkamans,
14 munuð þjer lifa. Því að allir þeir sem leiðast af
15 anda Guðs, þeir eru Guðs synir. Því að ekki hafið
þjer fengið þrældómsanda aftur til hræðslu, heldur
hafið þjer fengið anda sonar-kosningar, sem vjer köll-
16 um í: Abba, faðir! Sjálfur andinn vitnar með vor-
17 um anda, að vjer erum Guðs börn; en ef vjer erum
börn, þá erum vjer líka erfingjar, og það erfingjar
Guðs, en samarfar Krists, svo framarlega sem vjer
líðum með honum, til þess að vjer einnig verðum
gjörðir vegsamlegir með honum.

18 Því að jeg hygg, að ekki sjeu þjáningar þessa
tíma neitt í samanburði við þá dýrð, sem á oss mun
19 opinberast. Því að þrá skepnunnar bíður eftir opin-
20 berun Guðs barna. Því að skepnan er undirorpin
hjegómanum, ekki sjálfviljug, heldur vegna hans,
21 sem varp henni undir hann, í von um að jafnvel

sjálf skepnan muni verða leyst úr ánauð forgengi-
22 leikans til frelsis dýrðar Guðs barna. Því að vjer
vitum, að öll skepnan stynur líka og hefir fæðingar-
23 hríðir alt til þessa. En ekki einungis hún, heldur og
vjer, sem höfum frumgróða andans, jafnvel vjer
stynjum með sjálfum oss, bíðandi eftir sonar-kosning-
24 unni, endurlausn líkama vors. Því að í voninni erum
vjer hólpnir orðnir, en von, er sjest, er ekki von,
25 því að hver vonar það, sem hann sjer? En ef vjer
vonum það, sem vjer sjáum ekki, þá bíðum vjer þess
með þolinmæði.
26 En sömuleiðis hjálpar og andinn veikleika vor-
um; því að vjer vitum ekki, hvers vjer eigum að
biðja eins og ber; en sjálfur andinn biður fyrir oss
með andvörpunum, sem ekki verður orðum að kom-
27 ið. En hann, sem hjörtun rannsakar, veit hver er
hyggja andans, með því að hann biður fyrir heilög-
28 um eftir Guðs vilja. En vjer vitum, að þeim, sem
Guð elska, samverkar alt til góðs, þeim, sem kallað-
29 ir eru samkvæmt fyrirhugun; því að þá, sem hann
þekti fyrir fram, hefir hann og fyrirhugað, til þess
að líkjast mynd sonar síns, svo að hann sje frum-
30 burður meðal margra bræðra. En þá sem hann fyrir-
hugaði, þá hefir hann og kallað, og þá sem hann
kallaði, þá hefir hann og rjettlætt, en þá sem hann
rjettlætti, þá hefir hann einnig vegsamlega gjört.
31 Hvað eigum vjer þá að segja til þessa? Ef Guð
32 er með oss, hver er þá á móti oss? Hann, sem ekki
þyrmdi sínum eigin syni, heldur framseldi hann fyrir
oss alla, hví skyldi hann ekki líka gefa oss alt með
33 honum? Hver skyldi ásaka Guðs útvalda? Guð er

34 sá sem rjettlætir. Hver er, sem fordæmir? Kristur
Jesús er sá, sem dáinn er, og meira en það, upprisinn
frá dauðum, hann, sem er við hægri hönd Guðs,
35 hann, sem einnig biður fyrir oss. Hver mun gjöra
oss viðskila við kærleika Krists? Hvort þjáning?
Eða þrenging? Eða ofsókn? Eða hungur? Eða nekt?
36 Eða háski? Eða sverð? Það er eins og ritað er:
*Þín vegna erum vjer deyddir allan daginn, vjer erum*
37 *álitnir eins og sláturfje.* En í öllu þessu meira en
38 vinnum vjer sigur fyrir hann, sem elskaði oss. Því
að jeg er þess fullviss, að hvorki dauði nje líf, nje
englar, nje tignir, nje hið yfirstandandi, nje hið
39 ókomna, nje kraftar, nje hæð, nje dýpt, nje nokkur
önnur skepna muni geta gjört oss viðskila við kær-
leika Guðs, sem er í Kristi Jesú, Drotni vorum.

9 Jeg tala sannleika í Kristi, jeg lýg ekki, sam-
viska mín vitnar það með mjer í heilögum
2 anda, að jeg hefi hrygð mikla og sífelda kvöl í hjarta
3 mínu; því að þess mundi jeg óska, að jeg væri sjálf-
ur útskúfaður frá Kristi fyrir bræður mína, ættmenn
4 mína að holdinu, en það eru Ísraelsmenn, sem sonar-
kosningin tilheyrir og dýrðin og sáttmálarnir og lög-
5 gjöfin og helgihaldið og fyrirheitin; þeim tilheyra og
feðurnir og af þeim er Kristur kominn að holdinu, hann,
6 sem er Guð yfir öllu, blessaður um aldirnar. Amen. Það
er ekki svo sem Guðs orð hafi brugðist; því að ekki eru
7 allir þeir Ísraelsmenn, sem af Ísrael eru komnir, ekki
eru heldur allir börn, þótt þeir sjeu sæði Abrahams,
8 heldur: *Þar sem Isak er, skal sæði þitt kallast.* Það
er: Ekki eru holdsins börn Guðs börn, heldur eru
9 börn fyrirheitisins talin sæði. Því að fyrirheitis-orð

er þetta: *Í þetta mund mun jeg aftur koma, og þá*
10 *skal Sara hafa son alið.* En ekki einungis á það hjer
heima, heldur og um Rebekku, sem var þunguð af
11 eins manns völdum, Ísaks föður vors; því að þá er
þeir voru enn ófæddir og höfðu enn ekki gjört hvorki
gott nje ilt, — til þess að það stæði stöðugt, að út-
valningar-fyrirætlun Guðs væri óháð verkunum, en
12 öll komin undir vilja þess, er kallar, — þá var henni
13 sagt: *Hinn eldri skal þjóna hinum yngri;* eins og
ritað er: *Jakob elskaði jeg, en Esaú hataði jeg.*
14 Hvað eigum vjer þá að segja? Er órjettvísi hjá
15 Guði? Fjarri fer því. Því að hann segir við Móse:
*Þeim sem jeg miskunna, honum mun jeg miskunna, og*
*þann sem jeg aumkast yfir, hann mun jeg aumkast yfir.*
16 Það er því ekki komið undir þeim, sem vill, nje þeim
17 sem hleypur, heldur Guði, sem miskunnar. Því er í
ritningunni sagt við Faraó: *Einmitt til þess hóf jeg*
*þig, að jeg fengi sýnt mátt minn á þjer, og að nafn*
18 *mitt yrði boðað um alla jörðina.* Svo miskunnar hann
þá þeim sem hann vill, en forherðir þann sem
hann vill.
19 Þú munt nú vilja segja við mig: Hvað er hann
þá að ásaka framar? Því að hver fær staðið gegn
20 vilja hans. Hver ert þú, maður, að þú skulir deila
á Guð? Hvort mundi smíðisgripurinn segja við smið-
21 inn: Hví gjörðir þú mig svona? Eða hefir ekki
leirkerasmiðurinn leirinn á valdi sínu, svo að hann
megi gjöra úr sama deiginu ker til sæmdar og annað
22 til vansæmdar? En ef nú Guð, þótt hann vildi sýna
reiði sína og auglýsa mátt sinn, hefir með miklu lang-
lyndi umborið ker reiðinnar, sem búin voru til glöt-

23 unar, einnig til þess að auglýsa ríkdóm dýrðar sinn-
ar á kerum miskunnarinnar, sem hann hafði fyrir-
24 fram búið til dýrðar, — en slíka hefir hann og kall-
að oss, ekki að eins af Gyðingum, heldur og af heið-
25 ingjum. Eins og hann líka segir hjá Hósea: *Jeg
mun kalla það mína þjóð, sem ekki er mín þjóð, og þá
26 elskaða, sem ekki er elskuð; og það mun fara svo, að
á þeim stað, þar sem við þá var sagt: Þjer eruð ekki
mín þjóð, þar munu menn verða kallaðir synir Guðs
27 lifanda.* En Jesajas hrópar yfir Ísrael: *Þótt tala
Israels sona væri eins og sandur sjávarins, þá skulu
28 leifar einar frelsaðar verða; því að Drottinn mun gjöra
upp reikning sinn á jörðunni, bindandi enda á hann
29 og ljúkandi við hann í skyndi,* og, — eins og Jesajas
hefir sagt fyrir, — *ef Drottinn hersveitanna hefði ekki
skilið oss eftir sæði, værum vjer orðnir eins og Sódóma
og værum þá orðnir líkir Gómorra.*

30 Hvað eigum vjer þá að segja? Að heiðingjar,
sem ekki sóttust eftir rjettlæti, hafa öðlast rjettlæti,
31 en það rjettlæti, sem er af trú. En Ísrael, sem sótt-
ist eftir rjettlætis-lögmáli, náði ekki til slíks lögmáls.
32 Hvers vegna? Af því að þeir gjörðu það ekki af
trú, heldur eins og af verkum. Þeir hafa rekið sig á
33 ásteytingarsteininn; eins og ritað er: *Sjá, jeg set í
Síon ásteytingarstein og hneykslunarhellu, og sjerhver,
sem á hann trúir, mun ekki verða til skammar.*

10 Bræður, það er hjartans ósk mín og bæn til
2 Guðs, að þeir megi hólpnir verða. Því að það
ber jeg þeim, að þeir eru vandlátir Guðs vegna, en
3 ekki með skynsemd. Því að með því þeir þekkja
ekki rjettlæti Guðs og leitast við að afla sjer síns

4 eigin, hafa þeir ekki hlýðnast rjettlæti Guðs. Því að
Kristur er endir lögmálsins til rjettlætis sjerhverjum,
5 sem trúir. Því að Móse ritar, að *sá maður, sem gjör-
*ir það rjettlæti, sem er af lögmálinu, skuli lifa fyrir það.*
6 En það rjettlæti, sem er af trúnni, mælir þannig:
Seg þú ekki í hjarta þínu: *Hver mun fara upp í him-*
7 *ininn?* — það er: til að flytja Krist ofan, — eða
*hver mun stíga niður í undirdjúpið?* — það er: til að
8 flytja Krist upp frá dauðum. Hvað segir það svo?
*Nálægt þjer er orðið, í munni þínum og í hjarta þínu.*
9 Það er: orð trúarinnar, sem vjer prjedikum. Því að
ef þú játar með munni þínum Drottin Jesúm og trúir
með hjarta þínu, að Guð hafi uppvakið hann frá
10 dauðum, muntu hólpinn verða; því að með hjartanu
er trúað til rjettlætis, en með munninum játað til
11 hjálpræðis; því að ritningin segir: *Hver sem trúir á*
12 *hann, mun ekki til skammar verða*; því að ekki er
munur á Gyðingi og grískum manni; því að hinn sami
er Drottinn allra, fullríkur fyrir alla þá, sem ákalla
13 hann; því að *hver sem ákallar nafnið Drottins, mun*
14 *hólpinn verða.* Hvernig eiga þeir þá að ákalla þann,
sem þeir hafa ekki trúað á? Og hvernig eiga þeir
að trúa á þann, sem þeir hafa ekkert heyrt um? Og
hvernig eiga þeir að heyra, án þess að einhver prje-
15 diki? Og hvernig eiga þeir að prjedika, nema þeir
sjeu sendir? Það er eins og ritað er: *Hversu fagrir*
*eru fætur þeirra, sem boða fagnaðarerindið um hið*
*góða.*

16 En þeir hlýddu ekki allir fagnaðarerindinu; því
að Jesajas segir: *Drottinn, hver trúði því, sem hann*
17 *heyrði hjá oss?* Svo kemur þá trúin af prjedikuninni,

 

18 en prjedikunin byggist á orði Krists. En jeg segi:
Hafa þeir ekki heyrt? Jú, vissulega er hljóm-
ur þeirra farinn út um alla jörðina og orð þeirra
19 til endimarka heimsbygðarinnar. Og jeg segi: Hvort
skildi Ísrael það ekki? Fyrst segir Móse: *Jeg vil*
*vekja yður til vandlætingar gagnvart ekki-þjóð, upp á*
20 *móti óviturri þjóð vil jeg æsa yður.* En Jesajas gjör-
ist djarfmáll og segir: *Jeg er fundinn af þeim, sem*
*ekki leituðu mín, og orðinn þeim augljós, sem ekki*
21 *spurðu að mjer.* En við Ísrael segir hann: *Allan*
*daginn breiddi jeg út hendur mínar móti óhlýðnum og*
*þverbrotnum lýð.*

11 Jeg segi því: Hefir Guð útskúfað lýð sínum?
Fjarri fer því. Því að jeg er líka Ísraelsmaður,
2 af sæði Abrahams, ættkvísl Benjamíns. Guð hefir
ekki útskúfað lýð sínum, sem hann fyrirfram þekti;
eða vitið þjer ekki, hvað ritningin segir í kaflanum
um Elías, hvernig hann gengur fram fyrir Guð gegn
3 Ísrael: *Drottinn, spámenn þína hafa þeir drepið og*
*ölturum þínum hafa þeir velt um, og jeg er einn skil-*
4 *inn eftir, og þeir sitja um líf mitt?* En hvað segir
guðsvarið honum? *Jeg hefi mjer sjálfum eftir skilið*
*sjö þúsundir manna, sem ekki hafa beygt knje fyrir*
5 *Baal.* Þannig eru þá líka á yfirstandandi tíma sam-
6 kvæmt náðar-útvalningu leifar orðnar eftir. En ef
það er af náð, þá er það ekki framar af verkum,
7 annars verður náðin ekki framar náð. Hvað þá?
Það sem Ísrael sækist eftir, það hlotnaðist hon-
um ekki, en hinum útvöldu hlotnaðist það, en
8 hinir aðrir urðu forhertir. Það er eins og ritað
er. *Guð gaf þeim sljóleiks-anda, augu til þess að*
*sjá ekki, og eyru til þess að heyra ekki, alt fram*

9 *á þennan dag;* og Davíð segir: *Verði borð þeirra að
snöru og að gildru og að hneykslun og til hegningar*
10 *þeim! Blindist augu þeirra, til þess að þeir sjái ekki,*
11 *og beyg sífelt bak þeirra.* Jeg segi því: Hvort hrösuðu
þeir, til þess að þeir skyldu falla? Fjarri fer því;
heldur hlotnaðist heiðingjunum hjálpræðið af falli
þeirra, til þess að það skyldi vekja þá til vandlæt-
12 ingar. En ef fall þeirra er heiminum auður, og
tjón þeirra heiðingjum auður, hve miklu fremur þá
fylling þeirra?
13 En við yður, þjer heiðingjar, segi jeg: Að því
leyti sem jeg þá er postuli heiðingja, vegsama jeg
14 þjónustu mína, ef jeg gæti vakið vandlæti hjá ætt-
15 mönnum mínum og frelsað einhverja þeirra. Því að
ef burtsnörun þeirra er sætt heimsins, hvað er þá
16 upptaka þeirra annað en líf af dauðum? En ef frum-
gróðinn er heilagur, þá er einnig deigið það; og ef
17 rótin er heilög, þá eru einnig greinarnar það. En
þótt nokkrar af greinunum hafi verið brotnar af, en
þú, sem ert villi-olíuviður, hafir verið græddur inn á
meðal þeirra, og sjert orðinn samhluttakandi í rót
18 olíuviðarfitunnar, þá stær þig ekki gegn greinunum;
en ef þú stærir þig, þá vit, að þú ber ekki rótina,
19 heldur rótin þig. Þú munt þá segja: Greinarnar
voru brotnar af, til þess að jeg yrði græddur við.
20 Rjett er það. Fyrir sakir vantrúarinnar voru þær
brotnar af, en vegna trúarinnar stendur þú. Hreyktu
21 þjer ekki upp, heldur óttast. Því að hafi Guð ekki
þyrmt hinum náttúrlegu greinum, þá mun hann ekki
22 heldur þyrma þjer. Sjá því gæsku Guðs og strang-
leika, — strangleika við þá sem fallnir eru, en

 

gæsku Guðs við þig, ef þú stendur stöðugur í gæsk-
23 unni; annars verður þú einnig af höggvinn. En
hinir munu og verða græddir við, ef þeir halda
ekki áfram í vantrúnni, því að máttugur er Guð að
24 græða þá aftur við. Því að ef þú ert höggvinn af
þeim olíuviði, sem eftir eðli sínu var villiviður, og ert
mót eðli þínu græddur við ræktaðan olíuvið, hve miklu
fremur munu þá þessar náttúrlegu greinar verða
græddar við sinn eigin olíuvið?
25 Því að jeg vil ekki, bræður, að yður sje ókunn-
ugt um þennan leyndardóm, til þess að þjer skulið
ekki með sjálfum yður ætla yður hygna, að forherð-
ing er komin yfir nokkurn hluta af Ísrael, alt þang-
26 að til fylling heiðingjanna er komin inn. Og þannig
mun allur Ísrael frelsaður verða, eins og ritað er:
*Frá Síon mun sá koma sem frelsar, og útrýma guð-*
27 *leysi frá Jakob. Og þetta er sáttmáli minn við þá,*
28 *þegar jeg hefi tekið burt syndir þeirra.* Eftir fagnaðar-
erindinu eru þeir að sönnu óvinir vegna yðar, en eftir
29 útvalningunni elskaðir vegna feðranna, því að ekki
30 iðrar Guð náðargjafa sinna og köllunar. Því að eins
og þjer fyrrum vorið óhlýðnir Guði, en hafið nú
31 hlotið miskunn vegna óhlýðni þeirra, þannig hafa
þeir nú líka orðið óhlýðnir, til þess að einnig þeim
mætti miskunnað verða fyrir miskunn þá, sem
32 yður er veitt. Því að Guð hefir innilukt þá alla
undir óhlýðni, til þess að hann gæti miskunnað þeim
öllum.
33 Hvílíkt djúp ríkdóms og speki og þekkingar
Guðs! Hversu órannsakandi dómar hans og órek-
34 jandi vegir hans! Því að *hver hefir þekt huga Drott-*

35 *ins? Eða hver hefir verið ráðgjafi hans? Eða hver*
*hefir að fyrra bragði gefið honum, svo að það eigi að*
36 *verða honum endurgoldið?* Því að frá honum og
fyrir hann og til hans eru allir hlutir. Honum sje
dýrð um aldirnar! Amen.

12 Svo áminni jeg yður þá, bræður, fyrir miskunn-
semi Guðs, að þjer frambjóðið, svo sem skyn-
samlega guðsdýrkun, líkami yðar sem fórn, lifandi,
2 heilaga, Guði þóknanlega, og hegðið yður eigi eftir
öld þessari, heldur takið háttaskifti með endurnýungu
hugarfarsins, svo að þjer fáið að reyna, hver sje
vilji Guðs, hið góða, velþóknanlega og fullkomna.

3 Því að fyrir þá náð, sem mjer er gefin, segi jeg
sjerhverjum, sem á meðal yðar er, að hugsa ekki
hærra en hugsa ber, heldur að hugsa svo, að hann
hugsi hyggilega, sjerhver eins og Guð hefir úthlutað
4 honum mæli trúarinnar. Því að eins og vjer höfum
á einum líkama marga limi, en limirnir hafa ekki
5 allir sama starfa, þannig erum vjer hinir mörgu
einn líkami í Kristi, en hver um sig annars limir;
6 en þar eð vjer höfum margvíslegar náðargjafir, eftir
7 þeirri náð sem oss er gefin, hvort heldur það er
spádómsgáfa, þá notum hana í hlutfalli við trúna,
eða þjónusta, þá gefum oss við þjónustunni, eða það
er maður sem kennir, hann gefi sig við kenslunni,
8 eða maður, sem áminnir, við áminningunni; sá sem
útbýtir, gjöri það í einlægni, sá sem forstöðu veitir,
gjöri það með kostgæfni, sá sem iðkar miskunnsemi,
9 gjöri það með gleði. Elskan sje flærðarlaus; hafið
andstygð á hinu vonda, en haldið fast við hið góða.
10 Verið í bróðurkærleikanum ástúðlegir hver við

annan og verið hver öðrum fyrri til að veita
11 hinum virðingu; í áhuganum ekki hálfvolgir; í
12 andanum brennandi; Drotni þjónandi; glaðir í von-
inni, þolinmóðir í þjáningunni, staðfastir í bæninni.
13 Takið þátt í nauðsynjum heilagra; stundið gestrisn-
14 ina. Blessið þá er ofsækja yður, blessið, en bölvið
15 ekki. Fagnið með fagnendum, grátið með grátend-
16 um. Berið sama hug hver til annars; hugsið eigi
um hið háa, en haldið yður að hinum lítilmótlegu.
17 Ætlið yður eigi hygna með sjálfum yður; gjaldið
engum ilt fyrir ilt; stundið það sem fagurt er fyrir
18 sjónum allra manna; ef mögulegt er, að því er til
19 yðar kemur, þá hafið frið við alla menn; hefnið yðar
ekki sjálfir, þjer elskaðir, heldur gefið rúm reiðinni;
því að ritað er: *Mín er hefndin, jeg mun endurgjalda,*
20 *segir Drottinn.* En *ef óvin þinn hungrar, þá gef*
*honum að eta, ef hann þyrstir, þá gef honum að*
*drekka, því að með því að gjöra þetta safnar þú*
21 *glóðum elds á höfuð honum.* Lát ekki hið vonda
yfirbuga þig, heldur sigra þú hið vonda með hinu
góða.

13 Sjerhver sál sje yfirboðnum valdstjettum hlýð-
in; því að ekki er nein valdstjett til nema frá
Guði, og þær sem til eru, þær eru skipaðar af Guði;
2 svo að sá, sem veitir valdstjettinni mótstöðu, hann
veitir Guðs tilskipun mótstöðu; en þeir, sem veita
3 mótstöðu, munu fá dóm sinn. Því að valdsmennirnir
eru eigi ótti góðum verkum, heldur vondum. En
viljir þú eigi þurfa að óttast valdstjettina, þá gjör
4 það sem gott er, og muntu fá lofstír af henni; því
að hún er þjónn Guðs þjer til góðs, en ef þú gjörir

það sem ilt er, þá skaltu óttast; því að hún ber ekki
sverðið ófyrirsynju, með því að hún er Guðs þjónn,
5 hegnari til refsingar þeim, er aðhefst hið illa. Þess
vegna er nauðsynlegt að hlýðnast, ekki einungis
vegna hegningarinnar, heldur og vegna samviskunn-
6 ar. Einmitt þess vegna gjaldið þjer og skatta, því
að þeir eru Guðs þjónar, sem starfa að þessu sama.
7 Gjaldið öllum það sem skylt er, þeim skattinn,
sem skatturinn ber, þeim tollinn, sem tollurinn ber,
þeim óttann, sem óttinn ber, þeim virðinguna, sem
virðingin ber.

8 Skuldið ekki neinum neitt nema það að elska hver
annan; því að sá sem elskar annan, hefir uppfylt
9 lögmálið. Því að þetta: *Þú átt ekki að drýgja hór;
þú átt ekki að vega mann; þú átt ekki að stela; þú
átt ekki að girnast*, og hvert annað boðorð er í þess-
ari grein innifalið, í þessu: *Þú átt að elska náunga
10 þinn eins og sjálfan þig.* Kærleikurinn gjörir ekki
náunganum mein; þess vegna er kærleikurinn fylling
lögmálsins.

11 Og þetta því heldur sem þjer þekkið tímann,
að yður er mál að rísa af svefni, því að nú er oss
12 hjálpræðið nær, en þá er vjer tókum trú. Liðið
er á nóttina, en dagurinn í nánd; leggjum því af
verk myrkursins og íklæðumst hertýgjum ljóssins.
13 Framgöngum sómasamlega eins og á degi, ekki í
ofáti eða ofdrykkju, ekki í ólifnaði nje saurlífi, ekki
14 í þrætu nje öfund, heldur íklæðist Drotni Jesú Kristi,
og alið ekki önn fyrir holdinu svo að það verði til
að æsa girndir.

14 Takið að yður hinn trúarveika, ekki til þess
2 að dæma um skoðanir. Einn er þeirrar trúar,
að alls męgi neyta, en hinn trúarveiki neytir ein-
3 ungis jurtafæðu. Sá sem etur, fyrirlíti ekki hinn,
sem ekki etur, og sá sem ekki etur, dæmi ekki þann,
sem etur; því að Guð hefir tekið hann að sjer.
4 Hver ert þú, sem dæmir annarlegan þjón? Hann
stendur og fellur herra sínum; og hann mun standa;
því að máttugur er Drottinn að láta hann standa.
5 Einn gjörir sjer dagamun, en annar metur alla daga
jafna. Sjerhver hafi örugga sannfæringu í huga
6 sínum. Sá sem tekur tillit til daga, gjörir það vegna
Drottins, og sá sem etur, etur Drotni, því að hann
gjörir Guði þakkir; og sá sem ekki etur, það er
vegna Drottins að hann etur ekki, og hann gjörir
7 Guði þakkir. Því að enginn af oss lifir sjálfum sjer,
8 og enginn deyr sjálfum sjer, því að hvort sem vjer
lifum, lifum vjer Drotni, eða vjer deyjum, deyjum
vjer Drotni; hvort sem vjer þess vegna lifum eða
9 deyjum, þá erum vjer Drottins. Því að til þess dó
Kristur og varð aftur lifandi, að hann skyldi drotna
10 bæði yfir dauðum og lifandi. En þú, hví dæmir þú
bróður þinn? Eða þá þú, hví fyrirlítur þú bróður
þinn? Því að allir munum vjer verða að koma
11 fram fyrir dómstól Guðs. Því að ritað er: *Svo
sem jeg lifi, segir Drottinn, fyrir mjer skulu öll knje
12 beygja sig og sjerhver tunga vegsama Guð.* Fyrir
því skal þá sjerhver af oss lúka Guði reikning fyrir
sjálfan sig.

13 Dæmum því ekki framar hver annan, en kveðið
öllu heldur upp þann dómsúrskurð, að þjer skulið

ekki setja ásteytingu eður hneyksli fyrir bróður yðar.
14 Jeg veit það og er þess fullviss í Drotni Jesú, að
ekkert er vanheilagt í sjálfu sjer, nema þá þeim, sem
heldur eitthvað vanheilagt; honum er það vanheilagt.
15 Því að ef bróðir þinn hryggist sökum matar, þá
gengur þú ekki framar eftir kærleikanum. Hrind
ekki með mat þínum í glötun þeim manni, sem
16 Kristur er dáinn fyrir. Látið því ekki hið góða,
17 sem þjer eigið, verða fyrir lasti. Því að ekki er
guðsríki matur og drykkur, heldur rjettlæti og
18 friður og fögnuður í heilögum anda. Því að hver
sem þjónar Kristi í þessu, hann er Guði velþóknan-
19 legur og fullreyndur fyrir mönnunum. Keppum þess
vegna eftir því, sem til friðarins heyrir og til hinnar
20 sameiginlegu uppbyggingar. Brjóttu ekki niður verk
Guðs vegna matar! Alt er að sönnu hreint; en það
21 er þó ilt þeim manni, sem etur til ásteytingar. Það
er rjett að eta hvorki kjöt nje drekka vín nje gjöra
22 neitt, sem bróðir þinn steytir sig á. Haf þú þá trú,
sem þú hefir, hjá sjálfum þjer fyrir Guði. Sæll er
sá, sem áfellir sig ekki fyrir það, sem hann hefir
23 valið. En sá sem er efablandinn, hann er dæmdur,
ef hann etur, af því að það er ekki af trú; en alt sem
ekki er af trú, er synd.

15 Skylt er oss, hinum styrku, að umbera veik-
leika hinna óstyrku og þóknast ekki sjálfum
2 oss. Sjerhver af oss þóknist náunganum í því sem
3 gott er til uppbyggingar; því að Kristur þóknaðist
ekki heldur sjálfum sjer, en eins og ritað er: *Last-*
4 *yrði þeirra, sem löstuðu þig, lentu á mjer.* Því að
alt það, sem áður er ritað, er áður ritað oss til upp-

fræðingar, til þess að vjer fyrir þolinmæðina og
5 fyrir huggun ritninganna hefðum vonina. En Guð
þolinmæðinnar og huggunarinnar gefi yður að bera
6 sama hug hver til annars að vilja Krists Jesú, til
þess að þjer samhuga með einum munni vegsamið
7 Guð og föður Drottins vors Jesú Krists. Takið því
hver annan að yður, eins og Kristur tók yður að
8 sjer, Guði til dýrðar. Því að jeg segi, að Kristur
sje orðinn þjónn umskurnarinnar fyrir sakir sann-
orðleika Guðs, til að staðfesta fyrirheitin, sem feðrun-
9 um voru gefin, en að heiðingjarnir vegsami Guð
sakir miskunnar hans, eins og ritað er: *Þess vegna
skal jeg játa þig meðal heiðingja og lofsyngja þínu
10 nafni.* Og enn segir: *Fagnið, þjer heiðingjar, með
11 lýð hans;* og enn: *Lofið Drottin, allar þjóðir, og
12 vegsami hann allir lýðir;* og enn segir Jesajas: *Koma
mun rótarkvistur Ísaí og sá, er rís upp til að stjórna
13 þjóðum; á hann munu þjóðir vona.* En Guð vonar-
innar fylli yður öllum fögnuði og friði í trúnni,
svo að þjer sjeuð auðugir að voninni í krafti heilags
anda.

14 En jeg er líka sjálfur sannfærður um yður,
bræður mínir, að þjer og sjálfir eruð fullir góðgirni,
fyltir alls konar þekkingu og færir um að áminna
15 hver annan. En jeg hefi ritað yður að nokkru leyti
full-djarflega, til þess að minna yður á þetta, vegna
16 þeirrar náðar, sem mjer er af Guði gefin, til þess að
jeg skyldi vera helgiþjónn Krists Jesú hjá heiðing-
junum, innandi af hendi prestþjónustu við fagnaðar-
erindi Guðs, til þess að fórn heiðingjanna mætti verða
velþóknanleg og helguð í heilögum anda.

17 Jeg hefi þá það, sem jeg get hrósað mjer
af í Kristi Jesú, starf mitt í þjónustu Guðs. Því að
18 ekki mun jeg dirfast að tala um neitt annað en það,
sem Kristur hefir framkvæmt fyrir mig, til að leiða
19 heiðingja til hlýðni, með orði og verki, með krafti
tákna og undra, með krafti heilags anda, svo að jeg
frá Jerúsalem og alt í kring til Illyríu hefi til fulls
20 flutt fagnaðarerindi Krists; en þannig, að jeg hefi
talið mjer það sæmd, að boða ekki fagnaðarerindið
þar sem Kristur hafði áður verið nefndur, til þess að
21 jeg bygði ekki ofan á annarlegan grundvöll; heldur
eins og ritað er: *Þeir skulu sjá, sem ekkert var um
hann sagt, og þeir, sem ekki hafa heyrt, skulu skilja.*
22 Þess vegna hefi jeg líka margsinnis hindrast frá
23 að koma til yðar; en með því að jeg hefi nú ekki
lengur rúm í þessum hjeruðum, en mig hefir í mörg
24 ár langað til að koma til yðar, þegar jeg færi
til Spánar, — því að jeg vona, að jeg fái að
sjá yður, er jeg fer um hjá yður, og að mjer
verði fylgt á leið af yður þangað, er jeg fyrst
hefi nokkurn veginn fengið nægju mína hjá yður, —
25 en nú fer jeg til Jerúsalem, til að þjóna hinum heil-
26 ögu. Því að Makedónía og Akkea hafa af góðvild
sinni gengist fyrir samskotum nokkrum handa fá-
tæklingum meðal hinna heilögu, sem eru í Jerúsalem.
27 Því að af góðvild hafa þeir gjört það, enda eru þeir
í skuld við þá; því að fyrst heiðingjarnir hafa fengið
hlutdeild í andlegum gæðum þeirra, þá er þeim og
28 skylt að fulltingja þeim í líkamlegum efnum. En
þegar jeg hefi lokið þessu og innsiglað þeim þennan
29 ávöxt, mun jeg fara um hjá yður til Spánar. En jeg

veit, að þegar jeg kem til yðar, mun jeg koma með
fylling blessunar Krists.
30 En mikillega bið jeg yður, bræður, fyrir sakir
Drottins vors Jesú Krists og fyrir sakir kærleika
andans, að þjer stríðið með mjer í bænunum til
31 Guðs fyrir mjer, til þess að jeg verði frelsaður frá
hinum vantrúuðu í Júdeu, og þjónustustarf mitt Jerú-
salem til handa verði vel þegið af hinum heilögu,
32 til þess að jeg, ef Guð lofar, mætti koma til yðar
33 með fögnuði og endurhressast ásamt yður. En Guð
friðarins sje með yður öllum. Amen.

16 Jeg fel yður á hendur Föbe, systur vora, sem
2 er þjónn safnaðarins í Kenkreu, til þess að
þjer veitið henni viðtöku í Drotni, eins og heil-
ögum hæfir, og liðsinnið henni í hverju því efni, sem
hún þarf yðar við, því að hún hefir verið bjargvætt-
ur margra og mín sjálfs.
3 Heilsið Prisku og Akvílasi, samverkamönnum
4 mínum í Kristi Jesú, sem stofnað hafa lífi sínu í
hættu fyrir líf mitt, sem ekki jeg einn votta þakkir,
5 heldur og allir söfnuðir heiðingjanna; heilsið einnig
söfnuðinum, sem er í húsi þeirra. Heilsið Epænetusi,
mínum elskaða, sem er frumgróði Asíu Kristi til handa.
6 Heilsið María, sem mikið hefir erfiðað fyrir yður.
7 Heilsið Andróníkusi og Júníasi, ættmönnum mínum
og sambandingjum, sem eru í metum hjá postulunum
8 og á undan mjer hafa gengið Kristi á hönd. Heilsið
9 Ampliatusi, mínum elskaða í Drotni. Heilsið Úrban-
usi, samverkamanni vorum í Kristi, og Stakkýsi,
10 mínum elskaða. Heilsið Apellesi, sem er fullreyndur
11 í Kristi. Heilsið heimilismönnum Aristóbúls. Heilsið

Heródíon, ættingja mínum. Heilsið þeim á heimili
12 Narkissusar, sem eru í Drotni. Heilsið Trýfæna og
Trýfósa, sem erfiða í Drotni. Heilsið Persis, hinni
13 elskuðu, sem mikið hefir starfað í Drotni. Heilsið
Rúfusi, hinum útvalda í Drotni, og móður hans og
14 minni. Heilsið Asýnkrítusi, Flegon, Hermes, Patróbasi,
15 Hermasi og bræðrunum, sem hjá þeim eru. Heilsið
Fílólógusi og Júlíasi, Nerevs og systur hans, og
Ólympasi og öllum heilögum, sem með þeim eru.
16 Heilsið hver öðrum með heilögum kossi. Yður senda
kveðju allir söfnuðir Krists.

17 En jeg áminni yður, bræður, um að hafa gát á
þeim, er vekja sundurþykkju og hneyksli á móti
þeirri kenningu, sem þjer hafið numið; og sneiðið
18 yður hjá þeim. Því að slíkir menn þjóna ekki Drotni
vorum Kristi, heldur maga sjálfra þeirra, og með blíð-
mælum og fagurgala tæla þeir hjörtu hrekklausra
19 manna. Því að hlýðni yðar er alkunnug orðin; því
gleðst jeg yfir yður; en jeg vil, að þjer sjeuð vitrir
20 í hinu góða, en einfaldir í hinu illa. En Guð friðar-
ins mun bráðlega sundurmola Satan undir fótum
yðar.

Náðin Drottins vors Jesú Krists sje með yður.

21 Yður heilsa Tímóteus, samverkamaður minn,
22 Lúkíus og Jason og Sósípater, ættmenn mínir. Jeg,
Tertíus, sem hefi ritað brjefið, heilsa yður í Drotni.
23 Yður heilsar Gajus, sem ljær hús mjer og öllum söfn-
uðinum. Yður heilsar Erastus, gjaldkeri borgarinnar,
og bróðir Kvartus.

25 En honum, sem megnar að styrkja yður eftir
mínu fagnaðarerindi og prjedikun Jesú Krists, sam-

kvæmt opinberun þess leyndardóms, sem frá eilífum
26 tíðum hefir legið í þagnargildi, en nú er auglýstur fyrir
spámannlegar ritningar og eftir skipun hins eilífa
Guðs kunngjörður öllum þjóðum til trúar-hlýðni,
27 einum vitrum Guði, fyrir Jesúm Krist, — honum sje
dýrð um aldirnar. Amen.

# Fyrra brjef Páls postula til Korintumanna.

1 Páll, kallaður til postula Jesú Krists, fyrir vilja
2 Guðs, og bróðirinn Sóstenes, til safnaðar Guðs,
sem er í Korintuborg, hinna helguðu í Kristi Jesú,
heilögu samkvæmt köllun, ásamt öllum þeim, er á
sjerhverjum stað, hjá þeim og hjá oss, ákalla nafnið
Drottins vors Jesú Krists.
3 Náð sje með yður og friður frá Guði föður vor-
um og Drotni Jesú Kristi.
4 Ávalt þakka jeg Guði mínum yðar vegna fyrir
5 þá náð Guðs, sem yður er gefin í Kristi Jesú, að þjer
í honum eruð auðgaðir orðnir í öllu, í allri ræðu og
6 allri þekkingu, eins og líka vitnisburðurinn um Krist
7 er staðfestur orðinn á meðal yðar, svo að yður brest-

ur ekki neina náðargjöf, þar sem þjer væntið opinber-
8 unar Drottins vors Jesú Krists, hans sem og mun gjöra
yður staðfasta alt til enda, óásakanlega á degi Drott-
9 ins vors Jesú Krists. Trúr er Guð, sem yður hefir
kallað til samfjelags sonar síns Jesú Krists, Drott-
ins vors.

10 En jeg áminni yður, bræður, vegna nafns Drott-
ins vors Jesú Krists, að þjer mælið allir hið sama
og að ekki sjeu flokkadrættir á meðal yðar, heldur
að þjer sjeuð fullkomlega sameinaðir í sama hugar-
11 fari og í sömu skoðun. Því að mjer hefir verið tjáð
um yður, bræður mínir, af heimilismönnum Klóe, að
12 þrætur eigi sjer stað meðal yðar. Jeg á við þetta,
að sjerhver yðar segir: Jeg er Páls; — og jeg er
Apollós; — og jeg er Kefasar; — og jeg er Krists.
13 Er þá Kristi skift í sundur? Mun Páll hafa verið
krossfestur fyrir yður? Eða eruð þjer skírðir til
14 nafns Páls? Jeg þakka Guði fyrir, að jeg hefi engan
15 yðar skírt nema Krispus og Gajus, til þess að eng-
inn skuli segja, að þjer sjeuð skírðir til míns nafns.
16 Jú, jeg skírði líka heimamenn Stefanasar. Annars
17 veit jeg ekki til að jeg hafi skírt neinn annan. Því
að ekki sendi Kristur mig til að skíra, heldur til að
boða fagnaðarerindi, ekki með orðspeki, til þess að
krossinn Krists misti ekki gildi sitt.

18 Því að orð krossins er heimska þeim er glatast,
en oss, sem hólpnir verðum, er það kraftur Guðs;
19 því að ritað er: *Eyða mun jeg visku vitringanna, og
skynsemi hinna skynsömu mun jeg að engu gjöra.*
20 Hvar er vitringur? Hvar fræðimaður? Hvar orð-
kappi þessarar aldar? Hefir Guð ekki gjört að

21 heimsku speki heimsins. Því að þar eð heimurinn
með spekinni þekti ekki Guð í speki Guðs, þóknaðist
Guði að gjöra hólpna þá er trúa, með heimsku prje-
22 dikunarinnar; með því að bæði Gyðingar heimta
23 tákn, og Grikkir leita að speki, en vjer prjedikum
Krist krossfestan, Gyðingum hneyksli, en heiðingjum
24 heimsku, en sjálfum hinum kölluðu, bæði Gyðingum
25 og Grikkjum, Krist, kraft Guðs og speki Guðs. Því
að hið heimskulega Guðs er mönnum vitrara, og hið
óstyrka Guðs mönnum sterkara.

26 Því að lítið, bræður, til köllunar yðar: þjer er-
uð ekki margir vitrir eftir holdinu, ekki margir mátt-
27 ugir, ekki margir stórættaðir; heldur hefir Guð út-
valið hið heimskulega heimsins, til þess að gjöra hin-
um vitru kinnroða, og hið óstyrka heimsins hefir
Guð útvalið, til þess að gjöra hinum voldugu kinn-
28 roða. Og hið ógöfuga í heiminum og hið fyrirlitna
hefir Guð útvalið, og það sem ekkert er, til þess að
29 gjöra það að engu, sem er, til þess að ekki skuli
30 neitt hold hrósa sjer fyrir Guði. En fyrir hann eruð
þjer í Kristi Jesú, sem er orðinn oss vísdómur frá
31 Guði, bæði rjettlæti og helgun og endurlausn; til
þess að, eins og ritað er: *sá sem hrósar sjer, hrósi
sjer í Drotni.*

2 Og er jeg kom til yðar, bræður, og boðaði yður
leyndardóm Guðs, kom jeg ekki heldur með frá-
2 bærleik orðs eða speki; því að jeg ásetti mjer að vita
ekkert á meðal yðar, nema Jesúm Krist og hann
3 krossfestan. Og jeg dvaldi á meðal yðar í veikleika,
4 ótta og mikilli angist. Og orðræða mín og prjedikun
mín studdist ekki við sannfærandi vísdómsorð, heldur

5 við sönnun anda og kraftar; til þess að trú yðar væri
eigi bygð á vísdómi manna, heldur á krafti Guðs.
6 En speki tölum vjer meðal hinna fullkomnu,
þó ekki speki þessarar aldar eða höfðingja þessarar
7 aldar, sem að engu verða, heldur tölum vjer speki
Guðs í leyndardómi, hina huldu, sem Guð hefir frá
8 eilífð fyrirhugað oss til dýrðar, og enginn af höfð-
ingjum þessarar aldar þekti, því að ef þeir hefðu
þekt hana, hefðu þeir ekki krossfest Drottin dýrðar-
9 innar; en það er eins og ritað er: *Það sem auga
sá ekki, og eyra heyrði ekki,* og ekki kom upp í hjarta
mannsins, *alt það sem Guð fyrirbjó þeim er elska hann.*
10 En oss hefir Guð opinberað hana fyrir andann; því
11 að andinn rannsakar alt, jafnvel djúp Guðs. Því að
hver meðal manna veit hvað mannsins er, nema andi
mannsins, sem í honum er? Þannig hefir heldur eng-
inn komist að raun um hvað Guðs er, nema Guðs
12 andi. En vjer höfum ekki meðtekið anda heimsins,
heldur andann, sem er frá Guði, til þess að vjer
13 skulum vita hvað oss er af Guði gefið; og það tölum
vjer líka, ekki með orðum, sem mannlegur vísdómur
kennir, heldur sem andinn kennir, er vjer útlistum
14 andleg efni fyrir andlegum mönnum. En náttúrleg-
ur maður veitir ekki viðtöku því sem Guðs anda er;
því að honum er það heimska og hann getur ekki
15 skilið það, af því að það dæmist andlega. En hinn
andlegi dæmir um alt, en um hann sjálfan verður
16 ekki dæmt af neinum; *því að hver hefir þekt huga
Drottins, að hann geti frætt hann?* En vjer höfum
hugarfar Krists.

3 Og jeg gat ekki, bræður, talað við yður eins og
við andlega menn, heldur eins og við holdlega,
2 eins og við ómálga í Kristi. Mjólk gaf jeg yður að
drekka, mat ekki, því að enn þolduð þjer það ekki.
3 Og þjer þolið það jafnvel ekki enn, því að ennþá
eruð þjer holdlegir menn. Því að þegar metn-
ingur og þráttan er á meðal yðar, eruð þjer þá eigi
4 holdlegir menn og hegðið yður á manna hátt? Því
að þegar einn segir: Jeg er Páls, en annar: Jeg er
5 Apollós, eruð þjer þá ekki menn? Hvað er þá
Apollós? Já, hvað er þá Páll? Þjónar, sem hafa
leitt yður til trúar, og það eins og Drottinn hefir
6 gefið hvorum fyrir sig. Jeg gróðursetti, Apollós
7 vökvaði, en Guð gaf vöxtinn. Þannig er þá hvorki
sá neitt, er gróðursetur, nje sá er vökvar, heldur Guð,
8 sem vöxtinn gefur. En sá sem gróðursetur, og sá sem
vökvar, eru eitt. En sjerhver mun fá sín eigin laun
9 eftir sínu eigin erfiði. Því að Guðs samverkamenn
erum vjer; Guðs akurlendi, Guðs hús eruð þjer.
10 Eftir þeirri náð Guðs, sem mjer er veitt, hefi
jeg eins og vitur húsameistari lagt grundvöll; en
annar byggir ofan á. En sjerhver athugi, hvernig
11 hann byggir ofan á. Því að annan grundvöll getur
enginn lagt en þann sem lagður er, sem er Jesús
12 Kristur. En ef einhver byggir ofan á grundvöllinn
13 gull, silfur, dýra steina, trje, hey, hálm, þá mun verk
sjerhvers verða augljóst, því að dagurinn mun leiða
það í ljós, af því að hann opinberast með eldi; og
hvílíkt verk hvers eins er, það mun eldurinn prófa.
14 Ef nú verk einhvers fær staðist, það er hann bygði
15 ofan á, mun hann taka laun. Ef verk einhvers

brennur upp, mun hann bíða tjón, en sjálfur mun
hann frelsaður verða, en þó eins og úr eldi.
16 Vitið þjer eigi, að þjer eruð musteri Guðs og að
17 andi Guðs býr í yður? Ef nokkur eyðir musteri
Guðs, mun Guð eyða honum, því að musteri Guðs er
heilagt, og það eruð þjer.
18 Enginn dragi sjálfan sig á tálar. Ef nokkur
hygst vera vitur yðar á meðal í þessum heimi, hann
19 verði heimskur, til þess að hann verði vitur. Því að
speki þessa heims er heimska hjá Guði. Því að rit-
að er: *Hann er sá, sem grípur hina vitru í slægð*
20 *þeirra.* Og aftur: *Drottinn þekkir hugsanir vitring-*
21 *anna, að þær eru hjegómlegar.* Fyrir því stæri eng-
22 inn sig af mönnum. Því að alt er yðar, hvort held-
ur er Páll, eða Apollós, eða Kefas, eða heimur, eða
líf, eða dauði, eða hið yfirstandandi, eða hið kom-
23 andi; alt er yðar, en þjer eruð Krists, en Kristur
Guðs.

4 Þannig líti menn á oss svo sem þjóna Krists og
2 ráðsmenn yfir leyndardómum Guðs. Hjer er
þess að öðru leyti krafist af ráðsmönnunum, að sjer-
3 hver reynist trúr. En mjer er það fyrir minstu að
verða dæmdur af yður eða af mannlegu dómþingi;
4 jeg dæmi mig ekki einu sinni sjálfur. Því að jeg er
mjer ekki neins meðvitandi, en með því er jeg þó
ekki rjettlættur; en Drottinn er sá sem dæmir mig.
5 Dæmið því ekki neitt fyrir tímann, áður en Drottinn
kemur, hann sem og mun leiða það í ljós, sem í
myrkrinu er hulið, og opinbera ráð hjartnanna. Og
þá mun sjerhverjum hlotnast lofstír af Guði.

6 En þetta hefi jeg, bræður, heimfært til sjálfs mín
og Apollós yðar vegna, til þess að þjer mættuð læra
af okkur það sem ekki fer fram úr »því sem ritað
er«, til þess að enginn yðar hroki sjer upp einum í
7 vil, öðrum til niðrunar. Því að hver gefur þjer yfir-
burði? Og hvað hefir þú, sem þú hefir ekki þegið?
En hafir þú nú þegið, hví stærir þú þig þá, eins og
8 þú hefðir ekki þegið? Þjer eruð þegar orðnir mettir,
þjer eruð þegar orðnir auðugir, án vor eruð þjer orðnir
konungar. Og jeg vildi óska, að þjer væruð orðnir
konungar, til þess að einnig vjer mættum sitja að
9 völdum með yður. Því að mjer virðist Guð hafa sett
oss postulana sísta, eins og dauðadæmda; því að sjón-
leikur erum vjer orðnir heiminum, bæði englum og
10 mönnum. Vjer erum heimskir sökum Krists, en þjer
vitrir í Kristi; vjer veikir, en þjer sterkir; þjer virt-
11 ir, en vjer óvirtir. Alt til þessarar stundar þolum
vjer bæði hungur og þorsta og klæðleysi, og oss er
12 misþyrmt, og vjer höfum engan samastað, og vjer
stöndum í erfiði, vinnandi með eigin höndum. Hrak-
13 yrtir blessum vjer, ofsóttir umberum vjer, lastaðir
áminnum vjer. Eins og sorp heimsins erum vjer
orðnir, afhrak allra alt til þessa.
14 Ekki rita jeg þetta til þess að gjöra yður kinn-
roða, heldur áminnandi yður eins og elskuleg börn
15 mín. Því að þótt þjer hefðuð tíu þúsund fræðara í
Kristi, þá hafið þjer þó eigi marga feður; því að jeg
er sá sem hefi getið yður í Kristi Jesú fyrir fagnaðar-
16 erindið. Jeg áminni yður því: Verðið eftirbreytend-
17 ur mínir. Þess vegna sendi jeg til yðar Tímóteus,
sem er elskað og trútt barn mitt í Drotni, og hann

mun minna yður á vegu mína í Kristi, eins og jeg
18 kenni alstaðar í hverjum söfnuði. En nokkrir hafa
gjörst hreyknir, rjett eins og jeg ætlaði ekki að koma
19 til yðar; en jeg mun brátt koma til yðar, ef Drottinn
vill, og mun jeg þá kynna mjer, ekki orð hinna
20 stærilátu, heldur kraftinn. Því að guðsríki er ekki
21 fólgið í orðum, heldur í krafti. Hvað viljið þjer? Á
jeg að koma til yðar með vendi, eða með kærleika
og hógværðar anda?

5 Í hámælum er haft, að saurlifnaður eigi sjer
stað á meðal yðar, og það slíkur saurlifnaður,
sem jafnvel ekki á sjer stað meðal heiðingja, að
2 maður heldur við konu föður síns. Og svo eruð þjer
stærilátir, og hafið ekki miklu fremur hrygst, svo að
maðurinn, sem þetta verk hefir drýgt, yrði rekinn
3 burt úr fjelagi yðar! Því að jeg fyrir mitt leyti,
fjarlægur að líkamanum til, en nálægur að andanum,
hefi þegar, eins og jeg væri nálægur, kveðið þann dóm
4 upp yfir manni þeim, sem þetta hefir þannig drýgt, að
slíkan mann skyldi í nafni Drottins vors Jesú, þegar
þjer og minn andi væruð samankomnir með krafti
5 Drottins vors Jesú, selja Satan á vald til deyðingar
holdinu, til þess að andinn mætti frelsast á degi
6 Drottins Jesú. Ekki er það fallegt, sem þjer hrósið
yður af! Vitið þjer ekki, að lítið súrdeig sýrir alt
7 deigið? Hreinsið burt gamla súrdeigið, til þess að
þjer sjeuð nýtt deig, eins og þjer eruð ósýrðir. Því
að páskalambi voru er og slátrað, sem er Kristur.
8 Höldum því hátíð, ekki með gömlu súrdeigi nje með
súrdeigi ilsku og vonsku, heldur með ósýrðum brauð-
um hreinleikans og sannleikans.

9 Jeg ritaði yður í brjefinu, að þjer skylduð ekki
10 eiga mök við saurlífismenn — ekki við saurlífismenn
þessa heims yfirleitt, eða við ásælna og ræningja,
eða hjáguðadýrkendur, því að þá hefðuð þjer orðið
11 að fara út úr heiminum. En nú rita jeg yður, að
þjer skulið engin mök eiga við nokkurn þann, er
nefnir sig bróður, en er saurlífismaður, eða ásælinn,
eða skurðgoðadýrkari, eða lastmáll, eða ofdrykkju-
maður, eða ræningi; slíkum manni skuluð þjer jafn-
12 vel ekki samneyta. Því að hvað skyldi jeg vera að
dæma þá, er fyrir utan eru? Dæmið þjer ekki þá,
13 sem fyrir innan eru? Og mun ekki Guð dæma þá
sem fyrir utan eru? *Rekið hinn vonda burt frá sjálf-
um yður.*

6 Dirfist nokkur yðar, er hann hefir sök móti
öðrum, að láta það koma undir dóm fyrir hin-
2 um ranglátu, en ekki fyrir hinum heilögu? Eða vitið
þjer ekki, að hinir heilögu eiga að dæma heiminn?
Og ef heimurinn á að dæmast af yður, eruð þjer þá
3 óverðugir að dæma í hinum minstu málum? Vitið
þjer eigi, að vjer eigum að dæma engla? Hvað þá
4 tímanleg efni! Þegar þjer því eigið að dæma um
tímanleg efni, hvort setjið þjer þá fyrir dómara hina
5 fyrirlitnu í söfnuðinum? Jeg segi það yður til blygð-
unar. Er þá enginn vitur til á meðal yðar, sem
6 skorið geti úr málum fyrir bróður sinn? En bróðir
7 á í máli við bróður, og það fyrir vantrúuðum! Ann-
ars er það nú yfirleitt galli á yður, að þjer eigið í
málaferlum hver við annan. Hví líðið þjer ekki heldur
órjett? Hví látið þjer ekki heldur hafa af yður?
8 En þjer hafið rangsleitni í frammi og hafið af öðrum,

9 og það af bræðrum! Eða vitið þjer ekki, að ranglátir
munu ekki guðsríki erfa? Villist ekki! Hvorki munu
saurlífismenn, nje skurðgoðadýrkendur, nje hórkarlar,
10 nje mannbleyður, nje mannhórar, nje þjófar, nje ásælnir,
nje drykkjumenn, nje lastmálir, nje ræningjar guðs-
11 ríki erfa. Og þetta voruð þjer, sumir yðar. En þjer
ljetuð þvost, þjer eruð helgaðir, þjer eruð rjettlættir
fyrir nafn Drottins Jesú Krists og fyrir anda vors
Guðs.

12 Alt er mjer leyfilegt, en ekki er alt gagnlegt.
Alt er mjer leyfilegt, en jeg má ekki láta neitt fá
13 vald yfir mjer. Maturinn er fyrir magann og mag-
inn fyrir matinn, en Guð mun hvorttveggja að engu
gjöra. En líkaminn er ekki fyrir saurlífi, heldur
14 fyrir Drottin, og Drottinn fyrir líkamann. En bæði
hefir Guð uppvakið Drottin og mun uppvekja oss
15 fyrir kraft sinn. Vitið þjer ekki, að líkamir yðar
eru limir Krists? Á jeg þá að taka limi Krists og
16 gjöra þá að skækju-limum? Fjarri fer því. Eða vitið
þjer ekki, að sá er samlagar sig skækjunni, verður
ásamt henni einn líkami? *Því að þau tvö* — segir
17 hann, — *munu verða eitt hold.* En sá er samlagar
18 sig Drotni, er einn andi ásamt honum. Flýið saur-
lifnaðinn! Sjerhver önnur synd, sem maðurinn kann
að drýgja, er fyrir utan líkama hans. En saurlífis-
19 maðurinn syndgar á móti eigin líkama sínum. Eða
vitið þjer ekki, að líkami yðar er musteri heilags
20 anda í yður, sem þjer hafið frá Guði? Og ekki eruð
þjer yðar eigin, því að þjer eruð verði keyptir.
Vegsamið því Guð í líkama yðar.

7 En viðvíkjandi því sem þjer hafið ritað um, þá
er það gott fyrir mann að snerta ekki konu.
2 En vegna saurlífisins hafi hver og einn sína eigin-
3 konu, og hver og ein hafi sinn eiginmann. Maðurinn
láti konunni í tje það sem skylt er, og sömuleiðis
4 einnig konan manninum. Ekki hefir konan vald yfir
sínum eigin líkama, heldur maðurinn, en sömuleiðis
hefir einnig maðurinn ekki vald yfir sínum eigin
5 líkama, heldur konan. Haldið yður eigi hvort frá
öðru, nema þá eftir samkomulagi, um stundarsakir,
til þess að þjer getið haft næði til bænarinnar, og
takið svo saman aftur, til þess að Satan freisti yðar
6 ekki vegna bindindisleysis yðar. En þetta segi jeg
7 í tilhliðrunar skyni, ekki sem skipun. En þess óska
jeg, að allir menn væru eins og jeg er sjálfur, en hver
hefir sína eigin náðargjöf frá Guði, einn svo, og
annar svo.
8 En hinum ókvæntu og ekkjunum segi jeg, að þeim
9 er gott að halda áfram að vera eins og jeg er. En
vanti þau bindindissemi, þá gangi þau í hjónaband;
því að betra er að ganga í hjónaband en að brenna.
10 En þeim sem gengið hafa í hjónaband, býð jeg, þó
ekki jeg, heldur Drottinn, að konan skuli ekki skilja
11 við mann sinn, — en hafi hún skilið við hann, þá
sje hún áfram ógift eða sættist við manninn, — og
12 að maðurinn skuli ekki reka frá sjer konuna. En
við hina aðra segi jeg, ekki Drottinn: Ef bróðir
nokkur á vantrúaða konu, og hún lætur sjer það vel
líka að búa saman við hann, þá reki hann hana ekki
13 frá sjer. Og kona, sem á vantrúaðan mann, og hann
lætur sjer vel líka að búa saman við hana, yfirgefi

14 ekki manninn. Því að vantrúaði maðurinn er helg-
aður í konunni og vantrúaða konan er helguð í bróð-
urnum. Annars væru börn yðar óhrein, en nú eru
15 þau heilög. En ef hinn vantrúaði vill skilja, þá fái
hann skilnað, því að hvorki bróðir nje systir eru
þrælbundin í slíkum efnum, en í friði hefir Guð
16 kallað oss; því að hvað veist þú, kona, hvort þú
munir frelsa manninn? Eða hvað veist þú, maður,
17 hvort þú munir frelsa konuna? Þó framgangi hver
og einn eins og Drottinn hefir úthlutað honum, eins
og Guð hefir kallað hann. Og þannig skipa jeg fyrir
18 í öllum söfnuðunum. Sje einhver kallaður sem um-
skorinn, þá dragi hann ekki yfir; hafi einhver verið
kallaður sem óumskorinn, þá láti hann ekki umskera
19 sig. Umskurnin er ekkert, og yfirhúðin ekkert,
20 heldur það að varðveita boðorð Guðs. Hver og einn
sje kyr í þeirri köllun, sem hann var kallaður í.
21 Varst þú þræll, er þú varst kallaður? Set það ekki
fyrir þig; en þótt þú enda getir orðið frjáls, þá nota
22 það heldur. Því að sá þræll, sem kallaður er í
Drotni, er frelsingi Drottins; á sama hátt er sá, sem
23 kallaður er sem frjáls, þræll Krists. Þjer eruð verði
24 keyptir; verðið ekki mannaþrælar. Bræður, sjerhver
verði hjá Guði kyr í þeirri stjett, sem hann var
kallaður í.

25 Um meyjarnar hefi jeg enga skipun frá Drotni.
En álit mitt læt jeg í ljósi eins og sá, er hlotið hefir
26 þá náð af Drotni að vera trúr. Jeg álít þá, að það
sje gott vegna yfirstandandi neyðar, — að það sje
27 gott fyrir mann að vera þannig. Ertu við konu
bundinn? Leitast þá ekki við að verða laus. Ertu

28 laus orðinn við konu? Leita þá ekki kvonfangs. En
þótt þú kvongist, syndgar þú ekki; og ef mærin gift-
ist, syndgar hún ekki; en þrenging munu slíkir hljóta
29 fyrir hold sitt, en jeg vildi hlífa yður. En það segi
jeg, bræður, tíminn er takmarkaður; til þess að hjer
eftir jafnvel þeir, sem kvæntir eru, skuli vera eins
30 og þeir væru það ekki, og þeir sem gráta, eins og
þeir grjetu ekki, og þeir sem fagna, eins og þeir
fögnuðu ekki, og þeir sem kaupa, eins og þeir hjeldu
31 ekki í eignina, og þeir sem nota heiminn, eins og
þeir færðu sjer hann ekki í nyt. Því að mynd þessa
32 heims líður undir lok. En jeg vil, að þjer sjeuð
áhyggjulausir. Hinn ókvænti ber fyrir brjósti það
sem Drottins er, hversu hann megi Drotni þóknast.
33 Hinn kvænti ber fyrir brjósti það sem heimsins er,
34 hversu hann megi þóknast konunni. Það er og
munur á konunni og meynni; hin ógifta mær ber
fyrir brjósti það sem Drottins er, til þess að hún
megi vera heilög, bæði að líkamanum og andanum.
En hin gifta ber fyrir brjósti það sem heimsins er,
35 hvernig hún megi þóknast manninum. En þetta segi
jeg sjálfum yður til gagns, ekki til þess að varpa
snöru yfir yður, heldur til þess að efla velsæmi og
36 óbifanlega fastheldni við Drottin. En ef einhver
álítur, að hann gjöri meynni vansa, ef hún er af
blómaskeiði, og hjá því verður ekki komist, þá gjöri
hann það sem honum sýnist; hann syndgar ekki;
37 giftist þau. Sá þar á móti, sem er staðfastur í hjarta
sínu og ekki er tilneyddur, en hefir fult vald til að
fara eftir eigin vilja sínum, og hefir afráðið það í
hjarta sínu að varðveita meyna, sem hann á fyrir að

38 sjá, gjörir vel. Þannig gjörir þá bæði sá maður vel,
sem giftir mey sína; og sá sem ekki giftir hana,
39 hann gjörir þó betur. Konan er bundin meðan mað-
ur hennar er á lífi. En ef maðurinn deyr, er henni
frjálst að giftast hverjum sem hún vill, að eins sje
40 það í Drotni. Þó er hún sælli, ef hún heldur áfram
að vera eins og hún er, eftir minni skoðun. En jeg
þykist og hafa anda Guðs.

8 Viðvíkjandi fórnarkjöti skurðgoða, þá vitum vjer,
að þekkingu höfum vjer allir. Þekkingin blæs
2 menn upp, en kærleikurinn byggir upp. Ef einhver
þykist hafa öðlast þekkingu á einhverju, hann þekkir
3 enn ekki eins og þekkja ber. En ef einhver elskar
4 Guð, þá er hann þektur af honum. En viðvíkjandi
neyslu fórnarkjöts skurðgoða, þá vitum vjer, að
skurðgoð er ekkert í heiminum og að enginn er Guð
5 nema einn. Því að enda þótt til sjeu svonefndir
guðir, hvort heldur er á himni eða á jörðu, eins og
6 til eru margir guðir og margir herrar, þá er þó ekki
til fyrir oss nema einn Guð, faðirinn, sem allir hlutir
eru frá, og vjer til hans, og einn Drottinn Jesús
Kristur, sem allir hlutir eru tilorðnir fyrir, og vjer
7 fyrir hann. Þó er sú þekking ekki hjá öllum, en
nokkrir eta það sem skurðgoða-fórn, af því að þeir
hafa vanist skurðgoðum alt til þessa, og þá saurgast
8 samviska þeirra, sem er óstyrk. En matur mun ekki
gjöra oss þóknanlega Guði. Hvorki missum vjer
neins, þótt vjer etum ekki, nje ávinnum vjer neitt,
9 þótt vjer etum. En gætið þess, að þetta frelsi yðar verði
10 ekki hinum óstyrku ásteytingarefni. Því sjái einhver
þig, — þig sem hefir þekkinguna, — sitja til borðs í

goðahofi, mundi það ekki stæla samvisku þess, sem
11 óstyrkur er, til að neyta fórnarkjöts? Því að hinn
óstyrki glatast vegna þekkingar þinnar, bróðirinn,
12 sem Kristur dó fyrir. En þegar þjer þannig syndgið
gegn bræðrunum og særið samvisku þeirra, sem er
13 óstyrk, þá syndgið þjer á móti Kristi. Þess vegna
mun jeg, ef matur hneykslar bróður minn, um aldur
og æfi ekki kjöts neyta, til þess að jeg ekki hneyksli
bróður minn.

9 Er jeg ekki frjáls? Er jeg ekki postuli? Hefi
jeg ekki sjeð Jesúm, Drottin vorn? Eruð þjer
2 ekki verk mitt í Drotni? Þótt ekki væri jeg postuli
fyrir aðra, þá er jeg það fyrir yður. Því að þjer
3 eruð í Drotni innsigli postuladóms míns; þetta er
4 vörn mín gagnvart þeim sem dæma um mig. Höfum
5 vjer ekki frelsi til að eta og drekka? Höfum vjer
ekki frelsi til að ferðast um með kristna eiginkonu,
alveg eins og hinir postularnir og bræður Drottins
6 og Kefas? Eða erum við Barnabas þeir einu, sem
7 ekki eru undanþegnir því að vinna? Hver tekst
nokkurn tíma herþjónustu á hendur á sjálfs síns mála?
Hver gróðursetur víngarð, og neytir ekki ávaxtar
hans? eða hver gætir hjarðar, og neytir ekki af
8 mjólk hjarðarinnar? Tala jeg þetta á mannlegan
9 hátt? Eða segir ekki einnig lögmálið það? Því að
ritað er í lögmáli Móse: *Þú skalt ekki múlbinda ux-
ann, er hann þreskir.* Hvort lætur Guð sjer ant um
10 uxana? Eða segir hann það ekki að öllu leyti vor
vegna? Jú, því að vor vegna var það skrifað, því
að plógarinn á að plægja með von og þreskjarinn
11 með von um hlutdeild. Ef vjer nú höfum sáð því

sem andlegt er hjá yður, er þá mikið að vjer upp-
12 skerum hjá yður það sem líkamlegt er. Ef aðrir
hafa þennan rjett hjá yður, höfum vjer hann þá ekki
ennþá fremur? En vjer höfum ekki hagnýtt oss
þennan rjett, heldur sættum oss við alt, til þess að
vjer enga tálmun gjörum fagnaðarerindi Krists.
13 Vitið þjer ekki, að þeir sem vinna að hinum helgu
athöfnum, þeir alast við það sem kemur úr helgi-
dóminum, að þeir sem starfa við altarið, taka hlut
14 með altarinu? Þannig hefir Drottinn einnig fyrir-
skipað, að þeir sem prjedika fagnaðarerindið, skuli
15 lifa af fagnaðarerindinu. En jeg hefi ekki hagnýtt
mjer neitt af þessu, og jeg skrifa þetta ekki heldur
til þess að þannig skuli verða gjört við mig. Því að
mjer væri betra að deyja, en að nokkur ónýti það
16 sem jeg hrósa mjer af. Því að þótt jeg sje að boða
fagnaðarerindi, þá er það mjer ekki neitt hrósunar-
efni, því að nauðsyn hvílir á mjer; já, vei mjer, ef
17 jeg ekki boðaði fagnaðarerindi. Því að gjöri jeg
þetta af frjálsum vilja, þá fæ jeg laun, en gjöri jeg
það tilknúður, þá hefir mjer verið trúað fyrir ráðs-
18 mensku. Hver eru þá laun mín? Að jeg læt fagn-
aðarerindið vera ókeypis, er jeg boða það, svo að jeg
hagnýti mjer ekki það sem jeg á rjett á í fagnaðar-
19 erindinu. Því að þótt jeg sje öllum óháður, hefi jeg
gjört sjálfan mig að þjóni allra, til þess að jeg áynni
20 þess fleiri Og jeg hefi verið Gyðingunum sem Gyð-
ingur, til þess að jeg áynni Gyðinga, þeim sem eru
undir lögmálinu, eins og sá sem er undir lögmálinu,
enda þótt jeg sjálfur sje ekki undir lögmálinu, til
21 þess að jeg áynni þá sem eru undir lögmálinu; hin-

um lögmálslausu sem lögmálslaus, þótt jeg sje ekki
lögmálslaus fyrir Guði, heldur lögbundinn Kristi, til
22 þess að jeg áynni hina lögmálslausu. Hinum óstyrku
hefi jeg verið óstyrkur, til þess að jeg áynni hina
óstyrku. Jeg er orðinn öllum alt, til þess að jeg yfir
23 höfuð geti frelsað nokkra. En jeg gjöri alt vegna
fagnaðarerindisins, til þess að jeg fái hlutdeild með
24 því. Vitið þjer ekki, að þeir sem á skeiðvellinum
hlaupa, hlaupa að sönnu allir, en einn fær sigurlaun-
25 in? Hlaupið þannig, að þjer getið hlotið þau. En
sjerhver sem tekur þátt í kappleikjum, er bindindis-
samur í öllu, þeir til þess að hljóta forgengilegan
26 sigursveig, en vjer óforgengilegan. Þess vegna hleyp
jeg þá ekki eins og upp á óvissu; jeg berst eins og
27 sá, er ekki slær í vindinn; en jeg lem líkama minn
og leiði hann í ánauð, til þess að jeg, sem hefi
prjedikað fyrir öðrum, skuli ekki sjálfur verða gjörð-
ur rækur.

10 Því að jeg vil ekki, bræður, að yður skuli
vera ókunnugt um það, að feður vorir voru
2 allir undir skýinu, og fóru allir yfir um hafið, og
3 voru allir skírðir til Móse í skýinu og hafinu, og
4 neyttu allir hinnar sömu andlegu fæðu, og drukku
allir hinn sama andlega drykk; því að þeir drukku
af hinum andlega kletti, sem fylgdi þeim, en klettur-
5 inn var Kristur. En samt hafði Guð enga velþókn-
um á flestum þeirra, því að þeir fjellu í eyðimörk-
6 inni. En þessir hlutir hafa gjörst sem fyrirboðar
fyrir oss, til þess að vjer verðum ekki sólgnir í það
7 sem ilt er, eins og þeir urðu sólgnir í það. Og verð-
ið ekki heldur skurðgoðadýrkendur, eins og nokkrir

þeirra, alt eins og ritað er: *Lýðurinn settist niður*
*til að eta og drekka, og þeir stóðu upp til að leika.*
8 Drýgjum ekki heldur hórdóm, eins og nokkrir þeirra
drýgðu hórdóm, og tuttugu og þrjár þúsundir fjellu
9 á einum degi. Freistum ekki heldur Drottins, eins
og nokkrir þeirra freistuðu hans, og biðu bana af
10 höggormum. Möglið ekki heldur, eins og nokkrir
11 þeirra mögluðu, og fórust fyrir eyðandanum. En alt
þetta kom yfir þá sem fyrirboði og það er ritað til
viðvörunar oss, sem endir aldanna er kominn til.
12 Því gæti sá, er hygst standa, vel að sjer, að hann
13 ekki falli. Yfir yður hefir ekki komið nema mannleg
freisting, en Guð er trúr, sem ekki mun leyfa, að
þjer freistist yfir megn fram, heldur mun hann ásamt
freistingunni einnig gjöra endirinn þannig, að þjer
fáið staðist.

14 Fyrir því, mínir elskuðu, flýið skurðgoðadýrkun-
15 ina. Jeg tala til yðar sem skynsamra manna; dæmið
16 þjer um það, sem jeg segi. Sá bikar blessunarinnar,
sem vjer blessum, er hann ekki samfjelag um blóð
Krists? Og brauðið, sem vjer brjótum, er það ekki
17 samfjelag um líkama Krists? Af því að brauðið er
eitt, erum vjer hinir mörgu einn líkami, því að vjer
18 höfum allir hlutdeild í hinu eina brauði. Lítið á
Ísrael eftir holdinu; komast ekki þeir, sem fórnirnar
19 eta, í samfjelag um altarið? Hvað segi jeg þá? Að
fórnarkjöt skurðgoða sje nokkuð? Eða að skurðgoð
20 sje nokkuð? Nei, heldur að það sem heiðingjarnir
blóta, það blóta þeir illum öndum, en ekki Guði. En jeg
21 vil ekki að þjer verðið samlagsmenn illu andanna. Ekki
getið þjer drukkið bikar Drottins og bikar illra anda.

Ekki getið þjer tekið þátt í borðhaldi Drottins og
22 borðhaldi illra anda. Eða eigum vjer að reita Drottin
til reiði? Munum vjer vera máttugri en hann?
23 Alt er leyfilegt, en ekki er alt gagnlegt. Alt er
24 leyfilegt, en ekki uppbyggir alt. Enginn leiti síns
25 eigin, heldur þess sem hins er. Alt það sem selt er
í sláturbúðinni, getið þjer etið án nokkurra eftir-
26 grenslana vegna samviskunnar. *Því að jörðin er*
27 *Drottins og fylling hennar.* Ef einhver hinna van-
trúuðu býður yður, og ef þjer viljið fara, þá etið af
öllu því sem fram fyrir yður er sett, án eftirgrensl-
28 ana vegna samviskunnar. En ef einhver segir við
yður: Þetta er fórnarkjöt! — þá etið ekki, vegna
29 þess, er aðvart gjörði, og vegna samviskunnar. Sam-
viskunnar, segi jeg, ekki mannsins sjálfs, heldur hins,
því að hvers vegna skyldi frelsi mitt eiga að dæmast
30 af samvisku annars? Ef jeg tek þátt í því með
þökkum, hvers vegna skyldi jeg sæta lastmælum
31 fyrir það sem jeg þakka fyrir? Hvort sem þjer því
etið eða drekkið, eða hvað sem þjer gjörið, þá gjörið
32 það alt Guði til dýrðar. Verið hvorki Gyðingum nje
33 Grikkjum nje söfnuði Guðs til ásteytingar, eins og jeg
fyrir mitt leyti reyni í öllu að þóknast öllum og
leita ekki míns eigin gagns, heldur gagns hinna
11 mörgu, til þess að þeir frelsist. Verið eftir-
breytendur mínir, eins og jeg fyrir mitt leyti
er Krists.
2 En jeg hrósa yður fyrir það, að þjer í öllu
minnist mín og haldið fast við setningarnar, eins og
3 jeg lagði þær fyrir yður. En jeg vil, að þjer skulið
vita, að Kristur er höfuð sjerhvers manns, en maður-

4 inn höfuð konunnar, en Guð höfuð Krists. Sjerhver
sá maður, sem biðst fyrir eða spáir og hefir á
5 höfðinu, hann óvirðir höfuð sitt; en sjerhver kona,
sem biðst fyrir eða spáir berhöfðuð, óvirðir höfuð
sitt; því að það er eitt og hið sama sem hún hefði
6 látið raka sig. Ef konan því ekki vill hylja höfuð
sitt, þá láti hún og klippa sig. En ef það er óvirð-
ing fyrir konuna að láta klippa eða raka hár sitt, þá
7 hafi hún á höfðinu. Því að karlmaður má ekki hylja
höfuð sitt, með því að hann er ímynd og vegsemd
8 Guðs, en konan er vegsemd mannsins; því að ekki
er maðurinn af konunni, heldur konan af manninum;
9 því að ekki var heldur maðurinn skapaður vegna
10 konunnar, keldur konan vegna mannsins. Þess vegna
á konan að bera tákn yfirráða á höfði sjer vegna
11 englanna. Þó er hvorki kona án manns, nje maður
12 án konu í Drotni; því að eins og konan er af mann-
inum, svo er og maðurinn fyrir konuna, en alt er
13 það af Guði. Dæmið af sjálfum yður: Sæmir það
14 konu að biðja til Guðs berhöfðuð? Kennir ekki
sjálf náttúran yður, að ef karlmaður ber sítt hár, þá
15 er það honum vansæmd. En ef kona ber sítt hár,
þá er það henni sæmd; því að síða hárið er gefið
16 henni í höfuðblæju stað. En ætli nú einhver sjer að
gjöra þetta að kappsmáli, þá er slíkt ekki venja vor
nje safnaða Guðs.

17 En um leið og jeg mæli svo fyrir, hrósa jeg
yður ekki fyrir það, að þjer komið saman, ekki til góðs,
18 heldur til ills. Því að í fyrsta lagi heyri jeg að
sundrung eigi sjer stað á meðal yðar, er þjer komið
saman á safnaðarsamkomum, og því trúi jeg að

 

19 nokkru leyti; því að það verður að vera flokkaskifting á
meðal yður, til þess að hinir fullreyndu á meðal
20 yðar verði augljósir. Þegar þjer því komið saman,
getur það ekki verið til þess að neyta drottinlegrar
21 máltíðar, því að við borðhaldið hrifsar hver sína
eigin máltíð á undan, og er svo einn hungraður, en
22 annar ölvaður. Hafið þjer þá ekki hús til að eta og
drekka í? Eða fyrirlítið þjer söfnuð Guðs og gjörið þeim
kinnroða, sem ekkert eiga? Hvað á jeg að segja við
yður? Á jeg að hæla yður fyrir þetta? Nei, jeg
23 hæli yður ekki. Því að jeg hefi meðtekið frá Drotni
það sem jeg og hefi kent yður, að Drottinn Jesús, nótt-
24 ina sem hann var svikinn, tók brauð og þakkaði og
braut það og sagði: Þetta er minn líkami, sem er
25 fyrir yður; gjörið þetta í mína minningu; sömuleiðis
tók hann og bikarinn, eftir kveldmáltíðina, segjandi:
Þessi bikar er hinn nýi sáttmáli í mínu blóði; gjörið
þetta svo oft sem þjer drekkið, í mína minningu.
26 Því að svo oft sem þjer etið þetta brauð og drekkið
af bikarnum, boðið þjer dauða Drottins, þangað til
27 hann kemur. Hver sem þess vegna etur brauðið eða
drekkur bikar Drottins óverðuglega, hann verður
28 sekur við líkama og blóð Drottins. Hver maður
prófi því sjálfan sig, og síðan eti hann af brauðinu
29 og drekki af bikarnum. Því að sá sem etur og
drekkur, hann etur og drekkur sjálfum sjer til dóms,
30 ef hann gjörir ekki greinarmun á líkamanum. Fyrir
því eru svo margir sjúkir og krankir á meðal yðar,
31 og allmargir deyja. En ef vjer dæmdum um sjálfa
32 oss, yrðum vjer ekki dæmdir; en þegar vjer hrepp-
um dóm, erum vjer agaðir af Drotni, til þess að vjer

33 verðum ekki fyrirdæmdir ásamt heiminum. [Fyrir]því
skuluð þjer, bræður mínir, þegar þjer komið saman
34 til að matast, bíða hver eftir öðrum. Ef nokkur er
hungraður, þá eti hann heima, til þess að samkomur
yðar verði yður ekki til dóms. En um hið annað
mun jeg skipa fyrir, þegar jeg kem.

12 En viðvíkjandi anda-gáfunum, bræður, þá vil
2 jeg ekki að þjer sjeuð fáfróðir. Þjer vitið, að
þegar þjer voruð heiðingjar, þá ljetuð þjer leiða yður
til mállausra skurðgoðanna, — hvernig sem þjer
3 nú voruð leiddir. Fyrir því læt jeg yður vita, að
enginn, sem talar í Guðs anda, segir: Bölvaður sje
Jesús! og enginn getur sagt: Jesús er Drottinn! nema
í heilögum anda.

4 Mismunur er á náðargáfum, en andinn hinn sami;
5 og mismunur er á embættum, og Drottinn hinn sami;
6 og mismunur er á framkvæmdum, en Guð hinn sami,
7 sem í öllum kemur öllu til leiðar. En opinberun
andans er gefin sjerhverjum til þess sem gagnlegt er.
8 Því að einum veitist fyrir andann að mæla af speki,
en öðrum að mæla af þekkingu, samkvæmt sama
9 anda; öðrum trú í hinum sama anda; öðrum lækn-
10 ingagáfur í hinum eina anda; öðrum framkvæmdir
kraftaverka; öðrum spámannleg gáfa; öðrum grein-
ing anda; öðrum tungutalsgáfa; en öðrum útlegging
11 tungna. En öllu þessu kemur til leiðar eini og sami
andinn, sem útbýtir hverjum einum út af fyrir sig
eftir vild sinni.

12 Því að eins og líkaminn er einn, og hefir
marga limi, en allir limir líkamans, þótt margir sjeu,
13 eru einn líkami, þannig er og Kristur. Því að með ein-

um anda vorum vjer allir skírðir til að vera einn líkami,
hvort sem vjer erum Gyðingar eða Grikkir, hvort
sem vjer erum þrælar eða frjálsir, og allir vorum
14 vjer drykkjaðir með einum anda. Því að líkaminn
15 er ekki einn limur, heldur margir. Ef fóturinn segði:
Fyrst jeg er ekki hönd, heyri jeg ekki líkamanum
til, þá er hann ekki fyrir það líkamanum óviðkom-
16 andi. Og ef eyrað segði: Fyrst jeg er ekki auga,
heyri jeg ekki líkamanum til, þá er það ekki fyrir
17 það líkamanum óviðkomandi. Ef allur líkaminn væri
auga, hvar væri þá heyrnin? Ef hann væri allur
18 heyrn, hvar væri þá ilmanin? En nú hefir Guð sett
limina, hvern einstakan þeirra, á líkamann eins og
19 honum þóknaðist. En ef þeir væru allir einn limur,
20 hvar væri þá líkaminn? En nú eru limirnir margir,
21 en líkaminn einn. Og augað getur ekki sagt við
höndina: Jeg þarfnast þín ekki! nje heldur höfuðið
22 við fæturna: Jeg þarfnast ykkar ekki! Nei, miklu
fremur eru þeir limir á líkamanum nauðsynlegir, sem
23 virðast vera í veikbygðara lagi. Og þeim sem oss
virðast vera í óvirðulegra lagi á líkamanum, þeim
veitum vjer þess meiri sæmd, og gagnvart þeim, sem
vjer blygðumst vor fyrir, viðhöfum vjer þess meiri
24 blygðunarsemi; en þess þarfnast hinir ásjálegu limir
vorir ekki, heldur samsetti Guð líkamann svo, að
25 hann gaf þeim, sem vantaði, því meiri sæmd, til þess
að ekki yrði ágreiningur í líkamanum, heldur skyldu
limirnir bera sameiginlega umhyggju hver fyrir öðr-
26 um. Og hvort heldur einn limur þjáist, þá þjást allir
limirnir með honum, eða einn limur er í hávegum
27 hafður, samgleðjast allir limirnir honum. En þjer

28 eruð líkami Krists, og limir hver fyrir sig. Og Guð
hefir sett nokkra í söfnuðinum fyrst postula, í öðru
lagi spámenn, í þriðja lagi fræðara, þar næst krafta-
verk, enn fremur náðargáfu til lækninga, líknarstörf,
29 stjórnarstörf og tungutal. Hvort eru allir postular?
Hvort eru allir spámenn? Hvort eru allir fræðarar?
30 Hvort eru allir kraftaverkamenn? Hvort hafa allir
hlotið lækningagáfuna? Hvort tala allir tungum?
31 Hvort útlista allir? — En sækist eftir náðargáfunum,
þeim hinum meiri; og nú bendi jeg yður á ennþá
miklu ágætari leið.

13 Þótt jeg talaði tungum manna og engla, en
hefði ekki kærleika, yrði jeg hljómandi málm-
2 ur eða hvellandi bjalla. Og þótt jeg hefði spádóms-
gáfu og vissi alla leyndardómana og alla þekkinguna,
og þótt jeg hefði alla trúna, svo að færa mætti fjöll
úr stað, en hefði ekki kærleika, væri jeg ekki neitt.
3 Og þótt jeg deildi út öllum eigum mínum, og þótt jeg
framseldi líkama minn, til þess að jeg yrði brendur, en
4 hefði ekki kærleika, væri það mjer gagnslaust. Kærleik-
urinn er langlyndur, hann er góðviljaður. Kærleikurinn
öfundar ekki; kærleikurinn er ekki raupsamur, hreykir
5 sjer ekki upp; hann fremur ekkert ósæmilegt, leitar ekki
6 síns eigin, reiðist ekki, tilreiknar ekki hið illa, gleðst
7 ekki yfir órjettvísinni, en samgleðst sannleikanum; hann
breiðir yfir alt, trúir öllu, vonar alt, umber alt.
8 Kærleikurinn þrotnar aldrei, en hvort sem það nú
eru spádómsgáfur, þá munu þær líða undir lok, eða
tungur, þær munu þrjóta, eða þekking, þá mun hún
9 líða undir lok. Því að þekking vor er í molum og
10 spádómur vor er í molum, en þegar hið fullkomna
11 kemur, þá þverrar það sem er í molum. Þegar jeg

var barn, talaði jeg eins og barn, hugsaði eins og barn
og ályktaði eins og barn; þegar jeg gjörðist fulltíða
12 maður, lagði jeg af bernskuna. Því að nú sjáum
vjer í spegli, í ráðgátu, en þá augliti til auglitis. Nú
er þekking mín í molum, en þá mun jeg gjörþekkja,
13 eins og jeg er sjálfur gjörþektur orðinn. En nú varir
trú, von og kærleikur, þetta þrent, en þeirra er kær-
leikurinn mestur.

14 Keppið eftir kærleikanum. Sækist eftir hinum
andlegu gáfum, en einkum til þess að þjer getið
2 spáð. Því að sá sem tungu talar, talar ekki fyrir
menn, heldur fyrir Guð; því að enginn heyrir það,
3 en hann talar í anda leyndardóma. En sá sem spáir,
talar fyrir menn til uppbyggingar, áminningar og
4 huggunar. Sá sem tungu talar, uppbyggir sjálfan
5 sig, en sá sem spáir, uppbyggir söfnuðinn. Jeg vildi
að þjer töluðuð allir tungum, en þó enn meir, að
þjer gætuð spáð. En sá sem spáir, er meiri en sá
sem talar tungum, nema hann þá útleggi það, til
6 þess að söfnuðurinn hljóti uppbyggingu. En þótt jeg
nú, bræður, kæmi til yðar talandi tungum, hvað
mundi jeg gagna yður, ef jeg þá ekki talaði til yðar
annaðhvort með opinberun, eða með þekkingu, eða
7 með spámannlegri gáfu, eða með kenningu? Jafnvel
hinir dauðu hlutir, sem gefa hljóð frá sjer, hvort
heldur er pípa eða harpa, ef þær gefa ekki mismun-
andi hljóð frá sjer, hvernig ætti þá að skiljast, það
8 sem leikið er á pípuna eða hörpuna? Því að svo er
um lúðurinn; gefi hann óskilmerkilegt hljóð, hver býr
9 sig þá til bardaga? Svo er og um yður; ef þjer ekki
með tungu yðar mælið fram skilmerkileg orð, hvernig

verður það þá skilð, sem talað er? Því að þjer talið
10 þá eins og út í bláinn. Hversu margar tegundir tungu-
mála sem kunna að vera til í heiminum, alt er það
11 þó mál. Ef jeg nú ekki þekki merkingu málsins,
verð jeg sem útlendingur fyrir þann sem talar, og
12 hinn talandi útlendingur fyrir mig. Þess vegna skul-
uð þjer þá einnig, úr því þjer sækist eftir andlegum
gáfum, láta það vera söfnuðinum til uppbyggingar
13 að þjer leitist við að verða auðugir að þeim. Þess
vegna biðji sá er tungu talar, að hann geti útlagt.
14 Því að ef jeg biðst fyrir með tungu, þá biður andi
15 minn, en skilningur minn er ávaxtarlaus. Hvernig
er því þá varið? Jeg vil biðja með andanum, en
jeg vil einnig biðja með skilningnum; jeg vil lof-
syngja með andanum, en jeg vil einnig lofsyngja með
16 skilningnum. Annars, ef þú vegsamar með anda,
hvernig á þá sá, er skipar sess hins fáfróða, að segja
amen við þakkargjörð þinni, þar sem hann veit ekki,
17 hvað þú ert að segja? Því að þú getur að vísu
18 þakkað fagurlega, en hinn uppbyggist ekki. Jeg
þakka Guði, að jeg fremur yður öllum tala tungum;
19 en á safnaðarsamkomu vil jeg heldur tala fimm orð
með skilningi mínum, til þess að jeg geti frætt aðra,
en tíu þúsund orð með tungu.

20 Bræður, verið ekki börn í dómgreind, heldur
verið sem ungbörn í ilskunni, en verið fullorðnir í
21 dómgreindinni. Í lögmálinu er ritað: *Með annarlegu
tungutaki og annarlegum vörum mun jeg tala til lýðs
þessa, og eigi að heldur munu þeir heyra mig, segir
22 Drottinn.* Þannig er þá tungutalið til tákns, ekki
þeim sem trúa, heldur hinum vantrúuðu; en spá-

mannlega gáfan er ekki fyrir hina vantrúuðu, heldur
23 þá sem trúa. Ef nú allur söfnuðurinn kæmi saman
og allir töluðu tungum, og inn kæmu fáfróðir menn
eða vantrúaðir, mundu þeir þá ekki segja: Þjer eruð
24 óðir? En ef allir töluðu af spámannlegum anda, en
inn kæmi einhver vantrúaður eða fáfróður, yrði hann
25 sannfærður af öllum og dæmdur af öllum. Leyndar-
dómar hjarta hans verða opinberir; og þannig mun
hann falla fram á ásjónu sína og tilbiðja Guð, lýs-
andi yfir því, að Guð er sannarlega í yður.

26 Hvernig er það þá, bræður? Þegar þjer komið
saman, þá hefir hver sitt: einn sálm, einn kenningu,
einn opinberun, einn tungutal, einn útlistun. Alt skal
27 miða til uppbyggingar. Sjeu einhverjir, sem tala
tungu, mega þeir vera tveir eða í mesta lagi þrír,
28 hver á eftir öðrum, og einn útlisti. En ef ekki er
neinn til að útlista, þá þegi hinn á safnaðarsamkom-
29 unni, en tali við sjálfan sig og við Guð. En spá-
menn tali tveir eða þrír, og hinir aðrir skulu dæma
30 um; en fái einhver annar, sem þar situr, opinberun,
31 þá þegi hinn fyrri. Því að þjer getið allir, hver á
eftir öðrum, spáð, til þess að allir hljóti fræðslu og
32 allir verðiámintir, og andar spámanna eru spámönn-
33 um undirgefnir; því að Guð er ekki Guð truflunar-
innar, heldur friðarins.

34 Eins og í öllum söfnuðum hinna heilögu, skulu
konur þegja á safnaðarsamkomunum, því að ekki er
þeim leyft að tala, heldur skulu þær vera undir-
35 gefnar, eins og líka lögmálið segir. En ef þær vilja
fræðast um eitthvað, þá skulu þær spyrja eiginmenn
sína heima. Því að það er ósæmilegt fyrir konu að

36 tala á safnaðarsamkomu. Eða er Guðs orð útgengið
frá yður? Eða er það komið til yðar einna?
37 Ef nokkur þykist spámaður vera eða andamaður,
hann skynji, að það sem jeg skrifa yður, er boðorð
38 Drottins. Vilji einhver ekki við það kannast, þá
kannist hann ekki við það!
39 Þess vegna, bræður mínir, leggið stund á að tala
af spámannsanda, og aftrið því ekki að talað sje
40 tungum. En alt fari fram sómasamlega og með
reglu.

15 En jeg birti yður, bræður, fagnaðarerindi það
sem jeg boðaði yður, sem þjer og veittuð við-
2 töku, sem þjer einnig standið stöðugir í, sem þjer og
verðið hólpnir fyrir, ef þjer haldið fast við orðið, sem
jeg boðaði yður fagnaðarerindið með, — nema svo
skyldi vera, að þjer hafið ófyrirsynju trúna tekið.
3 Því að það kendi jeg yður fyrst og fremst, sem jeg
einnig hefi meðtekið, að Kristur dó vegna vorra
4 synda samkvæmt ritningunum, og að hann var graf-
inn, og að hann er upprisinn á þriðja degi samkvæmt
5 ritningunum, og að hann birtist Kefasi, síðan þeim
6 tólf; síðan birtist hann meir en fimm hundruð bræðr-
um í einu, sem flestir eru á lífi alt til þessa, en
7 nokkrir eru sofnaðir. Síðan birtist hann Jakobi, því
8 næst postulunum öllum. En síðast allra birtist hann
9 einnig mjer eins og ótímaburði; því að jeg er sístur
postulanna, jeg, sem ekki er þess verður að kallast
10 postuli, með því að jeg hefi ofsótt söfnuð Guðs. En
af Guðs náð er jeg það sem jeg er, og náð hans við
mig hefir ekki orðið til ónýtis, heldur hefi jeg erfiðað
meira en þeir allir, þó ekki jeg, heldur náðin Guðs

11 með mjer. Hvort sem það því er jeg eða þeir, þá
prjedikum vjer þannig, og þannig hafið þjer trúað.
12 En ef nú Kristur er prjedikaður, að hann sje
upprisinn frá dauðum, hvernig segja þá nokkrir á
13 meðal yðar, að upprisa dauðra sje ekki til? En ef
ekki er til upprisa dauðra, þá er Kristur ekki heldur
14 upprisinn; en ef Kristur er ekki upprisinn, þá er ónýt
15 prjedikun vor, ónýt líka trú yðar. En vjer reynumst
þá og ljúgvottar um Guð, því að vjer höfum vitnað
á móti Guði, að hann hafi uppvakið Krist, sem hann
hefir ekki uppvakið, svo framarlega sem dauðir ekki
16 upprísa. Því að ef dauðir ekki upprísa, er Kristur
17 ekki heldur upprisinn; en ef Kristur er ekki uppris-
inn, er trú yðar fánýt, þjer eruð þá enn í syndum
18 yðar, og jafnframt einnig þeir glataðir, sem í Kristi
19 eru sofnaðir. Ef vjer einungis í þessu lífi höfum sett
von vora til Krists, þá erum vjer aumkvunarverð-
astir allra manna.
20 En nú er Kristur upprisinn frá dauðum sem frum-
21 gróði þeirra, sem sofnaðir eru. Því að þar eð dauð-
inn kom fyrir mann, kemur og upprisa dauðra fyrir
22 mann. Því að eins og allir deyja í Adam, þannig
23 munu allir lífgaðir verða i Kristi. En sjerhver í sinni
röð: Kristur sem frumgróðinn. Því næst þeir sem
24 Krists eru í tilkomu hans. Síðan kemur endirinn,
er hann selur ríkið Guði og föðurnum í hendur, er
hann hefir að engu gjört alt veldi, öll yfirráð og
25 kraft. Því að honum ber að ríkja uns hann fær alla
26 fjendurna lagða undir fætur sjer. Sem síðasti óvinur
27 verður dauðinn að engu gjörður: *því að alt hefir hann
lagt undir fætur honum.* En þegar hann segir, að

alt hafi verið lagt undir, er augljóst, að hann er
28 undanskilinn, sem lagði alt undir hann. En þegar
alt er lagt undir hann, þá mun og sonurinn sjálfur
leggja sig undir þann, er lagði alla hluti undir hann,
til þess að Guð sje alt í öllum.

29 Til hvers væru menn annars að láta skírast
fyrir hina dánu? Ef dauðir menn yfir höfuð rísa
ekki upp, hvers vegna láta menn þá skíra sig fyrir
30 þá? Hvers vegna stofnum vjer oss líka í hættu á
31 hverri stundu? Daglega dey jeg, svo sannarlega sem
jeg, bræður, get hrósað mjer af yður í Kristi Jesú,
32 Drotni vorum. Hafi jeg eingöngu að hætti manna
barist við villidýr í Efesus, hvaða gagn hefi jeg þá af
því? Ef dauðir rísa ekki upp, *etum þá og drekkum,*
33 *því að á morgun deyjum vjer!* Villist ekki; vondur
34 fjelagskapur spillir góðum siðum. Verið algáðir, eins
og rjett er, og syndgið ekki; því að nokkrir hafa
enga þekkingu á Guði. Yður til blygðunar segi jeg
það.

35 En nú kynni einhver að segja: Hvernig rísa
36 dauðir upp? Og með hvaða líkama koma þeir? Þú
óvitri maður! það sem þú sáir, verður ekki lífgað
37 nema það deyi. Og er þú sáir, þá er það ekki líkam-
inn, sem verða á, sem þú sáir, heldur nakið frækorn,
hvort sem það nú heldur er hveitikorns eða einhvers
38 annars sæðis. En Guð gefur því líkama eftir vild
39 sinni, og hverri sæðistegund sinn líkama. Ekki er
alt hold sama hold; heldur er mannsins eitt, og hold
kvikfjárins annað, eitt er hold fuglanna, og annað
40 fiskanna. Og til eru himneskir líkamir og jarðneskir
líkamir. En reyndar er vegsemd hinna himnesku
41 eitt, og hinna jarðnesku annað. Eitt er ljómi sólar-

innar, og annað ljómi tunglsins, og annað ljómi
stjarnanna, því að stjarna ber af stjörnu í ljóma.
42 Þannig er og varið upprisu dauðra. Sáð er forgengi-
43 legu, en upprís óforgengilegt; sáð er í vansæmd, en
upprís í vegsemd; sáð er í veikleika, en upprís í
44 styrkleika; sáð er náttúrlegum líkama, en upprís
andlegur líkami. Ef náttúrlegur líkami er til, þá er
45 og til andlegur líkami. Þannig er og ritað: *Hinn
fyrsti maður, Adam, varð að lifandi sál*, hinn síðari
46 Adam að lífgandi anda. En hið andlega kemur ekki
fyrst, heldur hið náttúrlega; því næst hið andlega.
47 Hinn fyrsti maður er frá jörðu, af moldu, hinn ann-
48 ar maður er frá himnum. Eins og hinn jarðneski var,
þannig eru og hinir jarðnesku; og eins og hinn
49 himneski var, þannig eru og hinir himnesku. Og
eins og vjer höfum borið mynd hins jarðneska, mun-
um vjer einnig bera mynd hins himneska.
50 En það segi jeg, bræður, að hold og blóð getur
eigi erft guðsríki, eigi erfir heldur hið forgengilega
51 óforgengileikann. Sjá, jeg segi yður leyndardóm:
Vjer munum ekki allir sofna, en allir munum vjer
52 umbreytast í einni svipan, á einu augabragði, við
hinn síðasta lúður, því að lúðurinn mun gjalla, og
hinir dauðu munu upprísa óforgengilegir, og vjer
53 munum umbreytast. Því að þetta hið forgengilega á
að íklæðast óforgengileikanum, og þetta hið dauðlega
54 að íklæðast óðauðleikanum. En þegar þetta hið for-
gengilega hefir íklæðst óforgengileikanum og þetta
hið dauðlega hefir íklæðst óðauðleikanum, þá mun
rætast orð það sem ritað er: *Dauðinn er uppsvelgd-
55 ur til sigurs. Dauði, hvar er sigur þinn? Dauði,*

56 *hvar er broddur þinn?* En syndin er broddur dauð-
57 ans, en lögmálið afl syndarinnar. Guði sjeu þakkir,
sem gefur oss sigurinn fyrir Drottin vorn Jesúm
58 Krist! Þess vegna, mínir elskuðu bræður, verið
fastir, óbifanlegir, síauðugir í verki Drottins, vitandi,
að erfiði yðar er ekki árangurslaust í Drotni.

16 En hvað snertir samskotin til hinna heilögu,
þá skuluð þjer einnig fara með þau eins og
2 jeg hefi fyrirskipað söfnuðunum í Galatíu. Hvern
fyrsta dag vikunnar skal hver yðar taka frá heima
hjá sjer og safna í sjóð, eftir því sem efni leyfa, til
þess að ekki verði fyrst farið að efna til samskota,
3 þegar jeg kem. En þegar jeg svo kem, mun jeg
senda, með brjefum, þá sem þjer kunnið að velja, til
4 þess að flytja gjöf yðar til Jerúsalem. En ef vert er
að jeg fari líka, þá geta þeir orðið mjer samferða.
5 En jeg mun koma til yðar, er jeg hefi farið gegnum
Makedóníu; því að um Makedóníu legg jeg leið mína;
6 og hjá yður mun jeg ef til vill staldra við eða jafn-
vel dvelja vetrarlangt, til þess að þjer getið fylgt
mjer á leið, hvert sem jeg þá kann að fara. Því að
7 nú vil jeg ekki sjá yður rjett í svip; jeg vona sem
sje, ef Drottinn lofar, að standa við hjá yður nokkra
8 stund. En jeg stend við í Efesus alt til hvítasunn-
9 unnar, því að mjer hafa opnast þar víðar dyr og
verkmiklar, og andstæðingarnir eru margir.

10 En ef Tímóteus kemur, þá sjáið til þess, að hann
geti óttalaust hjá yður verið, því að hann starfar að
11 verki Drottins eins og jeg. Þess vegna lítilsvirði
enginn hann, heldur fylgið honum á leið í friði, til
þess að hann geti komist til mín. Því að jeg vænti

12 hans með bræðrunum. En hvað snertir bróður
Apollós, þá hefi jeg mikillega hvatt hann til að verða
bræðrunum samferða til yðar. En hann var alls ófáan-
legur til að fara nú, en koma mun hann, er hentug-
leikar hans leyfa.

13 Vakið, standið stöðugir í trúnni, verið karlmann-
14 legir, verið styrkir. Alt hjá yður sje í kærleika
gjört.

15 En jeg áminni yður, bræður, — þjer vitið um
heimili Stefanasar, að það er frumgróði Akkeu og að
16 þeir hafa gefið sig í þjónustu heilagra, — að einnig
þjer sýnið undirgefni slíkum mönnum, og hverjum
17 þeim er starfar með og leggur á sig erfiði. Jeg
gleðst yfir návist þeirra Stefanasar, Fortúnatusar og
Akkaíkusar, af því að þeir hafa bætt mjer upp vönt-
18 un yðar, því að þeir hafa hrest anda minn og yðar.
Virðið það því við slíka menn.

19 Asíu-söfnuðirnir heilsa yður. Yður heilsa mikil-
lega í Drotni Akvílas og Priska ásamt söfnuðinum í
20 húsi þeirra. Yður heilsa allir bræðurnir. Heilsið
hver öðrum með heilögum kossi.

21 Kveðjan er með eigin hendi minni, Páls.
22 Ef einhver elskar ekki Drottin, hann sje bölvaður.
23 Maranata! Náðin Drottins Jesú Krists sje með yður.
24 Kærleikur minn er með öllum yður í Kristi Jesú.
Amen.

# Síðara brjef Páls postula til Korintumanna.

1 Páll, postuli Krists Jesú fyrir vilja Guðs, og
bróðirinn Tímóteus, til safnaðar Guðs, sem er í
Korintuborg, ásamt öllum hinum heilögu, sem eru í
gjörvallri Akkeu.
2 Náð sje með yður og friður frá Guði föður vor-
um og Drotni Jesú Kristi.
3 Lofaður sje Guð og faðir Drottins vors Jesú
Krists, faðir miskunnsemdanna og Guð allrar hugg-
4 unar, sem huggar oss í sjerhverri þrenging vorri,
svo að vjer getum huggað aðra í hvaða þrenging
sem er, með þeirri huggun, sem vjer sjálfir erum
5 huggaðir með af Guði. Því að eins og þjáningar
Krists koma í ríkum mæli yfir oss, þannig kemur og
6 huggun vor í ríkum mæli fyrir Krist. En hvort sem
vjer sætum þrengingum, þá er það yður til huggun-
ar og hjálpræðis, eða vjer hljótum huggun, þá er það
yður til þeirrar huggunar, er verkar þolinmæði í
sömu þjáningunum, sem vjer einnig verðum að líða.
7 Og von vor um yður er staðföst; með því að vjer
vitum, að eins og þjer eruð hluttakandi í þjáningun-
8 um, þannig og í hugguninni. Því að ekki viljum
vjer, bræður, að yður skuli vera ókunnugt um þreng-
ing þá, sem vjer urðum fyrir í Asíu, að vjer vorum
aðþrengdir langt yfir megin fram, svo að vjer jafn-
9 vel örvæntum um lífið. Já, vjer höfðum sjálfir upp-

kveðið með sjálfum oss dauðadóminn, til þess að vjer
ekki skyldum treysta sjálfum oss, heldur Guði, sem
10 uppvekur hina dauðu; hann hefir frelsað oss úr
slíkri dauðans hættu og mun frelsa; til hans höfum
vjer sett von vora, að hann og hjer eftir muni frelsa
11 oss, er þjer einnig hjálpið til með bæninni fyrir oss;
til þess að frá mörgum mönnum verði vor vegna
framborið af mörgum þakklætið fyrir náðargjöfina,
sem oss er veitt.

12 Því að þetta er hrósun vor, vitnisburður sam-
visku vorrar, að vjer höfum framgengið í heiminum,
en sérstaklega hjá yður, í heilagleika og hreinleika
13 Guðs, ekki í holdlegri speki, heldur í náð Guðs. Því
að annað skrifum vjer yður ekki en það, sem þjer
annaðhvort lesið eða og eruð komnir að raun um,
en jeg vona, að þjer skulið alt til enda komast að
14 raun um, eins og þjer þegar að nokkru leyti hafið
komist að raun um viðvíkjandi oss, að vjer erum
hrósunarefni yðar, eins og líka þjer eruð vort, á degi
Drottins vors Jesú.

15 Og í þessu trausti var það ásetningur minn að
koma fyrst til yðar, til þess að þjer skylduð aftur
16 verða náðar aðnjótandi; og að fara um hjá yður alla
leið til Makedóníu, og frá Makedóníu að koma aftur
til yðar, og láta yður fylgja mjer á veg til Júdeu.
17 Hvort hefi jeg nú sýnt af mjer hverflyndi, er jeg tók
þennan ásetning? Eða áset jeg mjer eftir holdinu
það sem jeg áset mjer, — til þess að hjá mjer eigi
18 heima bæði já, já, og nei, nei? Svo sannarlega
sem Guð er trúr: orð vor til yðar eru ekki já og nei.
19 Því að sonur Guðs, Jesús Kristur, sem á meðal yðar

er prjedikaður af oss, af mjer og Silvanusi og Tímó-
teusi, varð ekki já og nei, heldur er já orðið í hon-
20 um. Því að svo mörg sem fyrirheit Guðs eru, í hon-
um er já þeirra; þess vegna er og amen þeirra
21 fyrir hann Guði til dýrðar fyrir oss. En sá sem
heldur oss ásamt yður fast við Krist og smurði
22 oss, er Guð, sem og hefir innsiglað oss og gefið oss
pant andans í hjörtu vor.

23 En jeg kalla Guð til vitnis fyrir sálu mína, að
það er af hlífð við yður, að jeg hefi enn þá ekki
24 komið til Korintuborgar. Ekki svo sem vjer drotn-
um yfir trú yðar, heldur erum vjer samverkamenn
2 að gleði yðar. Því að í trúnni standið þjer. En
það ásetti jeg mjer með sjálfum mjer, að koma
2 ekki aftur til yðar með hrygð. Því að ef jeg hryggi
yður, hver er þá sá sem gleður mig, nema sá sem
3 jeg gjöri hryggan? Og jeg hefi skrifað þetta einmitt
til þess að jeg skyldi ekki hafa hrygð, er jeg kæmi,
af þeim sem áttu að gleðja mig, þar sem jeg hefi
það traust til yðar allra, að gleði mín sje gleði yðar allra.
4 Því að af mikilli þrengingu og hjartans trega skrifaði
jeg yður með mörgum tárum, ekki til þess að þjer
skylduð hryggjast, heldur til þess að þjer skylduð
komast að raun um þann kærleika, sem jeg ber til
yðar í svo ríkum mæli.

5 En ef nokkur hefir orðið til þess að hryggja, þá
hefir hann hrygt ekki mig, heldur að nokkru leyti,
— að jeg gjöri ekki enn meira úr því, — yður alla.
6 Nægileg er þeim manni refsing sú, sem hann hefir
7 hlotið af flestöllum, svo að þjer ættuð nú öllu heldur
að fyrirgefa og hugga, til þess að hann sökkvi ekki

8 niður í alt of mikla hrygð. Fyrir því áminni jeg
9 yður að láta kærleikann koma fram við hann. Því
að í þeim tilgangi hefi jeg líka skrifað, til þess að
komast að raun um staðfestu yðar, hvort þjer væruð
10 hlýðnir í hverju sem vera skal. En hverjum sem
þjer fyrirgefið nokkuð, honum fyrirgef jeg líka. Því
að einnig það sem jeg hefi fyrirgefið, hafi jeg fyrir-
gefið nokkuð, þá hefir það verið vegna yðar fyrir
11 augliti Krists, til þess að vjer ekki yrðum vjelaðir
af Satan, því að ekki er oss ókunnugt um vjelráð
hans.

12 En er jeg kom til Tróas vegna fagnaðarerindis
13 Krists, og mjer voru þar opnaðar dyr í Drotni, þá
hafði jeg enga eirð í anda mínum, af því að jeg
hitti ekki Títus bróður minn, heldur kvaddi jeg þá
14 og fór til Makedóníu. En Guði sjeu þakkir, sem
ávalt lætur oss halda sigurför í Kristi og lætur fyrir
oss ilm þekkingar sinnar verða augljósan á hverjum
15 stað. Því að vjer erum góðilmur Krists fyrir Guði
meðal þeirra, er hólpnir verða, og meðal þeirra, er
16 glatast; þeim síðarnefndu ilmur af dauða til dauða,
en hinum ilmur af lífi til lífs. Og hver er til þessa
17 hæfur? Því að ekki erum vjer eins og hinir mörgu,
er okra með Guðs orð, heldur tölum vjer eins og af
hreinleik, eins og af Guði frammi fyrir augliti Guðs
í Kristi.

3 Erum vjer nú aftur teknir að mæla fram með
sjálfum oss? Eða mundum vjer þurfa, eins og
2 sumir, meðmælingabrjefa til yðar eða frá yður? Þjer
eruð vort brjef, ritað í hjörtum vorum, þekt og lesið
3 af öllum mönnum; þjer eruð augljósir orðnir sem

brjef Krists, sem vjer höfum unnið að, ekki skrifað
með bleki, heldur með anda lifanda Guðs, ekki á
steinspjöld, heldur á holdspjöld, sem hjartanu tilheyra.
4 En þetta traust höfum vjer til Guðs fyrir Krist.
5 Ekki svo, að vjer af sjálfum oss sjeum hæfir til að
hugsa nokkuð upp eins og af sjálfum oss, heldur er
6 hæfileiki vor frá Guði, honum sem og hefir gjört oss
hæfa til að vera þjóna nýs sáttmála, ekki bókstafs,
heldur anda; því að bókstafurinn deyðir, en andinn
7 lífgar. En ef þjónusta dauðans, sem letruð var og
höggvin á steina, kom fram í dýrð, svo að ekki gátu
Ísraels synir horft á ásjónu Móse, vegna ljóma ásýnd-
8 ar hans, sem þó varð að engu, hversu miklu fremur
9 mun þá þjónusta andans koma fram í dýrð? Því að
ef þjónusta fyrirdæmingarinnar var dýrðleg, þá er
þjónusta rjettlætisins enn þá miklu auðugri að dýrð.
10 Því að í þessari grein verður jafnvel hið dýrðlega
ekki dýrðlegt, vegna hinnar yfirgnæfandi dýrðar.
11 Því að ef það, sem að engu verður, kom fram með
dýrð, þá hlýtur miklu fremur hið varanlega að koma
fram í dýrð.

12 Með því að vjer nú höfum slíka von, þá komum
13 vjer fram með mikilli djörfung, og gjörum ekki eins
og Móse, sem setti skýlu fyrir andlit sjer, til þess að
Ísraels synir skyldu ekki horfa á endalok þess, sem
14 að engu átti að verða. En hugsanir þeirra urðu
forhertar, því að alt til þessa dags hvílir sama skýlan
yfir upplestri hins gamla sáttmála, því að ekki er
það afhjúpað fyrir þeim, að hann verður að engu í
15 Kristi. Já alt til þessa dags hvílir skýla yfir hjörtum
16 þeirra, hvenær sem Móse er lesinn. En hvenær sem

þeir snúa sjer til Drottins, verður skýlan burtu tekin.
17 En Drottinn er andi. En þar sem andi Drottins er,
18 þar er frelsi. En allir vjer, sem með óhjúpuðu andliti skoðum í skuggsjá dýrð Drottins, ummyndumst til hinnar sömu myndar, frá dýrð til dýrðar, eins og frá Drotni, sem er andi.

4 Með því að vjer þess vegna höfum þessa þjónustu á hendi, eins og oss hefir veist náð til, þá
2 látum vjer ekki hugfallast. En vjer höfum sagt oss frá leyndum hlutum, sem menn blygðast sín fyrir, framgöngum ekki með fláttskap, nje fölsum Guðs orð, heldur mælum vjer fram með oss við samvisku hvers manns fyrir Guðs augliti, með sannleikans opinberun.
3 En þó svo sje, að fagnaðarerindi vort sje hjúpað skýlu, þá er það skýlu hjúpað hjá þeim sem glatast,
4 þar sem guð þessarar aldar hefir blindað hugsanir hinna vantrúuðu, til þess að ekki skuli skína birta af fagnaðarerindi Krists dýrðar, hans sem er ímynd
5 Guðs. Því að ekki prjedikum vjer sjálfa oss, heldur Krist Jesúm sem Drottin, en sjálfa oss sem þjóna
6 yðar vegna Jesú. Því að Guð, sem sagði: Ljós skal skína fram úr myrkri! hann hefir látið það skína í hjörtum vorum til upplýsingar þekkingarinnar á dýrð Guðs í ásjónu Jesú Krists.

7 En þennan fjársjóð höfum vjer í leirkerum, til þess að ofurmagn kraftarins sje Guðs, en ekki frá
8 oss; á allar hliðar erum vjer aðþrengdir, en þó ekki ofþrengdir, vjer erum efablandnir, en örvæntum þó
9 ekki, erum ofsóttir, en þó ekki yfirgefnir, erum feld-
10 ir, en tortímumst þó ekki, berum ávalt með oss á líkamanum deyðingu Jesú, til þess að einnig líf Jesú

11 verði opinbert í líkama vorum. Því að ávalt erum
vjer lifandi til dauða framseldir vegna Jesú, til þess
að og líf Jesú verði opinbert í dauðlegu holdi voru.
12 Þannig er dauðinn verkandi í oss, en lífið í yður.
13 En með því að vjer höfum sama anda trúarinnar,
samkvæmt því sem skrifað er: *Jeg trúði, þess vegna
talaði jeg*, þá trúum vjer líka, og þess vegna tölum
14 vjer líka, þar eð vjer vitum, að hann sem vakti upp
Drottin Jesúm, muni einnig uppvekja oss ásamt Jesú,
15 og leiða oss fram ásamt yður. Því að alt er þetta
yðar vegna, til þess að náðin, aukin við að ná til
sem flestra, láti þakkargjörðina yfirgnæfa, Guði til
dýrðar.

16 Fyrir því látum vjer ekki hugfallast, en jafnvel
þótt vor ytri maður hrörni, þá endurnýjast dag frá
17 degi vor innri maður. Því að þrenging vor, skamm-
vinn og ljettbær, aflar oss mjög yfirgnæfanlegs eilífs
18 dýrðar-þunga, þar sem vjer ekki horfum á hið sýni-
lega, heldur hið ósýnilega, því að hið sýnilega er
stundlegt, en hið ósýnilega eilíft.

5 Því að vjer vitum, að þótt vor jarðneska tjald-
búð verði rifin niður, þá höfum vjer byggingu
frá Guði, hús, sem eigi er með höndum gjört,
2 eilíft á himnum. Þess vegna andvörpum vjer einn-
ig, þar sem vjer þráum að yfirklæðast húsi voru,
3 því frá himnum, svo sannarlega sem vjer og, íklædd-
4 ir því, munum ekki verða naktir. Því að og verandi
í tjaldbúðinni stynjum vjer mæddir, af því að vjer
viljum ekki afklæðast, heldur yfirklæðast, til þess að
5 hið dauðlega uppsvelgist af lífinu. En sá, sem hefir
gjört oss færa einmitt til þessa, er Guð, sem hefir

6 gefið oss pant andans. Vjer erum því ávalt hug-
hraustir og vitum, að meðan vjer eigum heima í
7 líkamanum, erum vjer að heiman frá Drotni, því að
8 vjer framgöngum í trú, en ekki í skoðun; já, vjer
erum hughraustir og langar öllu fremur til að hverfa
9 burt úr líkamanum og vera heima hjá Drotni. Þess
vegna kostum vjer og kapps um, hvort sem vjer
erum heima eða að heiman, að vera honum þóknan-
10 legir; því að öllum oss byrjar að birtast fyrir dóm-
stóli Krists, til þess að sjerhver fái endurgoldið, það
sem hann hefir unnið með líkamanum, samkvæmt
því sem hann hefir aðhafst, hvort sem það er gott
eða ilt.

11 Með því að vjer nú þekkjum ótta Drottins, leit-
umst vjer við að ávinna menn. En Guði erum vjer
opinberir orðnir, já, jeg vona, að vjer sjeum einnig
12 opinberir orðnir samviskum yðar. Ekki erum vjer
enn að mæla fram með sjálfum oss við yður, en vjer
gefum yður tilefni til að hrósa yður af oss, til þess
að þjer hafið eitthvað gagnvart þeim, er hrósa sjer
13 af hinu ytra, en ekki af hjartanu. Því að hvort sem
vjer höfum orðið frávita, þá var það vegna Guðs,
eða vjer erum með sjálfum oss, þá er það
14 vegna yðar; því að kærleiki Krists knýr oss;
15 með því að vjer höfum ályktað svo: Einn er dáinn
fyrir alla, þá eru þeir allir dánir; og hann er dáinn
fyrir alla, til þess að þeir sem lifa, lifi ekki framar
sjálfum sjer, heldur honum, sem fyrir þá er dáinn
16 og upprisinn. Þannig metum vjer þá hjeðan í frá
engan eftir holdinu; þótt vjer og hefðum þekt Krist
eftir holdinu, þekkjum vjer hann nú ekki framar

17 þannig. Ef þannig einhver er í Kristi, er hann ný
skepna; hið gamla varð að engu, sjá, það er orðið
18 nýtt. En alt er frá Guði, sem sætti oss við sig fyrir
19 Krist, og gaf oss þjónustu sáttargjörðarinnar; með
því að Guð sætti í Kristi heiminn við sjálfan sig, er
hann tilreiknaði þeim ekki yfirtroðslur þeirra, og fól
oss á hendur orð sáttargjörðarinnar.
20 Vjer erum því erindrekar í Krists stað, eins og
það væri Guð, sem áminti fyrir oss. Vjer biðjum í
21 Krists stað: Látið sættast við Guð; hann sem þekti
ekki synd, gjörði hann að synd vor vegna, til þess
að vjer skyldum verða rjettlæti Guðs í honum.

6 En sem samverkamenn hans áminnum vjer
einnig, til þess að þjer ekki til einskis skulið
2 hafa meðtekið náð Guðs; — því að hann segir: *Á
hagkvæmri tíð bænheyrði jeg þig, og á hjálpræðis degi
hjálpaði jeg þjer.* Sjá, nú er mjög hagkvæm tíð, sjá,
3 nú er hjálpræðis dagur. Í engu gefum vjer neitt
ásteytingarefni, til þess að ekki verði þjónustan fyrir
4 lasti; en í öllu mælum vjer fram með sjálfum oss,
eins og þjónar Guðs, með miklu þolgæði í þrenging-
5 um, í nauðum, í angist, undir höggum, í fangelsi, í
6 upphlaupum, í erfiði, í vökum, í föstum, með grand-
varleik, með þekkingu, með langlyndi, með góðvild,
7 með heilögum anda, með falslausum kærleika, með
sannleiksorði, með krafti Guðs, með vopnum rjett-
8 lætisins til sóknar og varnar, í heiðri og vanheiðri,
í lasti og lofi, eins og afvegaleiðendur, og þó sann-
9 orðir, eins og óþektir, en þó alþektir, eins og deyj-
andi, og sjá, þó lifum vjer, eins og agaðir, og þó
10 ekki deyddir, eins og hryggir, en þó ávalt glaðir,

eins og fátækir, en auðgum þó marga, eins og öreig-
ar, en þó eigandi alt.
11 Munnur vor er opinn gagnvart yður, Korintu-
12 menn; hjarta vort er rúmgott. Ekki er þröngt um
13 yður hjá oss, en í hjörtum yðar er þröngt. En svo
að sama komi á móti, — jeg tala eins og við börn
mín, — þá látið þjer líka verða rúmgott hjá yður.
14 Gangið ekki undir ósamkynja ok með vantrúuð-
um; því að hvað er sameiginlegt með rjettlæti og
ranglæti? Eða hvaða samfjelag hefir ljós við myrk-
15 ur? Og hver er samhljóðan Krists við Belíal? Eða
16 hver hlutdeild er trúuðum með vantrúuðum? Og
hvað á musteri Guðs við skurðgoð saman að sælda?
Því að vjer erum musteri lifanda Guðs, eins og Guð
hefir sagt: *Jeg mun búa hjá þeim og ganga um meðal*
*þeirra, og jeg mun vera Guð þeirra, og þeir munu vera*
17 *lýður minn. Þess vegna, farið burt frá þeim, og skiljið*
*yður frá þeim, segir Drottinn, og snertið ekki neitt óhreint,*
18 *og jeg mun taka yður að mjer, og jeg mun vera yður*
*faðir, og þjer munuð vera mjer synir og dætur, segir*
7 *Drottinn alvaldur.* Þar eð vjer því höfum
þessi fyrirheit, elskaðir, þá hreinsum sjálfa oss
af allri saurgun á holdi og anda, svo að vjer full-
komnum heilagleik með guðsótta.
2 Gefið oss rúm; engum höfum vjer gjört rangt til,
3 engum spilt, engan ásælst. Jeg segi það ekki í
áfellisskyni; því að jeg hefi áður sagt, að þjer eruð í
hjörtum vorum, svo að vjer deyjum saman og lifum
4 saman. Mikla djörfung hefi jeg gagnvart yður, mikil-
lega get jeg hrósað mjer af yður, jeg er fullur af

huggun, jeg er stórríkur af gleði í allri þrenging
vorri.
5 Því var og það, er vjer komum til Makedóníu,
að hold vort hafði enga ró, heldur vorum vjer á
alla vegu aðþrengdir, barátta hið ytra, ótti hið innra.
6 En Guð, sem huggar hina beygðu, hann huggaði oss
7 með komu Títusar, já, ekki að eins með komu hans,
heldur og með þeirri huggun, sem hann hafði verið
huggaður með hjá yður, er hann skýrði oss frá
eftirþrá yðar, gráti yðar, áhuga yðar min vegna, svo
8 að jeg gladdist við það enn frekar. Því að þótt jeg
hafi hrygt yður með brjefinu, þá iðrast jeg þess ekki
nú, enda þótt jeg hafi iðrast þess; því að jeg sje, að
þetta brjef hefir hrygt yður, þótt ekki hafi verið
9 nema um stund. Nú er jeg glaður, ekki yfir því, að þjer
urðuð hryggir, heldur yfir því, að þjer urðuð hryggir til
iðrunar; því að þjer urðuð hryggir Guði að skapi, til
þess að þjer skylduð ekki í neinu bíða tjón af oss.
10 Því að hrygðin Guði að skapi verkar afturhvarf til
hjálpræðis, sem engan iðrar, en hrygð heimsins
11 veldur dauða. Því að sjá, einmitt þetta, að þjer
hrygðust Guði að skapi, hvílíkum áhuga kom það til
leiðar hjá yður, já, hvílíkri vörn, hvílíkri gremju,
hvílíkum ótta, hvílíkri eftirþrá, hvílíkri vandlæting,
hvílíkri refsing! Í öllu hafið þjer nú sannað, að þjer
12 voruð hreinir í þessu tilliti. Þótt jeg því hafi skrifað
yður, þá var það ekki vegna hans sem órjettinn
gjörði, ekki heldur vegna hans sem fyrir órjettinum
varð, heldur til þess að áhugi yðar vor vegna mætti
13 koma í ljós hjá yður fyrir augliti Guðs. Þess vegna

höfum vjer huggun hlotið. En auk huggunar vorrar
höfum vjer hlotið þá gleði, sem er enn þá miklu
meiri, yfir fögnuði Títusar, því að anda hans hefir
14 verið svalað af yður öllum. Því að hafi jeg í nokkru
hrósað mjer af yður við hann, þá hefi jeg ekki þurft
að blygðast mín. Já, eins og alt var sannleika sam-
kvæmt, sem vjer höfum talað við yður, þannig hefir
og hrós vort um yður við Títus reynst sannleikur.
15 Og hjartaþel hans er því innilegra til yðar, sem
hann minnist hlýðni yðar allra, hversu þjer tókuð á
16 móti honum með ugg og ótta. Það gleður mig, að
jeg get í öllu borið traust til yðar.

8 En svo viljum vjer, bræður, skýra yður frá
þeirri náð Guðs, sem veitt hefir verið í söfnuð-
2 unum í Makedóníu, hversu ríkdómur gleði þeirra og
hin djúpa fátækt þeirra hefir í ljós leitt ríkdóm örlætis
hjá þeim, þrátt fyrir mikla þrenging, sem þeir hafa
3 orðið að reyna, hversu þeir hafa gjört það eftir
megni, — það get jeg vottað, — já, fram yfir megn,
4 af eigin hvötum, þar sem þeir lögðu fast að oss og
báðu um þá náð, að mega vera í fjelagi við oss um
5 samskotin til hinna heilögu. Og fram yfir von vora
gáfu þeir jafnvel sjálfa sig, fyrst og fremst Drotni,
6 og síðan oss að vilja Guðs, svo að vjer höfum beðið
Títus um, að hann skuli, eins og hann hefir byrjað,
7 þannig og leiða til lykta hjá yður þessa náð. En
eins og þjer eruð auðugir í öllu, að trú, og að orði
og að þekkingu og í hvers konar áhuga og í elsku
yðar til vor, svo skuluð þjer og vera auðugir í þess-
8 ari kærleiksgjöf. Jeg segi þetta ekki sem skipun,
heldur til þess að prófa einlægni kærleika yðar með

9 áhuga annara. Því að þjer þekkið náð Drottins vors
Jesú Krists, að hann, þótt ríkur væri, gjörðist yðar
vegna fátækur, til þess að þjer auðguðust af fátækt
10 hans. Og álit vil jeg gefa í þessu máli; því að þetta
er yður til gagns, yður sem frá því í fyrra voruð á
undan öðrum, ekki að eins í verkinu, heldur og í
11 viljanum. En fullgjörið nú og verkið, til þess að
eins og viljinn var fús, svo sje og framkvæmdin
12 eftir efnum. Því að ef viljinn er góður, þá er hver
þóknanlegur, eftir því sem hann á til, en ekki eftir
13 því sem hann á ekki til; ekki svo að skilja, að öðr-
um sje hlíft, en þrengt sje að yður, heldur til þess
að jöfnuður verði. Nú sem stendur bætir gnægð
14 yðar úr skorti hinna, til þess að einnig gnægð hinna
geti bætt úr skorti yðar, til þess að jöfnuður komist
15 á, eins og skrifað er: *Sá sem miklu safnaði, hafði
ekki afgangs, og þann skorti ekki, sem litlu safnaði.*

16 En þökk sje Guði, sem vakti í hjarta Títusar
17 þennan sama áhuga vegna yðar; því reyndar fekk
hann áskorun frá mjer, en áhugi hans var svo mik-
18 ill, að hann fór til yðar af eigin hvötum. En með
honum sendum vjer þann bróður, sem orð fer af í
öllum söfnuðunum fyrir starf hans í þjónustu fagn-
19 aðarerindisins; og ekki það eitt, heldur er hann og
af söfnuðunum kjörinn samferðamaður vor með kær-
leiksgjöf þessa, sem vjer höfum unnið að, til þess að
20 efla dýrð Drottins og fúsleika vorn, og höfum vjer
gjört þessa ráðstöfun, til þess að enginn geti lastað
meðferð vora á hinni miklu gjöf, sem vjer höfum
21 gengist fyrir. Því að vjer ástundum hvað gott er,
ekki að eins fyrir Drotni, heldur og fyrir mönnum.

22 En með þeim sendum vjer annan bróður vorn, sem
vjer oftsinnis og í mörgu höfum reynt kostgæfinn, en
nú miklu kostgæfnari vegna síns mikla trausts til
23 yðar. En hvort sem nú er um Títus að ræða, þá er
hann fjelagi minn og starfsbróðir með tilliti til yðar,
eða um bræður vora, þá eru þeir sendiboðar safnað-
24 anna, dýrð Krists. Sýnið því þessum mönnum í aug-
sýn safnaðanna merki elsku yðar og þess, sem vjer
höfum hrósað yður fyrir.

9 Um hjálpina til hinna heilögu er sem sje óþarft
2 fyrir mig að skrifa yður. Því að jeg þekki
góðan vilja yðar, sem jeg hrósa mjer af yðar vegna
meðal Makedóna, að Akkea hefir verið reiðubúin
síðan í fyrra; og áhugi yðar hefir verið hvöt fyrir
3 fjölda marga. En bræðurna hefi jeg sent, til þess að
hrós vort um yður skyldi ekki reynast fánýtt í þessu
efni, og til þess að þjer, eins og jeg sagði, mættuð
4 vera viðbúnir, svo að ekki fari svo, að vjer, — að
vjer ekki segjum þjer, — þurfum að bera kinnroða
fyrir þetta traust, ef Makedónar skyldu koma með
5 mjer og finna yður óviðbúna. Vjer töldum því nauð-
synlegt að uppörva bræðurna, til að fara á undan til
yðar og undirbúa fyrirfram hina áður lofuðu gjöf
yðar, svo að hún mætti vera á reiðum höndum eins
og blessun, en hefði ekki nískublæ á sjer.

6 En þetta segi jeg: Sá sem sparlega sáir, mun
uppskera sparlega, og sá sem sáir með blessunum,
7 mun og með blessunum uppskera. Sjerhver gefi eins
og hann hefir ásett sjer í hjarta sínu, ekki með ólund
eða með nauðung, því að glaðan gjafara elskar Guð.
8 En Guð er þess megnugur að láta alla náð hlotnast

yður ríkulega, til þess að þjer í öllu og ávalt hafið
alt, sem þjer þarfnist, og hafið gnægð til sjerhvers
9 góðs verks, eins og ritað er: *Hann útbýtti, gaf*
10 *hinum snauðu, rjettlæti hans varir að eilífu.* En sá
sem gefur *sáðmanninum sæði og brauð til fæðu*, hann
mun og gefa yður sáð og margfalda það og auka ávexti
11 rjettlætis yðar, svo að þjer verðið í öllu auðugir til
hvers konar örlætis, sem fyrir oss kemur til leiðar
12 þakklæti við Guð. Því að starfið að þessari þjónustu
bætir ekki að eins úr skorti hinna heilögu, heldur ber
hún og ríkulega ávexti hjá Guði fyrir þakkir margra,
13 þar sem þeir, við það að reyna þessa hjálp, lofa Guð
fyrir hlýðni yðar við játningu fagnaðarerindis Krists, og
fyrir einlægni yðar í samfjelaginu við þá og við alla,
14 um leið og þeir einnig með bæn fyrir yður þrá yður
15 vegna yfirgnæfanlegrar náðar Guðs við yður. Þökk
sje Guði fyrir sína óumræðilegu gjöf!

10 En jeg, Páll, sjálfur, áminni yður með hóg-
værð og mildi Krists, jeg, sem upp í augun
er auðmjúkur meðal yðar, en fjarverandi djarfmáll
2 við yður; jeg bið þess, að jeg þurfi ekki, er jeg kem,
að vera djarfmáll með þeim myndugleika, sem jeg
ætla mjer að beita gagnvart nokkrum, er álíta um
3 oss, að vjer framgöngum eins og eftir holdinu. Því
að þótt vjer framgöngum í holdinu, þá berjumst vjer
4 ekki á holdlegan hátt, — því að vopnin, sem vjer
berjumst með, eru ekki holdleg, heldur máttug fyrir
5 Guði til að brjóta niður vígi, — þar sem vjer brjótum
niður hugsmíðar og hæð hverja, er rís gegn þekk-
ingunni á Guði, og hertökum hverja hugsun til hlýðn-
6 innar við Krist, og erum þess albúnir að refsa sjer-

hverri óhlýðni, þegar hlýðni yðar er fullkomin orðin.
7 Þjer horfið á hið ytra. Ef einhver treystir því með
sjálfum sjer, að hann sje Krists, þá álykti sá hinn
sami með sjálfum sjer, að eins og hann er Krists,
8 þannig sjeum vjer það einnig. Því að jafnvel þótt
jeg vildi hrósa mjer í frekara lagi af valdi voru, —
sem Drottinn hefir gefið til að uppbyggja, en ekki
til að niðurbrjóta yður, — þá yrði jeg mjer ekki til
9 skammar. Til þess að ekki skuli líta svo út sem jeg
10 vilji hræða yður með brjefunum, — því að brjefin,
segja menn, eru þung og sterk, en líkamleg návist
11 hans veik og ræða hans auðvirðileg, — þá hugleiði
slíkur maður þetta, að slíkir sem vjer erum í orðinu,
í brjefunum, fjarlægir, hinir sömu erum vjer og í verk-
12 inu, nálægir. Því að ekki dirfumst vjer að telja oss
til þeirra eða bera oss sjálfa saman við suma af þeim,
er mæla fram með sjálfum sjer; en þegar þeir hinir
sömu mæla sig við sjálfa sig og bera sig saman við
13 sjálfa sig, þá eru þeir óskynsamir. En vjer viljum
ekki hrósa oss takmarkalaust, heldur innan takmarka
þeirrar línu, sem Guð hefir úthlutað oss sem tak-
14 mark: að ná alla leið jafnvel til yðar. Því að vjer
teygjum oss ekki oflangt fram, rjett eins og ef vjer
hefðum ekki komist til yðar, — því að vjer höfum
náð alla leið til yðar með fagnaðarerindi Krists.
15 Ekki stærum vjer oss takmarkalaust af erfiði annara,
heldur höfum vjer þá von, að eftir því sem trú yðar
vex, verðum vjer miklir á meðal yðar, já, stórmiklir
16 innan markalínu vorrar, svo að vjer getum boðað
fagnaðarerindið hinumegin við yður, ekki innan
markalínu annara, til þess að hrósa oss af því, sem

17 þegar er fullkomnað. En sá sem hrósar sjer, hann
18 hrósi sjer í Drotni. Því að fullgildur er ekki sá, er
mælir fram með sjálfum sjer, heldur sá, er Drott-
inn mælir fram með.

11 Ó að þjer vilduð umbera dálitla fávisku hjá
2 mjer! Jú, vissulega umberið þjer mig. Því að
jeg er vandlátur, að því er yður snertir, með vand-
læti Guðs, því að jeg hefi fastnað yður einum manni,
til þess að geta leitt fram fyrir Krist hreina mey.
3 En jeg er hræddur um, að eins og höggormurinn
tældi Evu með flærð sinni, svo kunni og hugsanir
yðar að spillast og leiðast burt frá einlægninni og
4 hreinleikanum gagnvart Kristi. Því að ef einhver
kemur og prjedikar annan Jesúm, sem vjer ekki
höfum prjedikað, eða þjer fáið annan anda, sem þjer
hafið ekki fengið, eða annað fagnaðarerindi, sem þjer
hafið ekki meðtekið, þá umberið þjer það mætavel.
5 Jeg álít mig þó ekki í neinu standa þessum göfugu
6 postulum að baki. Þótt jeg sje ólærður í ræðu minni,
er jeg það ekki hvað þekkinguna snertir, heldur
höfum vjer á allan hátt birt yður hana í öllum grein-
7 um. Eða drýgði jeg synd, er jeg lítillækkaði sjálfan
mig, til þess að þjer mættuð upphafnir verða? Því
að ókeypis boðaði jeg yður fagnaðarerindi Guðs.
8 Aðra söfnuði rúði jeg og tók mála af þeim, til þess
að geta þjónað yður; og er jeg var hjá yður og leið
9 þröng, varð jeg þó ekki neinum til byrði; því að úr
skorti mínum bættu bræðurnir, er komu frá Makedóníu.
Og í öllu varðveitti jeg sjálfan mig frá að verða til
10 þyngsla, og mun varðveita. Svo sannarlega sem
sannleiki Krists er í mjer, skal þessi hrósun ekki

11 verða rifin frá mjer í hjeruðum Akkeu. Hvers vegna?
Er það af því að jeg elska yður ekki? Nei, Guð
12 veit það. En það sem jeg gjöri, mun jeg og gjöra,
til þess að svifta þá tilefninu, sem leita tilefnis, til
þess að þeir megi reynast eins og vjer, í því sem
13 þeir stæra sig af. Því að slíkir menn eru falspostular,
svikulir verkamenn, er taka á sig mynd postula
14 Krists. Og ekki er það undur, því að Satan sjálfur
15 breytir sjer í ljóss-engil. Það er því ekki mikið, þótt
og þjónar hans breyti sjer í rjettlætis-þjóna. Afdrif
þeirra munu verða samkvæmt verkum þeirra.
16 Enn segi jeg: Ekki álíti neinn mig fávísan. En
þó svo væri, þá meðtakið mig samt sem fávísan, til
17 þess að jeg geti líka hrósað mjer dálítið. Það sem
jeg tala nú, tala jeg ekki í Drottins orða stað, heldur
18 eins og í heimsku, í þessu trausti sjálfshólsins. Með
því að margir hrósa sjer eftir holdinu, vil jeg einnig
19 hrósa mjer svo, því að fúslega umberið þjer hina
20 fávísu, svo vitrir sem þjer eruð; því að þjer umber-
ið það, þótt einhver hneppi yður í ánauð, þótt ein-
hver uppeti yður, þótt einhver hremmi yður, þótt
einhver upphefji sig, þótt einhver slái yður í andlitið.
21 Jeg segi þetta mjer til minkunar, með því að vjer
líka höfum verið veikir; en þar sem aðrir láta drýg-
indalega, — jeg tala fávíslega, — þar geri jeg það
22 líka. Eru þeir Hebrear? Jeg líka. Eru þeir Ísrael-
ítar? Jeg líka. Eru þeir Abrahams sæði? Jeg líka.
23 Eru þeir þjónar Krists? — Vitfyrringslega mæli jeg!
— Jeg er meira. Vegna meiri erfiðleika, vegna tíð-
ari fangelsa, vegna hagga fram úr hófi, vegna dauða-
24 hættu oftsinnis; af Gyðingum hefi jeg fimm sinnum

25 fengið fjörutíu fátt í einu; þrisvar verið húðstrýktur,
einu sinni verið grýttur, þrisvar liðið skipbrot, verið
26 sólarhring í sjó; — vegna sífeldra ferðalaga, vegna
háskasemda í vatnsföllum, vegna háskasemda af völd-
um ræningja, vegna háskasemda af völdum samlanda,
vegna háskasemda af völdum heiðingja, vegna háska-
semda í borgum, vegna háskasemda í óbygðum, vegna
háskasemda á sjó, vegna háskasemda meðal falsbræðra,
27 vegna erfiðis og fyrirhafnar, vegna sífeldrar næturvöku,
vegna hungurs og þorsta, vegna iðulegra föstuhalda,
28 vegna kulda og klæðleysis. Og ofan á alt annað, sem fyrir
kemur, hið daglega ónæði, áhyggjan fyrir öllum söfnuð-
29 unum. Hver er sjúkur, að jeg sje ekki sjúkur? Hver
30 hneykslast, að jeg brenni ekki? Ef jeg á að hrósa mjer,
31 vil jeg hrósa mjer af veikleika mínum. Guð og faðir
Drottins Jesú, hann, sem blessaður er að eilífu, veit
32 að jeg lýg ekki. Í Damaskus setti landshöfðingi
Areta konungs vörð um borg Damaskusmanna, til þess
33 að handtaka mig; en gegnum glugga var jeg látinn
síga út fyrir múrinn í körfu og slapp þannig úr
höndum hans.

12 Hrósa mjer verð jeg, þótt gagnlegt sje það ekki;
en jeg mun nú snúa mjer að vitrunum og opin-
2 berunum Drottins. Jeg veit mann í Kristi, sem fyrir
fjórtán árum, — hvort það var í líkamanum, það
veit jeg ekki, eða utan líkamans, það veit jeg ekki,
Guð veit það, — að sá maður var uppnuminn alt til
3 þriðja himins. Og jeg veit um þennan mann, —
hvort það var í líkamanum eða án líkamans, það
4 veit jeg ekki, Guð veit það, — að hann var uppnum-
inn í Paradís og heyrði ósegjanleg orð, sem engum

 

5 manni er leyft að mæla. Af slíku vil jeg hrósa
mjer; en af sjálfum mjer vil jeg ekki hrósa
6 mjer, nema þá af veikleika mínum. Því að þótt jeg
vildi hrósa mjer, væri jeg ekki frávita, því að jeg
mundi segja sannleika. En jeg hlífist við því, að
ekki skuli neinn hugsa um mig fram yfir það, sem
7 hann sjer hjá mjer eða heyrir til mín. Og til þess
að jeg skuli ekki hrokast upp af hinum miklu opin-
berunum, er mjer gefinn fleinn í holdið, Satans eng-
ill, til þess að slá mig, til þess að jeg skuli ekki
8 hrokast upp. Viðvíkjandi honum hefi jeg þrisvar
9 beðið Drottin, að hann færi frá mjer. Og hann hefir
svarað mjer: Náð mín nægir þjer; því að mátturinn
fullkomnast í veikleika. Því vil jeg mjög gjarnan
þess framar hrósa mjer af veikleika mínum, til þess
að kraftur Krists megi taka sjer bústað hjá mjer.
10 Þess vegna uni jeg mjer vel í veikleika, í misþyrm-
ingum, í nauðum, í ofsóknum, í þrengingum vegna
Krists, því að þegar jeg er veikur, þá er jeg mátt-
ugur.

11 Jeg hefi gjörst frávita. Þjer hafið neytt mig til
þess; því að jeg átti heimtingu á að hljóta meðmæli
af yður. Því að í engu stóð jeg þessum göfugu
postulum að baki, enda þótt jeg sje ekki neitt.
12 Postula-jartegnir voru gjörðar á meðal yðar í allri
þolinmæði, bæði með táknum og undrum og krafta-
13 verkum. Því að í hverju voruð þjer settir lægra
en hinir söfnuðirnir, nema ef vera skyldi í því, að
jeg sjálfur hefi ekki verið yður til byrði? Fyrirgefið
mjer þennan órjett!

14 Sjá, þetta er nú í þriðja sinn að jeg er ferð-
búinn að koma til yðar, og mun jeg ekki verða yður
til byrði. Því að jeg leita ekki þess sem yðar er, held-
ur yðar sjálfra. Því að ekki eiga börnin að safna
fje handa foreldrunum, heldur foreldrarnir handa
15 börnunum. En jeg vil mjög gjarnan leggja í sölurn-
ar, já, leggja sjálfan míg í sölurnar fyrir sálir yðar.
Ef jeg elska yður innilegar, verð jeg þá elskaður
16 minna? En látum svo vera, að jeg hafi ekki verið
yður til byrði, en hafi verið slægur og veitt yður
17 með brögðum! Hefi jeg notað nokkurn þeirra, sem
jeg hefi sent til yðar, til þess að hafa hag af yður?
18 Jeg hvatti Títus og sendi bróðurinn með honum.
Hefir þá Títus haft hag af yður? Framgengum við
ekki í einum og sama anda? Fetuðum við ekki í
sömu fótsporin?

19 Fyrir löngu eruð þjer farnir að halda, að vjer
sjeum að verja oss gagnvart yður. Nei, fyrir aug-
liti Guðs í Kristi tölum vjer. En alt, mínir elsk-
20 uðu, yður til uppbyggingar. Því að jeg er hræddur
um, að mjer muni, ef til vill, er jeg kem, þykja
þjer öðruvísi en jeg óska, og að yður muni þykja
jeg öðruvísi en þjer óskið; að á meðal yðar kunni
að vera deilur, öfund, reiði, flokkadrættir, bakmælgi,
21 rógburður, hroki, óeirðir; að Guð minn muni yðar
vegna auðmýkja mig, er jeg kem aftur, og að
jeg muni hryggjast yfir mörgum þeirra, er áður
hafa syndgað og ekki hafa iðrast saurlífisins, frillu-
lífisins og ólifnaðarins, sem þeir drýgðu.

13 Þetta er nú í þriðja sinn sem jeg kem til yðar.
*Af munni tveggja eða þriggja votta skal sjer-*

2 *hvert mál staðfest verða.* Jeg hefi sagt það fyrir og
segi það fyrir, eins og þá er jeg var nærstaddur í
annað sinn, þannig einnig nú fjarstaddur, til þeirra
sem áður hafa syndgað, og til allra hinna annara, að
næsta sinn sem jeg kem, mun jeg ekki hlífa þeim,
3 með því að þjer krefjist sönnunar af Kristi, sem
talar í mjer, honum, sem ekki er veikur gagnvart
4 yður, heldur er máttugur á meðal yðar. Því að
reyndar var hann krossfestur í veikleika, en hann
lifir fyrir Guðs kraft. Og einnig vjer erum veikir í
honum, en munum þó lifa með honum fyrir Guðs
5 kraft, yður til heilla. Reynið yður sjálfa, hvort þjer eruð
í trúnni, prófið yður sjálfa. Eða þekkið þjer ekki
sjálfa yður, að Jesús Kristur er í yður? Það skyldi
6 vera, að þjer stæðust ekki prófið. En jeg vona, að
þjer komist að raun um, að vjer erum ekki þeir,
7 sem ekki standast prófið. En vjer biðjum til Guðs,
að þjer gjörið ekki neitt ilt, ekki til þess að vjer
skulum koma fullreyndir í ljós, heldur til þess að
þjer gjörið hið góða, en vjer sjeum eins og þeir, sem
8 ekki standast prófið. Því að ekki megnum vjer
neitt gegn sannleikanum, heldur fyrir sannleikann.
9 Því að vjer gleðjumst þegar vjer erum veikir, en
þjer eruð styrkir. Það sem vjer biðjum um, er
10 fullkomnun yðar. Þess vegna rita jeg þetta fjar-
verandi, til þess að jeg nálægur þurfi ekki að beita
hörku, samkvæmt því valdi, sem Drottinn hefir gefið
mjer til uppbyggingar, en ekki til niðurbrots.

11 Að öðru leyti, bræður, verið glaðir. Verið
fullkomnir, áminnið hver annan, verið samhuga,

verið friðsamir. Þá mun Guð kærleikans og frið-
12 arins vera með yður. Heilsið hver öðrum með heil-
ögum kossi.
Allir hinir heilögu heilsa yður.
13 Náðin Drottins Jesú Krists og kærleiki Guðs og
samfjelag heilags anda sje með yður öllum.

---

# Brjef Páls postula til Galatamanna.

1 Páll, postuli — ekki af mönnum nje að tilhlut-
un manns, heldur að tilhlutun Jesú Krists og
Guðs föður, sem uppvakti hann frá dauðum — og
2 allir bræðurnir, sem með mjer eru: til safnaðanna í
3 Galatalandi. Náð sje með yður og friður frá Guði
4 föður og Drotni vorum Jesú Kristi, sem gaf sjálfan
sig fyrir syndir vorar, til þess að frelsa oss frá hinni
yfirstandandi vondu öld, samkvæmt vilja Guðs og
5 föður vors. Honum sje dýrð um aldir alda, amen.
6 Mig furðar, að þjer svo fljótt látið snúast frá
honum, sem kallaði yður í náð Krists, til annars kon-
7 ar fagnaðarerindis, sem er ekki annað, heldur eru
nokkrir, sem eru að trufla yður, og vilja umhverfa

8 fagnaðarerindinu um Krist. En þótt jafnvel vjer eða
engill frá himni færi að boða yður annað fagnaðar-
erindi en það, sem vjer höfum boðað yður, þá sje
9 hann bölvaður. Eins og vjer höfum áður sagt, eins
segi jeg nú aftur: ef nokkur boðar yður annað fagn-
aðarerindi en það, sem þjer hafið viðtöku veitt, þá
10 sje hann bölvaður. Því að mun jeg nú vera að tala
eftir manna vild eða Guðs? Eða er jeg að leitast
við að þóknast mönnum? Ef jeg væri enn þá að
þóknast mönnum, þá væri jeg ekki þjónn Krists.

11 Því að jeg læt yður vita, bræður, að það fagn-
aðarerindi, sem boðað var af mjer, er ekki manna-
12 verk, því að ekki hefi jeg heldur veitt því viðtöku
af manni nje verið uppfræddur í því, heldur fyrir
13 opinberun Jesú Krists; því að þjer hafið heyrt um
hegðun mína áður fyrri í gyðingdóminum, að jeg ofsótti
14 ákaflega söfnuð Guðs og eyddi hann, og jeg fór
lengra í gyðingdóminum en margir jafnaldrar mínir
meðal þjóðar minnar, þar sem jeg var miklu vand-
15 lætingasamari um setningar forfeðra minna. En þegar
Guði, sem hafði útvalið mig frá móðurlífi og af náð
16 sinni kallað, þóknaðist að opinbera son sinn í mjer,
til þess að jeg skyldi boða fagnaðarerindið um hann
meðal heiðinna þjóða, þá ráðfærði jeg mig eigi jafn-
17 skjótt við hold og blóð; ekki fór jeg heldur upp til
Jerúsalem til þeirra, sem voru postular á undan
mjer, heldur fór jeg burt til Arabíu og sneri svo
aftur til Damaskus.

18 Síðan fór jeg eftir þrjú ár upp til Jerúsalem, til
19 að kynnast Kefasi og dvaldi hjá honum fimtán daga, en
nokkurn annan af postulunum sá jeg ekki, heldur

20 aðeins Jakob, bróður Drottins. Það sem jeg skrifa
21 yður, sjá, Guð veit að jeg lýg því ekki. Síðan kom
22 jeg í hjeruð Sýrlands og Kilikíu. En jeg var þá
enn persónulega ókunnur söfnuðunum í Júdeu, sem
23 voru í Kristi. En þeir höfðu einungis heyrt sagt:
24 sá sem áður ofsótti oss, boðar nú trúna, sem hann
áður eyddi; og þeir vegsömuðu Guð fyrir mig.

2 Síðan fór jeg að fjórtán árum liðnum aftur upp
til Jerúsalem ásamt Barnabasi og tók líka Títus
2 með mjer; en jeg fór þangað eftir opinberun, og jeg
lagði fram fyrir þá fagnaðarerindið, sem jeg prjedika
meðal heiðingjanna, og sjerstaklega fram fyrir þá,
sem í áliti voru, til þess að jeg eigi skyldi hlaupa
3 til ónýtis eða hafa hlaupið. En ekki var einu sinni
Títus, sem með mjer var og var grískur maður,
4 neyddur til að láta umskerast. En það var sökum
falsbræðranna, er höfðu smeygt sjer inn og
laumast höfðu inn, til að njósna um frelsi vort, það
er vjer höfum í Kristi Jesú, til þess að þeir gætu
5 hnept oss í þrældóm. Undan þeim ljetum vjer ekki
einu sinni eitt augnablik, til þess að sannleiki fagn-
6 aðarerindisins skyldi viðhaldast hjá yður. En af
þeim, sem í nokkru áliti voru — hvað sem þeir svo
áður voru, það skiftir mig engu, Guð fer ekki í
manngreinarálit, — þeir sem í áliti voru, bættu engu
7 við hjá mjer; heldur miklu fremur, þegar þeir sáu,
að mjer var trúað fyrir fagnaðarerindinu til hinna
óumskornu, eins og Pjetri til hinna umskornu — því
8 að sá, sem efldi Pjetur til postuladæmis meðal hinna
umskornu, efldi einnig mig fyrir heiðingjana — og
9 er þeir lærðu að þekkja náðina, er mjer var veitt,

þá rjettu þeir Jakob og Kefas og Jóhannes, sem
álitnir eru að vera máttarstólpar, mjer og Barnabasi
hönd sína til samfjelags, til þess að við skyldum
fara til heiðingjanna, en þeir til hinna umskornu;
10 einungis að vjer skyldum minnast hinna fátæku, og
einmitt þetta kappkostaði jeg líka að gjöra.
11 En þegar Kefas kom til Antiokkíu, stóð jeg í
gegn honum upp í opin augun, því að hann var sak-
12 fallinn. Því að áður en nokkrir komu frá Jakob,
samneytti hann heiðingjunum, en er þeir voru komn-
ir, dró hann sig í hlje og skildi sig frá, því að hann
13 óttaðist þá, sem voru af umskurninni; og hinir Gyð-
ingarnir fóru einnig að hræsna með honum, svo að
jafnvel Barnabas ljet dragast með af hræsni þeirra.
14 En þegar jeg sá að þeir gengu ekki beint eftir sann-
leika fagnaðarerindisins, sagði jeg við Kefas í allra
áheyrn: Úr því að þú, sem ert Gyðingur, lifir að heið-
ingja siðum, en eigi Gyðinga, hvernig fer þú þá að
15 neyða heiðingja til að lifa að Gyðinga siðum? Vjer
16 erum að eðli til Gyðingar, en ekki syndarar af heið-
ingjum, en þar eð vjer vitum að maðurinn rjettlætist
ekki af lögmálsverkum og ekki nema fyrir trú á
Jesúm Krist, þá höfum einnig vjer tekið trú á Krist
Jesúm, til þess að vjer rjettlættumst af trú á Krist,
og ekki af lögmálsverkum, þvi að af lögmálsverkum
17 mun ekkert hold rjettlætast. En ef vjer, jafnframt
því sem vjer leituðumst við að rjettlætast í Kristi,
reyndumst líka sjálfir syndarar, er þá Kristur syndar
18 þjónn? Fjarri fer því. Því að fari jeg aftur að
byggja það upp, sem jeg braut niður, þá kem jeg
19 sjálfur fram sem yfirtroðslumaður, því að fyrir lögmál

20 er jeg dáinn lögmáli, til þess að jeg lifi Guði. Með
Kristi er jeg krossfestur. Jeg lifi að vísu, þó ekki
framar jeg, heldur lifir Kristur í mjer. En það sem
jeg nú lifi í holdinu, það lifi jeg í trúnni á Guðs son,
sem elskaði mig og gaf sig sjálfan út fyrir mig.
21 Ekki ónýti jeg náð Guðs, því að ef til er rjettlæting
fyrir lögmál, þá hefir Kristur dáið til einkis.

3 Ó, þjer óskynsömu Galatar, hver hefir töfrað
yður, þar sem þó Jesús Kristur var uppmálaður
2 krossfestur fyrir augum yðar? Um þetta eitt vil jeg
fræðast af yður: öðluðust þjer andann fyrir lögmáls-
3 verk? eða fyrir boðun trúar? Eruð þjer svo óskyn-
samir? Þjer, sem byrjuðuð í anda, ætlið þjer nú að
4 enda í holdi? Hafið þjer til einkis reynt svo mikið?
5 Ef það þá annars er til einkis. Sá sem því veitir
yður andann og framkvæmir máttarverk meðal yðar,
gjörir hann það fyrir lögmálsverk? eða fyrir boðun
6 trúar? Eins og *Abraham trúði Guði og það var hon-*
7 *um til rjettlætis reiknað.* Þjer skuluð því vita, að
þeir sem eru af trú, einmitt þeir eru Abrahams synir.
8 En þar eð ritningin sá það fyrir, að Guð mundi rjett-
læta þjóðirnar fyrir trú, boðaði hún Abraham fyrirfram
þann fagnaðarboðskap: *Í þjer skulu allar þjóðir verða*
9 *blessaðar;* — þannig verða þeir, sem eru af trú, bless-
10 aðir með hinum trúaða Abraham. Því að allir þeir,
sem eru af lögmálsverkum, eru undir bölvun, því að
ritað er: *Bölvaður er hver sá, sem ekki heldur fast við*
*alt það, sem í lögmálsbókinni er ritað, svo að hann*
11 *breyti eftir því.* En það er augljóst, að fyrir Guði
rjettlætist enginn fyrir lögmál, því *hinn rjettláti mun*
12 *lifa af trú.* En lögmálið er ekki af trú, heldur: *Sá*

13 *sem breytir eftir þeim, mun lifa fyrir þau.* Kristur
keypti oss undan bölvun lögmálsins, með því að hann
14 varð bölvun fyrir oss, því að ritað er: *Bölvaður er
hver sá, sem á trje hangir,* til þess að þjóðunum skyldi
hlotnast blessan Abrahams í Kristi Jesú, til þess að
vjer skyldum öðlast fyrirheit andans fyrir trúna.
15 Bræður, jeg tala eftir mannlegri venju: enginn
ónýtir þó eða bætir við sáttmála manns, sem
16 hefir verið staðfestur; en Abraham voru fyrirheitin
gefin og afkvæmi hans; hann segir ekki: *og af-
kvæmum,* eins og um marga, heldur eins og um einn:
17 *og afkvæmi þínu,* sem er Kristur. Með þessu segi
jeg þá: sáttmála, sem fyrirfram var staðfestur af Guði,
ónýtir eigi lögmálið, sem út var gefið fjögur hundruð og
þrjátíu árum síðar, svo að það felli fyrirheitið úr
18 gildi, því að ef arfleifðin fæst af lögmáli, þá fæst
hún ekki lengur af fyrirheiti, en Guð veitti Abra-
19 ham hana með fyrirheiti. Hvað er þá lögmálið?
Vegna afbrotanna og þangað til afkvæmið kæmi, sem
fyrirheitið hljóðaði um, var því bætt við fyrir um-
20 sýslun engla, fyrir hönd meðalgangara. En meðal-
21 gangari er ekki fyrir einn, en Guð er einn. Er þá
lögmálið gegn fyrirheitum Guðs? Fjarri fer því.
Því að ef það lögmál hefði verið gefið, sem hefði
getað lífgað, þá væri rjettlætið vissulega af lögmáli.
22 En ritningin hefir innilokað alt undir synd, til þess
að fyrirheitið veitist fyrir trú á Jesúm Krist, þeim
sem trúa.
23 En áður en trúin kom, vorum vjer undir lög-
málsgæslu, innilokaðir, þangað til sú trú, sem var í
24 vændum, opinberaðist. Þannig hefir lögmálið orðið
typtari vor til Krists, til þess að vjer rjettlættumst

25 af trú. En nú, þegar trúin er komin, erum vjer ekki
26 lengur undir typtara, því að þjer eruð allir Guðs börn í
27 Kristi Jesú fyrir trúna, því allir þjer, sem eruð skírðir
28 til Krists, þjer hafið íklæðst Kristi. Hjer er ekki
Gyðingur nje grískur, hjer er ekki þræll nje frelsingi,
hjer er ekki karl nje kona, því að þjer eruð allir
29 einn maður í Kristi Jesú. En ef þjer eruð Krists,
þá eruð þjer niðjar Abrahams, erfingjar eftir fyrir-
heiti.

4 En jeg segi, að alla þá stund, sem erfinginn er
barn, er enginn munur á honum og þræl, þótt
2 hann sje herra yfir öllu, heldur er hann undir fjár-
haldsmönnum og ráðsmönnum til þess tíma, er faðir-
3 inn hefir ákveðið; þannig vorum vjer einnig, er vjer
4 vorum börn, þrælbundnir undir stafrófi heimsins. En
þegar fylling tímans kom, útsendi Guð son sinn,
5 fæddan af konu, fæddan undir lögmáli, til þess að
hann keypti lausa þá, sem voru undir lögmáli, til
6 þess að vjer fengjum sonarrjettinn. En þar eð þjer
eruð synir, þá hefir Guð útsent anda sonar síns í
7 hjörtu vor, sem hrópar: Abba, faðir! Þú ert þá
ekki framar þræll, heldur sonur; en ef þú ert sonur,
þá ert þú líka erfingi fyrir Guð.

8 En á þeim tíma, þá er þjer þektuð ekki Guð,
þá voruð þjer að vísu þrælar þeirra, sem í eðli sínu
9 eru ekki guðir; en hvernig farið þjer nú, eftir að
þjer hafið fengið þekkingu á Guði, eða öllu heldur:
eruð af Guði þektir, að snúa aftur til hins veika og
fátæklega stafrófs, sem þjer af nýju viljið fara að
10 þrælka undir? Þjer hafið gætur á dögum og mán-

11 uðum og tíðum og árum. Jeg er hræddur um yður,
að jeg kunni að hafa haft erfiði fyrir yður til ónýtis.
12 Jeg bið yður, bræður: verðið eins og jeg, því að
jeg er orðinn eins og þjer. Í engu hafið þjer gjört á
13 hluta minn. En þjer vitið, að vegna veikleika holds-
ins boðaði jeg yður fagnaðarerindið hið fyrra sinn;
14 og það, sem í holdi mínu gat freistað yðar, óvirtuð
þjer ekki nje fyrirlituð, heldur tókuð þjer á móti
mjer eins og engli Guðs, eins og Kristi Jesú sjálfum.
15 Hvar er nú sæluprísun yðar? Því að jeg ber yður
það vitni, að, ef auðið hefði verið, hefðuð þjer stung-
16 ið augun úr yður og gefið mjer. Er jeg þá orðinn
óvinur yðar, vegna þess að jeg segi yður sannleik-
17 ann? Þeir láta sjer ant um yður, en það er eigi af
góðu, heldur vilja þeir útiloka yður, til þess að þjer
18 látið yður ant um þá. Að vísu er umönnun í því,
sem gott er, ávalt góð, og ekki einungis meðan jeg
19 er hjá yður. Börn mín, sem jeg af nýju el með harm-
kvælum, þangað til Kristur er myndaður í yður! —
20 jeg vildi jeg væri nú hjá yður og gæti breytt rödd
minni, því að jeg er ráðalaus með yður.
21 Segið mjer, þjer sem viljið vera undir lögmáli,
22 heyrið þjer ekki lögmálið? Því að ritað er, að Abra-
ham átti tvo sonu, annan við ambáttinni, en hinn
23 við frjálsu konunni. En sonurinn við ambáttinni var
fæddur á holdlegan hátt, en sonurinn við frjálsu kon-
24 unni var fæddur eftir fyrirheiti. Þetta hefir annar-
lega merkingu, því að þær eru tveir sáttmálar: annar
frá Sínaífjalli, sem elur börn til ánauðar, og hann er
25 Hagar; en Hagar er Sínaífjall í Arabíu og samsvarar
hinni núverandi Jerúsalem, því að hún er í ánauð

26 ásamt börnum sínum; en Jerúsalem, sem í hæðum
27 er, er frjáls, og hún er móðir vor; því að ritað er:
*Ver glöð, óbyrja, sem ekkert barn hefir átt! hrópa og
kalla hátt, þú sem ekki hefir jóðsjúk orðið! því að börn
hinnar yfirgefnu eru fleiri en hinnar, sem manninn á.*
28 En vjer, bræður, erum fyrirheitis börn eins og Ísak.
29 En eins og forðum sá, sem fæddur var eftir holdinu,
ofsótti þann, sem fæddur var eftir andanum, svo er
30 það og nú. En hvað segir ritningin? *Rek burt amb-
áttina og son hennar; því að ekki skal ambáttarson-*
31 *urinn taka arf með syni frjálsu konunnar.* Fyrir því
erum vjer, bræður, ekki ambáttar börn, heldur börn
frjálsu konunnar.

5 Til frelsis frelsaði Kristur oss; standið því fastir
og látið ekki aftur leggja á yður ánauðarok.
2 Sjá, jeg Páll, segi yður, að ef þjer látið umskerast,
3 þá gagnar Kristur yður ekkert. Og jeg vitna af nýju
fyrir hverjum manni, sem lætur umskerast, að hann
4 er skyldur til að halda alt lögmálið. Þjer eruð orðnir
viðskila við Krist, þjer sem ætlið að rjettlætast fyrir
5 lögmál; þjer eruð fallnir úr náðinni; því að vjer
6 væntum í anda, af trú, rjettlætingar vonar; því að í
Kristi Jesú gildir hvorki umskurn neitt nje yfirhúð,
7 heldur trú, starfandi fyrir kærleika. Þjer hlup-
uð vel; en hver hefir hindrað yður frá að hlýða
8 sannleikanum? Þær fortölur voru ekki frá honum,
9 sem kallaði yður. Lítið súrdeig sýrir alt deigið. Jeg hefi
10 það traust til yðar í Drotni, að þjer verðið ekki neins
annars hugar; en sá, sem truflar yður, mun bera
11 sinn dóm, hver sem hann svo er. En jeg, bræður,
ef jeg enn þá er að prjedika umskurn, hví er jeg

þá enn ofsóttur? Þá væri hneyksli krossins tekið
12 burt. Betur væri að þeir, sem koma yður í uppnám,
ljetu og afsníðast.
13 Því að þjer voruð, bræður, kallaðir til frelsis;
notið aðeins ekki frelsið til færis fyrir holdið, held-
14 ur þjónið hver öðrum fyrir kærleikann. Því að öllu
lögmálinu er fullnægt með einu orði, með þessu:
15 *Elska skaltu náunga þinn eins og sjálfan þig.* En ef
þjer bítist og etið upp hver annan, sjáið þá við því,
að þjer tortímist ekki hver fyrir öðrum.
16 En jeg segi: Framgangið í andanum, og þá full-
17 nægið þjer ekki girnd holdsins. Því að holdið
girnist gegn andanum, og andinn gegn holdinu,
því að þetta stendur hvort gegn öðru, til þess að
18 þjer gerið ekki það, sem þjer viljið. En ef þjer leið-
ist af andanum, þá eruð þjer ekki undir lögmáli.
19 En holdsins verk eru augljós, og eru þau: frillu-
20 lífi, óhreinleikur, saurlífi, skurðgoðadýrkun, fjölkyngi,
fjandskapur, deilur, metningur, bræði, sjerplægni,
21 tvídrægni, flokkadráttur, öfund, ofdrykkja, svall og
annað þessu líkt; og um það segi jeg yður fyrir, eins
og jeg hefi áður sagt, að þeir, sem slíkt gera, munu
22 ekki erfa guðsríki. En ávöxtur andans er: kærleiki,
gleði, friður, langlyndi, gæska, góðvild, trúmenska,
23 hógværð, bindindi; gegn slíku er ekkert lögmál.
24 En þeir sem eru Krists Jesú, hafa krossfest holdið
með ástríðum þess og girndum.
25 Ef vjer lifum í andanum, þá framgöngum einnig
26 í andanum. Verum ekki hjegómagjarnir, svo að vjer
áreitum hver annan og öfundum hver annan.

6 Bræður! ef einhver misgjörð kann að henda
mann, þá leiðrjettið þjer, sem andlegir eruð,
þann mann með hógværðar anda, og haf gát á sjálf-
2 um þjer, að þú freistist ekki líka. Berið hver annars
3 byrðar og uppfyllið þannig lögmál Krists. Því að
þykist nokkur vera nokkuð, þar sem hann þó er
4 ekkert, þá dregur hann sjálfan sig á tálar. En sjer-
hver rannsaki verk sjálfs sín, og þá mun hann hafa
hrósunarefni einungis fyrir sjálfan sig, en ekki fyrir
5 aðra; því að sjerhver mun verða að bera sína eigin
byrði.
6 En sá, sem uppfræðist í orðinu, veiti þeim, sem
7 uppfræðir, hlutdeild með sjer í öllum gæðum. Villist
ekki! Guð lætur ekki að sjer hæða; því að það, sem
8 maður sáir, það mun hann og uppskera. Því að sá,
sem sáir í hold sjálfs sín, mun af holdinu uppskera
glötun; en sá, sem sáir í andann, mun af andanum
9 uppskera eilíft líf. En þreytumst ekki að gera það, sem
gott er, því að á sínum tíma munum vjer uppskera, ef
10 vjer ekki gefumst upp. Þess vegna, eftir því sem
vjer höfum færi á, þá gerum gott öllum og einkum
trúbræðrum vorum.
11 Sjáið, með hversu stórum stöfum jeg skrifa yður
12 með minni eigin hendi. Allir þeir, sem vilja líta vel
út að holdinu til, þeir eru það, sem eru að þrengja
yður til að láta umskerast, einungis til þess að þeir
13 eigi verði ofsóttir vegna krossins Krists; því að ekki
halda einu sinni sjálfir þeir, sem umskornir eru, lög-
málið, heldur vilja þeir að þjer látið umskerast, til
þess að þeir geti stært sig af holdi yðar.

14 En það sje fjarri mjer að hrósa mjer, nema af
krossi Drottins vors Jesú Krists, fyrir hvern heimur-
15 inn er mjer krossfestur og jeg heiminum. Því að
16 hvorki er umskurn neitt, nje yfirhúð, heldur ný
skepna. Og yfir öllum þeim, sem þessari reglu fylgja,
sje friður og miskunn, og yfir Ísrael Guðs.
17 Enginn mæði mig hjeðan í frá, því að jeg ber
merki Jesú á líkama mínum.
18 Náðin Drottins vors Jesú Krists sje með yðar
anda, bræður. Amen.

# Brjef Páls postula til Efesusmanna.

1 Páll, postuli Krists Jesú fyrir vilja Guðs, til hinna
heilögu, sem eru í Efesus, og trúuðu í Kristi Jesú.
2 Náð sje með yður og friður frá Guði föður vorum og
Drotni Jesú Kristi.
3 Blessaður sje Guð og faðir Drottins vors Jesú
Krists, er oss hefir blessað með allri andlegri blessun
4 á himnum í Kristi, eins og hann útvaldi oss í hon-
um fyrir grundvöllun heimsins, til þess að vjer skyld-
um vera heilagir og flekklausir frammi fyrir honum
5 í kærleika, og fyrirhugaði oss til sonarstöðu hjá sjer
6 fyrir Jesúm Krist, eftir velþóknun vilja síns, til lofs
dýrðar náðar sinnar, er hann veitti oss náðarsamlega

7 í hinum elskaða, en í honum höfum vjer endurlausn-
ina fyrir blóð hans, fyrirgefningu afbrotanna, eftir
8 ríkdómi náðar hans, sem hann ljet yfirgnæfa oss til
9 handa í allri speki og skilningi, þá er hann kunn-
gjörði oss leyndardóm vilja síns eftir velþóknun sinni,
10 er hann hafði ásett sjer í honum, um ráðstöfun á fyllingu
tímanna, að endursafna öllu í Kristi, því sem er á himn-
11 um, og því sem er á jörðunni, í honum, sem vjer og höfum
öðlast arfleifð í, fyrirhugaðir eftir fyrirætlun hans, sem
12 framkvæmir alt eftir ráði vilja síns, til þess að vjer
skyldum vera til lofs dýrðar hans, vjer sem áður
13 höfum vonað á Krist, í hverjum og þjer, þá er þjer
heyrðuð orð sannleikans, fagnaðarerindið um sálu-
hjálp yðar — í hverjum og þjer, er þjer urðuð trú-
14 aðir, voruð innsiglaðir með hinum heilaga anda fyrir-
heitisins, sem er pantur arfleifðar vorrar, til endur-
lausnar eignarinnar, til lofs dýrðar hans.

15 Fyrir því læt jeg heldur eigi af, síðan jeg heyrði
um trúna hjá yður á Drottin Jesúm og kærleikann til
16 allra heilagra, að þakka fyrir yður, um leið og jeg
17 minnist yðar í bænum mínum, til þess að Guð Drott-
ins vors Jesú Krists, faðir dýrðarinnar, gefi yður
anda speki og opinberunar í þekkingu á honum og
18 upplýsi augu hjarta yðar, til þess að þjer vitið, hver
von köllunar hans er, hver ríkdómur dýrðar arfleifð-
19 ar hans meðal hinna heilögu, og hver hinn yfirgnæf-
andi mikilleikur máttar hans gegn oss, sem trúum,
20 eftir framkvæmd kraftar styrkleiks hans, sem hann
framkvæmdi á Kristi, þá er hann reisti hann frá
dauðum og setti hann sjer til hægri handar á himn-
21 um, ofar hverri tign og valdi og mætti og herradómi

 

og hverju því nafni, sem nefnt er, ekki einungis á
22 þessari öld, heldur og á hinni komandi, og alt lagði
hann undir fætur hans, og gaf hann til að vera höf-
23 uð yfir öllu söfnuðinum, sem er líkami hans, fyll-
ing hans, sem fyllir alt í öllum.

2 Einnig yður, sem dauðir voruð, vegna afbrota
2 yðar og synda, er þjer áður genguð í, sam-
kvæmt aldarhætti þessa heims, í samkvæmni við
höfðingja valdsins í loftinu, andans, sem nú verkar í
3 sonum óhlýðninnar, sem einnig vjer lifðum áður allir
meðal, í girndum holds vors, gjörandi vilja holdsins
og hugrenninganna og vorum að eðli til reiðibörn
4 eins og hinir. En Guð, sem ríkur er af miskunn,
lífgaði með Kristi oss, vegna sinnar miklu elsku,
5 sem hann elskaði oss með, jafnvel oss, sem vorum
dauðir, vegna misgjörðanna — af náð eruð þjer
6 hólpnir orðnir — og uppvakti oss með honum og
7 setti oss með honum á himnum, í Kristi Jesú, til þess
að sýna á hinum komandi öldum hinn yfirgnæfandi
ríkdóm náðar sinnar, í gæsku við oss í Kristi Jesú;
8 því að af náðinni eruð þjer hólpnir orðnir fyrir trú,
9 og það er ekki af yður; Guðs er gjöfin. Ekki af
10 verkum, til þess að enginn skuli hrósa sér. Því að
hans verk erum vjer, skapaðir í Kristi Jesú til góðra
verka, sem Guð hefir fyrirbúið til þess að vjer skyld-
um framganga í þeim.

11 Minnist þess vegna þess, að þjer, sem áður voruð
heiðingjar í holdi, sem kallaðir eruð yfirhúð af
umskurninni, sem kölluð er, og er á holdi með hönd-
12 um gjörð, að þjer voruð á þeim tíma án Krists, úti-
lokaðir frá þegnrjetti Ísraels og fjarlægir sáttmálum

13 fyrirheitisins, án vonar og án Guðs í heiminum. En
nú, í Kristi Jesú eruð þjer, sem áður voruð í fjar-
14 lægð, nálægir orðnir í blóði Krists; því að hann er
vor friður, hann sem úr báðum gjörði eitt og reif
15 niður millivegg girðingarinnar, þá er hann afmáði
með holdi sínu fjandskapinn, lögmál boðorðanna í
tilskipunum, til þess að umskapa í sjálfum sjer hina
16 tvo til að vera einn nýr maður, semjandi frið, og að
friðþægja þá báða í einum líkama við Guð, fyrir
krossinn, þá er hann hafði deytt fjandskapinn á hon-
17 um; og hann kom og boðaði frið yður, hinum fjar-
18 lægu, og frið hinum nálægu. Því að fyrir hann höf-
um vjer hvorirtveggja í einum anda aðgang til föðurs-
19 ins. Þjer eruð þess vegna ekki framar aðkomumenn
og útlendingar, heldur eruð þjer samþegnar hinna
20 heilögu og heimamenn Guðs, uppbygðir á grundvelli
postulanna og spámannanna, þar sem Kristur Jesús
21 er sjálfur hyrningarsteinn, sem hver bygging sam-
tengist í og vex og verður heilagt musteri í Drotni,
22 sem einnig þjer eruð sambygðir í til bústaðar Guðs
í andanum.

3 Þessa vegna er jeg, Páll, bandingi Krists Jesú,
2 vegna yðar heiðingjanna, ef þjer annars hafið
heyrt um þá ráðstöfun Guðs náðar, sem mjer er
3 veitt yður til handa, að fyrir opinberun var leyndar-
dómurinn auglýstur mjer, eins og jeg áður hefi skrif-
4 að í stuttu máli, svo að þjer getið, þá er þjer lesið
það, af því skynjað skilning minn á leyndardómi
5 Krists, sem hjá öðrum kynslóðum var ekki auglýstur
sonum mannanna, eins og hann hefir nú verið opin-
beraður hinum heilögu postulum hans og spámönn-

6 um í andanum, að heiðingjarnir sjeu samarfar og
limir á sama líkama og samhluttakendur fyrirheitis-
7 ins í Kristi Jesú, fyrir fagnaðarerindið, hvers þjónn
jeg er orðinn, eftir gjöf náðar Guðs, sem mjer hefir
8 verið veitt, eftir framkvæmd máttar hans; mjer, hin-
um minsta allra heilagra, var veitt þessi náð, að boða
heiðingjunum fagnaðarerindið um hinn órannsakan-
9 lega ríkdóm Krists og að upplýsa alla um það, hver
sje ráðstöfun leyndardómsins, sem frá eilífð hefir
10 verið hulinn í Guði, sem alt hefir skapað, til þess
að hin margbreytta speki Guðs skyldi nú fyrir söfn-
uðinn auglýst verða völdunum og yfirráðunum á himn-
11 um, eftir eilífri fyrirætlan, sem hann framkvæmdi í
12 Kristi Jesú, Drotni vorum, í hverjum vjer höfum
djörfungina og aðganginn í trausti fyrir trúna á hann.
13 Fyrir því bið jeg að þjer látið eigi hugfallast í þreng-
ingum mínum fyrir yður, sem eru yðar heiður.
14 Þess vegna beygi jeg knje mín fyrir föðurnum,
15 sem hvert faðerni fær nafn af á himni og jörðu,
16 að hann gefi yður eftir ríkdómi dýrðar sinnar að
styrkjast með krafti fyrir anda sinn í hinum innra
17 manni, til þess að Kristur megi búa fyrir trúna í
18 yðar hjörtum, til þess að þjer, rótfestir og grund-
vallaðir í kærleika, megnið að skilja ásamt öllum
heilögum, hver sje breiddin, lengdin, hæðin og dýpt-
19 in og að þekkja kærleik Krists, sem yfirgnæfir
þekkinguna, til þess að þjer fyllist til allrar fyllingar
Guðs.
20 En honum, sem megnar að gjöra fram yfir alt,
yfirgnæfanlega mikið fram yfir það, sem vjer biðjum
eða skynjum, eftir þeim krafti, sem í oss verkar,

21 honum sje dýrð í söfnuðinum og í Kristi Jesú um
allar kynslóðir, um aldir alda. Amen.

4 Jeg, bandinginn í Drotni, áminni yður þess
vegna um að framganga eins og samboðið er
2 kölluninni, sem þjer eruð kallaðir með, með öllu lítil-
læti og hógværð, með langlyndi, svo að þjer umberið
3 hver annan í kærleika og kappkostið að varðveita
4 einingu andans í bandi friðarins. Einn líkami og
einn andi, eins og þjer einnig voruð kallaðir í einni
5 von við köllun yðar; einn Drottinn, ein trú,
6 ein skírn, einn Guð og faðir allra, sem er yfir öllum
7 og með öllum og í öllum. En sjerhverjum af oss
var náðin veitt eftir mæli Krists gjafar.

8 Þess vegna segir hann: *Stiginn upp til hæðar*
9 *hertók hann fanga og gaf mönnunum gjafir*; en þetta,
»hann steig upp«, hvað er það annað en að hann
10 líka steig niður til neðri hluta jarðarinnar? En sá
sem niður steig, er og hinn sami, sem upp stje, upp
yfir alla himna, til þess að hann mætti uppfylla alt.
11 Og sá hinn sami hefir gefið suma sem postula, suma
sem spámenn, suma sem trúboða, suma sem hirða og
12 kennara, til þess að fullkomna hina heilögu, til þjónustu-
13 starfs, til uppbyggingar líkama Krists, þangað til vjer allir
náum til einingar trúarinnar og þekkingarinnar á Guðs
syni, til fullorðins manns, til mælis vaxtar Krists fylling-
14 ar, til þess að vjer sjeum ekki framar börn, er hrekjumst
og berumst fram og aftur af hverjum kenningarvindi,
við brögð mannanna, í slægð eftir vjelum villunnar,
15 heldur ástundum sannleikann í kærleika og fáum
16 vaxið í öllu til hans, sem er höfuðið, Kristur, út frá
hverjum allur líkaminn, samanfeldur og samantengd-

ur með hvers konar liðveitandi taug, eflir vöxt sinn
til eigin uppbyggingar í kærleika, eftir þeim starfs-
krafti, sem hver einstakur hluti er gæddur.
17 Þetta segi jeg því og vitna í Drotni, að þjer
ekki framar skuluð framganga eins og heiðingjarnir
18 framganga í hjegómleik hugskots síns, þeir sem eru
blindaðir í hugsun sinni, fjarlægir lífi Guðs, vegna
vanþekkingarinnar, sem í þeim er, vegna harðúðar
19 hjarta þeirra, þeir sem tilfinningarlausir hafa ofur-
selt sig saurlífi, til að drýgja alls konar óhreinleik
20 samfara ágirnd. En þjer hafið ekki lært Krist þann-
21 ig, ef svo er að þjer hafið heyrt hann og hafið verið
uppfræddir í honum, á þann hátt, sem sannleikur er
22 í Jesú: Að þjer skulið afleggja, að því er snertir
hina fyrri breytni, hinn gamla mann, sem spillist
23 samkvæmt girndum tálsins, en að þjer skulið endur-
24 nýjast í anda hugskots yðar og íklæðast hinum nýja
manni, sem skapaður er eftir Guði í rjettlæti og
heilagleika sannleikans.
25 Afleggið þess vegna lygina og talið sannleika
hver við náunga sinn, því að vjer erum limir
26 hver annars. Reiðist og syndgið ekki, sólin má
27 ekki setjast yfir reiði yðar, og gefið ekki heldur
28 djöflinum rúm. Sá sem stelur, steli ekki framar,
heldur vinni og gjöri það, sem gott er, með höndum
sínum, til þess að hann hafi eitthvað til þess að miðla
29 þeim, sem þurfandi er. Látið ekkert svívirðilegt orð
fara út af munni yðar, heldur það, sem gott er til
uppbyggingar, eftir því sem þörf er á, til þess að það
30 veiti náð þeim sem heyra. Og hryggið ekki hinn
heilaga anda Guðs, sem þjer eruð innsiglaðir í til

31 endurlausnar-dagsins. Látið hvers konar beiskleika,
ofsa, reiði, hávaða og lastmæli vera fjarlæg yður,
32 ásamt allri mannvonsku; en verðið góðir hver við
annan, meðaumkvunarsamir, fúsir að fyrirgefa
hver öðrum, eins og einnig Guð hefir í Kristi fyrir-
gefið yður.

5 Verðið því eftirbreytendur Guðs sem elskuð
2 börn, og framgangið í kærleika, eins og einnig
Kristur elskaði yður og gaf sig sjálfan út fyrir oss,
sem fórnargjöf og sláturfórn, Guði til velþóknunarilms.
3 En frillulífi og hvers konar óhreinleiki eða ágirnd á
ekki einu sinni að nefnast á nafn á meðal yðar, eins
4 og heilögum hæfir, og ekki heldur svívirðilegt athæfi
eða fíflslegt hjal eða gárungaháttur, sem er ósæmi-
5 legt, heldur miklu fremur þakkargjörð; því að það
vitið þjer og þekkið, að enginn frillulífismaður, eða
saurugur eða ágjarn, sem er hjáguðadýrkari, hefir
6 arftöku í ríki Krists og Guðs. Látið engan tæla yður
með marklausum orðum, því að fyrir þetta kemur
7 reiði Guðs yfir syni óhlýðninnar. Takið því ekki
8 hlutdeild með þeim; því að áður voruð þjer myrkur,
en nú eruð þjer ljós í Drotni; framgangið eins og
9 börn ljóssins, — því að ávöxtur ljóssins er alls konar
10 góðvild, rjettlæti og sannleiki — og rannsakið,
11 hvað Drotni er þóknanlegt, en takið ekki þátt með
þeim í hinum ávaxtarlausu verkum myrkursins, held-
12 ur miklu fremur vandið um þau, því að það, sem
þeir drýgja í leyndum, er jafnvel skömm um að
13 tala, en alt þetta er opinberað af ljósinu, þegar
vandað er um það, því að sjerhvað það, sem opinberað

14 er, er ljós. Þess vegna segir svo: *Vakna þú, sem sefur,*
*og rís upp frá dauðum, og þá mun Kristur lýsa þjer.*
15 Gætið því nákvæmlega að, hvernig þjer fram-
16 gangið, ekki sem fávísir, heldur sem vísir; kaupið
17 hinn hentuga tíma, því að dagarnir eru vondir. Verið
18 því ekki óskynsamir, heldur skynjið, hvað er vilji
Drottins, og verðið ekki druknir af víni, því að í
19 því er spilling, heldur fyllist andanum, og hafið yfir
hver fyrir öðrum sálma, lofsöngva og andleg ljóð,
20 og syngið og leikið Drotni lof í hjarta yðar, og
þakkið jafnan Guði og föður fyrir alla hluti í nafni
21 Drottins vors Jesú Krists, og gjörið yður hver öðrum
undirgefna í ótta Krists.
22 Þjer konur, gjörið yður undirgefnar eiginmönn-
23 um yðar, eins og Drotni, því að maðurinn er höfuð
konunnar, eins og einnig Kristur er höfuð safnaðar-
24 ins, hann sem er frelsari líkama síns. En eins og
söfnuðurinn gjörir sig undirgefinn Kristi, þannig líka
25 konurnar mönnum sínum í öllu. Þjer menn, elskið
konur yðar, eins og Kristur elskaði söfnuðinn og gaf
26 sig sjálfan út fyrir hann, til þess að hann helgaði
hann, er hann hafði hreinsað hann við vatnslaugina
27 með orði, til þess að láta söfnuðinn koma fram fyrir
sjálfan sig sem dýrðlegan söfnuð, sem hefði ekki
blett nje hrukku eða neitt þess háttar, heldur væri
28 heilagur og lýtalaus. Þannig eiga líka mennirnir
að elska konur sínar, eins og líkami sjálfra sín. Sá
29 sem elskar konu sína, elskar sjálfan sig, því að eng-
inn hefir nokkru sinni hatað sitt eigið hold, heldur
elur hann önn fyrir því og hjúkrar því, eins og
30 einnig Kristur söfnuðinum. Því að vjer erum limir

31 á líkama hans. Þess vegna skal maður yfirgefa föður
sinn og móður sína og búa við eiginkonu sína, og
32 munu þau tvö verða eitt hold. Þessi leyndardómur
er mikill, en jeg segi það í tilliti til Krists og safn-
33 aðarins. En samt skuluð þjer einnig hver um sig
elska þannig eiginkonu sína eins og sjálfan sig;
en konan, hún á að bera lotningu fyrir manni
sínum.

6 Þjer börn, hlýðið foreldrum yðar í Drotni,
2 því að það er rjett. *Heiðra föður þinn og móð-
ur* — það er hið fyrsta boðorð með fyrirheiti — *til*
3 *þess að þjer vegni vel og þú verðir langlífur í landinu.*
4 Og þjer feður, reitið ekki börn yðar til reiði, heldur
upp alið þau með aga og umvöndun Drottins.
5 Þjer þjónar, hlýðið þeim, sem eftir holdinu eru
drotnar yðar, með lotningu og ótta, í einlægni hjarta
6 yðar, eins og Kristi, ekki með augnaþjónustu, eins og
þeir er mönnum vilja þóknast, heldur eins og þjónar
7 Krists, er gjöra vilja Guðs af alhuga, og þjónið þeim
8 með fúsu geði, eins og Drotni og ekki mönnum, með
því að þjer vitið, að hvað gott, sem hver gjörir, það
mun hann fá aftur af Drotni, hvort sem hann er
9 þræll eða frjáls maður. Og þjer, drotnar, breytið
eins við þá, og látið af hótunum, með því að þjer
vitið, að bæði þeirra og yðar Drottinn er á himnum,
og að hjá honum er ekkert manngreinarálit.
10 Að öðru leyti styrkist í Drotni og í krafti mátt-
11 ar hans; íklæðist alvæpni Guðs, til þess að þjer get-
12 ið staðist vjelabrögð djöfulsins, því að baráttan, sem
vjer eigum í, er ekki við blóð og hold, heldur við
völdin, við yfirráðin, við heimsdrotna þessa myrkurs,

13 við vonskunnar anda í himingeimnum. Fyrir því
skuluð þjer taka alvæpni Guðs, til þess að þjer getið
veitt mótstöðu á hinum vonda degi, og getið staðist,
14 er þjer hafið framkvæmt alt. Standið því gyrtir
sannleika um lendar yðar og íklæddir brynju rjett-
15 lætisins og skóaðir á fótunum með viðbúinleik fagn-
16 aðarboðskaps friðarins, og takið jafnframt upp skjöld
trúarinnar, sem þjer munuð geta slökt með öll hin
17 eldlegu skeyti hins vonda, og takið hjálm hjálpræðis-
18 ins og sverð andans, sem er Guðs orð; og með alls
konar bæn og beiðni skuluð þjer biðja á hverri tíð
í andanum og vera árvakrir við það með allri kost-
19 gæfni og beiðni fyrir öllum heilögum, og fyrir mjer,
til þess að mjer verði gefin orð, þá er jeg lýk upp
munni mínum, til þess að boða með djörfung leyndar-
20 dóm fagnaðarboðskaparins, sem jeg er sendiboði fyrir
í fjötrum, til þess að jeg megi flytja hann með djörf-
ung, eins og mjer ber að tala.
21 En til þess að þjer einnig fáið að vita um mína
hagi, hvernig mjer líður, þá mun Týkíkus, hinn
elskaði bróðir og trúi þjónn í Drotni, skýra yður
22 frá öllu. Og hann sendi jeg til yðar einmitt í þeim
tilgangi, til þess að þjer fáið að vita um vora hagi,
og hann geti huggað hjörtu yðar.
23 Friður sje með bræðrunum og kærleiki með trú
24 af Guði föður og Drotni Jesú Kristi. Náðin sje með
öllum þeim, sem elska Drottin vorn Jesúm Krist í
óforgengileik!

# Brjef Páls postula til Filippímanna.

1 Páll og Tímóteus, þjónar Krists Jesú, til allra
heilagra í Kristi Jesú, sem eru í Filippí, ásamt
biskupum og djáknum.
2 Náð sje með yður og friður frá Guði föður vor-
um og Drotni Jesú Kristi.
3 Jeg þakka Guði mínum í hvert skifti sem jeg
4 hugsa til yðar, og gjöri ávalt í öllum bænum mínum
5 með gleði bæn fyrir yður öllum, fyrir samfjelag yð-
ar um fagnaðarerindið, frá hinum fyrsta degi til
6 þessa; þar eð jeg fulltreysti einmitt því, að hann,
sem byrjaði í yður gott verk, muni fullkomna það
7 alt til dags Jesú Krists, eins og einnig rjett er fyrir
mig að bera þennan huga til yðar allra, þar eð jeg
hefi yður í hjarta mínu, þar sem þjer eruð allir
hluttakandi ásamt mjer í náðinni, bæði í fjötrum
mínum og við vörn og staðfesting fagnaðarerindisins.
8 Því að Guð er mjer þess vitni, hvernig jeg þrái yð-
9 ur alla með ástúð Krists Jesú; og þetta bið jeg um,
að elska yðar aukist enn þá meir og meir, með þekk-
10 ingu og allri greind, svo að þjer getið metið rjett þá
hluti, sem munur er á, til þess að þjer sjeuð hreinir
11 og ámælislausir til dags Krists, auðugir að rjettlætis
ávexti, þeim er fæst fyrir Jesúm Krist, til dýrðar og
lofs Guði.
12 En jeg vil, bræður, að þjer skulið vita, að það,
sem fram við mig hefir komið, hefir mikillega orð-

13 ið fagnaðarerindinu til eflingar, svo að það er aug-
ljóst orðið í allri lífvarðarhöllinni og fyrir öllum öðr-
14 um, að fjötrar mínir eru í Kristi, og að flestir af
bræðrunum í Drotni hafa, uppörfaðir við fjötra mína,
15 meiri djörfung til að tala orð Guðs óttalaust. Sumir
prjedika að sönnu Krist af öfund og þrætugirni, en
16 sumir gjöra það líka af góðum hug; þeir, sem gjöra
það af kærleika, gjöra það vegna þess, að þeir vita,
17 að jeg er settur fagnaðarerindinu til varnar; en hinir,
sem prjedika Krist af sjerdrægni, gjöra það ekki af
hreinum huga, heldur í þeim tilgangi að bæta þreng-
ingu ofan á fjötra mína.

18 En hvað um það? einungis að Kristur er boð-
aður á allan hátt, hvort sem það heldur er af yfir-
drepsskap eða í sannleika; og þetta gleður mig og
19 það mun einnig gleðja mig; því að jeg veit, að þetta
verður mjer til frelsunar fyrir bæn yðar og fulltingi
20 anda Jesú Krists, eftir innilegri löngun minni og von,
að jeg í engu muni til skammar verða, heldur að
Kristur muni í allri djörfung einnig nú, eins og ávalt,
miklast fyrir líkama minn, hvort sem það verður
21 með lífi eða dauða; því að mjer er það að lifa Krist-
22 ur og að deyja ávinningur. En ef það að lifa í
holdinu er starfsávöxtur fyrir mig, þá veit jeg
reyndar ekki, hvað jeg á að kjósa.

23 Það er tvent, sem þrýstir að mjer, þar sem jeg
hefi löngun til að fara hjeðan og vera með Kristi,
24 því að það væri miklu betra; en að dvelja í holdinu
25 er nauðsynlegra yðar vegna; og í trausti til þess veit
jeg að jeg muni lifa og halda áfram að vera hjá
26 yður öllum, yður til framfara og gleði í trúnni, til

þess að hrós yðar verði því meira í Kristi Jesú fyrir
mína skuld, við það að jeg kem aftur til yðar.
27 Einungis skuluð þjer hegða yður eins og samboðið
er fagnaðarerindi Krists, til þess að hvort sem jeg
kem og sje yður, eða jeg er fjarverandi, að jeg fái
að heyra um yður, að þjer standið stöðugir í einum
anda og berjist saman með einni sál, fyrir trú fagn-
28 aðarerindisins, og látið í engu skelfast af mótstöðu-
mönnunum, sem fyrir þá er merki um glötun þeirra,
29 en um hjálpræði yðar, og það frá Guði; því yður er
veitt sú náð fyrir Krists sakir, ekki einungis að trúa
á hann, heldur og að þola þjáningar hans vegna,
30 yður, sem eigið í sömu baráttu, sem þjer áður sáuð
á mjer og nú heyrið um mig.

2 Ef því nokkur upphvatning er í Kristi, ef nokk-
urt kærleiksávarp, ef nokkurt samfjelag andans,
2 ef nokkur ástúð og meðaumkvun á sjer stað, þá
gjörið gleði mína fullkomna, svo að þjer sjeuð samhuga,
hafið sama kærleika og hafið með einni sál eitt í
3 huga; ekkert af sjerdrægni nje hjegómagirnd, heldur
metið með lítillæti hver annan meir en sjálfan sig;
4 og sjerhver líti ekki einungis til þess, sem hans er,
5 heldur líti og sjerhver til þess, sem annara er. Hafið
6 það hugarfar í yður, sem og var í Kristi Jesú, sem
áleit það ekki, þótt hann væri í Guðs mynd, rán að
7 vera jafn Guði, heldur afklæddist henni, er hann tók
8 þjóns mynd og kom í líkingu manns; og er hann
kom fram að ytra hætti sem maður, lítillækkaði
hann sjálfan sig og varð hlýðinn til dauða, já til dauða
9 á krossi. Fyrir því hefir og Guð hátt upp hafið
hann, og gefið honum nafnið, sem hverju nafni er æðra,

10 til þess að í nafni Jesú skuli hvert knje beygja sig,
þeirra, sem eru á himni, og þeirra, sem eru á jörðu,
11 og þeirra, sem undir jörðunni eru, og sjerhver tunga
viðurkenna, að Jesús Kristur er Drottinn, Guði föður
til dýrðar.
12 Eins og þjer þess vegna, mínir elskuðu, hafið
ætíð verið hlýðnir, svo vinnið að sáluhjálp yðar með
ugg og ótta, ekki eins og í viðurvist minni aðeins,
13 heldur nú miklu fremur að mjer fjarverandi; því að
það er Guð, sem verkar í yður bæði að vilja og
14 framkvæma, sjer til velþóknunar. Gjörið alt án
15 mögls og efablendni, til þess að þjer verðið óaðfinn-
anlegir og einlægir, flekklaus Guðs börn meðal rang-
snúinnar og gjörspiltrar kynslóðar, sem þjer skínið
16 hjá eins og himinljós í heiminum, og haldið fast við
orð lífsins, mjer til hróss á degi Krists, að jeg hafi
17 ekki hlaupið til ónýtis nje erfiðað til ónýtis. En
þótt mjer, við fórn og þjónustu mína að trú yðar,
verði sjálfum fórnað, þá gleðst jeg og samgleðst
18 yður öllum; en af hinu sama skuluð þjer einnig
gleðjast og samgleðjast mjer.
19 En jeg vona í Drotni Jesú, að jeg bráðum muni
geta sent Tímóteus til yðar, til þess að einnig mjer
verði hughægra, þá er jeg fæ að vita um hagi yðar;
20 því að engan hefi jeg með sama huga, þann, er láti
21 sjer einlæglega ant um hagi yðar; því að allir
leita þeir þess, sem er þeirra sjálfra, en ekki þess,
22 sem Jesú Krists er. En þjer vitið, hvernig hann
hefir reynst, að hann hefir þjónað að boðun fagn-
aðarerindisins með mjer, eins og barn þjónar föður
23 sínum. Hann vona jeg þá að geta sent, jafnskjótt

24 og jeg er búinn að fullsjá, hvað um mig verður. En
jeg treysti því í Drotni, að jeg muni og bráðum
25 koma sjálfur. En jeg hefi álitið nauðsynlegt að
senda til yðar Epafrodítus, bróður minn og samverka-
mann og samherja, en sendimann yðar og erindreka
26 í því að bæta úr þörf minni, því að hann þráði yð-
ur alla og var angurvær út af því, að þjer höfðuð
27 heyrt, að hann hefði orðið sjúkur; því sjúkur varð
hann, að kominn dauða, en Guð miskunnaði honum,
og ekki einungis honum, heldur og mjer, til þess að
28 jeg eigi skyldi hafa hrygð á hrygð ofan. Þessa
vegna hefi jeg flýtt mjer því heldur að senda hann,
til þess að þjer verðið aftur glaðir, er þjer sjáið hann,
29 og mjer verði hughægra. Takið því á móti honum
í Drotni með öllum fögnuði, og hafið slíka menn í
30 heiðri, því að fyrir verk Krists var hann að dauða
kominn, þar eð hann lagði líf sitt í hættu, til þess
að hann bætti upp það, sem brast á þjónustu yðar
mjer til handa.

3 Að öðru leyti, bræður mínir, gleðjist í Drotni.
Að skrifa yður hið sama er mjer eigi erfitt,
2 en fyrir yður er það tryggjandi. Gefið gætur að
hundunum, gefið gætur að hinum vondu verkamönn-
3 um, gefið gætur að sundurskurninni; því að vjer
erum umskurnin, vjer sem dýrkum Guð með hans
anda og hrósum oss í Kristi Jesú, og treystum ekki
4 holdinu, jafnvel þótt jeg einnig í holdinu hafi það,
sem jeg gæti treyst. Ef einhver annar þykist geta
5 treyst holdinu, þá get jeg það fremur: Jeg er um-
skorinn á áttunda degi, af kyni Ísraels, ættkvísl
Benjamíns, Hebrei af Hebreum, að lögmáli til Farisei,

6 að vandlæti til maður, er ofsótti söfnuðinn, og að því
rjettlæti til, sem fæst með lögmálinu, var jeg óásakan-
7 legur. En það, sem var mjer ávinningur, það hefi jeg
8 sakir Krists metið sem skaða; já, meir að segja met
jeg jafnvel alt vera skaða hjá ágæti þekkingarinnar
á Kristi Jesú, Drotni mínum, fyrir hvers sakir jeg
hefi mist alt og met það sem sorp, til þess að jeg
9 geti áunnið Krist og reynst vera í honum, án þess að
hafa eigið rjettlæti, það er fæst af lögmáli, heldur
það, er fæst fyrir trú á Krist, rjettlætið frá Guði með
10 trúnni, til þess að jeg geti þekt hann og kraft upp-
risu hans og samfjelag písla hans, sammyndaður
11 orðinn dauða hans, ef mjer mætti auðnast að ná til
12 upprisunnar frá dauðum. Ekki að jeg hafi þegar náð
því eða sje þegar fullkominn, en jeg keppi eftir því,
ef jeg skyldi geta höndlað það, með því að jeg er
13 höndlaður af Kristi Jesú. Bræður! ekki tel jeg sjálfan
14 mig enn hafa höndlað það; en eitt gjöri jeg: jeg
gleymi því sem að baki er, en seilist eftir því sem
fyrir framan er, og keppi þannig að markinu, til
15 verðlauna himinköllunar Guðs í Kristi Jesú. Þetta
hugarfar skulum því allir vjer hafa, sem fullkomnir
erum; og ef þjer hugsið í nokkru öðruvísi, þá mun
16 Guð einnig opinbera yður þetta; einungis að vjer
17 göngum þá götu, sem vjer höfum komist á. Verðið,
bræður, hver með öðrum eftirbreytendur mínir, og
lítið til þeirra, sem framganga þannig, eftir því sem
18 þjer hafið oss að fyrirmynd. Því að margir fram-
ganga, sem jeg hefi oft sagt yður og nú segi jafnvel
19 grátandi, að þeir eru óvinir krossins Krists, en afdrif
þeirra er glötun; Guð þeirra er maginn, og heiður

þeirra er í svívirðingunni, þeir er hafa hugann á
20 jarðneskum munum. Því að borgarrjettur vor er á
himni, þaðan sem vjer og væntum Drottins Jesú
21 Krists sem frelsara, hans sem mun breyta lægingar-
líkama vorum í sömu mynd og dýrðarlíkami hans
hefir, samkvæmt þeim krafti, að hann getur lagt
jafnvel alt undir sig.

4 Þess vegna, mínir elskuðu og eftirþráðu bræður,
gleði mín og kóróna, standið þannig fastir í Drotni,
2 þjer elskuðu. Evodíu áminni jeg og Syntyke áminni
3 jeg um að vera samlyndar í Drotni. Já, jeg bið
einnig þig, trúlyndi samþjónn, hjálpa þú þeim, því
að þær börðust með mjer við boðun fagnaðarerindis-
ins ásamt Klemens og öðrum samverkamönnum mín-
um, hverra nöfn standa í lífsins bók.

4 Verið ávalt glaðir í Drotni; jeg segi aftur: Verið
5 glaðir. Ljúflyndi yðar verði kunnugt öllum mönn-
6 um. Drottinn er í nánd. Verið ekki hugsjúkir um
neitt, heldur gjörið í öllum hlutum óskir yðar kunnar
7 Guði með bæn og beiðni ásamt þakkargjörð. Og
friður Guðs, sem er æðri öllum skilningi, mun varð-
veita hjörtu yðar og hugsanir yðar í Kristi Jesú.

8 Að öðru leyti, bræður, alt sem er satt, alt sem
er sómasamlegt, alt sem er rjett, alt sem er hreint,
alt sem er elskuvert, alt sem er gott afspurnar, hvað
sem er dygð, og hvað sem er lofsvert, íhugið það.
9 Þetta, sem þjer hafið bæði lært og numið og heyrt
og sjeð til mín, það skuluð þjer gjöra; og Guð frið-
arins mun vera með yður.

10 En jeg varð mjög glaður í Drotni yfir því, að
þjer hafið loksins aftur blómgast svo, að þjer gátuð

hugsað til mín, sem þjer að sönnu hafið hugsað um,
11 en þjer áttuð ekki hægt með það. Ekki segi jeg
þetta vegna þess, að jeg hafi liðið skort, því að jeg
hefi lært að vera ánægður með það, sem jeg á við
12 að búa; bæði kann jeg að búa við lítinn kost; jeg
kann einnig að hafa allsnægtir; hvervetna og í öll-
um hlutum hefi jeg lært þann leyndardóm bæði
að vera mettur og að vera hungraður, bæði að
13 hafa allsnægtir og að líða skort. Alt megna jeg í
14 honum, sem gjörir mig styrkan. Engu að síður
gjörðuð þjer vel í því, að taka þátt með mjer í þreng-
15 ingu minni; þjer vitið og, Filippímenn, að í upphafi
fagnaðarboðskaparins, þegar jeg fór burt úr Make-
dóníu, hafði enginn söfnuður samfjelag við mig í að
16 láta af hendi og taka á móti, nema þjer einir. Því
að jafnvel í Þessaloníku senduð þjer mjer einu sinni,
17 já tvisvar, til nauðsynja minna. Ekki að jeg þrái
mjög gjöfina, heldur þrái jeg mjög ávöxtinn, sem
18 ríkulega fellur í yðar sjóð. En nú hefi jeg alt og hefi
allsnægtir; jeg hefi yfirfljótanlegt, síðan jeg meðtók af
hendi Epafrodítusar sendinguna frá yður, ilm reykels-
19 is, þekka fórn, Guði velþóknanlega. En minn Guð
mun uppfylla sjerhverja þörf yðar eftir auðlegð sinni,
20 með dýrð í Kristi Jesú. En Guði og föður vorum
sje dýrðin um aldir alda. Amen.
21 Heilsið sjerhverjum heilögum í Kristi Jesú.
22 Yður heilsa bræðurnir, sem hjá mjer eru; yður heilsa
allir hinir heilögu, en einkanlega þeir, sem heyra til
23 húsi keisarans. Náðin Drottins Jesú Krists sje með
anda yðar.

# Brjef Páls postula til Kólossamanna.

1 Páll, postuli Krists Jesú fyrir vilja Guðs, og
2 Tímóteus, bróðirinn, til hinna heilögu og trúuðu
bræðra í Kristi í Kólossaborg.
Náð sje með yður og friður frá Guði föður
vorum.
3 Vjer þökkum Guði, föður Drottins vors Jesú
4 Krists, biðjandi ávalt fyrir yður, eftir að vjer höfum
heyrt um trú yðar í Kristi Jesú og kærleikann, sem
5 þjer hafið til allra hinna heilögu, vegna vonar þeirr-
ar, sem yður er geymd á himnum og þjer áður
hafið heyrt um í sannleiksorði fagnaðarerindisins,
6 sem til yðar er komið, eins og það einnig í öllum
heiminum ber ávöxt og vex, sem það einnig gjörir
hjá yður, frá þeim degi er þjer heyrðuð og lærðuð
7 að þekkja náð Guðs í sannleika, eins og þjer lærðuð
af Epafrasi, vorum elskaða samþjóni, sem er trúr
8 þjónn Krists í vorn stað, sem og hefir sagt oss frá
kærleika yðar í andanum.
9 Þess vegna höfum vjer einnig frá þeim degi, er
vjer heyrðum það, ekki látið af að biðja fyrir yður
og beiðast þess, að þjer mættuð fyllast þekkingar á
vilja hans með alls konar speki og andlegum skiln-
10 ingi, svo að þjer framgangið eins og Drotni er sam-
boðið, honum til þóknunar á allan hátt, og sjeuð
ávaxtarsamir í öllu góðu verki og vaxið í þekking-

11 unni á Guði; verðið styrktir með hvers konar krafti
eftir mætti dýrðar hans, til alls þolgæðis og umburð-
12 arlyndis með gleði, og þakkið föðurnum, sem gjörði
oss hæfa til að fá hlutdeild í arfleifð hinna heilögu
13 í ljósinu, hann sem hreif oss frá valdi myrkursins
14 og flutti oss inn í ríki sonar kærleika síns, í hverjum
vjer höfum endurlausnina, fyrirgefningu syndanna;
15 hann, sem er ímynd hins ósýnilega Guðs, frumburður
16 allrar skepnu; því að í honum var alt skapað á himn-
um og á jörðunni, hið sýnilega og hið ósýnilega,
hvort sem eru hásæti eða herradómar eða tignir eða
völd; allir hlutir eru skapaðir fyrir hann og til hans;
17 og hann er fyrri en alt og alt hefir tilveru sína í
18 honum; og hann er höfuð líkamans, safnaðarins;
hann, sem er upphafið, frumburðurinn frá hinum
dauðu, til þess að hann skyldi vera fremstur í öllu;
19 því að í honum þóknaðist allri fyllingunni að búa,
20 og að koma öllu, eftir að hann hafði gjört frið fyrir
blóð kross hans, fyrir hann í sátt við sig, hvort held-
ur er það, sem er á jörðunni, eða það sem er á himn-
21 um. Og yður, sem áður fyrri voruð útilokaðir og
22 óvinir í huga yðar í hinum vondu verkum, hefir hann
nú þó sátta gjört í líkama holds síns með dauðanum,
til þess að láta yður koma fram fyrir sig sem heilaga
23 og flekklausa og óaðfinnanlega, ef þjer aðeins standið
í trúnni, grundvallaðir og stöðugir, og látið ekki
hreyfast frá von þess fagnaðarerindis, sem þjer hafið
heyrt, og prjedikað hefir verið í allri skepnunni
undir himninum, hvers þjónn jeg, Páll, er orðinn.
24 Nú er jeg glaður í þjáningum mínum fyrir yður,
og uppfylli á holdi mínu það, sem vantaði á þján-

ingar Krists, fyrir líkama hans, sem er söfnuðurinn,
25 hvers þjónn jeg er orðinn, eftir þeirri ráðstöfun Guðs,
sem mjer er á hendur falin yður viðvíkjandi, að flytja
26 fyllilega Guðs orð, leyndardóminn, sem hefir verið
hulinn frá því að aldir og kynslóðir voru til, en nú
27 er opinberaður hans heilögu, er Guð vildi gjöra kunn-
ugt, hvílíkur er dýrðarríkdómur þessa leyndardóms
meðal heiðingjanna, sem er Kristur í yður, von dýrð-
28 arinnar. Og hann boðum vjer, með því að vjer
áminnum sjerhvern mann og fræðum sjerhvern mann
með allri speki, til þess að vjer getum leitt hvern
29 mann fram fullkominn í Kristi; og til þess erfiða jeg
einnig, þar sem jeg er að berjast, eftir þeim mætti
hans, sem með krafti verkar í mjer.

2 Því jeg vil að þjer vitið, hversu mikilli baráttu
jeg á í fyrir yður og þá, sem eru í Laódíkeu,
og vegna allra þeirra, sem ekki hafa sjeð ásjónu
2 mína í holdinu, til þess að hjörtu þeirra, sameinuð í
kærleika, mættu uppörfast og þeir öðlast gjörvalla
auðlegð fullrar vissu skilningsins, þekkinguna á leynd-
3 ardómi Guðs, Kristi, sem allir fjársjóðir spekinnar
4 og þekkingarinnar eru fólgnir í. Þetta segi jeg, til
5 þess að enginn svíki yður með tælandi orðum; því
að þótt jeg sje fjarlægur að holdinu, þá er jeg samt
hjá yður að andanum, fagnandi, er jeg horfi á góða
skipun yðar og festu trúar yðar á Krist.

6 Eins og þjer því hafið meðtekið Krist Jesúm, Drott-
7 in, svo skuluð þjer framganga í honum, rótfestir og
bygðir upp á honum og staðfestir í trúnni, eins og
yður hefir verið kent, skarandi fram úr í þakkar-
8 gjörð. Gætið þess að enginn verði sá, er hertaki

yður með veraldarvisku og hjegómavillu eftir manna-
setningum, eftir stafrófi heimsins, en ekki eftir Kristi;
9 því að í honum býr öll fylling guðdómsins líkamlega,
10 og þjer eruð fyltir orðnir í honum, sem er höfuð
11 allrar tignar og valds; sem þjer og eruð umskornir í
með umskurn, sem ekki er af höndum gjörð, við það
að afklæðast líkama holdsins, við umskurn Krists, með
12 því að þjer voruð greftraðir með honum í skírninni og í
henni voruð þjer einnig með honum uppvaktir fyrir trúna
13 á mátt Guðs, er uppvakti hann frá dauðum. Einnig
yður, sem dauðir voruð í afbrotunum og yfirhúð holds
yðar, yður lífgaði Guð ásamt honum, með því að
14 fyrirgefa oss öll afbrotin, er hann afmáði skulda-
brjefið á móti oss með skipunum þess, það sem stóð
í gegn oss, og hann tók það burt, er hann negldi
15 það á krossinn. Hann fletti vopnum tignirnar og
völdin, leiddi þau opinberlega fram til sýnis og hrós-
aði sigri yfir þeim á honum.

16 Látið þess vegna engan dæma yður fyrir mat eða
drykk, eða það, sem snertir hátíðir, tunglkomur eða
17 hvíldardaga, sem er skuggi hins tilkomanda, en lík-
18 aminn er Krists. Látið engan hafa af yður hnossið,
þann er hefir mætur á auðmýkt og engladýrkun,
sökkvandi sjer niður í sýnir sínar, þann er upp-
19 hrokast ástæðulaust af hyggju holdsins og heldur sjer
ekki við höfuðið, við hann, af hverjum allur líkam-
inn, styrktur og samtengdur með taugum og bönd-
um, vex vexti Guðs.

20 Ef þjer eruð dánir með Kristi frá stafrófi heims-
ins, hvers vegna látið þjer þá, eins og þjer lifðuð í
21 heiminum, leggja fyrir yður: »Snertu ekki, bragð-

22 aðu ekki, taktu ekki á?« — alt þetta er til að eyð-
ast við það að vera notað — eftir boðorðum manna
23 og lærdómum. Þetta hefir að sönnu orð á sjer fyrir
speki, en er sjálfvalin dýrkun og auðmýkt og vægð-
arleysi við líkamann, sem á engan heiður skilið,
heldur er til að fullnægja holdinu.

3 Fyrst þjer því eruð uppvaktir með Kristi, þá
keppist eftir því, sem er á hæðum, þar sem
2 Kristur situr við hægri hönd Guðs. Hugsið um það,
sem á hæðum er, en ekki um það, sem á jörðunni
3 er; því að þjer eruð dánir, og líf yðar er fólgið með
4 Kristi í Guði. Þegar Kristur, vort líf, opinberast, þá
munuð þjer og ásamt honum opinberast í dýrð.

5 Deyðið því limina, sem við jörðina eru bundnir,
hórdóm, saurlifnað, losta, vonda fýsn og ágirnd, sem
6 er skurðgoðadýrkun; fyrir þessa hluti kemur reiði
7 Guðs yfir börn óhlýðninnar, og í þeim framgenguð
8 þjer einnig áður fyrri, þegar þjer lifðuð í þeim. En
nú skuluð þjer einnig afleggja það alt: reiði, bræði,
vonsku, lastmæli, svívirðilegt tal af munni yðar.
9 Ljúgið ekki hver að öðrum, þjer sem hafið afklæðst
10 hinum gamla manni með gjörðum hans og íklæðst
hinum nýja, sem endurnýjaður er til þekkingar, sam-
11 kvæmt þess mynd, sem hann hefir skapað, þar sem
ekki er grískur maður nje Gyðingur, umskurn nje
yfirhúð, útlendingur, Skýti, þræll eða frjáls maður,
heldur er Kristur alt og í öllum.

12 Íklæðist því eins og Guðs útvaldir, heilagir og
elskaðir, hjartgróinni meðaumkvun, góðvild, auðmýkt,
13 hógværð, langlyndi, umberandi hver annan og fyrir-
gefandi hver öðrum, ef einhver hefir sök á móti

nokkrum; eins og Drottinn hefir fyrirgefið yður, svo
14 skuluð þjer og gjöra. En íklæðist yfir alt þetta elsk-
15 unni, sem er band algjörleikans, og látið frið Krists
ríkja í hjörtum yðar, sem þjer og eruð kallaðir til í
16 einum líkama; og verið þakklátir. Látið orð Krists
búa ríkulega hjá yður með allri speki, þannig að þjer
fræðið og áminnið hver annan með sálmum, lof-
söngvum og andlegum ljóðum, sætlega syngjandi Guði
17 lof í hjörtum yðar. Og hvað sem þjer svo gjörið í
orði eða verki, þá gjörið alt í nafni Drottins Jesú,
þakkandi Guði föður fyrir hann.

18 Þjer konur, gjörið yður undirgefnar mönnum
19 yðar, eins og vera ber í Drotni. Þjer menn, elskið
20 eiginkonur yðar og verið ekki beiskir við þær. Þjer
börn, verið hlýðin foreldrum yðar í öllu, því að það
21 er velþóknanlegt í Drotni. Þjer feður, ertið ekki
börn yðar, til þess að þau verði ekki ístöðulaus.
22 Þjer þrælar, verið hlýðnir í öllu drotnum yðar eftir
holdinu, ekki með augnaþjónustu, eins og þeir, sem
mönnnm vilja þóknast, heldur í einfaldleik hjartans,
23 og óttist Drottin. Hvað sem þjer gjörið, þá vinnið
af alhuga eins og fyrir Drottin, en ekki fyrir menn,
24 vitandi að þjer munuð af Drotni fá arfleifðina í end-
25 urgjald; þjer þjónið Drotni Kristi. Því að sá, sem
rangt gjörir, skal fá gjöld fyrir það, sem hann gjörði
4 rangt, og ekki er manngreinarálit. Þjer drotnar,
veitið þrælunum það, sem rjett er og sanngjarnt,
vitandi að þjer eigið og Drottin á himni.

2 Verið stöðugir í bæninni og árvakrir í henni
3 með þakkargjörð, og biðjið jafnframt einnig fyrir oss,

að Guð opni fyrir oss dyr orðsins, til að boða leynd-
ardóm Krists, fyrir hvers sakir jeg og er nú bundinn,
4 til þess að jeg megi auglýsa hann, eins og mjer ber
5 að tala. Framgangið með speki gagnvart þeim, sem
6 fyrir utan eru, og kaupið hinn hentuga tíma. Ræða
yðar sje ætíð ljúfleg og salti krydduð, til þess að þjer
vitið, hvernig þjer eigið að svara sjerhverjum.
7 Alt um mína hagi mun Tykikus, hinn elskaði
bróðir og trúi þjónn og samþjónn í Drotni, láta yður
8 vita. Jeg sendi hann til yðar, einmitt til þess að
þjer fáið að vita, hvernig oss líður, og til þess að
9 hann huggi hjörtu yðar, ásamt Onesimusi, hinum trúa
og elskaða bróður, sem er einn af yður; þeir munu
láta yður vita alt, sem hjer gjörist.
10 Yður heilsar Aristarkus, sambandingi minn, og
Markús, frændi Barnabasar, sem þjer hafið fengið
boðorð um — ef hann kemur til yðar, þá takið á
11 móti honum — og Jesús, að viðurnefni Jústus; þeir
eru af umskurninni og þeir einir eru samverkamenn
mínir fyrir Guðs ríki, og hafa þeir verið mjer til
12 huggunar. Yður heilsar Epafras, sem er einn af yð-
ur, þjónn Krists Jesú, sem jafnan berst fyrir yður í
bænum sínum, til þess að þjer megið standa stöðugir,
13 fullkomnir og fullvissir í öllum vilja Guðs. Því
að þann vitnisburð gef jeg honum, að hann hefir
mikið erfiði fyrir yður og þeim, sem eru í Laódíkeu,
14 og þeim, sem eru í Hierapólis. Yður heilsar Lúkas,
15 læknirinn elskaði, og Demas. Heilsið þjer bræðrunum
í Laódíkeu og Nýmfasi og söfnuðinum, sem er í húsi
16 þeirra. Og þegar búið er að lesa brjef þetta upp
hjá yður, þá látið líka lesa það í söfnuði Laódíkeu-

17 manna, og lesið þjer og Laódíkeubrjefið. Og segið
Arkippusi: gættu þjónustunnar, sem þú hefir tekið
við í Drotni, að þú veitir henni fullnustu.
18 Kveðjan er skrifuð með minni, Páls, eigin hendi.
Minnist fjötra minna. Náð sje með yður.

# Fyrra brjef Páls postula til Þessaloníkumanna.

1 Páll og Silvanus og Tímóteus til safnaðar Þessa-
loníkumanna í Guði föður og Drotni Jesú Kristi.
Náð sé með yður og friður.
2 Vjer þökkum ávalt Guði fyrir yður alla, er vjer
3 minnumst yðar í bænum vorum, þar eð vjer erum
sífeldlega minnugir verks yðar í trúnni og erfiðis
yðar í kærleikanum og stöðuglyndis yðar í voninni
á Drottin vorn Jesúm Krist, fyrir augliti Guðs og
4 föður vors, og þekkjum, bræður, elskaðir af Guði,
5 útvalningu yðar, því að fagnaðarboðskapur vor kom
eigi til yðar í orðum einum, heldur einnig í krafti
og í heilögum anda og með fullkominni sannfæringu,
eins og þjer vitið, hvernig vjer komum fram hjá
6 yður, yðar vegna. Og þjer hafið gjörst eftirbreytend-

ur vorir og Drottins, er þjer meðtókuð orðið í mik-
7 illi þrengingu með fögnuði heilags anda, svo að þjer
eruð orðnir fyrirmynd öllum trúuðum í Makedóníu
8 og í Akkeu, því að frá yður hefir orð Drottins hljóm-
að, ekki einungis í Makedóníu og Akkeu, heldur er
og trú yðar á Guð kunn orðin alstaðar, svo að vjer
9 ekkert þurfum um það að tala; því að þeir segja
sjálfir frá því um oss, hvílíka komu vjer áttum til
yðar og hvernig þjer sneruð yður til Guðs frá skurð-
goðunum, til þess að þjóna lifandi og sönnum Guði,
10 og vænta sonar hans frá himnum, sem hann upp-
vakti frá dauðum, Jesú, er frelsar oss frá hinni kom-
andi reiði.

2 Því að sjálfir vitið þjer, bræður, að koma vor
1 til yðar hefir ekki orðið árangurslaus, heldur
höfðum vjer, þótt vjer áður, eins og yður er
kunnugt, hefðum þolað ilt, og mætt misþyrmingu í
Filippí, djörfung í Guði vorum til að tala til yðar
3 fagnaðarerindi Guðs í mikilli baráttu; því að áminn-
ing vor er ekki sprottin af villu nje af óhreinum
4 hvötum nje fer fram með vjelum; en eins og vjer
höfum verið metnir þess af Guði að vera trúað fyrir
fagnaðarerindinu, þannig tölum vjer ekki eins og
þeir, er þóknast vilja mönnum, heldur Guði, sem
5 rannsakar hjörtu vor; því að hvorki viðhöfðum vjer
nokkru sinni nein smjaðuryrði, eins og þjer vitið,
nje ágirndar yfirhilmingu — Guð er þess vottur —
6 nje leituðum vegsemdar af mönnum, hvorki af yður
nje öðrum, þótt vjer hefðum getað beitt myndugleika,
7 sem postular Krists, en vjer vorum mildir yðar á
8 meðal. Eins og fóstra hjúkrar börnum sínum, þannig

vorum vjer, af kærleiksþeli til yðar, fúsir til að miðla
yður, ekki einungis fagnaðarerindi Guðs, heldur og
voru eigin lífi, því að þjer voruð orðnir oss ást-
9 fólgnir. Því að þjer munið, bræður, eftir erfiði voru
og striti; jafnframt því sem vjer unnum nótt og dag,
til þess að vera ekki neinum yðar til þyngsla, prje-
10 dikuðum vjer fyrir yður fagnaðarerindi Guðs. Þjer
eruð vottar þess og Guð, hversu heilaglega, rjettvís-
lega og ólastanlega vjer hegðuðum oss hjá yður, sem
11 trúið, eins og þjer vitið, hvernig vjer ámintum og
upphvöttum og grátbændum einn og sjerhvern yðar,
12 eins og faðir börn sín, til þess að þjer skylduð fram-
ganga eins og samboðið er Guði, er kallar yður til
ríkis síns og dýrðar.

13 Og þess vegna þökkum vjer líka Guði án afláts,
því að þegar þjer veittuð viðtöku Guðs orði, er þjer
heyrðuð af oss, meðtókuð þjer það ekki sem manna
orð, heldur sem Guðs orð, — eins og það í sannleika
er, — og sem líka sýnir sinn kraft í yður, sem trúið.
14 Því að þjer, bræður, hafið gjörst eftirbreytendur safn-
aða Guðs, sem eru í Júdeu í Kristi Jesú; því að
einnig þjer hafið þolað hið sama af yðar eigin lönd-
15 um, sem þeir urðu að þola af Gyðingum, er bæði
lífljetu Drottin Jesúm og spámennina, og hafa ofsótt
oss og eru Guði eigi þóknanlegir og öllum mönnum
16 mótstæðilegir, þar sem þeir varna oss að tala til
heiðingjanna, til þess að þeir mættu verða hólpnir,
til þess að fylla jafnan mæli synda sinna; en reiðin
er komin yfir þá til fulls.

17 En vjer, bræður, sem um stundarsakir höfum
verið skildir frá yður að sýnilegum návistum, en

ekki að hjartanu, höfum gjört oss mikið far um að
18 fá að sjá auglit yðar, með mikilli eftirlöngun; þess
vegna ætluðum vjer að koma til yðar, jeg, Páll, bæði
einu sinni og tvisvar, en Satan hefir hamlað oss frá
19 því. Því að hver er vor von eða vor gleði eða vor
hrósunarkóróna? Eruð það ekki einmitt þjer, frammi
20 fyrir Drotni vorum Jesú við tilkomu hans? Jú,
þjer eruð vegsemd vor og gleði.

3 Þegar vjer því þoldum ekki lengur við, rjeðum
2 vjer af að verða einir eftir í Aþenu, og sendum
Tímóteus, bróður vorn og þjón Guðs í fagnaðarerindi
Krists, til að styrkja yður og áminna að því er snertir
3 trú yðar, að enginn láti bifast í þrengingum þessum,
því að sjálfir vitið þjer að til þessa erum vjer ákvarð-
4 aðir; því að þegar vjer vorum hjá yður, þá sögðum
vjer yður fyrir, að vjer mundum verða að þola
þrengingar, eins og líka kom fram og þjer vitið.
5 Er jeg því þoldi ekki lengur við, þá sendi jeg, til
að fá að vita um trú yðar, hvort freistarinn kynni
að hafa freistað yðar og erfiði vort orðið til einkis.
6 En nú, er Tímóteus er kominn aftur til vor frá yður
og hefir borið oss gleðifregn um trú yðar og kær-
leika, og að þjer ávalt munið eftir oss með hlýjum
hug, og að yður langi til að sjá oss, eins og oss líka
7 til að sjá yður, þá erum vjer, bræður, sökum þessa
huggaðir viðvíkjandi yður í allri neyð og þrengingu
8 vorri við trú yðar; því að nú lifum vjer, ef þjer
9 standið stöðugir í Drotni. Því að hverja þökk megn-
um vjer að gjalda Guði fyrir yður, fyrir alla þá
gleði, er vjer gleðjumst með fyrir yðar skuld, frammi
10 fyrir Guði vorum? Og vjer biðjum nótt og dag, heitt

og innilega, að vjer fáum að sjá auglit yðar og bæta
úr því, sem trú yðar er áfátt.
11 En sjálfur Guð og faðir vor og Drottinn vor
12 Jesús greiði veg vorn til yðar, en Drottinn fylli yður
og auðgi að kærleika hvern til annars og til allra,
13 eins og vjer höfum hann til yðar, til þess að hann
styrki hjörtu yðar og þau verði óaðfinnanleg í heilag-
leika frammi fyrir Guði og föður vorum í tilkomu
Drottins vors Jesú ásamt öllum hans heilögum.

4 Að öðru leyti biðjum vjer yður því, bræður, og
áminnum í Drotni Jesú, að eins og þjer hafið
numið af oss, hvernig yður ber að framganga og
þóknast Guði, svo sem þjer einnig framgangið, að
2 þjer takið enn þá meiri framförum; því að þjer vitið,
hver boðorð vjer gáfum yður fyrir Drottin Jesúm;
3 því að þetta er vilji Guðs: helgun yðar, að þjer
4 skulið halda yður frá frillulífi, að sjerhver yðar skuli
láta sjer lærast að fá sjer sitt eigið ker, í heilagleika og
5 heiðri, en ekki í girndarbruna, eins og heiðingjarnir,
6 er ekki þekkja Guð; að enginn veiti yfirgang eða
hafi af bróður sínum í nokkru máli, því að Drottinn
er hegnari alls þvílíks, eins og vjer höfum áður sagt
7 yður og vitnað kröftuglega, því að ekki kallaði Guð
8 oss til saurlifnaðar, heldur í helgun. Sá, sem þess
vegna fyrirlítur þetta, fyrirlítur ekki mann, heldur
Guð, sem gefur yður sinn heilaga anda.
9 En ekki hafið þjer þess þörf, að jeg skrifi yður
um bróðurkærleikann, því að sjálfir eruð þjer upp-
10 fræddir af Guði til að elska hver annan, því að það
gjörið þjer einnig við alla bræðurna, sem eru í allri
Makedóníu; en vjer áminnum yður, bræður, að taka

11 enn meiri framförum og leita sæmdar í því að lifa
kyrlátu lífi, og stunda hver sitt starf, og vinna með
12 höndum yðar, eins og vjer höfum boðið yður, til þess
að þjer framgangið sómasamlega gagnvart þeim, sem
fyrir utan eru, og sjeuð upp á engan komnir.
13 Ekki viljum vjer, bræður, láta yður vera ókunn-
ugt um þá, sem sofa, til þess að þjer sjeuð ekki
14 hryggir eins og hinir, sem ekki hafa von. Því að ef
vjer trúum því að Jesús sje dáinn og upprisinn, þá
mun Guð sömuleiðis fyrir Jesúm leiða ásamt honum
15 fram þá, sem sofnaðir eru; því það segjum vjer yður
með orði Drottins, að vjer sem lifum og erum eftir
við tilkomu Drottins, munum alls ekki fyrri verða en
16 hinir sofnuðu; því að sjálfur Drottinn mun með kalli,
með höfuðengils raust og með básúnu Guðs, stíga
niður af himni; og þeir, sem í Kristi eru dánir, munu
17 fyrst upp rísa; síðan munum vjer, sem lifum, sem
eftir erum, verða ásamt þeim hrifnir burt í skýjum
til fundar við Drottin í loftinu; og síðan munum
vjer vera með Drotni alla tíma.
18 Huggið því hver annan með þessum orðum.
5 En um tíma og tíðir hafið þjer, bræður, ekki
2 þörf á að yður sje skrifað, því að sjálfir vitið
þjer gjörla, að dagur Drottins kemur sem þjófur á
3 nóttu. Þegar menn segja: »Friður og engin hætta«,
þá kemur snögglega tortíming yfir þá, eins og jóðsótt
yfir þungaða konu, og þeir munu alls ekki undan
4 komast. En þjer, bræður, eruð ekki í myrkri,
svo að dagurinn geti komið yfir yður sem þjóf-
5 ur; því að allir eruð þjer synir ljóssins og synir
dagsins. Vjer erum ekki næturinnar nje myrkursins;

6 vjer skulum þess vegna ekki sofa eins og hinir aðrir,
7 heldur vökum og verum algáðir; því að þeir, sem
sofa, sofa á nóttunni, og þeir, sem drekka, drekka á
8 nóttunni. En vjer, sem heyrum deginum til, skulum
vera algáðir, íklæddir brynju trúar og kærleika, og
9 von hjálpræðisins sem hjálmi; því að ekki hefir Guð
sett oss til reiði, heldur til að öðlast sáluhjálp fyrir
10 Drottin vorn Jesúm Krist, sem dó fyrir oss, til þess
að hvort sem vjer vökum eða sofum, þá mættum
11 vjer lifa ásamt honum. Áminnið því hver annan og
12 uppbyggið hver annan, eins og þjer og gjörið. En
vjer biðjum yður, bræður, að sýna viðurkenningu
þeim, sem erfiða meðal yðar og veita yður forstöðu í
13 Drotni og áminna yður, og að hafa þá í sjerlega
miklum metum í kærleika fyrir verk þeirra. Lifið í
14 friði yðar á milli. En vjer áminnum yður, bræður:
Vandið um við þá, sem óreglusamir eru, huggið
ístöðulitla, takið að yður þá, sem óstyrkir eru, verið
15 langlyndir við alla. Gætið þess að enginn gjaldi
neinum ilt með illu, en keppið ávalt eftir hinu góða,
16 bæði hver við annan og við alla. Verið ætíð glaðir.
17 Biðjið án afláts. Gjörið þakkir í öllu, því að það
18 er vilji Guðs yður viðvíkjandi í Kristi Jesú. Slökkvið
19
20 ekki andann. Fyrirlítið ekki spádóma. Prófið alt;
21 haldið því, sem gott er. Haldið yður frá sjerhverri
22 mynd hins illa.

23 En sjálfur friðarins Guð helgi yður algjörlega,
og gjörvallur andi yðar, sál og líkami varðveitist
24 ólastanlega í tilkomu Drottins vors Jesú Krists. Trúr
er sá, er yður kallar, og hann mun og koma þessu
til leiðar.

25 Bræður, biðjið fyrir oss!
26 Heilsið öllum bræðrunum með heilögum kossi.
27 Jeg særi yður við Drottin, að þjer látið lesa brjef
þetta upp fyrir öllum bræðrunum.
28 Náðin Drottins vors Jesú Krists sje með yður.

---

# Síðara brjef Páls postula til Þessaloníkumanna.

1 Páll og Silvanus og Tímóteus til safnaðar
Þessaloníkumanna í Guði föður vorum og
Drotni Jesú Kristi.
2 Náð sje með yður og friður frá Guði föður og
Drotni Jesú Kristi.
3 Skylt er oss, bræður, að þakka ætíð Guði fyrir
yður eins og maklegt er; því að trú yðar eykst
stórum og kærleiki sjerhvers yðar allra, hvers til
4 annars, fer vaxandi, svo að vjer sjálfir hrósum oss
af yður í söfnuðum Guðs fyrir þolgæði yðar og trú í
öllum ofsóknum yðar og þrengingum þeim, er þjer
5 þolið, og er þetta augljóst merki um hinn rjettláta
dóm Guðs, til þess að þjer skulið verða álitnir mak-
legir guðsríkis, sem þjer nú einnig líðið ilt fyrir,

6 svo sannarlega sem það er rjett hjá Guði að endur-
gjalda þeim þrengingu, sem að yður þrengja, en yð-
7 ur, sem þrenging líðið, hvíld með oss, þegar Drottinn
Jesús opinberast af himni með englum máttar síns
8 í logandi eldi og lætur hegningu koma yfir þá, sem
ekki þekkja Guð, og yfir þá, sem ekki hlýða fagn-
9 aðarerindi Drottins vors Jesú, því að þeir munu sæta
hegningu, eilífri glötun, fjarri augliti Drottins og fjarri
10 dýrð máttar hans, þá er hann kemur til að sýna sig
dýrðlegan í sínum heilögu og dásamlegan í öllum,
sem trúað hafa á þeim degi; því að vitnisburði vor-
11 um fyrir yður hefir verið trúað. Í þeim tilgangi
biðjum vjer og alla tíma fyrir yður, að Guð vor áliti
yður maklega köllunarinnar og fullkomni kröftuglega
hvers konar velþóknun á því, sem gott er, og verk trúar-
12 innar, svo að nafn Drottins vors Jesú verði dýrðlegt
í yður og þjer í honum eftir náð Guðs vors og Drott-
ins Jesú Krists.

2 En vjer biðjum yður, bræður, að því er snertir
tilkomu Drottins vors Jesú Krists og samsöfnun
2 vora til hans, að þjer ekki sjeuð fljótir á að láta
hræða yður eða trufla, hvorki af nokkrum anda nje
við orð eða brjef, sem væri það frá oss, eins og dag-
3 ur Drottins væri þegar fyrir höndum. Látið engan
villa yður á nokkurn hátt; því að ekki kemur hann,
nema fráhvarfið komi fyrst og maður syndarinnar
4 birtist, sonur glötunarinnar, hann sem setur sig á
móti og rís gegn öllu því, sem kallast Guð eða helg-
ur dómur, svo að hann sest í Guðs musteri og kemur
5 fram eins og hann væri Guð. Minnist þjer ekki þess,
að jeg sagði yður þetta, meðan jeg enn þá var hjá

6 yður? Og nú, þjer vitið, hvað aftrar honum, til þess
7 að hann opinberist á sínum tíma. Því að leyndar-
dómur lögleysisins er þegar starfandi, einungis að
8 þeim, sem nú aftrar, verði burtu rýmt. Og þá mun
hinn löglausi opinberast — og honum mun Drottinn
Jesús tortíma með anda munns síns og að engu
9 gjöra við opinberun tilkomu sinnar —, en koma hans
er fyrir framkvæmd Satans, með alls konar krafti
10 og táknum og undrum lyginnar, og með alls konar
vjelum ranglætisins fyrir þá, sem glatast, af því að
þeir veittu ekki viðtöku kærleikanum til sannleikans,
11 að þeir mættu verða hólpnir. Og þess vegna sendir
Guð þeim megna villu, til þess að þeir trúi lyginni,
12 til þess að allir þeir verði sakfeldir, sem ekki hafa
trúað sannleikanum, en hafa haft velþóknum á rang-
lætinu.

13 En skylt er oss, að þakka ávalt Guði fyrir yður,
bræður, elskaðir af Drotni, að Guð hefir frá upphafi
útvalið yður til frelsunar í helgun andans og trú á
14 sannleikann, og til þess kallaði hann yður fyrir
fagnaðarboðskap vorn, að þjer skylduð öðlast dýrð
15 Drottins vors Jesú Krists. Bræður, standið því stöð-
ugir og haldið fast við þá lærdóma, er yður hafa
verið kendir, hvort sem það er munnlega eða með
brjefi frá oss.

16 En sjálfur Drottinn vor Jesús Kristur og Guð
faðir vor, sem elskaði oss og gaf oss í náð eilífa
17 huggun og góða von, huggi hjörtu yðar og styrki í
sjerhverju góðu verki og orði.

3 Að öðru leyti, bræður, biðjið fyrir oss, að orð
Drottins megi hafa framgang og vegsamast eins
2 og hjá yður, og að vjer mættum frelsast frá spiltum
3 og vondum mönnum; því að ekki er trúin allra; en
trúr er Drottinn, og hann mun styrkja yður og
4 vernda fyrir hinu vonda. — En vjer höfum það
traust til yðar í Drotni, að þjer bæði gjörið og munið
5 gjöra það, sem vjer leggjum fyrir. En Drottinn leiði
hjörtu yðar til kærleika Guðs og þolgæðis Krists.
6 En vjer bjóðum yður, bræður, í nafni Drottins
vors Jesú Krists, að þjer sneiðið yður hjá hverjum
þeim bróður, er framgengur óreglulega og ekki eftir
7 þeim lærdómi, sem þeir hafa numið af oss. Því að
sjálfir vitið þjer, hvernig á að breyta eftir oss, því
að ekki hegðuðum vjer oss óreglulega hjá yður,
8 neyttum ekki heldur brauðs hjá neinum fyrir ekkert,
heldur unnum vjer með erfiði og striti nótt og dag,
til þess að vera ekki neinum yðar til þyngsla.
9 Ekki af því að vjer ekki höfum rjett til þess,
heldur til þess að vjer gæfum yður sjálfa oss sem
10 fyrirmynd, til að breyta eftir oss. Því var og það,
að þegar vjer vorum hjá yður, buðum vjer yður:
Ef einhver vill ekki vinna, þá skal hann ekki fá að
11 eta. En vjer heyrum, að nokkrir meðal yðar fram-
gangi óreglulega, sem ekkert vinna, heldur gefa sig
12 alla við því, sem þeim kemur eigi við. Slíkum
mönnum bjóðum vjer og áminnum þá í Drotni Jesú
Kristi, að vinna kyrlátlega og eta sitt eigið brauð.
13 En þjer, bræður, þreytist ekki gott að gjöra.
14 En ef einhver hlýðir ekki orðum vorum í brjefi
þessu, þá merkið yður þann mann, að hafa ekkert

samfjelag við hann, til þess að hann blygðist sín;
15 en álítið hann þó ekki sem óvin, heldur áminnið
hann sem bróður.
16 En sjálfur Drottinn friðarins gefi yður friðinn,
ætíð á allan hátt. Drottinn sje með yður öllum.
17 Kveðjan er með minni, Páls, eigin hendi, og það
18 er merki á hverju brjefi. Þannig skrifa jeg. Náðin
Drottins vors Jesú Krists sje með yður öllum.

# Fyrra brjef Páls postula til Tímóteusar.

1 Páll postuli Krists Jesú, að boði Guðs frelsara
2 vors og Krists Jesú, vonar vorrar, til Tímóteusar,
skilgetins sonar í trú.
Náð, miskunn og friður frá Guði föður og Kristi
Jesú Drotni vorum.
3 Svo sem jeg hvatti þig að halda kyrru fyrir í
Efesus, er jeg var á förum til Makedóníu, til þess að
þú skyldir bjóða sumum mönnum að fara ekki með
4 annarlegar kenningar, og gefa sig ekki við æfintýr-
um og endalausum ættartölum, er fremur efla þrætur
5 en Guðs ráðstöfun, sem felst í trú. — En markmið

skipunarinnar er kærleikur af hreinu hjarta, góðri
6 samvisku og hræsnislausri trú; frá þessu eru sumir
7 viknir og hafa snúið sjer til hjegómamáls; vilja þeir
vera lögmálskennendur, þó að hvorki skilji þeir hvað
þeir segja, nje hvað það er sem þeir eru að stað-
8 hæfa. En vjer vitum að lögmálið er gott, noti mað-
9 ur það löglega, og viti það að lögmálið er ekki ætl-
að rjettlátum manni, heldur lögleysingjum og þver-
brotnum, óguðlegum og syndurum, vanheilögum og
óhreinum, föðurmorðingjum og móðurmorðingjum,
10 manndrápurum, frillulífismönnum, mannhórum, manna-
þjófum, lygurum, meinsærismönnum, og hvað sem
það er nú annað, sem gagnstætt er hinni heilnæmu
11 kenningu, samkvæmt fagnaðarerindinu um dýrð hins
sæla Guðs, sem mjer var trúað fyrir.
12 Jeg þakka honum, sem mig styrkan gjörði, Kristi
Jesú Drotni vorum, fyrir það að hann áleit mig
13 trúan, er hann fól mjer þjónustu, mjer, sem fyrrum
var lastmælandi, ofsóknari og smánari; en mjer var
miskunnað, sökum þess að jeg gjörði það óvitandi í
14 vantrú. Og náðin Drottins vors varð stórmikil með
15 trúnni og kærleikanum í Kristi Jesú. Það orð er
satt, og í alla staði þess vert að við því sje tekið,
að Kristur Jesús kom í heiminn, til að frelsa synd-
16 uga menn, og er jeg þeirra fremstur; en fyrir þá
sök var mjer miskunnað, að Kristur Jesús skyldi
sýna á mjer, sem var fremstur, gjörvalt langlyndi
sitt, þeim til dæmis, er á hann munu trúa til eilífs
17 lífs. En konungi aldanna, ókrenkilegum, ósýnilegum,
einum Guði sje heiður og dýrð um aldir alda. Amen.

18 Þessa skipun legg jeg fyrir þig, son minn Tímó-
teus, samkvæmt þeim spádómsorðum, sem áður voru
yfir þjer töluð, að þú berjist þeim samkvæmt hinni
19 góðu baráttu, hafandi trú og góða samvisku, sem
nokkrir hafa frá sjer varpað og liðið skipbrot á trú
20 sinni; í tölu þeirra manna eru þeir Hýmeneus og
Alexander, sem jeg hefi selt Satan á vald, til þess að
hirtingin kenni þeim að láta af lastmælum.

2 Fyrst af öllu áminni jeg þá um, að fram fari
ákall, bænir, fyrirbænir og þakkargjörðir fyrir
2 öllum mönnum, fyrir konungum og öllum þeim sem
hátt eru settir, til þess að vjer lifum friðsamlegu og
3 rólegu lífi í allri guðhræðslu og siðprýði. Þetta er
4 gott og þóknanlegt fyrir frelsara vorum Guði, sem
vill, að allir menn verði hólpnir og komist til þekk-
5 ingar á sannleikanum; því að einn er Guð, einn er og
6 meðalgangarinn milli Guðs og manna, maðurinn
Kristur Jesús, sem gaf sig sjálfan til lausnargjalds
7 fyrir alla; til vitnisburðar á sínum tíma. Til að boða
hann er jeg settur prjedikari og postuli — jeg tala
sannleika, lýg ekki — kennari heiðingja í trú og
sannleika.

8 Jeg vil þá að karlmenn biðjist hvervetna fyrir,
upplyftandi heilögum höndum, án reiði og þrætu;
9 sömuleiðis að konur skrýði sig sæmilegum búningi,
með blygð og hóglæti, ekki með hárfljettum og gulli,
10 eða perlum eða dýrindisskarti, heldur með góð-
um verkum, eins og konum sæmir, er játast undir
11 guðhræðslu. Konan á að læra í kyrþey, í allri
12 undirgefni; en ekki leyfi jeg konu að kenna eða
taka sjer vald yfir manninum, heldur á hún að vera

13 kyrlát, því að Adam var fyrst myndaður, síðan Eva;
14 og Adam ljet ekki tælast, en konan ljet að fullu
15 tælast og gjörðist brotleg; en hún mun fyrir barn-
getnaðinn hólpin verða; ef þær standa stöðugar í
trú og kærleika og helgun, samfara hóglæti.

3 Það orð er satt, að sækist einhver eftir
biskupsstarfi, þá girnist hann fagurt hlutverk.
2 Biskup á því að vera óaðfinnanlegur, einnar konu
eiginmaður, bindindissamur, hóglátur, háttprúður,
3 gestrisinn, góður fræðari; ekki drykkjumaður, ekki
áflogamaður, heldur gæfur; ekki deilugjarn, ekki fje-
4 gjarn; maður sem veitir góða forstöðu heimili sínu,
og heldur börnum sínum í hlýðni með allri siðprýði;
5 — en sje einhver sá, sem ekki hefir vit á að veita
heimili sínu forstöðu, hvernig má hann umsjón veita
6 söfnuði Guðs? — ekki nýr í trúnni, til þess að hann
ofmetnist eigi og verði fyrir áfellisdómi rógberans.
7 En hann á líka að hafa góðan orðstír hjá þeim, sem
standa fyrir utan, til þess að hann verði eigi fyrir
8 álasi og lendi í tálsnöru rógberans. Svo eiga og
djáknar að vera siðprúðir, ekki tvítyngdir, ekki of-
9 drykkjumenn, ekki sólgnir í svívirðilegan gróða, og
skulu þeir varðveita leyndardóm trúarinnar í hreinni
10 samvisku. Einnig þessir menn sjeu fyrst reyndir,
síðan inni þeir djáknastarf af hendi, ef þeir eru
11 óaðfinnanlegir. Svo eiga og konur að vera siðprúð-
12 ar, ekki rógberar, bindindissamar, trúar í öllu. Djákn-
ar sjeu einnar konu eiginmenn, og hafi góða stjórn á
13 börnum sínum og heimilum; því að þeir, sem vel
hafa staðið í djáknastöðu, koma sjer vel í veg og
afla sjer mikillar djörfungar í trúnni á Krist Jesúm.

14 Þetta rita jeg þjer, þó að jeg voni að koma
15 bráðum til þín, til þess að þú skulir vita, ef mjer
seinkar, hvernig á að haga sjer í Guðs húsi, sem er
söfnuður lifanda Guðs, stólpi og grundvöllur sann-
16 leikans. Og svo sem vjer játum, er leyndardómur
guðhræðslunnar mikill: Hann sem opinberaðist í
holdi, var rjettlættur í anda; birtist englum, boðaður
hjá heiðingjum; var trúað í heimi, var hafinn upp í
dýrð.

4 En andinn segir berlega, að á síðari tímum
muni sumir ganga af trúnni, er gefa sig að
2 villu-öndum og anda-lærdómum, fyrir yfirdrep-
skap lygimælenda, sem brennimerktir eru á sinni
3 eigin samvisku; þeir er meina hjúskap og bjóða
mönnum að bindast þeirrar fæðu, er Guð hefir skap-
að til þess að við henni sje tekið með þakkargjörð
4 af trúuðum mönnum, er þekkja sannleikann; því að
öll skepna Guðs er góð, og engu ber frá sjer að
5 kasta, sje það þegið með þakkargjörð; því að það
helgast af orði Guðs og bæn.

6 Með því að brýna þetta fyrir bræðrunum munt
þú verða góður þjónn Krists Jesú, er þú elst við orð
trúarinnar og góðu kenningarinnar, sem þú hefir
7 fylgt. En hafna þú vanheilögum kerlinga-æfintýr-
8 um, og æf sjálfan þig til guðhræðslu, því að líkam-
leg æfing er til lítils nýt, en guðhræðslan er til allra
hluta nytsamleg og hefir fyrirheit bæði fyrir þetta
9 líf og hið komanda. Það orð er satt og í alla staði
10 þess vert að við því sje tekið. Því að til þess leggj-
um vjer á oss erfiði og þreytum stríð; því að vjer
höfum fest von vora á lifanda Guði, sem er frelsari

11 allra manna, einkum trúaðra. Bjóð þú þetta og kenn
12 það. Lát engan líta smáum augum á æsku þína, en
ver þú fyrirmynd trúaðra, í orði, í hegðun, í kær-
13 leika, í trú, í hreinleika. Ver þú, þangað til jeg
kem, kostgæfur við upplesturinn, áminninguna og
14 kenninguna. Vanræktu ekki náðargjöfina þína, sem
var gefin þjer, samfara spádómsorðum með handa-
15 yfirlagning öldunganna. Stunda þetta, ver allur í
þessu, til þess að framför þín sje öllum augljós.
16 Haf gát á sjálfum þjer og kenningunni; ver þú stöð-
ugur við þetta; því að er þú gjörir það, munt þú
bæði gjöra sjálfan þig hólpinn og áheyrendur þína.

5 Ávíta þú ekki aldraðan mann harðlega, heldur
2 áminn hann sem föður; yngri menn sem bræð-
ur; aldraðar konur sem mæður; ungar konur sem
3 systur, í öllum hreinleika. Heiðra ekkjur, sem í
4 raun og veru eru ekkjur; en ef einhver ekkja á börn
eða barnabörn, þá læri þau fyrst og fremst að sýna
rækt sínu eigin heimili og endurgjalda foreldrum
sínum, því að það er þóknanlegt fyrir augliti Guðs.
5 Sú sem er í raun og veru ekkja og er orðin munaðar-
laus, hefir fest von sína á Guði, og er stöðug í ákalli
6 og bænum nótt og dag, en hin bílífa er dauð, þó að
7 hún lifi. Bjóð þú einnig þetta, til þess að þær sjeu
8 óaðfinnanlegar. En ef einhver sjer eigi fyrir sínum,
sjerstaklega heimilismönnum, þá hefir hann afneitað
9 trúnni og er verri en vantrúaður. Ekkja sje tekin á skrá,
sú sem orðin er fullra sextíu ára, hefir verið eins manns
10 kona, og er lofsamlega kunn að góðum verkum; sú er hef-
ir börn fóstrað, sú er hefir verið gestrisin, sú er hefir þveg-
ið fætur heilagra, sú er hefir hjálpað bágstöddum, sú er

11 hefir lagt stund á hvert gott verk. En hafna þú
ungum ekkjum, því að þegar þær í gjálífi afrækja
12 Krist, vilja þær giftast; þær eru sekar um það, að
hafa brugðið trúnaði sínum hinum fyrri. Og jafn-
framt temja þær sjer iðjuleysi, rápandi hús úr húsi;
13 og ekki einungis iðjulausar, heldur einnig málugar
14 og hlutsamar, og tala það sem eigi ber að tala. Jeg
vil því að ungar ekkjur giftist, ali börn, stjórni heimili
og gefi mótstöðumanninum ekkert tilefni til illmælis;
15 því að nokkrar hafa þegar horfið frá til fylgis við
16 Satan. Ef nokkur trúuð kona á fyrir ekkjum að
sjá, þá fulltingi hún þeim, og eigi hafi söfnuðurinn
þyngsli af, til þess að hann geti veitt hjálpina þeim,
sem ekkjur eru í raun og veru.

17 Öldungar þeir, sem veita góða forstöðu, sjeu
hafðir í tvöföldum metum, allra helst þeir sem erfiða
18 í orðinu og í kenslu; því að ritningin segir: *Þú skalt
ekki múlbinda uxann, er hann þreskir*, og verður er
19 verkamaðurinn launa sinna. Tak þú ekki við kæru
20 gegn öldungi, nema tveir eða þrír vottar beri; ávíta
brotlega í viðurvist allra, til þess að hinir megi og
21 hafa ótta. Jeg særi þig fyrir augliti Guðs og Krists
Jesú og hinna útvöldu engla, að þú gætir þessa án
22 nokkurs fordóms og gjörir ekkert af vilfylgi. Eigi
skalt þú fljótráðið leggja hendur yfir nokkurn mann;
tak þú eigi heldur þátt í annara syndum, varðveit
23 sjálfan þig hreinan. — Vert þú ekki lengur að drekka
vatn, heldur skalt þú neyta lítils eins af víni vegna
magans og veikinda þinna, sem eru svo tíð. —
24 Syndirnar hjá sumum mönnum eru í augum uppi, og
eru komnar á undan, þegar dæma skal; en hjá sum-

25 um koma þær líka á eftir. Á sama hátt eru og til
góð verk, sem strax eru augljós, og þau sem öðru-
vísi er ástatt með, geta ekki dulist.

6 Allir þeir, sem eru ánauðugir þrælar, skulu
halda húsbændur sína alls heiðurs maklega, til
þess að eigi verði lastmælt nafni Guðs og kenning-
2 unni. En þeir, sem trúaða húsbændur eiga, skulu
ekki lítilsvirða þá vegna þess að þeir eru bræður,
heldur þjóni því betur sem þeir eru trúaðir og elsk-
aðir, sem góða starfsins verða aðnjótandi. Kenn þú
þetta og áminn um það.

3 Ef einhver fer með annarlegar kenningar og
fylgir ekki hinum heilnæmu orðum Drottins vors
Jesú Krists og kenningunni, sem samkvæm er guð-
hræðslu, þá hefir hann ofmetnast, þó að hann viti
4 ekki neitt; en hann er sótttekinn af þrætum og orða-
stælum, sem af fæðist öfund, deilur, lastmæli, vondar
5 hugsanir, þjark og þras hugspiltra manna, sem
sneyddir eru sannleikanum, en skoða guðhræðsluna
6 sem gróðaveg. Já, guðhræðslan samfara nægjusemi
7 er mikill gróðavegur, — því að ekkert höfum vjer
inn í heiminn flutt, ekki getum vjer heldur
8 flutt neitt út þaðan; — en ef vjer höfum fæði og
9 klæði, þá látum oss það nægja. En þeir sem ríkir
vilja verða, falla í freistni og snöru og margar óvit-
urlegar fýsnir og skaðlegar, er sökkva mönnunum
10 niður í tortíming og glötun, því að fjegirndin er rót
alls þess sem ilt er; við þá fíkn hafa nokkrir vilst
frá trúnni og hafa stungið sjálfa sig mörgum harm-
kvælum.

11 En þú, Guðs maður, forðast þú þetta, en stunda
rjettlæti, guðhræðslu, trú, kærleika, stöðuglyndi og
12 hógværð. Berstu trúarinnar góðu baráttu, höndla þú
eilífa lífið, sem þú varst kallaður til og játaðir góðu
13 játningunni í viðurvist margra votta. Jeg býð þjer
fyrir augliti Guðs, sem veitir öllu líf, og Krists Jesú,
er gjörði góðu játninguna frammi fyrir Pontíusi Píla-
14 tusi, að þú gætir boðorðsins lýtalaust og óaðfinnan-
lega alt til opinberunar Drottins vors Jesú Krists,
15 sem hinn sæli og eini alvaldur mun á sínum tíma
birtast láta, konungur konunganna og drottinn drotn-
16 anna, hann sem einn hefir ódauðleika, sem býr í
ljósi, er enginn fær til komist, sem enginn maður
leit nje litið getur, honum sje heiður og eilífur mátt-
ur. Amen.

17 Bjóð ríkismönnum þessarar aldar að hugsa ekki
hátt nje treysta fallvaltleik auðsins, heldur Guði,
18 sem lætur oss alt ríkulega í tje til nautnar; bjóð
þeim að gjöra gott, að þeir sjeu ríkir af góðum verk-
19 um, sjeu örlátir, fúsir að miðla öðrum, safni handa
sjálfum sjer í fjársjóðu góðri undirstöðu til hins ókomna,
til þess að þeir höndli hið sanna líf.

20 Þú Tímóteus, varðveit það sem þjer er trúað
fyrir, og forðast hinar vanheilögu hjegómaræður og
21 mótsagnir hinnar rangnefndu þekkingar, sem nokkrir
hafa játast undir og orðið frávillingar í trúnni.

Náð sje með yður.

---

# Síðara brjef Páls postula til Tímóteusar.

1 Páll postuli Krists Jesú, að vilja Guðs, samkvæmt fyrirheitinu um lífið í Kristi Jesú, til Tímóteusar, elskaðs sonar.

2 Náð, miskunn og friður frá Guði föður og Kristi Jesú Drotni vorum.

3 Þakkir gjöri jeg Guði, sem jeg þjóna, eins og
forfeður mínir, með hreinni samvisku; svo sem jeg
4 án afláts minnist þín í bænum mínum; og þrái jeg
nótt og dag að sjá þig, minnugur tára þinna — til
5 þess að jeg fyllist gleði; — er jeg rifja upp fyrir
mjer hina hræsnislausu trú hjá þjer, er fyrst bjó í
Lóis ömmu þinni og Evníke móður þinni, og jeg er
6 sannfærður um að líka býr í þjer. Fyrir þá sök
minni jeg þig á, að glæða hjá þjer þá náðargjöf
Guðs, sem í þjer býr fyrir yfirlagning handa minna;
7 því að ekki gaf Guð oss anda hugleysis, heldur
8 anda máttar og kærleiks og stillingar. Fyrirverð
þig því ekki fyrir vitnisburðinn um Drottin vorn,
nje fyrir mig, bandingja hans, heldur skalt þú ilt
þola ásamt með fagnaðarerindinu, eftir mætti Guðs,
9 sem oss hefir frelsað og kallað heilagri köllun, ekki
eftir verkum vorum, heldur eftir eigin fyrirhugun og
náð, sem oss var gefin í Kristi Jesú frá eilífum tím-
10 um, en hefir nú birst við opinberun frelsara vors
Krists Jesú, sem dauðann afmáði, en leiddi í ljós líf
11 og ódauðleika með fagnaðarerindinu. Til að boða

það er jeg settur prjedikari og postuli og kennari;
12 fyrir þá sök líð jeg og þetta, en eigi fyrirverð jeg
mig, því að jeg veit á hvern jeg hefi fest traust mitt, og jeg
er sannfærður um, að hann er þess megnugur að
varðveita það, sem mjer er trúað fyrir, til þess dags.
13 Halt þú dæmi heilnæmu orðanna, sem þú heyrðir
mig flytja, í trúnni og í kærleikanum í Kristi Jesú.
14 Varðveittu það hið góða, sem þjer er trúað fyrir,
fyrir heilagan anda sem í oss býr.
15 Þú veist þetta, að allir Asíumenn sneru við mjer
bakinu, í þeirra flokki eru þeir Fýgelus og Hermo-
16 genes. Drottinn veiti miskunn heimili Ónesífórusar,
því að oft hresti hann mig, og fyrirvarð sig ekki
17 fyrir fjötur minn; heldur ljet hann sjer ant um að
leita mín, þegar hann var kominn til Róm, og fann
18 mig; — gefi Drottinn honum miskunn að finna hjá
Drotni á þeim degi. — Og þú þekkir manna best,
hve mikla þjónustu hann inti af hendi í Efesus.

2 Styrkst þú þá, son minn, í náðinni í Kristi
2 Jesú, og það sem þú heyrðir mig tala í margra
votta viðurvist, það skalt þú fá í hendur trúum
mönnum, sem verða færir um líka að kenna öðrum.
3 Þú skalt og að þínu leyti ilt þola, eins og góður
4 hermaður Krists Jesú. Til þess að þóknast þeim, sem
hann hefir á mála tekið, bendlar enginn hermaður
5 sig við atvinnu-störf; svo er og ef einhver fer að
keppa í leikum, þá verður hann ekki krýndur, nema
6 hann keppi löglega. Bóndinn, sem erfiðar, á fyrstur
7 að fá sinn hlut af ávöxtunum. Tak eftir því sem jeg
segi; því að Drottinn mun gefa þjer skilning á öllu.
8 Minst þú Jesú Krists, hans sem reis upp frá dauðum,

9 af sæði Davíðs, samkvæmt fagnaðarerindi mínu. Og
við það líð jeg ilt, og það enda að vera í fjötrum,
eins og illvirki; en orð Guðs verður ekki fjötrað.
10 Fyrir því þoli jeg alt sakir hinna útvöldu, til þess
að þeir einnig hljóti hjálpræðið í Kristi Jesú ásamt
11 eilífri dýrð. Það orð er satt: Því að ef vjer höfum
dáið með honum, þá munum vjer og lifa með hon-
12 um; ef vjer stöndum stöðugir, þá munum vjer og
með honum ríkja; ef vjer afneitum honum, þá mun
13 hann og afneita oss; ef vjer erum ótrúir, þá verður
hann samt trúr; því að ekki getur hann afneitað
sjálfum sjer.
14 Minn á þetta, særandi þá fyrir augliti Drottins,
að eiga ekki í orðastælum, til einskis gagns, áheyr-
15 endunum til falls. Legg kapp á að sýna sjálfan þig
fullreyndan fyrir Guði, verkamann, er ekki þarf að
skammast sín, sem fer rjett með orð sannleikans.
16 En forðast þú hinar vanheilögu hjegómaræður, því
17 að þeim skilar lengra áfram í guðleysi, og lærdómur
þeirra etur um sig eins og helbruni. Í tölu þeirra
18 eru þeir Hýmeneus og Fíletus. Þeir hinir sömu hafa
orðið frávillingar í sannleikanum, þar sem þeir segja
upprisuna þegar um garð gengna, og umhverfa trú
19 sumra manna. En Guðs styrki grundvöllur stendur,
hafandi þetta innsigli: *Drottinn þekkir sína*, og:
*Hver sá sem nefnir nafn Drottins, haldi sjer frá*
20 *ranglæti.* En á stóru heimili eru ekki einungis gull-
ker og silfurker, heldur og trjeker og leirker, og sum
21 eru til heiðurs og sum eru til vanheiðurs. Fái nú
einhver sig hreinan gjört af þessum, mun hann verða
ker til heiðurs, helgað ker og hagfelt húsbóndanum,

22 hæfilegt til sjerhvers góðs verks. En flý þú æskunn-
ar girndir, en stunda rjettlæti, trú, kærleika og frið
23 við þá, sem ákalla Drottin af hreinu hjarta. En
hafna þú heimskulegum og óskynsamlegum þrætum,
24 vitandi að þær leiða af sjer ófrið; en þjónn Drottins
á ekki að eiga í ófriði, heldur á hann að vera ljúfur
25 við alla, góður fræðari, þolinn í þrautum, hógvær-
lega agandi þá, er skipast í móti, ef Guð kynni að
26 gefa þeim iðrun til þekkingar á sannleikanum, og
þeir gætu endurvitkast úr snöru djöfulsins, hremdir
af honum til að gjöra hans vilja.

3 En vita skalt þú þetta, að á síðustu dögum
2 munu koma örðugar tíðir, því að mennirnir
munu verða sjergóðir, fjegjarnir, raupsamir, hroka-
fullir, lastmælendur, foreldrum óhlýðnir, vanþakklát-
3 ir, vanheilagir, kærleikslausir, óhaldinorðir, rógber-
andi, bindindislausir, grimmir, ekki elskandi það sem
4 gott er, sviksamir, framhleypnir, ofmetnaðarfullir,
5 elskandi munaðarlífið meira en Guð, og hafa á sjer
yfirskin guðhræðslunnar, en afneita krafti hennar.
6 Og snú þjer burt frá slíkum; því að úr hóp þessara
eru mennirnir, sem smeygja sjer inn í húsin og ná
á band sitt kvennsniftum, sem syndum eru hlaðnar
7 og leiðast af margvíslegum fýsnum, sem eru alt af
að læra og geta aldrei komist til þekkingar á sann-
8 leikanum. Eins og þeir Jannes og Jambres stóðu í
gegn Móse, þannig standa og þessir menn í gegn
sannleikanum; eru þeir menn hugspiltir og illa reynd-
9 ir í trúnni; en þeim mun ekki verða ágengt, því að
heimska þeirra mun verða hverjum manni augljós,
10 eins og heimska hinna líka varð. En þú hefir breytt

 

eftir mjer í kenningu, hegðun, ásetningi, trú, lang-
11 lyndi, kærleika, þolgæði, í ofsóknum og þjáningum,
slíkum sem fyrir mig komu í Antíokkíu, í Íkóníum
og í Lýstra; — slíkar ofsóknir sem jeg þoldi — og
12 Drottinn frelsaði mig úr þeim öllum. Já, allir, sem
lifa vilja guðrækilega í Kristi Jesú, munu ofsóttir
13 verða. En vondir menn og svikarar munu magnast
í vonskunni, villandi aðra og villuráfandi sjálfir.
14 En halt þú stöðuglega við það, sem þú hefir numið
og hefir fest trú á, þar eð þú veist af hverjum þú
15 hefir numið það; og þar eð þú frá blautu barnsbeini
þekkir heilagar ritningar, sem geta veitt þjer speki
16 til sáluhjálpar fyrir trúna á Kristi Jesú. Sjerhver
ritning, sem innblásin er af Guði, er og nytsöm til
fræðslu, til umvöndunar, til leiðrjettingar, til ment-
17 unar í rjettlæti, til þess að guðsmaðurinn sje algjör,
hæfur gjör til sjerhvers góðs verks.

4 Jeg særi þig fyrir augliti Guðs og Krists Jesú,
sem dæma mun lifendur og dauða, og við opin-
2 berun hans og konungsríki hans: Prjedika þú orðið,
gef þig að því í tíma, í ótíma; vanda um, ávíta,
3 áminn með öllu langlyndi og fræðslu. Því að þann
tíma mun að bera, er menn þola ekki hina heilnæmu
kenningu, heldur kitlar þá á eyrunum og þeir hópa
4 að sjer kennurum eftir eigin fýsnum sínum; og þeir
munu snúa eyrum sínum burt frá sannleikanum, og
5 snúa sjer að æfintýrum. En ver þú algáður í öllu,
6 þol ilt, gjör verk trúboða, fullna þjónustu þína. Því
að það er nú svo komið að mjer er fórnfært, og
7 tíminn er kominn að jeg taki mig upp. Jeg hefi

barist góðu baráttunni, hefi fullnað skeiðið, hefi varð-
8 veitt trúna. Að öðru leyti er mjer geymd kóróna
rjettlætisins, sem Drottinn mun gefa mjer á þeim
degi, hann hinn rjettláti dómari; en ekki einungis
mjer, heldur og öllum, sem elskað hafa opinberun
hans.

9 Gjör þjer far um að koma sem fyrst til mín;
10 því að Demas hefir yfirgefið mig, af því að hann
elskaði þennan heim, og er hann farinn til Þessa-
lóníku; Kreskes er farinn til Galatíu og Títus til
11 Dalmatíu; Lúkas er einn hjá mjer. Tak þú Markús
og lát hann koma með þjer, því að hann er mjer
12 þarfur til þjónustu. En Týkíkus hefi jeg sent til
13 Efesus. Fær þú mjer, þegar þú kemur, möttulinn,
sem jeg skildi eftir í Tróas hjá Karpusi, og bækurn-
14 ar, einkanlega skinnbækurnar. Alexander kopar-
smiður gjörði mjer margt ilt; Drottinn mun gjalda
15 honum eftir verkum hans. Gæt þín líka fyrir hon-
um, því að mjög stóð hann í gegn orðum vorum.
16 Í fyrstu málsvörn minni kom enginn mjer til að-
stoðar, heldur yfirgáfu mig allir; verði þeim það
17 ekki tilreiknað. En Drottinn stóð með mjer og
veitti mjer kraft, til þess að jeg yrði til að fullna
prjedikunina, og allir heiðingjarnir fengju að heyra.
18 Og jeg varð frelsaður úr gini ljónsins. Drottinn
mun frelsa mig frá öllu illu verki, og mig hólpinn
leiða inn í ríkið sitt hið himneska. Honum sje dýrð
um aldir alda. Amen.

19 Heilsa þú Prisku og Akvílasi og heimili Ónesí-
20 fórusar. Erastus varð eftir í Korintu, en Trófímus

21 skildi jeg eftir sjúkan í Míletus. Gjör þjer far um að
koma fyrir vetur. Evbúlus sendir þjer kveðju og
Púdes og Línus og Kládía og allir bræðurnir.
22 Drottinn sje með þínum anda. Náð sje með yður.

# Brjef Páls postula til Títusar.

1 Páll þjónn Guðs, en postuli Jesú Krists, samkvæmt
trú Guðs útvaldra og þekking sannleikans, sem
2 er í samhljóðan við guðhræðslu, í von um eilíft líf,
sem Guð, sá er ekki lýgur, hefir heitið frá eilífum
3 tíðum, en opinberaði á sínum tímum orð sitt í
prjedikun, sem mjer er trúað fyrir eftir skipun Guðs
4 frelsara vors, til Títusar, skilgetins sonar samkvæmt
sameiginlegri trú.
Náð og friður frá Guði föður og Kristi Jesú,
frelsara vorum.
5 Þess vegna ljet jeg þig eftir í Krít, til þess að
þú færðir í lag það sem ógjört var og skipaðir öld-
unga í hverri borg, svo sem jeg lagði fyrir þig:
6 þann einn, sem er óaðfinnanlegur, einnar konu eigin-
maður, á trúuð börn, sem eigi eru sökuð um andvara-
7 leysi eða þrjósku. Því að biskup á að vera óað-

finnanlegur, eins og ráðsmaður Guðs, ekki sjálfbirg-
ingur, ekki reiðigjarn, ekki drykkjumaður, ekki á-
8 flogamaður, ekki sólginn í svívirðilegan gróða; held-
ur gestrisinn, gott elskandi, hóglátur, rjettlátur, heil-
9 agur, bindindissamur; maður fastheldinn við hið sanna
orð samkvæmt kenningunni, til þess að hann sje fær
um bæði að áminna með hinni heilnæmu kenningu,
og að hrekja þá sem móti mæla.
10 Því að margir eru þverbrotnir og fara með
hjegómamál og leiða í villu, allra helst eru það um-
skurnarmennirnir, og verður að stinga upp í þá;
11 það eru mennirnir, sem kollvarpa heilum heimilum,
er þeir kenna það sem eigi á að kenna, fyrir sví-
12 virðilegs gróða sakir. Einhver af þeim, eigin spá-
maður þeirra, hefir svo að orði komist: Krítarmenn
eru síljúgandi, óarga dýr og letimagar. Þessi vitnis-
13 burður er sannur. Fyrir þá sök skalt þú vanda
harðlega um við þá, til þess að þeir verði heilbrigð-
14 ir í trúnni, og gefi sig ekki að Gyðinga-æfintýrum
og boðum manna, sem fráhverfir eru sannleikanum.
15 Allir hlutir eru hreinum hreinir, en flekkuðum og
vantrúuðum er ekkert hreint, heldur er bæði hugur
16 þeirra flekkaður og samviska. Þeir segjast svo sem
þekkja Guð, en afneita honum með verkunum; eru
þeir viðbjóðslegir og óhlýðnir og óhæfir til hvers
góðs verks.

2 En tala þú það, sem sæmir hinni heilnæmu
2 kenningu, að aldraðir menn sjeu bindindissam-
ir, siðprúðir, hóglátir, heilbrigðir í trúnni, kærleikan-
3 um og þolgæðinu; svo eiga og aldraðar konur að
vera virðulegar í háttalagi sínu, ekki rógberar og

4 ekki heldur í ánauð ofdrykkjunnar; heldur kenni gott
frá sjer, til þess að þær laði hinar ungu til að elska
5 menn sína, elska börn sín, vera hóglátar, skírlífar,
heimilisræknar, góðlátar, eiginmönnum sínum undir-
gefnar, til þess að orði Guðs verði ekki lastmælt.
6 Svo skalt þú og áminna hina yngri menn að vera
7 hóglátir, og sýn þig sjálfan í öllum greinum sem
fyrirmynd góðra verka, sýn í kenningunni grandvar-
8 leik og virðuleik; far þú með heilnæmt orð, óákær-
anlegt, til þess að andstæðingurinn fyrirverði sig,
9 þegar hann hefir ekkert ilt um oss að segja. Áminn
þræla, að þeir sjeu undirgefnir húsbændum sínum og
10 í öllu geðþekkir, ekki svörulir, ekki hnuplsamir,
heldur skulu þeir auðsýna hvers konar góða trú-
mensku, til þess að þeir prýði kenningu Guðs frels-
11 ara vors í öllum greinum. Því að náð Guðs hefir
12 opinberast sáluhjálpleg öllum mönnum, og kennir
hún oss að afneita óguðleik og veraldlegum girndum,
og lifa hóglátlega, rjettvíslega og guðrækilega í
13 heimi þessum; bíðandi hinnar sælu vonar og dýrðar-
opinberunar hins mikla Guðs og frelsara vors Jesú
14 Krists, sem gaf sjálfan sig fyrir oss, til þess að
hann leysti oss frá öllu ranglæti, og hreinsaði
sjálfum sjer til handa eignarlýð, kostgæfinn til
góðra verka.

15 Tala þú þetta og áminn, og vanda um með full-
um myndugleika. Lát engan lítilsvirða þig.

3 Minn þá á að vera undirgefnir höfðingjum og
yfirvöldum, vera hlýðnir, vera reiðubúnir til
2 sjerhvers góðs verks; lastmæla engum, vera ódeilu-

gjarnir, vera sanngjarnir, sýna hvers konar hógværð
3 við alla menn; því að vjer vorum og fyrrum óskyn-
samir, óhlýðnir, villuráfandi, í ánauð margs konar
fýsna og lostasemda, ólum aldur vorn í ilsku og
4 öfund, andstyggilegir, hatandi hver annan; en er
gæska Guð frelsara vors og elska hans til mannanna
5 birtist, þá frelsaði hann oss, ekki vegna rjettlætis-
verkanna, sem vjer höfðum unnið, heldur samkvæmt
miskunn sinni fyrir laug endurfæðingar og endur-
6 nýjungar heilags anda, sem hann úthelti yfir oss
7 ríkulega fyrir Jesúm Krist frelsara vorn, til þess að
vjer, rjettlættir fyrir náð hans, yrðum í voninni
8 erfingjar eilífs lífs. Það orð er satt, og á þetta vil
jeg að þú leggir alla áherslu, til þess að þeir, sem
fest hafa trú á Guð, láti sjer umhugað um að stunda
góð verk. Þetta er gott og mönnunum nytsamlegt.
9 En forðast þú heimskulegar þrætur og ættartölur
og deilur og lögmálsstælur, því að þær eru gagns-
10 lausar og hjegómlegar. Þrætumanni skalt þú sneiða
hjá, er þú hefir einu sinni og tvisvar áminnt hann;
11 með því að þú veist að slíkur maður er rangsnúinn
og syndgar; hann er sjálfdæmdur.
12 Þegar jeg sendi Artemas til þín eða Týkíkus,
þá gjör þjer far um að koma til mín í Nikópólis,
því þar hefi jeg ásett mjer að hafa vetrarvist.
13 Greið sem best för þeirra Senasar lögvitrings
14 og Apollós, til þess að þá bresti ekkert. En
vorir menn eiga og að læra að stunda góð verk
til nauðsynja-þarfa, til þess að þeir sjeu ekki
ávaxtarlausir.

15 Allir, sem hjá mjer eru, senda þjer kveðju.
Heilsa þeim, sem oss elska í trú.
Náð sje með yður öllum.

---

# Brjef Páls postula til Fílemons.

---

Páll, bandingi Krists Jesú, og bróðirinn Tímó-
teus til okkar elskaða Fílemons og samverkamanns
2 okkar, og til Appíu systur okkar, og til Arkippusar
samherja okkar, og til safnaðarins í húsi þínu.
3 Náð sje með yður og friður frá Guði föður vor-
um og Drotni Jesú Kristi.
4 Guði mínum gjöri jeg ávalt þakkir, er jeg minn-
5 ist þín í bænum mínum, — er jeg heyri um kærleika
þinn og trúna, sem þú hefir til Drottins Jesú og til
6 allra hinna heilögu, — að samfjelag trúar þinnar
verði mikilvirkt fyrir Krist í þekking alls hins góða,
7 sem með yður býr. Því að jeg hlaut mikla gleði og
huggun af kærleika þínum, þar eð þú, bróðir, hefir
endurnært hjörtu hinna heilögu.
8 Því er það, að þótt jeg hafi fulla djörfung að
bjóða þjer það sem vera ber, þá fer jeg þó heldur

9 bónarveg vegna kærleika þíns, þar sem jeg er eins
og jeg er, hann Páll gamli, og nú líka bandingi
10 Krists Jesú; jeg bið þig þá fyrir barnið mitt, sem
11 jeg hefi getið í fjötrum mínum, hann Ónesímus, sem
áður var þjer óþarfur, en er nú þarfur bæði þjer og
12 mjer; einmitt hann sendi jeg nú til þín aftur, og er
13 hann hjartað í brjósti mjer. Feginn vildi jeg hafa
haldið honum hjá mjer, til þess að hann í þinn stað
veitti mjer þjónustu í fjötrum fagnaðarerindisins;
14 en án þíns samþykkis vildi jeg ekkert gjöra, til þess
að velgjörningur þinn skyldi ekki koma eins og af
15 nauðung, heldur af fúsum vilja. Því að vísast hefir
hann þess vegna um stundarsakir skilist við þig,
til þess að þú síðan skyldir eilíflega halda honum;
16 ekki lengur eins og þræli, heldur þræli fremri, eins
og elskuðum bróður, mjög kærum mjer, en hve
17 miklu fremur þó þjer, bæði í holdi og í Drotni. Ef
þú nú telur mig fjelagsbróður þinn, þá tak á móti
18 honum, eins og væri jeg það sjálfur. En hafi hann
eitthvað gjört á hluta þinn, eða sje hann í skuld
19 við þig, þá fær þú mjer það til reiknings. Jeg,
Páll, rita með eigin hendi: Jeg mun gjalda — að
jeg ekki nefni við þig, að þú enda ert í skuld
20 við mig um sjálfan þig. Já, bróðir, unn mjer
gagns af þjer í Drotni, endurnær hjarta mitt í
21 Kristi. Í fullu trausti til hlýðni þinnar rita jeg til
þín, og veit að þú munt enda gjöra fram yfir það
22 sem jeg mælist til. En hafðu líka til gestaherbergi
handa mjer, því að jeg vona, að jeg vegna bæna
yðar muni verða gefinn yður.

23 Epafras, sambandingi minn í Kristi Jesú, sendir
24 þjer kveðju, og Markús, Aristarkus, Demas og Lúkas,
samverkamenn mínir.
25 Náðin Drottins vors Jesú Krists sje með anda
yðar. Amen.

# Brjefið til Hebrea.

1 Eftir að Guð forðum hafði oftsinnis talað til
feðranna og með mörgu móti fyrir munn spá-
mannanna, hefir hann í lok þessara daga til vor talað
2 fyrir soninn, sem hann setti erfingja allra hluta, fyrir
3 hvern hann og hefir gjört heimana. Hann sem er
ljómi dýrðar hans og ímynd veru hans, og ber alt
með orði máttar síns; hann settist, er hann hafði
hreinsun gjört syndanna, til hægri handar hátigninni
4 á hæðum, og er orðinn englunum þeim mun meiri,
sem hann hefir að erfðum tekið ágætara nafn en
5 þeir. Því við hvern af englunum hefir hann nokkru
sinni sagt: *Þú ert sonur minn, í dag hefi jeg getið
þig!* Og í annan stað: *Jeg vil vera honum faðir,
6 og hann mun vera mjer sonur!* Og er hann aftur
leiðir hinn frumgetna inn í heimsbygðina, segir
hann: *Og allir englar Guðs skulu tilbiðja hann.*
7 Og um englana segir hann: *Hann sem gjörir engla*

8 *sína vinda og þjóna sína eldsloga.* En um soninn:
*Hásæti þitt, ó Guð, er um aldir alda, og sproti rjett-*
9 *vísinnar er sproti ríkis þíns. Þú hefir elskað rjett-*
*læti og hatað ranglæti; fyrir því hefir Guð, þinn*
*Guð, smurt þig gleðinnar olíu fram yfir þína jafn-*
10 *ingja.* Og: *Þú, Drottinn, hefir í upphafi grundvallað*
11 *jörðina, og himnarnir eru verk handa þinna. Þeir munu*
*farast, en þú stendur, og allir munu þeir fyrnast sem*
12 *fat. Og þú munt þá saman vefja eins og blæju, eins*
*og fat, og þeir munu umbreytast, en þú ert hinn sami,*
13 *og þín ár munu ekki þrotna.* En við hvern af
englunum hefir hann nokkru sinni sagt: *Set þig*
*mjer til hægri handar, uns jeg gjöri óvini þína að*
14 *fótaskör þinni.* Eru þeir ekki allir þjónustubundnir
andar, útsendir í þeirra þarfir, sem hjálpræðið eiga
að erfa?

2 Þess vegna ber oss að gefa því enn betur gaum,
er vjer höfum heyrt, svo að eigi berumst vjer
2 afleiðis. Því að hafi orðið, af englum talað, reynst
stöðugt, og hver yfirtroðsla og óhlýðni hlotið rjettlátt
3 endurgjald, hvernig fáum vjer þá undan komist, ef
vjer vanrækjum slíkt hjálpræði, sem flutt var að upp-
hafi af Drotni, og var staðfest fyrir oss af þeim, er
4 heyrðu, er Guð jafnframt bar vitni með þeim, bæði
með táknum og undrum og margs konar krafta-
verkum og útbýtingu heilags anda að vild sinni?

5 Því ekki lagði hann undir engla hinn komandi
6 heim, sem vjer tölum um. En einhversstaðar vitn-
aði maður segjandi: *Hvað er maðurinn, að þú minn-*
*ist hans? Eða mannsins sonur, að þú vitjar hans?*
7 *Litlu einu hefir þú gjört hann englunum lægri. Þú*

*hefir krýnt hann dýrð og heiðri. Og þú hefir skipað*
8 *hann yfir verk handa þinna Alla hluti hefir þú*
*lagt undir fætur hans.* Því að með því að leggja
alla hluti undir hann, þá hefir hann ekkert það eftir
skilið, er ekki sje undir hann lagt. En nú sjáum
vjer ekki enn þá, að allir hlutir sjeu undir hann
9 lagðir. En hann, sem litlu einu var gjörður englun-
um lægri, það er að segja Jesús, hann sjáum vjer
vegna þjáningar dauðans krýndan dýrð og heiðri, til
þess að hann af Guðs náð skyldi dauðann smakka
10 fyrir alla. Því að það hæfði honum, vegna hvers
allir hlutir eru, og fyrir hvern allir hlutir eru, er
hann leiddi marga syni til dýrðar, að fullkomna höf-
11 und hjálpræðis þeirra með þjáningum. Því að bæði
sá sem helgar, og þeir sem helgaðir verða, eru allir
af einum; fyrir þá sök telur hann sjer eigi vanvirðu
12 að kalla þá bræður, segjandi: *Jeg mun kunnugt*
*gjöra nafn þitt bræðrum mínum, jeg mun syngja þjer*
13 *lof mitt í söfnuðinum.* Og í annan stað: *Jeg mun*
*halda áfram að treysta á hann.* Og enn fremur:
14 *Sjá, jeg og börnin, er Guð gaf mjer.* Þar sem nú
börnin eiga hlut í holdi og blóði, þá hefir hann og
sjálfur fengið hlutdeild í því mjög svo á sama hátt,
til þess að hann fyrir dauðann gæti að engu gjört
þann sem hefir mátt dauðans, það er að segja djöful-
15 inn, og frelsað alla þá, sem af ótta fyrir dauðanum
16 voru undir þrælkun seldir alla sína æfi. Því að víst
er um það, að ekki tekur hann að sjer englana, en
17 hann tekur að sjer sæði Abrahams. Því var það að
hann í öllum greinum átti að verða líkur bræðrunum,
til þess að hann yrði miskunnsamur og trúr æðsti

prestur í þjónustu fyrir Guði, til þess að friðþægja
18 fyrir syndir lýðsins. Því að með því að hann hefir
liðið, þar sem hans sjálfs var freistað, er hann fær
um að fulltingja þeim, er verða fyrir freistingu.

3 Bræður heilagir! Þjer skuluð þess vegna, sem
hluttakar himneskrar köllunar, gefa gætur að
2 postula og æðsta presti játningar vorrar, Jesú, sem
trúr var þeim, er hann skipaði, eins og Móse var það
3 líka í öllu hans húsi. Því að þessi er álitinn verður
þeim mun meiri dýrðar en Móse, sem sá, er húsið
4 gjörði, hefir meiri dýrð en húsið sjálft; því að sjerhvert
hús er gjört af einhverjum, en Guð er sá sem alt
5 hefir gjört. Og Móse var að sönnu trúr í öllu hans
húsi, eins og þjónn, til vitnisburðar um það sem átti
6 að verða talað; en Kristur eins og sonur yfir húsi
hans, og hans hús erum vjer, ef vjer höldum fastri
djörfunginni og hrósun vonarinnar alt til enda.

7 Því er það eins og heilagur andi segir: *Í dag, ef
þjer heyrið raust hans, þá forherðið ekki hjörtu yðar,*
8 *eins og í beiskjunni á degi freistingarinnar á eyði-*
9 *mörkinni; þar sem feður yðar freistuðu mín í fullri*
*raun, og verkin mín fengu þeir að sjá í fjörutíu ár.*
10 *Fyrir því var jeg gramur kynslóð þessari og sagði:*
*Óaflátanlega villast þeir í hjörtum sínum. En þeir*
11 *þektu ekki vegu mína. Svo sem jeg sór í bræði*
*minni: Eigi skulu þeir inn ganga til hvíldar minn-*
12 *ar.* Gefið gætur, bræður, að eigi kunni að vera hjá
einhverjum yðar vont vantrúar hjarta, að hann falli
13 frá lifanda Guði. Heldur áminnið sjálfa yður einn
og sjerhvern dag, á meðan enn heitir: í dag, til þess
14 að enginn yðar forherðist af táli syndarinnar. Því

að vjer erum orðnir hluttakar Krists, svo framarlega
sem vjer höldum föstu alt til enda trausti voru, eins
15 og það var að upphafi. Þar sem sagt er: Í dag, ef
þjer heyrið raust hans, þá forherðið ekki hjörtu yðar
16 eins og í beiskjunni. Því að hverjir voru þeir, sem
heyrt höfðu, og ollu þó beiskju? Voru það ekki ein-
mitt allir þeir, sem út höfðu farið af Egiptalandi
17 fyrir tilstilli Móse? Og hverjum var hann gramur í
fjörutíu ár? Var það ekki þeim sem syndgað höfðu,
18 hverra hræ hrundu niður á eyðimörkinni? Og hverj-
um sór hann, að eigi skyldu þeir ganga inn til hvíld-
ar hans, nema hinum vantrúuðu? Og vjer sjáum að
sakir vantrúar fengu þeir eigi gengið inn.

4 Þar sem nú er eftir látið fyrirheit um það að
ganga inn til hvíldar hans, þá vörumst grand-
varlega að svo kunni að fara, að nokkur yðar virð-
2 ist dragast aftur úr; því að fagnaðarerindið var oss
boðað eigi síður en þeim; en orðið, sem þeir heyrðu,
kom þeim eigi að haldi, vegna þess að það sam-
3 blandaðist ekki trúnni hjá heyrendunum. Því að
vjer, sem trú höfum tekið, göngum inn til hvíldar-
innar eins og hann hefir sagt: Svo sem jeg sór í
bræði minni: Eigi skulu þeir ganga inn til hvíldar
minnar; enda þótt verkin væru fullgjör frá grund-
4 völlun heims. Því að einhverstaðar hefir hann svo
að orði kveðið um hinn sjöunda dag: *Og Guð hvíld-*
5 *ist hinn sjöunda dag eftir öll verk sín.* Og enn á
þessum stað: Eigi skulu þeir ganga inn til hvíldar
6 minnar. Þar sem nú enn stendur til boða, að nokkr-
ir gangi inn til hennar, og þeir, er fagnaðarerindið
7 var fyr boðað, gengu ekki inn sakir óhlýðni, þá

ákveður hann aftur dag einn, segjandi hjá Davíð,
eftir svo langan tíma: Í dag, svo sem fyr hefir sagt
verið; í dag, ef þjer heyrið raust hans, þá forherðið
8 ekki hjörtu yðar. Því að hefði Jósúa leitt þá til
hvíldar, þá mundi hann ekki síðar meir hafa talað
9 um annan dag. Enn stendur þá til boða sabbatshvíld
10 fyrir lýð Guðs. Því að sá, sem gengið hefir inn til
hvíldar hans, hefir og sjálfur tekið sjer hvíld eftir
11 verk sín, eins og Guð hvíldist eftir sín verk. Kost-
um því kapps um að ganga inn til þessarar hvíldar,
til þess að enginn falli á sama dæmi óhlýðninnar.
12 Því að orð Guðs er lifandi og kröftugt og beittara
hverju tvíeggjuðu sverði, og smýgur inn í instu
fylgsni sálar og anda, liðamóta og mergjar, og er
vel fallið til að dæma um hugsanir og hugrenningar
13 hjartans. Og engin skepna er honum hulin, en
alt er bert og öndvert augum hans, sem hjer
er um að ræða.

14 Er vjer þá höfum mikinn æðsta prest, sem farið
hefir í gegnum himnana, Jesúm Guðs son, þá höld-
15 um fast við játninguna. Því að ekki höfum vjer
þann æðsta prest, er eigi geti sjeð aumur á veik-
leika vorum, heldur þann, sem freistað var á allan
16 hátt eins og vor, án syndar. Göngum því með
djörfung að hásæti náðarinnar, til þess að vjer
öðlumst miskunn og hljótum náð til hjálpar á hag-
kvæmum tíma.

5 Því að svo er um hvern æðsta prest, að þar
sem hann er úr flokki manna tekinn, þá er
hann settur fyrir menn, til þjónustu fyrir Guði, til
þess að bera fram bæði gáfur og fórnir fyrir syndir,

2 og getur hann verið mildur við fáfróða og villu-
ráfandi, þar sem hann sjálfur er veikleika vafinn.
3 Og sökum þess á hann að bera fram syndafórn, eigi
4 síður fyrir sjálfan sig en fyrir lýðinn. Og ekki tekur
nokkur sjer sjálfum þennan heiður, heldur er hann kall-
5 aður af Guði, engu síður en Aron. Svo var það og
um Krist, að ekki tók hann sjálfum sjer þá dýrð að
gjörast æðsti prestur, heldur sá er við hann sagði:
6 *Sonur minn ert þú, í dag hefi jeg getið þig.* Eins
og hann líka segir á öðrum stað: *Þú ert prestur*
7 *að eilífu að hætti Melkísedeks.* Hann sem á dögum
holds síns bar fram með sárum kveinstöfum og tára-
föllum bænir og auðmjúk andvörp fyrir þann, sem
megnaði að frelsa hann frá dauða, og fekk þá bæn-
8 heyrslu, að leysast úr angist sinni. Og þótt hann
sonur væri, lærði hann samt hlýðni af því, sem hann
9 leið. Og er hann var fullkomnaður, gjörðist hann
öllum þeim, er honum hlýða, höfundur eilífs hjálp-
10 ræðis, af Guði nefndur æðsti prestur að hætti Melkí-
sedeks.
11 Um þetta höfum vjer langt mál að segja og tor-
12 skilið, af því að þjer hafið gjörst heyrnarsljóir. Því
þó að þjer tímans vegna ættuð að vera kennarar, þá
hafið þjer þess enn þörf að einhver kenni yður byrj-
unar-stafróf boða Guðs; og svo er komið fyrir yður,
að þjer hafið þörf á mjólk, en ekki megnri fæðu.
13 En hver sem er við mjólkina, hann er óreyndur í
14 rjettlætis orði, því að hann er barn. En megna
fæðan er fyrir fullorðna, þar sem leiknin hefir tamið
skilvitunum að greina gott frá illu.

6 Fyrir því skulum vjer sleppa byrjunar-atriðunum í Kristi og sækja fram til fullkomnunarinnar, og förum ekki aftur að leggja grundvöll iðrunar
2 frá dauðum verkum og trúar á Guð, —kenningar-grundvöll, um skírnir, handayfirlagningar, upprisu dauðra og
3 eilífs dóms. Og þetta munum vjer gjöra ef Guð lofar.
4 Því að það er ómögulegt, að þeir sem eitt sinn eru orðnir upplýstir og hafa smakkað hina himnesku gjöf,
5 og hafa orðið hluttakar heilags anda, og hafa smakkað Guðs góða orð og krafta komandi aldar, og hafa
6 síðan fallið frá; — það er ómögulegt að endurnýja þá til iðrunar, þar sem þeir með sjálfum sjer kross-
7 festa Guðs son af nýju og smána hann; því að jörð sú, er drukkið hefir í sig regnið, sem á hana fellur hvað eftir annað, og ber gróður til gagns fyrir þá, sem hún og er yrkt fyrir, fær blessun frá Guði;
8 en beri hún þyrna og þistla, er hún ónýt, yfir henni vofir bölvun, og hennar bíður að lokum að verða brend.

9 En hvað yður snertir, þjer elskaðir, þá erum vjer sannfærðir um það sem vel fer og hjálpsamlegt
10 er, þó að vjer mælum svo, því að ekki er Guð ranglátur, að hann gleymi verki yðar og kærleikanum, sem þjer auðsýnduð nafni hans, er þjer veittuð hin-
11 um heilögu þjónustu og veitið enn. Og vjer óskum að sjerhver yðar sýni af sjer sömu ástundan, til þess
12 að vonin fullkomnist alt til enda; til þess að þjer verðið ekki sljóir, heldur eftirbreytendur þeirra, sem vegna trúar og stöðuglyndis erfa fyrirheitin.

13 Því var það, að þegar Guð gaf Abraham fyrirheitið, þá sór hann við sjálfan sig, þar sem hann

 

14 hafði við engan æðri að sverja, og sagði: *Sannlega*
*mun jeg blessandi blessa þig og margfaldandi marg-*
15 *falda þig*. Og með þeim hætti öðlaðist hann fyrir-
heitið, er hann hafði beðið þess með stöðuglyndi.
16 Því að menn sverja eið við þann sem æðri er, og
eiðurinn er fyrir þá endir alls andmælis til staðfest-
17 ingar. Með því nú að Guð vildi sýna erfingjum
fyrirheitisins enn ríkulegar, hve ráð sitt væri órask-
18 anlegt, þá lagði hann enda eið við, til þess að tvent
væri það til óraskanlegt — þar sem ómáttulegt var
að Guð færi með lygi —, er ljeti oss, þá er undan
hafa komist, fá örugt traust, til þess að höndla sælu-
19 vonina, sem oss er geymd, sem vjer höfum eins og
20 akkeri sálarinnar, traust og örugt. Og það nær alla
leið inn fyrir fortjaldið, þangað sem Jesús gekk inn,
hann sem er fyrirrennarinn, oss til heilla, orðinn
æðsti prestur að eilífu, að hætti Melkísedeks.

7 Því að Melkísedek þessi, Salem-konungur,
prestur Guðs hins hæsta, hann er sá er gekk á
móti Abraham, er hann sneri heimleiðis frá vígi
2 konunganna, og blessaði hann. Og honum ljet Abra-
ham í tje tíund af öllu. — Fyrst þýðir nafnið »rjett-
lætis-konungur«, en heitir og enn fremur Salem-kon-
3 ungur, það er »friðar-konungur«, föðurlaus, móðurlaus,
ekki ættfærður, hafandi hvorki upphaf daga nje enda
lífs, en líkur gjör syni Guðs; — hann heldur áfram
að vera prestur um aldur.

4 Virðið nú fyrir yður, hvílíkur maður það var,
sem Abraham gaf valda tíund af herfanginu, hann
5 sjálfur forfaðirinn. Og víst er um það, að þeim Leví-
sonum, er prestþjónustuna fá, er boðið að taka tíund

af lýðnum, eftir lögmálinu, það er að segja af bræðr-
um sínum, enda þótt þeir útgengnir sjeu af lend
6 Abrahams; en sá, er eigi var ættfærður til þeirra,
tók tíund af Abraham og blessaði þann, er fyrirheit-
7 in hafði. En með öllu er það ómótmælanlegt, að
það sem er minni háttar, er blessað af því sem meiri
8 háttar er, og hjer taka dauðlegir menn tíund, en þar
9 tók sá, er um var vitnað, að hann lifi. Og svo má
að orði kveða, að enda Leví, hann sem tíund tekur,
10 hafi greitt tíund, þar sem Abraham gjörði það, því
að enn þá var hann í lend föður síns, þegar Melkí-
sedek gekk á móti honum.

11 Hefði nú fullkomnun fengist fyrir levíska prest-
dóminn, — en hann var fóturinn undir löggjöfinni,
sem lýðurinn hafði tekið á móti, — hver var þá
framar þörf þess, að hefjast skyldi annar prestur að
hætti Melkísedeks, sá er eigi væri talinn að hætti
12 Arons? Því að hjá því verður ekki komist, að þegar
prestdómurinn breytist, þá verður og breyting á lög-
13 málinu; því að maður sá, sem þetta er um mælt,
var af annari ætt, og af þeirri ætt hefir enginn int
14 þjónustu af hendi við altarið. Því að alkunnugt er
það, að Drottinn vor er af Júda upp runninn, en
Móse hefir ekkert um presta talað, að því er kemur
15 til þeirrar ættkvíslar. Og þetta er enn miklu ber-
sýnilegra, ef hafinn er annar prestur í líking við
16 Melkísedek, sá er eigi varð það eftir lögmáli holdlegs
17 boðorðs, heldur eftir krafti órjúfanlegs lífs. Því að
um hann er vitnað: Þú ert prestur að eilífu að
18 hætti Melkísedeks. Því að undangengið boðorð er að
vísu gjört ógilt, af því að það var vanmáttugt og

19 gagnslaust, — því að lögmálið gjörði ekkert fullkom-
ið; — en jafnframt er innleidd betri von, og fyrir
20 hana nálægjumst vjer Guð. Og að svo miklu leyti
21 sem það er ekki orðið án eiðs, — því að hinir hafa
prestar orðið án eiðs, en hann með eiði frá þeim er
22 við hann sagði: *Drottinn sór, og ekki mun hann iðra
þess: þú ert prestur að eilífu;* — að því skapi er
Jesús einnig orðinn borgunarmaður betri sáttmála.
23 Og hinir eru margir, sem prestar urðu, af því að
24 dauðinn meinaði þeim að vera áfram, en hann hefir
prestdóm þar sem ekki verða mannaskifti, af því að
25 hann er að eilífu; fyrir því getur hann og til fulls
frelsað þá, sem fyrir hann ganga fram fyrir Guð,
þar sem hann ávalt lifir, til að biðja fyrir þeim.
26 Oss hæfði einmitt slíkur æðsti prestur, heilagur,
svikalaus, óflekkaður, greindur frá syndurum, og orð-
27 inn himnunum hærri; sá er ekki þarf daglega, eins
og æðstu prestarnir, fyrst að bera fram fórnir fyrir
sínar eigin syndir, síðan fyrir syndir lýðsins; því að
þetta gjörði hann eitt skifti fyrir öll, er hann fórn-
28 færði sjálfum sjer. Því að lögmálið skipar menn
æðstu presta, sem hafa veikleika, en orð eiðsins, þess
er kom á eftir lögmálinu, skipar son, fullkominn
gjörðan að eilífu.

8. En höfuðinntak þess, sem sagt hefir verið, er
þetta: Vjer höfum þann æðsta prest, er settist
til hægri handar hástóls hátignarinnar á himnum,
2 helgiþjón helgidómsins og tjaldbúðarinnar, hinnar
3 sönnu, sem Drottinn reisti, eigi maður. Því að sjer-
hver æðsti prestur er skipaður til þess að bera fram
bæði gáfur og fórnir; fyrir því er það nauðsynlegt

að þessi æðsti prestur hafi líka eitthvað fram að bera.
4 Væri hann nú á jörðu, mundi hann alls ekki vera
prestur, þar sem þeir eru fyrir, sem lögmálinu sam-
5 kvæmt frambera gáfurnar, og eru það þeir sem veita
þjónustu eftir mynd og skugga hins himneska, eins
og Móse fekk bendingu um frá Guði, er hann var að
koma upp tjaldbúðinni: Því að *gæt þess*, segir hann,
*að þú gjörir alt eftir þeirri fyrirmynd, sem þjer var*
6 *sýnd á fjallinu.* En nú hefir hann fengið þeim mun
ágætari helgiþjónustu, sem hann og er meðalgangari
betri sáttmála, sem lögtrygður er betri fyrirheitum.
7 Því að hefði sá hinn fyrri sáttmáli verið óaðfinnan-
legur, þá hefði ekki verið reynt að koma öðrum að.
8 Því að hann er að finna að, þegar hann segir við
þá: *Sjá, dagar koma, segir Drottinn, og jeg mun*
*gjöra nýjan sáttmála við hús Ísraels og við hús Júda,*
9 *ekki eins og sáttmálann, er jeg gjörði við feður þeirra,*
*á þeim degi, er jeg tók í hönd þeirra, til að leiða þá*
*út af Egiptalandi, því að þeir hjeldu ekki minn sátt-*
10 *mála, og jeg hirti eigi um þá, segir Drottinn. Því að*
*þetta er sáttmálinn, sem jeg mun gjöra við hús Israels,*
*eftir þá daga, segir Drottinn: Jeg mun gefa lög mín*
*í hugskot þeirra og rita þau á hjörtu þeirra, og jeg*
*mun vera Guð þeirra, og þeir munu vera lýður minn.*
11 *Og alls enginn mun þá kenna samborgara sínum og*
*enginn bróður sínum, svo mælandi: Þektu Drottin,*
*því að allir munu þeir þekkja mig, jafnt smáir sem*
12 *stórir. Því að jeg mun vera vægur við misgjörðir*
*þeirra, og jeg mun alls ekki framar minnast synda*
13 *þeirra.* Þar sem hann nú kallar þetta nýjan sátt-
mála, þá hefir hann lýst hinn fyrri úreltan, en það

sem er að úreldast og fyrnast, er að því komið að
verða að engu.
9 Að vísu hafði nú fyrri sáttmálinn líka fyrir-
skipanir um þjónustuna og hafði jarðneskan
2 helgidóm. Því að tjaldbúð var gjörð, hin fremri, og
í henni voru bæði ljósastikan og borðið og skoðunar-
3 brauðin, og heitir hún »hið heilaga«. En bak við
annað fortjaldið var tjaldbúð, sem hjet »hið allrahelg-
4 asta«. Þar var reykelsisaltarið úr gulli og sáttmáls-
örkin, sem alt í kring var gulli búin; í henni var
gullkerið með manna í, og hinn blómgaði stafur
5 Arons og sáttmálsspjöldin. En yfir henni voru
kerúbar dýrðarinnar, yfirskyggjandi náðarstólinn; en
6 um þetta hvað fyrir sig er nú ekki að ræða. Er
þetta var nú gjört með þeim hætti, þá ganga prest-
arnir stöðugt inn í fremri tjaldbúðina og inna af
7 hendi þjónustu-athafnirnar, en inn í hina innri gengur
æðsti presturinn einn einu sinni á ári, ekki án blóðs,
sem hann ber fram fyrir sjálfan sig og fyrir yfir-
8 sjónir lýðsins, og sýnir heilagur andi með því, að
vegurinn til hins heilaga er enn eigi kunnur orðinn,
9 á meðan fremri tjaldbúðin enn stendur; hún sem
einmitt er líking upp á tímann, sem yfir stendur, og
henni samkvæmt eru fram bornar bæði gáfur og
fórnir, sem eigi eru máttugar til fulls að friða sam-
viskuna hjá þeim, sem þjónustuna innir af hendi,
10 en eru aðeins — ásamt mat og drykk og ýmiss
konar þvottum — holds fyrirskipanir, sem mönnum
eru á herðar lagðar alt til tíma viðreisnarinnar.
11 En er Kristur var kominn sem æðsti prestur
hinna komandi gæða, þá gekk hann inn í gegnum

hina stærri og fullkomnari tjaldbúð, sem ekki er
með höndum gjörð, það er að segja, er ekki af þess-
12 ari sköpun; og ekki gekk hann heldur með blóð
hafra og kálfa, heldur með sitt eigið blóð, inn í hið
heilaga í eitt skifti fyrir öll, eftir að hafa aflað eilífrar
13 lausnar. Því að ef blóð hafra og nauta og askan af kvígu,
stráð á menn, er óhreinir hafa gjörst, helgar til hrein-
14 leika á holdinu, hve miklu fremur mun þá blóðið
Krists hreinsa samvisku yðar frá dauðum verkum,
til að þjóna Guði lifanda, þar sem Kristur fyrir
eilífan anda bar fram sjálfan sig lýtalausan fyrir
15 Guði? Og þess vegna er hann meðalgangari nýs
sáttmála, til þess að hinir kölluðu mættu öðlast fyrir-
heit hinnar eilífu arfleifðar, er dauði hafði átt sjer
stað til endurlausnar frá yfirtroðslunum undir fyrri
16 sáttmálanum, því að þar sem arfleiðsluskrá er, þar
verður dauði þess, er hana gjörði, að eiga sjer stað;
17 því að arfleiðsluskrá er óhagganleg, þegar um látna
er að ræða, þar sem hún er í engu gildi, meðan arf-
18 leiðandi lifir; þess vegna var ekki heldur hinn fyrri
19 sáttmáli vígður án blóðs. Því að þegar Móse hafði
kunngjört gjörvöllum lýðnum öll boðorðin, lögmálinu
samkvæmt, þá tók hann blóð kálfanna og blóð hafr-
anna, ásamt vatni og skarlatsrauðri ull og ísópi,
og stökti bæði á sjálfa bókina og allan lýðinn og
20 mælti: *Þetta er blóð sáttmálans, sem Guð ráðstafaði*
21 *til yðar.* Og sömuleiðis stökti hann blóðinu á tjald-
22 búðina og öll áhöldin við helgi-þjónustuna. Og sam-
kvæmt lögmálinu er það nálega alt, sem hreinsast
með blóði, og eigi fæst fyrirgefning án úthellingar
blóðs.

23 Það var því óhjákvæmilegt að þessar eftirmyndir
þeirra hluta, sem á himnum eru, yrðu hreinsaðar
með slíku, en fyrir sjálft hið himneska þurftu til að
24 koma betri fórnir en þessar, því að Kristur gekk
ekki inn í helgidóm höndum gjörðan, eftirmynd hins
sanna helgidóms, heldur inn í sjálfan himininn, til
þess nú að birtast fyrir augliti Guðs oss til heilla;
25 og ekki heldur til þess að hann skyldi frambera
sjálfan sig margsinnis, eins og æðsti presturinn geng-
ur inn í hið heilaga á ári hverju með annarlegt
26 blóð; þar sem hann hefði þá oft orðið að líða frá
grundvöllun veraldar, heldur hefir hann nú birst í
eitt skifti við endi aldanna, til að afmá synd með
27 fórn sinni. Og eins og það liggur fyrir mönnunum
28 eitt sinn að deyja, en eftir það er dómurinn, þannig
mun og Kristur, eitt sinn fórnfærður til að bera
syndir margra, í annað sinn birtast án syndar, til
hjálpræðis þeim, er hans bíða.

10 Þar sem lögmálið nú hefir einungis skugga
hinna komandi gæða, en ekki sjálft líki
hlutanna, getur það aldrei með sömu fórnunum ár
hvert, er þeir stöðugt bera fram, fullkomnað þá, er
2 ganga fram fyrir Guð. Því að hefði ekki annars
verið hætt við að frambera þær, vegna þess að sam-
viskan hjá dýrkendunum var sjer alls ekki framar
meðvitandi synda, er þeir voru eitt sinn hreinir
3 orðnir? En einmitt með þeim fórnum er mint á
4 syndirnar ár hvert. Því að það er ómögulegt, að
5 blóð nauta og hafra geti burt numið syndir. Því
er það, að þegar hann kemur í heiminn, þá segir
hann: *Fórn og gáfu hefir þú eigi viljað, en líkama*

6 *hefir þú búið mjer; brennifórnir og syndafórnir geðjuðust*
7 *þjer ekki. Þá sagði jeg: Sjá, jeg er kominn — í bók-*
*rollunni er ritað um mig — til að gjöra þinn vilja,*
8 *Guð minn!* Er hann hjer fyrir ofan segir: *Fórnir*
*og gáfur og brennifórnir og syndafórnir hefir þú eigi*
*viljað, og eigi geðjaðist þjer að þeim;* — en það eru
einmitt þær, sem fram eru bornar samkvæmt lögmál-
9 inu; — þá hefir hann síðan sagt: Sjá, jeg er kominn
til að gjöra vilja þinn; hann tekur burt hið fyrra, til
10 þess að staðfesta hið síðara. Og samkvæmt þessum
vilja erum vjer helgaðir með fórnargáfu líkama Jesú
11 Krists eitt skifti fyrir öll. Og svo er því varið um
hvern prest, að hann er við helgiþjónustu sína bund-
inn dag hvern, og ber fram margsinnis hinar sömu
12 fórnir, þær sem þó aldrei geta afmáð syndir; en um
hann er það að segja, að þegar hann hafði frambor-
ið eina fórn fyrir syndirnar, settist hann um aldur
13 við hægri hönd Guðs, og bíður þess síðan að *óvinir*
14 *hans verði gjörðir að fótaskör hans.* Því að með einni
fórn hefir hann um aldur fullkomnað þá, er helgaðir
15 verða. Og einnig heilagur andi vitnar fyrir oss.
16 Því að eftir að hann hefir sagt: *Þetta er sáttmálinn,*
*er jeg mun gjöra við þá eftir þá daga,* segir Drottinn:
*Lög mín vil jeg gefa í hjörtu þeirra, og í hugskot*
17 *þeirra vil jeg þau rita.* Og *jeg mun alls ekki minnast*
18 *framar synda þeirra nje lögmálsbrota.* En þar sem
er fyrirgefning þeirra, þar þarf ekki framar fórn
fyrir synd.

19 Er vjer nú, bræður, megum fyrir Jesú blóð með
20 djörfung ganga inn í hið heilaga, þangað sem hann
vígði oss veginn, nýjan veg og lifandi, inn í gegnum

21 fortjaldið, það er að segja hans eigin líkama, og er
22 vjer höfum mikinn prest yfir húsi Guðs, þá látum
oss ganga fram fyrir Guð með einlægum hjörtum, í
öruggu trúartrausti, er vjer höfum hreinsað hjörtu
vor af vondri samvisku, og laugað líkama vorn
23 hreinu vatni. Höldum fast við játningu vonar vorrar
óbifanlega, því að trúr er sá, sem fyrirheitið hefir
24 gefið; og gefum gætur hver að öðrum, til þess að
25 hvetja oss til kærleika og góðra verka. Og yfirgef-
um ekki vorn eigin söfnuð, sem sumra er siður, held-
ur uppörvum hver annan, og það því fremur, sem
þjer sjáið að dagurinn færist nær.

26 Því að ef vjer syndgum af ásettu ráði, eftir að
vjer höfum öðlast þekkingu sannleikans, þá er úr
27 því enga fórn að fá fyrir syndirnar, heldur er það
rjett sem óttaleg bið eftir dómi, og grimmilegur eld-
28 ur, sem eyða mun andstæðingunum. Maður sá, er að
engu hefir lögmál Móse, verður vægðarlaust bana að
29 bíða, ef tveir eða þrír vottar bera. Hve miklu
þyngri hegningu ætlið þjer þá ekki að sá muni
vera talinn verðskulda, er hefir fótum troðið son
Guðs og hefir álitið vanheilagt blóðið sáttmálans, er
hann var helgaður í, og hefir smánað anda náðar-
30 innar? Því að vjer þekkjum þann er sagt hefir:
*Mín er hefndin, jeg mun endurgjalda.* Og í annan
31 stað: *Drottinn mun dæma lýð sinn.* Óttalegt er að
falla í hendur lifanda Guðs.

32 En endurminnist hinna fyrri daganna, er þjer
voruð orðnir upplýstir og þolduð mikla raun þján-
33 inga. Og var það ýmist, að þjer sjálfir, smánaðir
og aðþrengdir, voruð hafðir að augnagamni, eða þá

hitt, að þjer tókuð þátt í kjörum þeirra, er slíku áttu
34 að sæta. Því var það og, að þjer sampíndust
bandingjunum, og tókuð því með gleði, er þjer voruð
rændir fjármunum yðar, með því að þjer vissuð, að
35 þjer áttuð sjálfir betri eign og varanlega. Varpið
því eigi frá yður djörfung yðar, er mikla umbun
36 hefir, því að þolgæðis hafið þjer þörf, til þess að
þjer úr býtum berið fyrirheitið, er þjer hafið gjört
37 Guðs vilja. Því að innan harðla skamms tíma *mun*
38 *sá koma, sem koma á, og ekki dvelst honum. En minn*
*hinn rjettláti mun lifa fyrir trúna;* og *skjóti hann sjer undan,*
39 *þá hefir sála mín eigi geðþekni á honum.* En vjer
erum ekki undanskotsmenn til glötunar, heldur menn
trúarinnar til sáluhjálpar.

11 En trúin er fullvissa um það, sem menn vona,
sannfæring um þá hluti, sem eigi er auðið að sjá.
2 Því að fyrir hana fengu mennirnir fyr á tíðum góð-
3 an vitnisburð. Fyrir trú skiljum vjer heimana gjörða
vera með Guðs orði, á þann hátt að hið sýnilega
4 hefir ekki orðið til af því, er sjeð varð. Fyrir trú
bar Abel fram fyrir Guð betri fórn en Kain; fyrir
hana fekk hann þann vitnisburð, að hann væri
rjettlátur, er Guð bar það vitni yfir gáfum hans, og
5 fyrir hana talar hann enn, þótt dauður sje. Fyrir
trú var Enok í burt numinn, að eigi skyldi hann
dauðann líta, og *ekki var hann framar að finna, af*
*því að Guð hafði numið hann í burt,* því að áður en
hann var í burt numinn, hafði hann fengið þann vitnis-
6 burð, að hann hefði verið Guði þóknanlegur. En án
trúar er ómögulegt að þóknast honum, því að sá sem
gengur fram fyrir Guð, verður að trúa því, að hann

sje til, og að hann lætur þeim umbunað, er hans
7 leita. Fyrir trú fekk Nói guðlega bendingu um það,
sem enn þá var ekki auðið að sjá, og óttaðist Guð
og smíðaði örk til undankomu fyrir heimilisfólk sitt,
og fyrir trúna fordæmdi hann heiminn og varð erf-
8 ingi trúar-rjettlætisins. Fyrir trú hlýðnaðist Abraham
því, er hann var kallaður, að fara burt til staðar,
sem hann átti að fá til arfleifðar, og hann fór burt,
9 vitandi eigi hvert leiðin lá. Fyrir trú varð hann
útlendingur í landi fyrirheitisins, eins og hann ætti
ekki landið, og hafðist við í tjöldum, ásamt
Ísak og Jakob, er voru samerfingjar með honum að
10 hinu sama fyrirheiti. Því að hann vænti borgar á
traustum grundvelli, þeirrar sem Guð er smiður að
11 og byggingarmeistari. Fyrir trú varð enda Sara fær
um að koma upp kynstofni, og það enda þótt hún
væri komin yfir þann aldur, þar sem hún taldi þann
12 áreiðanlegan, sem fyrirheitið hafði gefið. Fyrir því
komu og út af einum manni, og það mjög svo elli-
hrumum, slík niðja mergð, sem stjörnur eru á himni
og sandkorn við sjávarströnd, er ekki verður tölu á
komið.

13 Allir þessir menn dóu í trú, án þess að hafa
öðlast fyrirheitin, heldur sáu þeir þau álengdar og
fögnuðu þeim, og játuðu að þeir væru gestir og út-
14 lendingar á jörðunni. Því að þeir sem slíkt mæla,
láta það í ljósi, að þeir eru að leita eigin ættjarðar.
15 Og hefðu þeir nú átt við þá ættjörðina, sem þeir fóru
frá, þá hefðu þeir haft tíma til að snúa þangað aftur.
16 En nú þrá þeir betri ættjörð, það er að segja himn-

eska; fyrir því blygðast Guð sín ekki fyrir þá, að
kallast Guð þeirra, því að borg bjó hann þeim.
17 Fyrir trú fórnfærði Abraham Ísak, er hann var
18 reyndur, og sá fórnfærði einkasyni sínum, er fengið
hafði fyrirheitin, hann sem við hafði verið mælt: *Þar*
19 *sem Ísak er, þar skal sæði þitt kallast.* Því að hann
hugði, að Guð væri og máttugur að vekja upp frá
dauðum, og fyrir því má svo að orði kveða, að hann
20 heimti hann aftur úr helju. Fyrir trú, og það á hið
21 ókomna, blessaði Ísak Jakob og Esaú. Fyrir trú
blessaði Jakob, er hann var að dauða kominn, báða
sonu Jósefs, og *laut fram á stafshúninn og baðst fyrir.*
22 Fyrir trú mintist Jósef, við æfilokin, á brottför Ísraels-
23 sona, og gjörði ráðstöfun fyrir beinum sínum. Fyrir
trú var Móse, er hann var í heiminn borinn, í þrjá
mánuði leynt af foreldrum sínum, af því að þau sáu
að sveinninn var fríður, og þau ljetu eigi skelfast af
24 skipun konungsins. Fyrir trú hafnaði Móse, er hann
var orðinn fulltíða maður, því að vera talinn dóttur-
25 son Faraós, og kaus fremur ilt að þola með lýð Guðs
26 en njóta skammvinns synda-unaðar, og áleit vanvirðu
Krists meiri auð en fjársjóðu Egiptalands, því að
27 hann leit á launin. Fyrir trú yfirgaf hann Egipta-
land og óttaðist ekki reiði konungsins og var örugg-
28 ur, eins og hann sæi hinn ósýnilega. Fyrir trú hjelt
hann páska og rauð blóðinu, til þess að eyðandi
29 frumburðanna skyldi ekki snerta þá. Fyrir trú gengu
þeir gegnum Rauðahafið sem um þurt land, og er
30 Egiptar freistuðu þess, þá druknuðu þeir. Fyrir trú
hrundu Jeríkó-múrar, er þeir höfðu umkringdir verið í
31 sjö daga. Fyrir trú var það, að skækjan Rahab fórst ekki

ásamt hinum óhlýðnu, þar sem hún hafði tekið vin-
32 samlega á móti njósnarmönnunum. Og hvað á jeg
að orðlengja framar um þetta? því að mig mundi
skorta tíma, ef jeg færi að segja frá Gídeon, Barak,
Samson, Jefta og af Davíð og Samúel og spámönnun-
33 um, sem fyrir trú unnu sigur á konungaríkjum,
34 frömdu rjettlæti, öðluðust fyrirheit, byrgðu munn
ljóna, slöktu eldsbál, umflýðu sverðseggjar, urðu
styrkir, þótt áður væru þeir veikir, gjörðust öflgir í
35 stríði, stöktu fylkingum óvina á flótta. Konur heimtu
aftur dauða, er þær höfðu mist, við það að þeir
risu upp. Aðrir voru pyndaðir og þáðu ekki lausn-
36 ina, til þess að þeir öðluðust betri upprisu. Aðrir
urðu að sæta háðyrðum og húðstrokum og þar á
37 ofan fjötrum og fangelsi. Þeir voru grýttir, þeir
voru sagaðir í sundur, þeirra var freistað, þeir biðu
bana fyrir sverði. Þeir ráfuðu í gærum og geit-
skinnum, alls vana, aðþrengdir og illa haldnir. —
38 Og ekki átti heimurinn slíka menn skilið. — Þeir
reikuðu um óbygðir og fjöll og hjeldust við í hellum
39 og jarðholum. En þó að allir þessir menn fengju
góðan vitnisburð fyrir trú sína, hlutu þeir þó eigi
40 fyrirheitið; þar sem Guð hafði oss fyrir sjeð það sem
betra var, til þess að þeir því að eins skyldu full-
komnir verða, að vjer yrðum það ásamt þeim.

12 Látum oss því og, þar sem vjer erum um-
kringdir af slíkum fjölda votta, ljetta á oss
allri byrði og viðloðandi synd, og þreytum þolgóðir
skeið það, sem oss er fyrir sett, og beinum sjónum
vorum til Jesú, höfundar og fullkomnara trúarinnar;
2 til hans, sem í stað gleði þeirrar, er hann átti kost

á, leið þolinmóðlega á krossi, mat smán einskis, og
3 hefir sest til hægri handar hástóli Guðs. Virðið því
fyrir yður þann, sem þolað hefir slík andmæli gegn
sjer af syndurum, til þess að þjer þreytist ekki, lje-
4 magna á sálum yðar. Í baráttu yðar við syndina
hafið þjer ekki enn þá staðið í gegn, svo að blóð hafi
5 runnið. Og þjer hafið gleymt áminningunni, sem
ávarpar yður eins og syni: *Son minn, lítilsvirð ekki*
*hirtingu Drottins, og lát ekki heldur hugfallast, er hann*
6 *tyftar þig. Því að Drottinn agar þann sem hann*
*elskar, og hirtir harðlega hvern þann son, er hann að sjer*
7 *tekur.* Ef þjer þolið aga, þá fer Guð með yður eins
8 og syni; því að hver er sá sonur, sem faðirinn ekki
agar? En sjeuð þjer án aga, sem allir hafa fyrir
orðið, þá eruð þjer þrælbornir, og eruð ekki synir.
9 Enn er það að segja, að vjer höfðum líkamlega feð-
ur til að aga oss, og bárum virðingu fyrir þeim;
skyldum vjer þá ekki miklu fremur vera undirgefnir
10 föður andanna, og lifa? Því að þeir öguðu oss
reyndar um fáa daga, eftir því sem þeim leist, en
oss til gagns agar hann oss, svo að vjer getum feng-
11 ið heilagleika hans. Allur agi virðist að vísu í bili
ekki vera gleðiefni heldur sorgar, en eftir á gefur
hann friðsælan ávöxt rjettlætisins, þeim er við hann
12 hafa tamist. *Rjettið* því *úr máttvana höndum og*
13 *magnþrota knjám, og látið fætur yðar troða beinar*
*brautir,* til þess að hið fatlaða vindist ekki úr liði,
en verði miklu fremur heilt.

14 Stundið frið við alla menn og helgun, því að án
15 hennar fær enginn Drottin litið. Hafið gát á, að
enginn sleppi af Guðs náð, að *engin beiskju-rót renni*

*upp, sem truflun valdi,* og margir kunni af henni að
16 saurgast; að eigi sje neinn hórkarl eða vanheilagur,
eins og Esaú, sem fyrir einn málsverð ljet af hendi
17 frumburðarrjett sinn. Því að þjer vitið, að það fór
líka svo fyrir honum, að hann var rækur gjör,
þegar hann síðar vildi öðlast blessunina, — því að
eigi fekk hann færi á að iðrast, — þó að hann sár-
beiddist hennar með tárum.
18 Því að þjer eruð ekki komnir til fjalls, sem á
19 verður þreifað, og brennandi elds, og til sorta og
myrkurs og ofviðris og básúnuhljóms og til talandi
raustar, þar sem þeir er hana heyrðu, báðust undan
20 því, að meira væri til sín talað; því að þeir þoldu
ekki það sem fyrir var skipað: *Þó að það sje ekki
nema dýr, sem kemur við fjallið, skal það grýtt verða.*
21 Og svo var það ógurlegt, sem fyrir augu bar, að
Móse sagði: *Jeg er mjög svo hræddur og skelfdur;* —
22 heldur eruð þjer komnir til Síon-fjalls og borgar Guðs
lifanda, hinnar himnesku Jerúsalem, og til tíþúsunda
23 engla, til hátíðarsamkomu og safnaðar frumgetinna,
sem á himnum eru skráðir, og til dómarans, sem er
24 Guð allra, og til anda rjettlátra, sem algjörðir eru
orðnir, og til Jesú, meðalgangara nýs sáttmála, og til
25 ádreifingar-blóðsins, sem betur talar en Abel. Gætið
þess að þjer afbiðjið ekki þann, sem talar, því ef
hinir hafa eigi undan komist, sem afbáðu þann, er
gaf guðlega bendingu á jörðu, þá munum vjer miklu
síður undan komast, er gjörumst fráhverfir honum,
er guðlega bendingu gefur frá himnum, en raust
26 hans ljet jörðina bifast fyrrum. En nú hefir hann
boðað og sagt: *Enn einu sinni mun jeg skjálfa láta*

27 *ekki jörðina eina, heldur og himininn.* En þetta: enn
einu sinni, birtir umskifti þeirra hluta, sem bifast,
eins og við má búast, þar sem þeir eru skapaðir, til
28 þess að það standi stöðugt, sem eigi bifast. Þar sem
vjer því höfum fengið óbifanlegt ríki, þá kunnum
þakkir, að vjer með því megum þjóna Guði vel-
29 þóknanlega með guðhræðslu og ótta. Því að vor
Guð er eyðandi eldur.

2 13 Bróðurkærleikurinn haldist. Gleymið ekki
gestrisninni, því að vegna hennar hafa sumir
3 sjer óafvitandi hýst engla. Minnist bandingjanna,
sem væruð þjer sambandingjar þeirra; minnist þeirra
er ilt líða, þar sem þjer sjálfir eruð einnig með lík-
4 ama. Hjúskapurinn sje í heiðri hafður í öllum grein-
um, og hjónasængin sje óflekkuð, því að hórkarla og
5 frillulífismenn mun Guð dæma. Sýnið enga fjegirni
í hegðun yðar, en látið yður nægja það sem þjer
hafið, því að sjálfur hefir hann sagt: *Jeg mun alls*
6 *ekki sleppa þjer og eigi heldur yfirgefa þig;* svo að
vjer getum öruggir sagt: *Drottinn er minn hjálpari;
eigi mun jeg óttast. Hvað geta mennirnir gjört
mjer?*

7 Verið minnugir leiðtoga yðar, sem Guðs orð hafa
til yðar talað; virðið fyrir yður hvaða afdrif æfi
8 þeirra fekk, og líkið síðan eftir trú þeirra. Jesús
Kristur er í gær og í dag hinn sami og um aldir.
9 Látið yður ekki afvega leiða af ýmislegum og annar-
legum kenningum, því að það er gott að hjartað
styrkist við náð, ekki við matveislur, því að þeir
10 sem gáfu sig að þeim, höfðu eigi happ af því. Vjer

höfum altari, og hafa þeir, er tjaldbúðinni þjóna,
11 ekki leyfi til að eta af því. Því að brend eru fyrir
utan herbúðirnar hræ þeirra dýra, sem æðsti prest-
urinn ber blóðið úr inn í helgidóminn til syndafórn-
12 ar. Þess vegna leið og Jesús fyrir utan hliðið, til
13 þess að hann helgaði lýðinn með blóði sínu. Göng-
um því til hans út fyrir herbúðirnar, og berum
14 vanvirðu hans. Því að vjer höfum hjer ekki borg
er stendur, heldur leitum vjer hinnar komandi.
15 Fyrir hann skulum vjer því óaflátanlega frambera
lofgjörðar fórn fyrir Guð, það er: ávöxt vara, er
16 játa nafn hans. En gleymið ekki velgjörðaseminni
og hjálpseminni, því að slíkar fórnir eru Guði þókn-
17 anlegar. Hlýðið leiðtogum yðar, og verið þeim eftir-
látir, því að þeir vaka yfir sálum yðar, svo sem þeir
er reikning eiga að lúka fyrir þær, til þess að þeir
geti gjört það með gleði, en ekki andvarpandi,
því að yður væri það til ógagns.

18 Biðjið fyrir oss, því að vjer erum þess fullvissir,
að vjer höfum góða samvisku og viljum í öllum
19 greinum breyta vel. En jeg áminni yður enn ræki-
legar um að gjöra þetta, til þess að þjer fáið mig
brátt aftur heimtan.

20 En Guð friðarins, er leiddi aftur fram frá
dauðum hinn mikla hirði sauðanna, með blóði eilífs
21 sáttmála, Drottin vorn Jesúm, hann fullkomni yður
í öllu góðu, til að gjöra vilja hans, og komi því til
leiðar í oss, sem þóknanlegt er í hans augum,
fyrir Jesúm Krist. Honum sje dýrð um aldir alda.
Amen.

22 En jeg áminni yður, bræður, að þjer þolið
áminningar-orðið, því að fáort hefi jeg yður ritað.
23 Vita skuluð þjer, að bróðir vor Tímóteus hefir fengið
lausn, og ásamt honum mun jeg sjá yður, komi hann
bráðum.
24 Heilsið öllum leiðtogum yðar og öllum heilögum.
Mennirnir frá Ítalíu senda yður kveðju.
25 Náð sje með yður öllum. Amen.

# Hið almenna brjef Jakobs.

1 Jakob, þjónn Guðs og Drottins Jesú Krists,
heilsar hinum tólf kynkvíslum í dreifingunni.
2 Álítið það, bræður mínir, eingöngu gleðiefni, er
3 þjer ratið í ýmiss konar raunir, með því að þjer vitið
4 að reynsla trúar yðar verkar þolgæði, en þolgæðið á
að hafa fullkomið verk, til þess að þjer sjeuð full-
komnir og algjörðir og yður sje í engu ábótavant.
5 En ef einhvern yðar brestur visku, þá biðji hann
Guð um hana, hann sem gefur öllum örlátlega og án
6 brígslyrða, og hún mun honum gefast; en hann á að
biðja með trú, án þess að efast, því að sá sem efast,
7 er líkur sjávaröldu, er rís og hrekst fyrir vindi. Sá

maður má eigi ætla að hann fái nokkuð hjá Drotni,
8 hann sem er tvílyndur maður, reikull á öllum vegum
sínum.
9 En hinn lágt setti bróðir hrósi sjer af upphefð
10 sinni, en hinn auðugi af lægingu sinni, því hann
11 mun líða undir lok eins og blóm á grasi; því að
sólin kemur upp með steikjandi hita og brennir
grasið, og blóm þess dettur af og fegurð útlits þess
verður að engu; þannig mun og hinn auðugi maður
visna upp á vegum sínum.
12 Sæll er sá maður, sem stenst freistingu, því að
þegar búið er að reyna hann, þá mun hann meðtaka
kórónu lífsins, sem hann hefir heitið þeim, er elska
13 hann. Enginn má segja, er hann freistast: jeg freist-
ast af Guði, því að Guð getur eigi freistast af hinu
14 illa og sjálfur freistar hann einskis manns; en sjer-
hver freistast við það, að hann er dreginn og tældur
15 af sinni eigin girnd; þegar girndin síðan er orðin
þunguð, elur hún synd, og þegar syndin er orðin
16 fullþroskuð, fæðir hún dauða. Villist ekki, bræður
17 mínir elskaðir! Sjerhver góð gjöf og sjerhver full-
komin gáfa er ofan að og kemur niður frá föður
ljósanna, hjá hverjum hvorki er umbreyting nje um-
18 hverfingarskuggi. Eftir ráðsályktun sjálfs sín fæddi
hann oss með sannleiksorði, til þess að vjer skyldum
vera nokkurs konar frumgróði skepna hans.
19 Vitið, bræður mínir elskaðir: hver maður skal
vera fljótur til að heyra, seinn til að tala, seinn til
20 reiði, því að reiði manns vinnur ekki rjettlæti
21 Guðs; afleggið því hvers konar saurugleik og vonsku-
gnægð og meðtakið með hógværð hið gróðursetta orð,

22 er frelsað getur sálir yðar. En verðið gjörendur
orðsins, og eigi aðeins heyrendur, svíkjandi sjálfa
23 yður. Því að ef einhver er heyrandi orðsins og ekki
gjörandi, þá er hann líkur manni, er skoðar sitt
24 meðfædda andlit í skuggsjá; því að hann skoðaði
sjálfan sig, og fór burt og gleymdi jafnskjótt hvernig
25 hann var. En sá sem skygnist inn í hið fullkomna
lögmál frelsisins og heldur sjer við það, og ekki
er orðinn gleyminn heyrandi, heldur gjörandi verks-
ins, hann mun sæll verða í framkvæmdum sínum.
26 Ef einhver þykist vera guðrækinn, en hefir ekki
taumhald á tungu sinni, heldur leiðir hjarta sitt
27 afvega, þá er dýrkun hans fánýt. Hrein og óflekkuð
dýrkun fyrir Guði og föður er þetta, að vitja mun-
aðarlausra og ekkna í þrengingu þeirra og varðveita
sjálfan sig flekklausan af heiminum.

2 Bræður mínir, látið ekki trúna á Drottin vorn
Jesúm Krist dýrðarinnar vera samfara mann-
2 greinaráliti; því að ef maður kemur inn í samkundu
yðar með gullhring á hendi og í skínandi klæðum,
og jafnframt kemur inn fátækur maður í óhreinum
3 fötum, og yður verður starsýnt á þann, sem ber hin
skínandi klæði, og þjer segið: Set þig hjer í gott
sæti; en þjer segið við fátæka manninn: Stattu þar,
4 eða settu þig fyrir neðan fótskör mína, hafið þjer þá
ekki gjört greinarmun með sjálfum yður, og eruð
5 orðnir dómendur með vondum hugsunum? Heyrið,
bræður mínir elskaðir, hefir Guð ekki útvalið hina
fátæku fyrir heiminum, til þess að þeir verði auðugir
í trú og erfingjar þess ríkis, er hann hefir heitið
6 þeim, sem elska hann? En þjer hafið óvirt hinn

fátæka. Eru það þó ekki hinir ríku, sem undiroka
7 yður og draga fyrir dómstóla? Eru það ekki þeir,
sem lastmæla hinu góða nafni, sem nefnt hefir verið
8 yfir yður? Ef þjer þá uppfyllið hið konunglega boð-
orð samkvæmt ritningunni: *Elska skaltu náunga*
9 *þinn sem sjálfan þig*, þá gjörið þjer vel; en ef þjer
farið í manngreinarálit, þá drýgið þjer synd, og það
er sannað upp á yður af lögmálinu, að þjer sjeuð
10 yfirtroðslumenn. Því hver sem kynni að halda alt
lögmálið, en hrasar í einu, hann er orðinn sekur við
11 öll boðorðin. Því sá, sem sagði: *Þú skalt ekki hór-
dóm drýgja*, hann sagði líka: *Þú skalt ekki mann
vega.* En þó að þú ekki drýgir hór, en þú vegur
mann, þá ertu orðinn yfirtroðslumaður lögmálsins.
12 Talið þannig og breytið þannig, sem þeir, er dæm-
13 ast eiga eftir lögmáli frelsisins. Því að dómurinn
verður miskunnarlaus þeim, sem ekki auðsýndi
miskunn; miskunnsemin er óhrædd við dóm.

14 Hvað stoðar það, bræður mínir, þótt einhver
segist hafa trú, en hefir eigi verk? Mun trúin geta
15 frelsað hann? Ef bróðir eða systir eru nakin og
16 vantar daglegt viðurværi, en einhver yðar segði við
þau: Farið í friði, vermið yður og mettið, en þjer
gefið þeim ekki það sem líkaminn þarfnast, hvað
17 stoðar það? Eins er líka trúin, hafi hún ekki verk,
18 þá er hún dauð í sjálfri sjer. En nú segir einhver:
Þú hefir trú og jeg hefi verk; sýn mjer þá trú þína
án verkanna, og jeg skal sýna þjer trúna af verkum
19 mínum. Þú trúir að Guð sje einn. Þú gjörir vel; en
20 djöflarnir trúa því líka og skelfast. En fávísi maður,
vilt þú láta þjer skiljast að trúin er ónýt án verk-

21 anna? Rjettlættist ekki Abraham faðir vor af verk-
um, er hann hafði lagt son sinn Ísak upp á altarið?
22 Þú sjer að trúin var samtaka verkum hans, og að
23 trúin fullkomnaðist af verkunum, og ritningin rættist
sem segir: *Og Abraham trúði Guði og það var hon-
um til rjettlætis reiknað*, og hann var kallaður Guðs
24 vinur. Þjer sjáið að maðurinn rjettlætist af verkum,
25 og ekki aðeins af trú. Svo var og um skækjuna
Rahab; rjettlættist hún ekki af verkum, er hún hafði
tekið við sendimönnunum og látið þá fara burt aðra
26 leið? Því að eins og líkaminn er dauður án anda,
eins er og trúin dauð án verka.

3 Gjörist eigi, bræður mínir, margir kennarar,
með því að þjer vitið að vjer munum fá þyngri
2 dóm; því að allir hrösum vjer í mörgu. Hrasi ein-
hver ekki í orði, þá er hann maður fullkominn, fær
um að hafa stjórn jafnvel á öllum líkama sínum.
3 Ef vjer leggjum hestunum beisli í munn, til þess að
þeir hlýði oss, þá getum vjer stýrt öllum líkama
4 þeirra. Sjá einnig skipin, svo stór sem þau eru, og
rekin af hörðum vindum; þeim verður stýrt með
mjög litlu stýri, hvert sem stýrimaðurinn vill.
5 Þannig er einnig tungan lítill limur, en lætur mikið
yfir sjer. Sjá, hversu lítill neisti getur kveikt í svo
6 miklum skógi. — Tungan er og eldur; tungan, rang-
lætisheimurinn, er meðal lima vorra; hún flekkar
allan líkamann og kveikir í hjóli tilverunnar, en í
7 henni er kveikt af helvíti. Því að allar tegundir
dýra og fugla, skriðkvikinda og sjávardýra, temjast
8 og hafa verið tamin af kyni mannanna; en tung-
una getur enginn af mönnunum tamið, þessa óhemju,

9 sem full er með banvænt eitur. Með henni vegsömum
vjer Drottin og föðurinn, og með henni formælum
vjer mönnunum, sem skapaðir eru eftir líkingu Guðs.
10 Af sama munni gengur fram blessun og bölvun,
11 þetta má ekki svo vera, bræður mínir. Gefur lindin
úr sama uppsprettuauga bæði sætt og beiskt vatn?
12 Mun fíkjutrje, bræður mínir, geta af sjer gefið olífur
eða vínviður fíkjur? Eigi getur heldur saltur brunn-
13 ur gefið sætt vatn. — Hver er vitur og skynsamur
yðar á meðal? Hann sýni af góðri hegðun verk sín
14 í hógværð spekinnar. En ef þjer hafið beiskan ofsa
og eigingirni í hjarta yðar, þá stærið yður ekki
15 og ljúgið ekki gegn sannleikanum. Sú speki kemur
ekki ofan að, heldur er hún jarðnesk, náttúrleg,
16 djöfulleg. Því hvar sem ofsi og eigingirni er, þar
17 er óstjórn og hvers kyns ill háttsemi. En sú speki,
sem að ofan er, hún er í fyrsta lagi hrein, þar næst
friðsöm, ljúfleg, sannsýn, full miskunnar og góðra
18 ávaxta, óhlutdræg, hræsnislaus; en ávexti rjett-
lætisins verður sáð í friði þeim til handa, sem frið
semja.

4 Af hverju koma stríð og af hverju bardagar
á meðal yðar? Af hverju öðru en af girndum
2 yðar, sem heyja stríð í limum yðar? Þjer girnist
og fáið ekki, þjer drepið og öfundið, og getið þó ekki
öðlast; þjer berjist og stríðið; þjer fáið ekki, af því
3 að þjer biðjið ekki. Þjer biðjið, og öðlist ekki, af
því að þjer biðjið illa, til þess að þjer getið sóað
4 því í munaði yðar. Þjer hórkonur, vitið þjer ekki,
að vinátta við heiminn er fjandskapur gegn Guði?
Hver sem því vill vera vinur heimsins, hann gerir

5 sig að óvini Guðs. Eða haldið þjer að ritningin fari
með hjegóma? Þráir hann ekki með vandlæti and-
ann, sem hann gaf bústað í oss? En hann gefur
6 meiri náð; þess vegna segir hún: *Guð stendur í gegn*
7 *dramblátum, en auðmjúkum gefur hann náð.* Gjörist
því undirgefnir Guði; standið gegn djöflinum, og þá
8 mun hann flýja frá yður. Nálægið yður Guði, og
þá mun hann nálgast yður. Hreinsið hendur yðar,
þjer syndarar, og gjörið flekklaus hjörtun, þjer tví-
9 lyndu. Berið yður illa, syrgið og grátið; hlátur yðar
10 skal umbreytast í sorg og gleðin í dapurleik. Auð-
mýkið yður fyrir Drotni, og hann mun upphefja
yður.

11 Talið ekki illa hver um annan, bræður. Sá sem
talar illa um bróður sinn eða dæmir bróður sinn,
talar illa um lögmálið og dæmir lögmálið; en ef þú
dæmir lögmálið, þá ert þú ekki lögmálsins gjörandi,
12 heldur dómari. Einn er löggjafinn og dómarinn, sá sem
getur frelsað og tortímt. En hver ert þú, sem dæmir
náungann?

13 Heyrið, þjer sem segið: Í dag eða á morgun
skulum vjer fara til þeirrar eða þeirrar borgar,
14 dvelja þar eitt ár, og versla og græða, þjer sem ekki
vitið, hvað á morgun mun verða; hvílíkt er líf yðar?
Því að þjer eruð gufa, sem sjest um stutta stund, en
15 hverfur síðan. Í stað þess ættuð þjer að segja: Ef
Drottinn vill, þá bæði lifum vjer og munum gjöra
16 þetta eða hitt. En nú stærið þjer yður í yðar oflát-
17 ungsskap; alt slíkt stærilæti er vont. Hver, sem því
hefir vit á gott að gjöra, og gjörir það ekki, honum
er það synd.

5 Heyrið nú, þjer auðmenn, grátið og kveinið
yfir þeim eymdum, sem yfir yður munu koma.
2 Auður yðar er orðinn fúinn, og klæði yðar eru orðin
3 möletin, gull yðar og silfur er orðið ryðbrunnið, og
ryðið á því mun verða yður til vitnis og eta hold
yðar eins og eldur; þjer hafið fjársjóðum safnað á
4 síðustu dögunum. Sjá, laun verkamannanna, sem
hafa slegið lönd yðar, þau er þjer hafið haft af þeim,
hrópa, og köll kornskerumannanna eru komin til
5 eyrna Drottins hersveitanna. Þjer hafið lifað í sæl-
lífi á jörðunni og í óhófi; þjer hafið alið hjörtu
6 yðar á slátrunardegi. Þjer hafið sakfelt, þjer
hafið drepið hinn rjettláta; hann stendur ekki í gegn
yður.

7 Þreyið því, bræður, þangað til Drottinn kemur.
Sjá, akuryrkjumaðurinn bíður eftir hinum dýrmæta
ávexti jarðarinnar og þreyir eftir honum, þangað til
8 hann hefir fengið haustregn og vorregn. Þreyið og
þjer, styrkið hjörtu yðar, því að tilkoma Drottins er
9 í nánd. Kvartið ekki hver yfir öðrum, bræður, til
þess að þjer verðið ekki dæmdir; sjá, dómarinn
10 stendur fyrir dyrunum. Bræður, takið spámennina,
sem talað hafa í nafni Drottins, til fyrirmyndar í
11 að líða ilt og í þolinmæði. Sjá, vjer teljum þá
sæla, sem þolgóðir hafa verið; þjer hafið heyrt
um þolgæði Jobs og vitið endalokin, sem Drottinn
gjörði, því að Drottinn er mjög miskunnsamur og
líknsamur.

12 En umfram alt, bræður mínir, sverjið ekki,
hvorki við himininn nje við jörðina, nje nokkurn

annan eið, en yðar já sje já, yðar nei sje nei, til
þess að þjer fallið ekki undir dóm.
13 Líði nokkrum illa yðar á meðal, þá biðji hann;
14 liggi vel á einhverjum, þá syngi hann lofsöng. Sje
einhver sjúkur yðar á meðal, þá kalli hann til sín
öldunga safnaðarins, og þeir skulu smyrja hann með
olíu í nafni Drottins og biðjast fyrir yfir honum; og
15 trúarbænin mun frelsa hinn sjúka og Drottinn mun
reisa hann á fætur, og þær syndir, sem hann kann
að hafa drýgt, munu honum verða fyrirgefnar.
16 Játið því hver fyrir öðrum syndir yðar og biðjið
hver fyrir öðrum, til þess að þjer verðið heil-
brigðir. Kröftug bæn rjettláts manns megnar
mikið.
17 Elías var maður sama eðlis og vjer, og hann
bað þess heitt, að ekki skyldi rigna, og það rigndi
18 ekki yfir landið í þrjú ár og sex mánuði; og hann
bað aftur, og himininn gaf regn og jörðin bar sinn
ávöxt.
19 Bræður mínir, ef einhver meðal yðar villist
20 frá sannleikanum, og einhver snýr honum, þá viti
hann, að hver, sem snýr syndara frá villu vegar
hans, mun frelsa sálu frá dauða og hylja fjölda
synda.

# Hið fyrra almenna brjef Pjeturs.

1 Pjetur postuli Jesú Krists, til útlendinganna í dreif-
ingu í Pontus, Galatíu, Kappadokíu, Asíu og Bíþyníu,
2 sem útvaldir eru eftir fyrirvitund Guðs föður með
helgun andans, til hlýðni og ádreifingar blóðs Jesú
Krists. Náð og friður margfaldist með yður.
3 Lofaður sje Guð og faðir Drottins vors Jesú
Krists, sem eftir mikilli miskunn sinni hefir endur-
fætt oss til lifandi vonar fyrir upprisu Jesú Krists
4 frá dauðum til óforgengilegrar og flekklausrar og
ófölnandi arfleifðar, sem yður er geymd á himnum,
5 yður sem með krafti Guðs eruð varðveittir fyrir trú
til frelsunar, sem búin er til að opinberast á síðasta
6 tíma. Af þessu gleðjist þjer, þótt þjer nú um skamma
stund, ef svo verður að vera, sjeuð hrygðir í margs
7 konar freistingum, til þess að reynsla trúar yðar,
langtum dýrmætari en gull, er eyðist, þótt það sje
reynt með eldi, geti orðið til lofs og dýrðar og heið-
8 urs í opinberun Jesú Krists, sem þjer elskið, þótt þjer
ekki hafið sjeð hann, sem þjer trúið á, þótt þjer
ekki hafið hann nú fyrir augunum, og gleðjist óum-
9 ræðilegum og dýrðlegum fögnuði, því að þjer náið
10 takmarkinu fyrir trú yðar, frelsun sálna yðar. Þess-
ari frelsun grensluðust spámennirnir eftir og rannsök-
uðu vandlega, þeir er spáðu um náð þá, er yður
11 mundi hlotnast, er þeir rannsökuðu, til hvers eða
hvílíks tíma Krists andi, sem í þeim bjó, benti, þá
er hann vitnaði fyrir fram um píslir Krists og dýrð-
12 ina þar á eftir. En þeim var það opinberað, að það

var eigi fyrir þá sjálfa, heldur fyrir yður, að þeir
þjónuðu að þessu, sem yður er nú kunngjört af þeim,
sem boðuðu yður fagnaðarerindið fyrir heilagan anda,
sem er sendur frá himni, og inn í þetta fýsir englana
að skygnast.
13 Hafið því lendar hugskots yðar umgyrtar, verið
algáðir og setjið algjörlega von yðar til þeirrar náð-
ar, sem yður mun veitast við opinberun Jesú Krists;
14 sem hlýðin börn megið þjer eigi laga breytni yðar
eftir þeim girndum, er þjer áður þjónuðuð í vanvisku
15 yðar, heldur verðið sjálfir einnig heilagir í allri
hegðun, eins og sá er heilagur, er yður hefir kallað,
16 því að ritað er: *Verið heilagir, því jeg er heilagur.*
17 Og svo framarlega sem þjer ákallið þann sem föður,
er dæmir án manngreinarálits eftir verkum hvers
18 eins, þá framgangið í ótta yðar útlegðartíma, því að
þjer vitið að þjer eigi eruð leystir með forgengileg-
um hlutum, silfri eða gulli, frá yðar hjegómlegu
19 hegðun, er þjer höfðuð af feðrum yðar, heldur með
dýrmætu blóði eins og lýtalauss og óflekkaðs lambs,
20 það er blóði Krists, hans sem að sönnu var fyrirfram
þektur fyrir grundvöllun heimsins, en var opinber-
21 aður við lok tímanna vegna yðar, sem fyrir hann
trúið á Guð, er vakti hann upp frá dauðum og gaf
honum dýrð, svo að trú yðar skyldi jafnframt vera
22 von til Guðs. Er þjer hafið hreinsað sálir yðar með
hlýðni við sannleikann til hræsnislausrar bróður-
23 elsku, þá elskið hver annan innilega af hjarta, þjer
sem endurfæddir eruð, ekki af forgengilegu sæði,
heldur óforgengilegu með Guðs lifanda orði, því er
24 varir. Því að: *alt hold er sem gras og öll vegsemd*

*þess sem blóm á grasi; grasið skrælnaði og blómið*
25 *fjell af, en orð Drottins varir að eilífu.* Og þetta er
orð fagnaðarerindisins, er yður hefir verið boðað.

2 Afleggið því alls konar vonsku og alla pretti,
2 hræsni og öfund og öll illmæli, og sækist eins
og nýfædd börn eftir hinni andlegu, ósviknu mjólk, til
þess að þjer við hana getið vaxið til hjálpræðis,
3 ef þjer hafið smakkað, hvað Drottinn er góður;
4 og er þjer komið til hans, hins lifanda steins, sem
að sönnu er af mönnum útskúfaður, en hjá Guði
5 útvalinn og dýrmætur, þá verðið þjer og sjálfir sem
lifandi steinar uppbygðir í andlegt hús, til að vera
heilagt prestafjelag, til að frambera andlegar fórnir,
6 Guði velþóknanlegar fyrir Jesúm Krist. Fyrir því
stendur í ritningunni: *Sjá, jeg set hornstein í Síon,*
*valinn og dýrmætan, og sá sem trúir á hann, mun alls*
7 *eigi verða sjer til skammar.* Fyrir yður, sem trúið,
er því vegsemdin, en steinninn, sem smiðirnir höfn-
uðu, sá hinn sami er orðinn að hyrningarsteini fyrir
þá, sem ekki trúa, og ásteytingarsteinn og hneyksl-
8 unarhella, því að þeir hrasa, af því að þeir hlýðn-
uðust ekki orðinu, og til þess voru þeir og ákveðnir.
9 En þjer eruð útvalin kynslóð, konunglegt prestafjelag,
heilög þjóð, lýður Guði til eignar, til þess að þjer
skulið víðfrægja fullkomleika hans, sem kallaði yður
10 frá myrkrinu til síns undursamlega ljóss; þjer sem
áður voruð ekki-lýður, en eruð nú orðnir lýður
Guðs, þjer sem ekki nutuð miskunnar, en hafið nú
miskunn hlotið.

11 Þjer elskuðu, jeg áminni yður sem gesti og út-
lenda að halda yður frá holdlegum girndum, sem

12 heyja stríð gegn sálunni; og hegðið yður vel meðal
heiðinna þjóða, til þess að þeir, vegna góðverkanna,
sem þeir sjá, í því, er þeir illmæla yður fyrir sem
illgjörðamönnum, megi vegsama Guð á tíma vitjunar-
innar.
13 Verið undirgefnir sjerhverju mannlegu skipulagi
vegna Drottins, hvort heldur það er konunginum, svo
14 sem hinum æðsta, eða landshöfðingjunum, svo sem
þeim, er af honum eru sendir illgjörðamönnum til
15 refsingar, en til lofs þeim, sem vel breyta. Því að
þannig er vilji Guðs, að þjer skulið, með því að
breyta vel, niðurþagga vanþekkingu heimskra manna,
16 sem frjálsir menn, en ekki sem þeir, er hafa frelsið
fyrir hjúp yfir vonskuna, heldur sem þjónar Guðs.
17 Virðið alla menn, elskið bræðrafjelagið, óttist Guð,
heiðrið konunginn.
18 Þjer þjónar, verið undirgefnir húsbændum yðar
með mesta ótta, ekki einungis hinum góðu og sann-
19 gjörnu, heldur einnig hinum ósanngjörnu; því að það
er náð, ef einhver, samviskunnar vegna gagnvart
20 Guði, þolir móðganir og líður saklaus. Því að hvaða
frægð er það, að þjer sýnið þolgæði, er þjer verðið
fyrir höggum, þegar þjer syndgið? En ef þjer sýnið
þolgæði, er þjer líðið ilt, þegar þjer breytið vel, það
21 aflar náðar hjá Guði; því til þessa eruð þjer kallaðir,
því að Kristur leið einnig fyrir yður, og eftirljet yður
fyrirmynd, til þess að þjer skylduð feta í hans fót-
22 spor, hann sem ekki drýgði synd og ekki voru svik
23 fundin í munni hans, hann sem eigi illmælti aftur,
er honum var illmælt, og hótaði eigi, er hann leið,
heldur gaf það í hans vald, sem rjettvíslega dæmir,

24 hann sem sjálfur bar syndir vorar á líkama sínum
upp á trjeð, til þess að vjer skyldum, dánir frá synd-
unum, lifa rjettlætinu, og fyrir hans benjar eruð
25 þjer læknaðir. Því að þjer voruð villuráfandi sem
sauðir, en nú hafið þjer snúið yður til hirðis og
biskups sálna yðar.

3 Sömuleiðis skuluð þjer, konur, vera undirgefnar
eiginmönnum yðar, til þess að jafnvel þeir,
sem ef til vill ekki vilja hlýða orðinu, gætu orðið
2 unnir án orðsins við hegðun kvenna sinna, þegar
3 þeir sjá yðar skírlífu hegðun í ótta. Skart yðar sje
ekki ytra skart, með því að fljetta hárið og hengja á
4 sig gullskraut eða klæðast viðhafnarbúningi, heldur sje
það hinn huldi maður hjartans í óforgengilegum
búningi hógværs og kyrláts anda, sem dýrmætur er
5 fyrir augliti Guðs. Því að þannig skreyttu sig einn-
ig forðum hinar helgu konur, er settu von sína til
6 Guðs og voru eiginmönnum sínum undirgefnar, eins og
Sara hlýddi Abraham og kallaði hann herra, og börn
hennar eruð þjer orðnar, er þjer hegðið yður vel og
óttist enga skelfingu.

7 Sömuleiðis þjer, menn, búið með skynsemi sam-
an við konur yðar svo sem veikari ker, og veitið
þeim virðingu, eins og þær og eru samarfar yðar að
náð lífsins, til þess að bænir yðar hindrist ekki.

8 Að lokum, verið allir samhuga, hluttekningar-
9 samir, bróðurelskir, miskunnsamir, auðmjúkir; gjald-
ið ekki ilt fyrir ilt eða illmæli fyrir illmæli, heldur
þvert á móti blessið, því að þjer eruð til þess kall-
10 aðir að þjer skulið erfa blessunina; því að *sá sem vill
elska lífið og sjá góða daga, haldi tungu sinni frá vondu*

11 *og vörum sínum frá að mæla svik, og hann sneiði sig*
*hjá illu og gjöri gott, ástundi frið og keppi eftir hon-*
12 *um; því að augu Drottins eru yfir hinum rjettlátu og*
*eyru hans hneigjast að bænum þeirra, en auglit Drottins*
*er gegn þeim, sem ilt gjöra.*
13 Og hver er sá, er mun gjöra yður ilt, ef þjer
14 kappkostið það sem gott er? En þótt þjer skylduð
líða ilt fyrir rjettlætis sakir, þá eruð þjer sælir; og
15 óttist ekki ótta þeirra og skelfist eigi; en helgið
Krist sem Drottin í hjörtum yðar; verið ætíð búnir
til varnar fyrir hverjum manni, er krefst af yður
reikningsskapar fyrir þá von, sem í yður er, en þó
16 með hógværð og ótta, og hafið góða samvisku, til
þess að þeir, sem lasta yðar góðu hegðun í Kristi,
verði sjer til skammar í því, sem þeir mæla gegn
17 yður. Því að það er betra, ef Guð vill svo vera
láta, að þjer líðið fyrir að breyta vel, heldur en fyrir
18 að breyta illa. Því að Kristur leið líka einu sinni
fyrir syndir, rjettlátur fyrir rangláta, til þess að hann
mætti leiða oss til Guðs, deyddur að vísu að holdinu,
19 en lifandi gjörður að andanum, en í honum fór hann
einnig burt og prjedikaði fyrir öndunum í varðhaldi,
20 sem voru óhlýðnir fyrrum, þegar Guðs langlyndi
beið á dögum Nóa, þegar verið var að smíða örkina,
en í henni frelsuðust fáar, það er átta, sálir við vatn,
21 en nú frelsar einnig yður skírnin, sem þar var fyrir-
mynduð, hún sem ekki er burttekt óhreininda á holdi,
heldur bæn um góða samvisku gagnvart Guði, fyrir
22 upprisu Jesú Krists, hans sem fór til himins og er
við Guðs hægri hönd, eftir að englar, völd og kraftar
eru lagðir undir hann.

 

4 Fyrst Kristur þess vegna hefir liðið á holdi, þá
vopnið yður einnig með sömu hugsun, — því
að sá sem hefir liðið á holdinu, er hættur við synd
2 — til þess að þjer ekki framar lifið tímann, sem eftir
er, í holdinu fyrir fýsnir manna, heldur fyrir vilja
3 Guðs. Því að það er nóg að hafa tímann, sem liðinn
er, gjört vilja heiðingjanna og lifað í saurlifnaði,
girndum, ofdrykkju, óhófi, samdrykkjum og svívirði-
4 legri skurðgoðadýrkun, og þess vegna furðar þá að
þjer hlaupið ekki með þeim út í hið sama spillingar-
5 díki; og þeir lastmæla; en þeir munu verða að gjöra
reikning þeim, sem reiðubúinn er að dæma lifendur
6 og dauða; því að til þess var og dauðum boðað
fagnaðarerindið, að þeir að vísu verði dæmdir
eftir mönnum í holdi, en lifi eftir Guði í anda.
7 En endir allra hluta er í nánd; verið því gætnir
8 og algáðir til bæna; umfram alt hafið brennandi
kærleika hver til annars, því að kærleikur hylur
9 fjölda synda; verið gestrisnir hver við annan án
10 möglunar. Eins og hver hefir fengið náðargáfu, þá
þjónið hver öðrum með henni, svo sem góðir ráðs-
11 menn margvíslegrar náðar Guðs; tali einhver, þá sje
það sem orð Guðs, hafi einhver þjónustu á hendi, þá
þjóni hann eins og eftir þeim mætti, sem Guð gefur,
til þess að Guð vegsamist í öllum hlutum fyrir Jesúm
Krist, og hans er dýrðin og mátturinn um aldir alda.
Amen.
12 Þjer elskaðir, látið yður eigi undra eldraunina
yðar á meðal, sem yfir yður er komin yður til
13 reynslu, eins og yður hendi eitthvað kynlegt, heldur
gleðjið yður að sama skapi, sem þjer eruð hluttak-

andi í píslum Krists, til þess að þjer einnig megið
gleðjast miklum fögnuði við opinberun dýrðar hans.
14 Ef þjer eruð smánaðir fyrir nafn Krists, þá eruð þjer
sælir, því að andi dýrðarinnar og andi Guðs hvílir yfir
15 yður. Því að enginn yðar líði ilt sem manndrápari
eða þjófur eða illvirki eða sem sá, er hlutast til um
16 það, er öðrum kemur við; en ef hann líður ilt svo sem
kristinn maður, þá fyrirverði hann sig ekki, heldur
17 vegsami Guð fyrir þetta nafn. Því að nú er tíminn
kominn til að dómurinn byrji á húsi Guðs, en ef
hann byrjar á oss, hver munu þá verða afdrif þeirra,
18 sem ekki hlýðnast fagnaðarboðskap Guðs? Og ef
hinn rjettláti naumlega frelsast, hvar mun þá hinn
19 óguðlegi og syndarinn lenda? Fyrir því skulu og
þeir, sem ilt líða eftir vilja Guðs, fela sálir sínar á
hendur hinum trúa skapara, er þeir gjöra hið góða.

5 Öldungana yðar á meðal áminni jeg þá, jeg,
samöldungurinn og vottur písla Krists, sem
einnig mun hlutdeild fá í þeirri dýrð, sem opinberuð
2 mun verða. Gætið þeirrar hjarðar Guðs, sem meðal
yðar er; gegnið umsjónarstarfinu, ekki af nauðung,
heldur af fúsu geði, að Guðs vilja; ekki heldur sakir
3 svívirðilegs ávinnings, heldur fúslega; eigi heldur
þannig, að þjer drotnið harðlega yfir hlutdeild yðar,
heldur þannig, að þjer verðið fyrirmynd hjarðarinnar,
4 og þá munuð þjer, þegar hinn æðsti hirðir birtist,
5 öðlast hina ófölnandi kórónu dýrðarinnar. Sömuleiðis
verið þjer, hinir yngri, öldungunum undirgefnir, og
skrýðist allir lítillætinu hver gegn öðrum, því að
Guð stendur gegn dramblátum, en auðmjúkum veitir
6 hann náð. Auðmýkið yður því undir Guðs voldugu

hönd, til þess að hann á sínum tíma upphefji yður;
7 varpið allri áhyggju yðar upp á hann, því að hann
8 ber umhyggju fyrir yður. Verið algáðir, vakið;
óvinur yðar djöfullinn gengur um sem öskrandi ljón,
9 leitandi að þeim, sem hann geti gleypt; standið gegn
honum, stöðugir í trúnni, vitandi að sömu þjáningar
10 fullnast á bræðrum yðar, sem eru í heiminum. En
Guð allrar náðar, sem kallaði yður til sinnar eilífu
dýrðar í Kristi, eftir að þjer þjáðst hafið lítinn
tíma, hann mun sjálfur fullkomna yður, styrkja
11 og öfluga gjöra. Hans er mátturinn um aldir alda.
Amen.
12 Með Silvanusi, hinum trúa meðbróður, eftir því
sem jeg tel, hefi jeg stuttlega ritað yður, og jeg
áminni og vitna hátíðlega, að þetta er hin sanna
13 náð Guðs; standið stöðugir í henni. Yður heilsar
hin samútvalda í Babýlon og Markús sonur minn.
14 Heilsið hver öðrum með kærleikskossi.
Friður sje með yður öllum, sem eruð í Kristi.

# Hið síðara almenna brjef Pjeturs.

1 Símon Pjetur, þjónn og postuli Jesú Krists, til
þeirra, sem hlotið hafa jafndýrmæta trú og vjer
2 fyrir rjettlæti Guðs vors og frelsara Jesú Krists; náð

og friður margfaldist yður til handa með þekkingu
3 á Guði og Jesú Drotni vorum. Þar eð hans guðdóm-
legi máttur hefir veitt oss alt, sem heyrir til lífs og
guðrækni með þekkingunni á þeim, sem kallaði oss,
4 með sinni eigin dýrð og dáð, og með því hefir hann
veitt oss hin dýrmætu og stórmiklu fyrirheit, til þess
að þjer fyrir þau skylduð verða hluttakandi í guð-
legu eðli, er þjer hafið komist undan girnda-spilling-
5 unni, sem er í heiminum, þá leggið einmitt þessa vegna
alla stund á þetta, og auðsýnið í trú yðar dygðina, en
6 í dygðinni þekkinguna, en í þekkingunni bindindið,
en í bindindinu þolgæðið, en í þolgæðinu guðræknina,
7 en í guðrækninni bróðurelskuna, en í bróðurelskunni
8 kærleikann. Því að ef þessir hlutir eru hjá yður
og fara vaxandi, munu þeir ekki láta yður vera
iðjulausa nje ávaxtarlausa í þekkingu Drottins vors
9 Jesú Krists; því að sá sem ekki hefir þessa hluti, er
blindur í skammsýni sinni, er hann hefir gleymt
10 hreinsun hinna fyrri synda sinna. Kostið þess
vegna því fremur kapps um, bræður, að gjöra köllun
yðar og útvalningu vissa; því ef þjer gjörið þetta,
11 munuð þjer ekki nokkru sinni hrasa; því að á þann
hátt mun yður ríkulega veitast inngangur í hið eilífa
ríki Drottins vors og frelsara Jesú Krists.
12 Þess vegna ætla jeg mjer ávalt að áminna yður
um þetta, þótt þjer vitið það og þjer standið stöðugir
13 í þeim sannleika, sem hjá yður er. Og jeg álít það
rjett, á meðan jeg er í þessari tjaldbúð, að vekja
14 yður með áminningu, því að jeg veit, að þess er
skamt að bíða að tjaldbúð minni verði svift, eins og
15 sjálfur Drottinn vor Jesús Kristur birti mjer; og jeg

vil einnig leggja kapp á, að þjer ætíð eftir burtför mína
16 getið minst þessara hluta. Því að ekki fylgdum
vjer spaklega uppspunnum skröksögum, er vjer kunn-
gjörðum yður mátt og tilkomu Drottins vors Jesú
Krists, heldur vorum vjer sjónarvottar að hátign
17 hans, því að hann meðtók af guði föður heiður og
dýrð, þá er þvílík raust barst honum frá hinni há-
tignarfullu dýrð: »Þessi er sonur minn, hinn elskaði,
18 sem jeg hefi velþóknun á«. Og þessa raust heyrðum
vjer sjálfir koma frá himni, þá er vjer vorum með
19 honum á fjallinu helga. Og vjer höfum því meiri
vissu fyrir hinu spámannlega orði, og þjer breytið
vel, ef þjer gefið gaum að því eins og lampa, sem
skín á myrkum stað, þangað til dagur ljómar og
20 morgunstjarna rennur upp í hjörtum yðar. Vitið
það umfram alt, að enginn ritningar-spádómur verður
21 þýddur af sjálfum sjer. Því að aldrei var nokkur
spádómur borinn fram að vilja manns, heldur töluðu
menn frá Guði bornir af heilögum anda.

2 En falsspámenn komu einnig upp meðal lýðsins,
eins og falskennendur munu líka verða á meðal
yðar, er smeygja munu inn háskalegum flokkum og
jafnvel afneita herra sínum, sem keypti þá, og leiða
2 yfir sig sjálfa bráða glötun, og margir munu fylgja
ólifnaði þeirra, og sakir þeirra mun vegi sannleikans
3 verða lastmælt, og af ágirnd munu þeir með upp-
spunnum orðum hafa yður fyrir fje; en dómurinn
yfir þeim frá fyrri tíð dvelur ekki, og glötun
4 þeirra blundar ekki. Því að ef Guð þyrmdi ekki
englum, er þeir syndguðu, heldur steypti þeim niður
í undir-djúpin, og setti þá í myrkra-gryfjur, til þess

5 að þeir varðveittust til dóms, og ekki þyrmdi hann
hinum forna heimi, en varðveitti Nóa, prjedikara rjett-
lætisins, við áttunda mann, er hann ljet vatnsflóð
6 koma yfir heim hinna óguðlegu og brendi borgirnar
Sódómu og Gómorru til ösku og dæmdi þær til eyði-
leggingar, er hann hafði sett þær þeim til dæmis,
7 sem mundu lifa óguðlega, og frelsaði hinn rjettláta
Lot, er kvaldist af svívirðilegum lifnaði hinna guð-
8 lausu, — því að hinn rjettláti maður, sem bjó á
meðal þeirra, kvaldist í sinni rjettlátu sálu dag frá
degi af þeim ólöglegu verkum, er hann sá og heyrði,
9 — þannig veit Drottinn hvernig hann á að hrífa
hina guðhræddu úr freistingu, en geyma hina rang-
10 látu, undirorpna hegningu, til dómsdags, en einkum
þá, sem ganga eftir holdinu í saurlífisfýsn og fyrirlíta
herradóma. Sem fífldjarfir sjálfbirgingar skelfast
11 þeir ekki við að lastmæla tignum, þar sem englar,
þótt meiri sjeu að mætti og valdi, eigi kveða upp
12 löstunardóm gegn þeim hjá Drotni. En eins og
skynlausar skepnur, sem fæddar eru með líkamseðli
til að veiðast og fyrirfarast, lastmæla þessir menn
því, sem þeir ekki þekkja, og munu einnig verða
13 eyðilagðir á sama hátt sem þær, og verða fyrir
ranglæti að ranglætis-verðlaunum. Munað að degi
til meta þeir sem nautn, þeir, blettirnir og ósóminn,
lifa svallsamlega við kærleiksmáltíðir sínar, þegar
14 þeir sitja að veislum með yður; þeir hafa augu full
hórdóms, og þeir eru sísyndgandi og fleka óstyrkar
sálir; þeir hafa hjarta æft í ágirnd; þeir eru bölvun-
15 arinnar börn; þeir hafa yfirgefið rjettan veg og hafa
vilst, þar sem þeir hafa fylgt vegi Bíleams, sonar

16 Beórs, sem elskaði ranglætislaun, en hann varð að
sæta ávítun fyrir glæp sinn. Mállaus eykurinn tal-
aði manna-máli og aftraði fásinnu spámannsins.
17 Þessir menn eru vatnslausir brunnar og þoka, hrak-
in af hvassviðri, og er þeim geymd dimma myrkurs-
18 ins. Því að þegar þeir láta klingja drembileg hje-
gómaorð, tæla þeir með holdlegum girndum, með
svívirðilegum lifnaði þá, sem fyrir skömmu hafa
19 sloppið frá þeim, sem ganga í villu; þeir heita þeim
frelsi, þótt þeir sjeu sjálfir þrælar spillingarinnar, því
að sjerhver verður þræll þess, sem hann hefir beðið
20 ósigur fyrir. Því að ef þeir, sem með þekking
Drottins vors og frelsara Jesú Krists voru sloppnir
frá saurugleika heimsins, flækja sig í honum af nýju
og bíða ósigur, þá er hið síðara orðið fyrir þá verra
21 en hið fyrra. Því að betra hefði þeim verið að hafa
ekki gjörþekt veg rjettlætisins, heldur en að hafa
gjörþekt hann og snúa síðan aftur frá hinu heilaga
boðorði, sem þeim hafði verið gefið. Fram á þeim
hefir komið sannmæli þetta: *Hundur snýr aftur til
spýju sinnar*, og þvegið svín, til að velta sjer í saur.

3 Þetta er nú annað brjefið, sem jeg skrifa yður,
þjer elskaðir, og í þeim báðum er jeg með
áminningu að vekja hið hreinskilna hugskot yðar,
2 til þess að þjer minnist orða þeirra, er hinir heilögu
spámenn hafa áður talað, og skipunar Drottins vors
3 og frelsarans, er postular yðar hafa flutt, og þetta
skuluð þjer þá fyrst vita, að á hinum síðustu dögum
munu koma spottarar með spotti, er framganga eftir
4 eigin girndum og segja: Hvað verður úr fyrirheitinu
um tilkomu hans? Því að frá því feðurnir sofnuðu

stendur alt við sama eins og frá upphafi hins skapaða.
5 Því að viljandi gleyma þeir því, að himnar voru til
forðum og jörð mynduð af vatni og með vatni fyrir
6 orð Guðs, og við það gekk vatnsflóðið yfir þann
7 heim, sem þá var, svo að hann fórst; en þeir himn-
ar, sem nú eru, og jörðin geymast eldinum fyrir hið
sama orð, og varðveitast til þess dags, er hinir óguð-
legu menn munu dæmast og tortímast.
8 En þetta eitt má yður ekki gleymast, þjer elsk-
uðu, að einn dagur er hjá Drotni sem þúsund ár og
9 þúsund ár sem einn dagur. Ekki er Drottinn seinn
á sjer með fyrirheitið, þótt sumir álíti það seinlæti,
heldur er hann langlyndur við yður, þar eð hann
vill ekki að neinir glatist, heldur að allir komist til
10 iðrunar. En dagur Drottins mun koma sem þjófur,
og þá munu himnarnir með miklum gný líða undir
lok, frumefnin sundurleysast í brennandi hita, og
jörðin og þau verk, sem á henni eru, uppbrenna.
11 Þar eð alt þetta ferst þannig, hvílíkum mun yður þá
byrja að vera, með heilagri breytni og guðrækni,
12 þannig að þjer væntið eftir og þráið innilega tilkomu
Guðs dags, en vegna þess dags munu himnarnir
sundurleysast í eldi og frumefni bráðna af brennandi
13 hita. En vjer væntum eftir fyrirheiti hans nýs
himins og nýrrar jarðar, þar sem rjettlæti býr.
14 Fyrir því stundið, þjer elskuðu, með því að þjer
væntið slíkra hluta, að vera í friði flekklausir og
15 lýtalausir frammi fyrir honum, og álítið langlyndi
Drottins vors vera hjálpræði, eins og hinn elskaði
bróðir vor Páll hefir ritað yður, eftir þeirri speki,
16 sem honum er gefin, eins og einnig í öllum brjefum

hans, er hann í þeim talar um þetta; en í þeim er
sumt þungskilið, er fáfróðir og staðfestulausir menn
rangsnúa, eins og öðrum ritum, sjer sjálfum til tortím-
17 ingar. Gætið yðar þess vegna, þjer elskaðir, með
því að þjer vitið þetta fyrirfram, til þess að þjer
látið eigi dragast með af villu þverbrotinna manna
18 og fallið frá yðar eigin staðfestu. En vaxið í náð og
þekkingu Drottins vors og frelsara Jesú Krists. Hon-
um sje dýrðin bæði nú og til eilífrar tíðar. Amen.

# Fyrsta almenna brjef Jóhannesar.

1 Það sem var frá upphafi, það sem vjer höfum
heyrt, það sem vjer höfum sjeð með augum
vorum, það sem vjer horfðum á og hendur vorar
2 þreifuðu á, um orð lífsins; — og lífið var opinberað,
og vjer höfum sjeð og vottum og boðum yður lífið
hið eilífa, sem var hjá föðurnum og var opinberað
3 oss; — það sem vjer höfum sjeð og heyrt, það boð-
um vjer yður einnig, til þess að þjer líka getið haft
samfjelag við oss; og samfjelag vort er við föður-
4 inn og við son hans Jesúm Krist. Og þetta skrif-
um vjer, til þess að fögnuður yðar geti orðið full-
kominn.

5 Og þetta er boðskapurinn, sem vjer höfum heyrt
af honum og boðum yður, að Guð er ljós og alls
6 ekkert myrkur er í honum. Ef vjer segjum að vjer
höfum samfjelag við hann, og göngum þó í myrkrinu,
7 þá ljúgum vjer og iðkum ekki sannleikann. En ef
vjer framgöngum í ljósinu, eins og hann er sjálfur í
ljósinu, þá höfum vjer samfjelag hver við annan, og
blóðið Jesú, sonar hans, hreinsar oss af allri synd.
8 Ef vjer segjum að vjer höfum ekki synd, þá svíkjum
9 vjer sjálfa oss og sannleikurinn er ekki í oss, en ef
vjer játum syndir vorar, þá er hann trúr og rjett-
látur, svo að hann fyrirgefur oss syndirnar og hreins-
10 ar oss af öllu ranglæti. Ef vjer segjum að vjer
höfum ekki syndgað, þá gjörum vjer hann að lygara,
og orð hans er ekki í oss.

2 Börnin mín! þetta skrifa jeg yður, til þess að
þjer skulið ekki syndga; og enda þótt einhver
syndgi, þá höfum vjer árnaðarmann hjá föðurnum,
2 Jesúm Krist hinn rjettláta, og hann er friðþæging
fyrir syndir vorar, og ekki einungis fyrir vorar synd-
3 ir, heldur líka fyrir allan heiminn. Og á því vitum
vjer að vjer þekkjum hann, ef vjer höldum boðorð
4 hans. Sá sem segir: Jeg þekki hann, og heldur
ekki boðorð hans, er lygari, og sannleikurinn er ekki
5 í honum; en hver sem heldur boðorð hans, í honum
er sannarlega kærleikur Guðs orðinn fullkominn. Af
6 því þekkjum vjer að vjer erum í honum. Sá sem
segist vera stöðugur í honum, honum ber sjálfum að
framganga eins og hann framgekk.

7 Þjer elskaðir, það er ekki nýtt boðorð, sem jeg
rita yður, heldur gamalt boðorð, sem þjer hafið haft

frá upphafi; hið gamla boðorð er orðið, sem þjer
8 heyrðuð. Í annan stað er það nýtt boðorð, er jeg
rita yður, sem er satt í honum og í yður; því að
myrkrið er að hverfa og hið sanna ljós er þegar farið
9 að skína. Sá sem segist vera í ljósinu, og hatar bróð-
10 ur sinn, hann er enn þá í myrkrinu. Sá sem elskar
bróður sinn, hann er stöðugur í ljósinu og í honum
11 er ekki hneyksli. En sá sem hatar bróður sinn, hann
er í myrkrinu og framgengur í myrkrinu, og veit
ekki hvert hann fer, því að myrkrið hefir blindað
augu hans.
12 Jeg rita yður, börnin mín, af því að syndir yðar
13 eru yður fyrirgefnar fyrir sakir nafns hans. Jeg
rita yður, þjer feður, af því að þjer þekkið hann,
sem er frá upphafi. Jeg rita yður, þjer ungu menn,
af því að þjer hafið sigrað hinn vonda. Jeg hefi
14 ritað yður, börn, af því að þjer þekkið föðurinn. Jeg
hefi ritað yður, feður, af því að þjer þekkið hann,
sem er frá upphafi. Jeg hefi ritað yður, ungu menn,
af því að þjer eruð styrkir, og Guðs orð er stöðugt
15 í yður og þjer hafið sigrað hinn vonda. Elskið ekki
heiminn, ekki heldur þá hluti sem í heiminum eru.
Ef einhver elskar heiminn, þá er kærleiki föðursins
16 ekki í honum. Því að alt það sem í heiminum er,
fýsn holdsins og fýsn augnanna og auðæfa-oflæti,
það er ekki frá föðurnum, heldur er það frá heimin-
17 um. Og heimurinn fyrirferst og fýsn hans, en sá sem
gjörir Guðs vilja, varir að eilífu.
18 Börn mín, það er hin síðasta stund, og eins og
þjer hafið heyrt að andkristur kemur, þá eru nú
einnig margir andkristar komnir fram, og af því

19 þekkjum vjer að það er hin síðasta stund. Frá oss
eru þeir útgengnir, en þeir voru ekki af oss; því ef
þeir hefðu verið af oss, þá mundu þeir stöðuglega
hafa verið með oss; en það varð til þess að það yrði
20 augljóst, að þeir allir væru ekki af oss. Og þjer
21 hafið smurningu frá hinum heilaga og vitið alt. Jeg
hefi ekki skrifað yður vegna þess, að þjer þekkið
ekki sannleikann, heldur af því að þjer þekkið hann,
22 og af því að engin lygi er af sannleikanum. Hver
er lygari ef ekki sá, sem neitar að Jesús sje Kristur?
Sá hinn sami er andkristurinn, hann sem afneitar
23 föðurnum og syninum. Hver sem afneitar syninum,
hefir ekki heldur föðurinn; sá sem viðurkennir soninn,
24 hefir og föðurinn. En þjer, látið það vera stöðugt í
yður, sem þjer hafið heyrt frá upphafi. Ef það er
stöðugt í yður, sem þjer frá upphafi hafið heyrt, þá
munuð þjer einnig vera stöðugir í syninum og í föð-
25 urnum. Og þetta er fyrirheitið, sem hann gaf oss,
26 hið eilífa lífið. Þetta hefi jeg skrifað yður um þá,
27 sem vilja leiða yður afvega. Og þjer, sú smurning,
sem þjer fenguð af honum, hún er stöðug í yður, og
þjer þurfið þess ekki, að neinn kenni yður; heldur
eins og smurning hans fræðir yður um alt, og hún
er sannleiki, en engin lygi, eins skuluð þjer vera
28 stöðugir í honum, svo sem hún kendi yður. Og nú,
börnin mín, verið stöðugir í honum, til þess að vjer
getum, þegar hann birtist, haft djörfung, og verðum
oss ekki til skammar fyrir honum í tilkomu hans.
29 Ef þjer vitið að hann er rjettlátur, þá þekkið þjer,
að einnig hver, sem iðkar rjettlæti, er fæddur af
honum.

3 Sjáið, hvílíkan kærleika faðirinn hefir auðsýnt
oss, að vjer skulum kallast Guðs börn; og það
erum vjer. Vegna þess þekkir heimurinn ekki oss,
2 af því að hann þekti ekki hann. Þjer elskaðir, nú
erum vjer Guðs börn, en það er enn þá
ekki orðið bert, hvað vjer munum verða.
Vjer vitum, að þegar hann birtist, þá munum vjer
verða honum líkir, því að vjer munum sjá hann
3 eins og hann er. Og hver sem hefir þessa von til
hans, hreinsar sjálfan sig, eins og hann er hreinn.
4 Hver sem drýgir syndina, drýgir og lagabrot, og
5 syndin er lagabrot. En þjer vitið, að hann hefir
birst, til þess að burttaka syndir, og í honum er ekki
6 synd. Hver sem er stöðugur í honum, syndgar ekki;
hver sem syndgar, hefir ekki sjeð hann, og þekkir
7 hann ekki heldur. Börnin mín, látið engan villa
yður; sá sem iðkar rjettlætið, er rjettlátur, eins og
8 hann er rjettlátur. Hver sem syndina drýgir, er af
djöflinum, því að djöfullinn syndgar frá upphafi. Til
þess birtist Guðs sonur, að hann skyldi brjóta niður
9 verk djöfulsins. Hver sem af Guði er fæddur, drýgir
ekki synd, því að sæði hans er varanlegt í honum,
og hann getur ekki syndgað, af því að hann er fæddur
10 af Guði. Af þessu eru augljós börn Guðs og börn
djöfulsins; hver sem ekki iðkar rjettlæti, er ekki af
Guði, nje heldur sá, sem elskar ekki bróður sinn.
11 Því að þetta er sá boðskapur, sem þjer hafið heyrt
frá upphafi, að vjer skulum elska hver annan; ekki
12 eins og Kain var af hinum vonda og myrti bróður
sinn. Og fyrir hvað myrti hann hann? Af því að
verk hans voru vond, en verk bróður hans rjettlát.

13 Undrist ekki, bræður, þótt heimurinn hati yður.
14 Vjer vitum, að vjer erum komnir yfir frá dauðanum
til lífsins, af því að vjer elskum bræðurna. Sá sem
15 ekki elskar, er áfram í dauðanum. Hver sem hatar
bróður sinn, er manndrápari, og þjer vitið, að enginn
16 manndrápari hefir eilíft líf í sjer varandi. Af því
þekkjum vjer kærleikann, að hann ljet lífið fyrir oss,
17 og vjer eigum að láta lífið fyrir bræðurna. En sá
sem hefir heimsins gæði, og horfir á bróður sinn vera
þurfandi, og afturlykur hjarta sínu fyrir honum,
hvernig getur kærleikur Guðs verið stöðugur í hon-
18 um? Börnin mín, elskum ekki með orði og ekki
19 heldur með tungu, heldur í verki og sannleika. Af
þessu munum vjer þekkja að vjer erum af sannleik-
anum, og munum geta friðað hjörtu vor frammi fyrir
20 honum, hvað sem hjarta vort kann að ásaka oss
fyrir; því að Guð er meiri en hjarta vort og þekkir alla
21 hluti. Þjer elskaðir, ef hjartað ásakar oss ekki, þá
22 höfum vjer djörfung til Guðs, og hvað sem vjer
biðjum um, fáum vjer hjá honum, af því að vjer höld-
um boðorð hans og gjörum það, sem er þóknanlegt
23 fyrir hans augliti. Og þetta er hans boðorð: að
vjer skulum trúa á nafn sonar hans Jesú Krists og
elska hver annan, samkvæmt því, sem hann hefir
24 gefið oss boðorð um. Og sá sem heldur boðorð
hans, er stöðugur í honum og hann í honum; og af
því þekkjum vjer, að hann er stöðugur í oss, af andan-
um sem hann hefir gefið oss.

4 Þjer elskaðir, trúið ekki sjerhverjum anda,
heldur reynið andana, hvort þeir sjeu af Guði;
því að margir falsspámenn eru farnir út í heiminn.

2 Af þessu getið þjer þekt anda Guðs: Sjerhver andi,
sem viðurkennir að Jesús Kristur hafi komið í holdi,
3 er af Guði; og sjerhver andi, sem ekki játar Jesúm,
er ekki af Guði; og hann er andkristsins andi, sem
þjer hafið heyrt um að komi, og nú þegar er hann í
4 heiminum. Þjer, börnin mín, eruð af Guði og hafið
sigrað þá, því að sá er meiri, sem í yður er, en sá
5 sem er í heiminum. Þeir eru af heiminum; þess
vegna tala þeir af heiminum, og heimurinn hlýðir á
6 þá. Vjer erum af Guði; hver sem þekkir Guð, hlýð-
ir á oss; sá sem ekki er af Guði, hlýðir ekki
á oss. Af þessu þekkjum vjer anda sannleikans og
anda villunnar.

7 Þjer elskaðir, elskum hver annan, því að kær-
leikurinn er af Guði, og hver sem elskar, er af Guði
8 fæddur og þekkir Guð. Sá sem ekki elskar, þekkir
9 ekki Guð, því að Guð er kærleikur. Í því birtist
kærleikur Guðs í oss, að Guð hefir sent sinn einget-
inn son í heiminn, til þess að vjer skyldum lifa fyrir
10 hann. Í þessu er kærleikurinn: ekki að vjer elskuð-
um Guð, heldur að hann elskaði oss og sendi son
11 sinn til að vera friðþæging fyrir syndir vorar. Þjer
elskaðir, fyrst Guð hefir svo elskað oss, þá ber einn-
12 ig oss að elska hver annan. Enginn hefir nokkurn
tíma sjeð Guð; ef vjer elskum hver annan, þá er
Guð stöðugur í oss, og kærleikur hans er fullkomn-
13 aður í oss; af því þekkjum vjer að vjer erum stöð-
ugir í honum og hann í oss, að hann hefir gefið oss
14 af sínum anda. Og vjer höfum sjeð og vitnum, að
faðirinn hefir sent soninn, til að vera frelsari heims-
15 ins. Hver sem játar, að Jesús sje Guðs sonur, í hon-

16 um er Guð stöðugur og hann í Guði. Og vjer höfum
þekt og trúað kærleikanum, sem Guð hefir á oss.
Guð er kærleikur, og sá, sem er stöðugur í kærleik-
anum, er stöðugur í Guði og Guð er stöðugur í hon-
17 um. Í því er kærleikurinn orðinn fullkominn hjá
oss, að vjer höfum djörfung á degi dómsins; því að
eins og hann er, eins erum vjer einnig í heimi þess-
18 um. Ótti er ekki í elskunni, heldur útrekur fullkom-
in elska óttann; því að óttinn felur í sjer hegningu,
en sá sem óttast, er ekki fullkominn í elskunni.
19 Vjer elskum, því að hann elskaði oss að fyrra bragði.
20 Ef einhver segir: jeg elska Guð, og hatar bróður
sinn, sá er lygari; því sá sem ekki elskar bróður
sinn, sem hann hefir sjeð, getur ekki elskað Guð,
21 sem hann hefir ekki sjeð. Og þetta boðorð höfum
vjer frá honum, að sá sem elskar Guð, á einnig að
elska bróður sinn.

5 Hver sem trúir að Jesús er Kristur, er af Guði
fæddur; og hver sem elskar föðurinn, elskar
2 einnig þann, sem er fæddur af honum. Af því
þekkjum vjer að vjer elskum Guðs börn, þegar vjer
3 elskum Guð og breytum eftir boðorðum hans. Því
að þetta er kærleikur Guðs, að vjer höldum hans
4 boðorð, og hans boðorð eru ekki þung. Því að alt,
sem af Guði er fætt, sigrar heiminn, og trú vor, hún
5 er sigurinn, sem hefir sigrað heiminn. En hver er
sá, sem sigrar heiminn, nema sá sem trúir, að Jesús
6 er sonur Guðs? Þessi er sá, sem kominn er með
vatni og blóði, Jesús Kristur, ekki með vatninu
7 einungis, heldur með vatninu og með blóðinu. Og
andinn er sá sem vitnar, því að andinn er sannleik-

8 urinn. Því að þrír eru þeir, sem vitna: andinn og
9 vatnið og blóðið, og þeim þremur ber saman. Ef
vjer tökum manna vitnisburð gildan, þá er Guðs
vitnisburður meiri, því að þetta er vitnisburður Guðs,
10 að hann hefir vitnað um sinn son. Sá sem trúir á
Guðs son, hefir vitnisburðinn í honum; sá sem ekki
trúir Guði, hefir gjört hann að lygara, af því að
hann hefir ekki trúað á þann vitnisburð, sem Guð
11 hefir vitnað um sinn son. Og þetta er vitnisburður-
inn, að Guð hefir gefið oss eilíft líf, og þetta líf er
12 í hans syni. Sá sem hefir soninn, hefir lífið; sá sem
ekki hefir Guðs son, hefir ekki lífið.

13 Þetta hefi jeg skrifað yður, til þess að þjer vitið
að þjer hafið eilíft líf, yður, sem trúið á nafn Guðs
14 sonar. Og þetta er sú djörfung, sem vjer höfum til
hans, að ef vjer biðjum um eitthvað eftir hans vilja,
15 þá heyrir hann oss. Og ef vjer vitum að hann
heyrir oss, um hvað sem vjer biðjum, þá vitum vjer,
að oss eru veittar þær bænir, sem vjer höfum beðið
16 hann um. Ef einhver sjer bróður sinn drýgja synd,
sem ekki er til dauða, þá skal hann biðja, og Guð
mun gefa honum líf, þeim sem ekki syndgar til
dauða. Til er synd til dauða; fyrir henni segi jeg
17 ekki að hann skuli biðja. Alt ranglæti er synd; en
til er synd, sem ekki er til dauða.

18 Vjer vitum, að hver sem af Guði er fæddur
syndgar ekki, heldur gætir sá sín, sem af Guði er
19 fæddur, og hinn vondi snertir hann ekki. Vjer vit-
um að vjer erum af Guði, og allur heimurinn liggur
20 í hinu vonda. En vjer vitum, að Guðs sonur er
kominn, og hefir gefið oss skilning, til þess að vjer

þekkjum hinn sanna; og vjer erum í hinum sanna,
í hans syni Jesú Kristi. Þessi er hinn sanni Guð
21 og eilíft líf. Börnin mín, gætið yðar sjálfra fyrir
skurðgoðunum.

# Annað brjef Jóhannesar.

1 Öldungurinn til hinnar útvöldu frúar og barna
hennar, sem jeg elska í sannleika, og ekki jeg einn,
2 heldur einnig allir, sem þekkja sannleikann, sakir
sannleikans, sem er stöðugur í oss, og mun vera hjá
3 oss til eilífðar; náð, miskunn, friður frá Guði föður og
frá Jesú Kristi, syni föðursins, mun vera með oss í
sannleika og elsku.

4 Jeg er orðinn næsta glaður, af því að jeg fann
nokkur af börnum þínum, er framganga í sannleika,
samkvæmt því sem vjer meðtókum boðorð um af
5 föðurnum. Og nú bið jeg þig, frú, ekki svo sem jeg
skrifi þjer nýtt boðorð, heldur það, er vjer höfðum
6 frá upphafi, að vjer skulum elska hver annan. Og
þetta er kærleikurinn, að vjer framgöngum eftir boð-
orðum hans. Þetta er boðorðið, eins og þjer heyrð-
uð frá upphafi, til þess að þjer skylduð framganga í
7 því. Því að margir afvegaleiðendur eru farnir út í
heiminn, sem ekki viðurkenna að Jesús Kristur sje

kominn í holdi. Slíkur maður er afvegaleiðandinn
8 og andkristurinn. Hafið gætur á sjálfum yður, til
þess að þjer missið ekki það, sem vjer höfum áunn-
9 ið, heldur megið meðtaka full laun. Sjerhver sem
fer of langt, og er ekki stöðugur í kenningu Krists,
hefir ekki Guð. Sá sem er stöðugur í kenningunni,
10 hann hefir bæði föðurinn og soninn. Ef einhver
kemur til yðar, og kemur ekki með þessa kenningu,
þá takið hann ekki á heimili yðar, og bjóðið hann
11 ekki velkominn; því að sá, sem býður hann vel-
kominn, verður hluttakandi í hans vondu verkum.
12 Þótt jeg hafi margt að rita yður, vildi jeg ekki
gjöra það með pappír og bleki; en jeg vona að
koma til yðar og tala munnlega við yður, til þess
að gleði yðar verði fullkomin. Þjer heilsa börn
systur þinnar, hinnar útvöldu.

# Þriðja brjef Jóhannesar.

1 Öldungurinn til hins elskaða Gajusar, sem jeg
elska í sannleika.
2 Þú hinn elskaði, jeg bið þess, að þjer vegni vel
í öllum hlutum og að þú sjert heill heilsu, eins og
3 sálu þinni vegnar vel. Því að jeg varð harla glað-

ur, þegar bræður komu og vitnuðu um sannleika
4 þinn, eins og þú framgengur í sannleika. Jeg hefi
enga meiri gleði en þá, að heyra að börnin mín
framgangi í sannleikanum.
5 Þú elskaði, þú gjörir trúarverk með því, sem
þú vinnur fyrir bræðurna, og það ókunna menn;
6 þeir hafa vitnað um kærleika þinn fyrir söfnuðinum, og
þú gjörir vel, er þú greiðir för þeirra eins og sam-
7 boðið er Guði; því að fyrir sakir nafnsins eru þeir
farnir af stað, og hafa við engu tekið af heiðingj-
8 unum. Þess vegna ber oss að taka þvílíka menn
að oss, til þess að vjer verðum samverkamenn sann-
leikans.
9 Jeg hefi ritað nokkuð til safnaðarins, en Díótrefes,
sem vill vera fremstur meðal þeirra, tekur eigi við
10 oss. Þess vegna ætla jeg, er jeg kem, að minna
á verk þau, er hann vinnur, með því að ófrægja
oss með vondum orðum; og hann lætur sjer ekki
það nægja, heldur tekur hann ekki sjálfur á móti
bræðrunum, og hindrar þá, er það vilja gjöra, og
11 rekur þá út úr söfnuðinum. Þú elskaði, breyttu
ekki eftir því, sem ilt er, heldur eftir því, sem gott
er. Sá sem gott gjörir, er af Guði, en sá sem ilt
12 gjörir, hefir ekki sjeð Guð. Demetríusi er borið
gott vitni af öllum og af sannleikanum sjálfum;
vjer vitnum einnig, og þú veist að vitnisburður vor
er sannur.
13 Jeg hefi margt að rita þjer, en jeg vil ekki
14 rita þjer með bleki og penna; en jeg vona að sjá
þig bráðum, og munum við þá talast við munnlega.

Friður sje með þjer. Vinirnir heilsa þjer. Heilsa
þú vinunum með nafni.

# Hið almenna brjef Júdasar.

1 Júdas, þjónn Jesú Krists og bróðir Jakobs, til
hinna kölluðu, sem eru elskaðir í Guði föður og
2 varðveittir Jesú Kristi til handa: miskunn og friður
og kærleiki margfaldist yður til handa.
3 Þjer elskaðir, þegar jeg hafði allan huga á að
rita yður um hið sameiginlega hjálpræði vort, þá
var jeg neyddur til að rita yður, til að áminna yður
um að berjast af kappi fyrir þá trú, sem heilögum
4 hefir einu sinni verið fengin í hendur. Því að inn hafa
læðst nokkrir menn, sem fyrir löngu voru fyrirfram
innritaðir til þessa dóms, óguðlegir menn, sem vanbrúka
náð Guðs vors til ólifnaðar, og afneita vorum
einasta lávarði og Drottni, Jesú Kristi.
5 En jeg vil minna yður á, þótt þjer nú einu sinni
vitið alt, að þótt Drottinn hefði frelsað lýðinn úr Egiptalandi,
þá tortímdi hann síðar þeim, sem ekki trúðu.
6 Og englana, sem ekki gættu tignar sinnar, heldur
yfirgáfu sinn eigin bústað, hefir hann í myrkri geymt
7 í ævarandi fjötrum til dóms hins mikla dags. Eins
og Sódóma og Gómorra og borgirnar umhverfis þær,

sem drýgt höfðu saurlifnað á líkan hátt og þær, og
sókst eftir annarlegu holdi, liggja fyrir sem dæmi,
8 líðandi hegningu eilífs elds, á sama hátt saurga og
þessir draumviltu menn holdið, meta að engu herra-
9 dóma og lastmæla tignum. En höfuðengillinn Míkael
dirfðist eigi, er hann átti í orðadeilu við djöfulinn
um líkama Móse, að leggja lastmælisdóm á hann,
10 heldur sagði: Drottinn refsi þjer. En þessir menn
lastmæla öllu því, sem þeir þekkja ekki, og alt það,
sem þeir skilja af eðlisleiðslu sinni, eins og skynlaus-
11 ar skepnur, á því eyðileggja þeir sig. Vei þeim, því
að þeir hafa gengið á vegi Kains og hrapað í villu
Bíleams, fyrir ávinnings sakir, og tortímst í þverúð
12 Kóra. Þessir menn eru blindsker við kærleiksmál-
tíðir yðar, er þeir sitja að veislum með yður, og ala
óttalaust sjálfa sig; þeir eru vatnslaus ský, sem rek-
ast fyrir vindum, fölnuð trje, ávaxtarlaus, tvisvar
13 dauð, rifin upp með rótum; ofsalegar hafsbylgjur,
sem freyða eigin skömmum, reikandi stjörnur, sem
14 sorti myrkursins er geymdur til eilífðar. En um
þessa menn spáði og Enok, sjöundi maður frá Adam,
segjandi: Sjá, Drottinn kom með sínum heilögu
15 tíþúsundum, til að halda dóm yfir öllum, og til að
sanna alla óguðlega menn seka í öllum þeim óguð-
legu verkum, sem þeir hafa óguðlega drýgt, og í
öllum þeim hörðu orðum, sem hinir óguðlegu syndarar
16 hafa talað gegn honum. Þessir menn eru möglarar,
umkvörtunarsamir, og ganga eftir girndum sínum
— og munnur þeirra mælir ofmetnaðarorð — þeir
sýna mönnum lotningu fyrir hagnaðar sakir.

17 En þjer elskaðir, minnist þeirra orða, sem áður
hafa töluð verið af postulum Drottins vors Jesú Krists,
18 að þeir sögðu yður: Á síðasta tíma munu koma spott-
arar, sem ganga eftir sínum eigin óguðlegu girndum.
19 Þessir menn eru þeir, sem valda sundrungu, hold-
20 legir menn, sem eigi hafa andann. En þjer, elskaðir,
uppbyggið yður sjálfa á yðar helgustu trú, biðjið í
21 heilögum anda; varðveitið sjálfa yður í kærleika
Guðs, bíðandi eftir náð Drottins vors Jesú Krists til
22 eilífs lífs. Og verið mildir við suma, þá sem eru
23 efablandnir; og suma skuluð þjer frelsa, með því að
hrífa þá út úr eldinum, og suma skuluð þjer vera
mildir við með ótta, og hatið jafnvel kyrtilinn, sem
flekkaður er af holdinu.

24 En honum, sem megnar að varðveita yður frá
hrösun og láta yður koma fram fyrir dýrð sína, lýta-
lausa í fögnuði, einum Guði, frelsara vorum, sje fyrir
Jesúm Krist, Drottin vorn, dýrð, hátign, máttur og
vald, fyrir allar aldir og nú og um allar aldirnar. Amen.

# Opinberun Jóhannesar.

1 Opinberun Jesú Krists, sem Guð gaf honum, til
að sýna þjónum sínum það sem verða á innan
skamms. Og hann sendi engil sinn, og ljet hann tákna

2 það fyrir Jóhannesi, þjóni sínum, honum sem bar
vitni um orð Guðs og um vitnisburð Jesú Krists, um
3 alt það er hann sá. Sæll er sá, er les, og þeir sem
heyra orð spádómsins og varðveita það, sem ritað
er í honum, því að tíminn er í nánd.
4 Jóhannes til safnaðanna sjö, sem í Asíu eru.
Náð sé með yður og friður frá honum, sem er
og var og kemur, og frá öndunum sjö, sem eru
5 frammi fyrir hásæti hans, og frá Jesú Kristi,
honum sem er trúr vottur, honum sem er frumburð-
ur dauðra, og honum sem er höfðingi yfir konung-
um jarðarinnar; honum sem elskaði oss og leysti oss
6 frá syndum vorum með blóði sínu. Og hann gjörði
oss að konungsríki og að prestum, Guði sínum og
föður til handa. Honum sé dýrð og máttur um aldir
7 alda, amen. *Sjá, hann kemur í skýjunum*, og hvert
auga mun *sjá hann* og jafnvel *þeir, sem stungu hann*,
og *allar kynkvíslir jarðarinnar munu kveina yfir hon-
um*. Vissulega, amen.
8 Jeg er Alfa og Ómega, segir Drottinn Guð, hann
sem er og var og kemur, hinn alvaldi.
9 Jeg, Jóhannes, bróðir yðar og samfjelagi í þreng-
ingunni og konungsríkinu og þolinmæðinni í Jesú, var
á eynni, sem Patmos heitir, fyrir sakir orðs Guðs og
10 vitnisburðar Jesú. Jeg var hrifinn í anda á Drottins-
degi, og heyrði að baki mér raust mikla, sem lúður
11 gylli, er sagði: Rita þú í bók það sem þú sér, og send
það söfnuðunum sjö, til Efesus, og til Smýrna, og til
Pergamos, og til Þýatíra, og til Sardes, og til Fíla-
12 delfíu og til Laódíkeu. Og jeg sneri mjer við, til að
sjá raustina, sem við mig talaði; og er jeg sneri mjer

13 við, sá jeg sjö gull-ljósastikur, og milli ljósastikanna
einhvern, líkan syni manns, klæddan dragkyrtli og
14 spentan gullbelti um bringuna; en höfuð hans og hár
var hvítt, eins og hvít ull, eins og mjöll; og augu
15 hans eins og eldslogi; og fætur hans líkir glómálmi,
sem í ofni brennanda, og raust hans sem raust margra
16 vatna. Og hann hafði í hægri hendi sjer sjö stjörn-
ur, og af munni hans gekk út tvíeggjað sverð biturt;
og ásjóna hans var sem sólin skínandi í mætti sín-
17 um. Og er jeg sá hann, fjell jeg fyrir fætur honum,
sem dauður væri, og hann lagði hægri hönd sína yfir
18 mig og sagði: Óttast þú ekki, jeg er *hinn fyrsti og*
*hinn síðasti* og hinn lifandi; og jeg var dauður, en
sjá, lifandi er jeg um aldir alda; og jeg hefi lykla
19 dauðans og heljar. Rita þú nú það er þú sjeð hefir,
bæði það sem er og það sem verða mun eftir þetta,
20 — leyndardóminn stjarnanna sjö, sem þú hefir sjeð í
minni hægri hendi, og gullstikurnar sjö. Stjörnurnar
sjö eru englar hinna sjö safnaða, og ljósastikurnar
sjö eru sjö söfnuðir.

2 Safnaðar-englinum í Efesus skalt þú rita:
Þetta segir sá sem heldur á stjörnunum sjö í
hægri hendi sjer, sá sem gengur á milli gullstikanna
2 sjö: Jeg þekki verkin þín og erfiðið og þolinmæði þína,
og að eigi getur þú sætt þig við vonda menn; og þú
hefir reynt þá, sem segja sjálfa sig vera postula, en eru
það ekki, og þú hefir komist að því, að þeir eru lygarar.
3 Og þú hefir þolinmæði, og byrðar hefir þú borið fyrir
4 míns nafns sakir og ekki þreytst. En það hefi jeg
á móti þjer, að þú hefir fyrirlátið þinn fyrri kær-
5 leika. Minst þú því, úr hvaða hæð þú hefir hrapað,

og gjör iðrun, og gjör hin fyrri verkin; að öðrum
kosti kem jeg til þín, og færi ljósastiku þína úr stað,
6 ef þú ekki gjörir iðrun. En það mátt þú eiga, að þú
7 hatar verk Nikólaítanna, sem jeg og hata. Hver sem
eyra hefir, hann heyri, hvað andinn segir söfnuðun-
um. Þeim er sigrar, honum mun jeg *gefa að eta af*
*lífsins trje, sem er í Paradís Guðs.*

8 Og safnaðar-englinum í Smýrna skalt þú rita:
Þetta segir sá fyrsti og síðasti, sá sem var dauð-
9 ur og endurlifnaði: Jeg þekki þrengingu þína og
fátækt — en þú ert samt auðugur — og lastmælið
frá þeim, sem segja sjálfa sig vera Gyðinga, en eru
10 það ekki, heldur samkunda Satans. Kvíð þú ekki
því sem þú átt að líða. Sjá, djöfullinn mun varpa
nokkrum yðar í fangelsi, til þess að þjer freistist, og
þjer munuð þrenging hafa í tíu daga. Vertu trúr
alt til dauða, og jeg mun gefa þjer lífsins kórónu.
11 Hver sem eyra hefir, hann heyri, hvað andinn segir
söfnuðunum. Sá er sigrar, — honum mun sá annar
dauði alls ekki granda.

12 Og engli safnaðarins í Pergamos skalt þú rita:
Þetta segir sá, sem hefir sverðið hið tvíeggjaða
13 og bitra: Jeg veit hvar þú býr, þar sem er hásæti
Satans. Og þú heldur stöðugt við nafn mitt, og af-
neitaðir ekki trú minni, jafnvel ekki á dögum Antí-
pasar vottar míns hins trúa, sem deyddur var hjá
14 yður, þar sem Satan býr. En jeg hefi á móti þjer
fátt eitt, að þú hefir þar menn, sem halda fast við
kenningu Bíleams, þess er kendi Balak að varpa
hneyksli fyrir Ísraelssyni, að þeir neyttu skurðgoða-
15 fórna og drýgðu hór. Svo hefir þú og líka menn,

16 sem halda fast við kenning Níkólaíta. Gjör því iðr-
un; að öðrum kosti kem jeg skjótt til þín, og mun
17 berjast við þá með sverðinu munns míns. Hver sem
eyra hefir, hann heyri, hvað andinn segir söfnuðunum.
Þeim er sigrar mun jeg gefa af hinu hulda manna;
og jeg mun gefa honum hvítan stein, og á steininn
ritað nýtt nafn, sem enginn þekkir, nema sá er
við tekur.
18 Og engli safnaðarins í Þýatíra skalt þú rita:
Þetta segir sonur Guðs, sem augun hefir eins og
19 eldsloga, og fætur hans eru líkir glómálmi: Jeg
þekki verkin þín og kærleikann og trúna og þjón-
ustuna og þolinmæði þína, og að verk þín hin síðari
20 eru meiri en hin fyrri. En jeg hefi á móti þjer, að þú
líður Jessabel, konuna, sem segir sjálfa sig vera spá-
konu, og kennir þjónum mínum og afvegaleiðir þá
21 til að drýgja hór og eta skurðgoðafórnir. Og jeg
hefi gefið henni frest, til þess að hún gjöri iðrun, og
hún vill ekki gjöra iðrun og láta af hórdómi sínum.
22 Sjá, jeg varpa henni á sjúkrabeð, og þeim sem hór-
ast með henni, í mikla þrenging, ef þeir gjöra ekki
23 iðrun og láta af verkum hennar. Og börn hennar
mun jeg dauða deyða, og allir söfnuðirnir skulu vita,
að jeg er sá sem rannsaka nýrun og hjörtun, og jeg
mun gjalda yður, hverjum og einum, eftir verkum
24 yðar. En yður segi jeg, hinum öðrum, sem eru í
Þýatíra, öllum þeim sem ekki hafa kenningu þessa,
þar sem þeir hafa ekki kannað djúp Satans — sem
þeir svo kalla —: Aðra byrði legg jeg eigi á yður,
25 nema það að þjer haldið því, sem þjer hafið, þangað
26 til jeg kem. Og sá er sigrar og varðveitir alt til

enda verk mín, — honum mun jeg gefa vald yfir
27 þjóðunum. Og hann mun stjórna þeim með járn-
sprota — eins og leirkerin sundurmolast —; svo sem
28 jeg og hefi meðtekið hjá mínum föður. Og jeg mun
29 gefa honum morgunstjörnuna. Hver sem eyra hefir,
hann heyri, hvað andinn segir söfnuðunum.

3 Og engli safnaðarins í Sardes skalt þú rita:
Þetta segir sá, sem hefir þá sjö anda Guðs og
stjörnurnar sjö. Jeg þekki verkin þín, að þú lifir að
2 nafninu, en ert dauður. Vakna þú og styrk hið ann-
að, sem ætlar að deyja; því að eigi hefi jeg reynt
3 verk þín fullkomin að vera fyrir Guði mínum. Minst
þú því, hvernig þú tókst á móti og heyrðir, og varð-
veit það og gjör iðrun. Ef þú nú vakir ekki, mun
jeg koma eins og þjófur, og þú munt alls ekki vita,
4 á hverri stundu jeg kem yfir þig. En þú átt fáein
nöfn í Sardes, sem ekki hafa saurgað klæði sín, og
þeir munu ganga með mjer í hvítum klæðum, því að
5 þeir eru maklegir. Sá er sigrar, hann skal þannig
skrýðast hvítum klæðum, og eigi mun jeg afmá nafn
hans úr lífsbókinni, og jeg mun kannast við nafn hans
6 fyrir föður mínum og fyrir englum hans. Hver sem
eyra hefir, hann heyri, hvað andinn segir söfnuðunum.
7 Og engli safnaðarins í Fíladelfíu skalt þú rita:
Þetta segir sá heilagi, sá sanni, sem hefir *lykil
Davíðs*, hann sem *lýkur upp svo að enginn læsir*, og
8 *læsir svo að enginn lýkur upp*. Jeg þekki verkin
þín, — sjá, jeg hefi látið opnar dyr standa fyrir þjer,
sem enginn getur lokað, — að þú hefir lítinn mátt,
en hefir varðveitt orð mitt og ekki afneitað nafni
9 mínu. Sjá, jeg skal láta nokkra af samkundu

Satans, er segja sjálfa sig vera Gyðinga, en eru það
ekki, heldur ljúga, — jeg skal láta þá koma og láta
þá kasta sjer fyrir fætur þjer, og láta þá vita, að
10 jeg hefi elskað þig. Af því að þú hefir varðveitt
orðið mitt um þolinmæðina, mun jeg og varðveita
þig frá reynslustundinni, sem koma mun yfir alla
heimsbygðina, til að reyna þá sem á jörðinni búa.
11 Jeg kem skjótt; haltu fast því sem þú hefir, til þess
12 að enginn taki kórónu þína. Sá er sigrar, hann
mun jeg gjöra að stólpa í musteri Guðs míns, og
hann skal þaðan aldrei út fara; og jeg mun á hann
rita nafn Guðs míns og nafn borgar Guðs míns,
hinnar nýju Jerúsalem, er kemur af himni ofan frá
13 Guði mínum, og nafnið mitt, hið nýja. Hver sem
eyra hefir, hann heyri, hvað andinn segir söfnuð-
unum.

14 Og engli safnaðarins í Laódíkeu skalt þú rita:
Þetta segir hann sem er Amen, votturinn trúi og
15 sanni, upphaf Guðs skepnu: Jeg þekki verkin þín,
að þú ert hvorki kaldur nje heitur; betur að þú
16 værir kaldur eða heitur. Því er það: af því að þú
ert hálfvolgur, og ert hvorki heitur nje kaldur, mun
17 jeg skyrpa þjer út af mínum munni, — af því að
þú segir: Jeg er ríkur og er orðinn auðugur og
þarfnast einskis, — og þú veist ekki, að þú ert ve-
salingur og aumingi og fátækur og blindur og nak-
18 inn. Jeg ræð þjer, að þú kaupir af mjer gull, brent
í eldi, til þess að þú verðir auðugur, og hvít klæði,
til að skýla þjer með, og eigi komi í ljós vanvirða
nektar þinnar, og smyrsl að smyrja með augu þín,
19 til þess að þú verðir sjáandi. *Alla þá sem jeg elska,*

*þá tyfta jeg og aga;* ver því kostgæfinn, og gjör
20 iðrun. Sjá, jeg stend við dyrnar og ký á. Ef ein-
hver heyrir raust mína og lýkur upp dyrunum, þá
mun jeg fara inn til hans, og neyta kvöldverðar
21 með honum og hann með mjer. Sá er sigrar, hann
mun jeg láta sitja hjá mjer í hásæti mínu, eins og
jeg sjálfur sigraði og settist hjá mínum föður í hásæti
22 hans. Hver sem eyra hefir, hann heyri, hvað andinn
segir söfnuðunum.

4 Eftir þetta sá jeg, og sjá: Opnar dyr á himn-
inum, og raustin hin fyrri, er jeg heyrði, sem
lúður gylli, talaði við mig segjandi: Stíg upp hingað,
og jeg mun sýna þjer það sem verða á eftir þetta.
2 Jafnskjótt var jeg hrifinn í anda, og sjá: Hásæti var
3 reist á himninum, og í hásætinu sat nokkur; og sá
er þar sat, var líkur að sýn jaspissteini og sardis-
steini, og regnbogi var í kring um hásætið, líkur að
4 sýn smaragði, og umhverfis hásætið voru tuttugu og
fjögur hásæti, og í hásætunum sá jeg sitja tuttugu og
fjóra öldunga, skrýdda hvítum klæðum, og á höfðum
5 þeirra gullkórónur. Og út frá hásætinu gengu eld-
ingar, raustir og þrumur, og sjö eldblys brunnu fyrir
6 hásætinu, og eru það hinir sjö andar Guðs. Og
frammi fyrir hásætinu var sem glerhaf, líkt krystalli,
og fyrir miðju hásætinu og umhverfis hásætið voru
fjórar lifandi verur, alsettar augum í bak og fyrir.
7 Og fyrsta veran var lík ljóni, og önnur veran var
lík uxa, og þriðja veran hafði ásjónu sem maður, og
8 fjórða veran var lík fljúganda erni. Og verurnar
fjórar, ein og sjerhver þeirra, höfðu sex vængi, og
voru alsettar augum, alt um kring og að innanverðu.

Og eigi láta þær af, dag og nótt, að segja: *Heilagur,*
*heilagur, heilagur, Drottinn Guð, hinn alvaldi,* hann
9 sem var og er og kemur. Og þegar ver-
urnar gjalda honum, sem í hásætinu situr, dýrð og
10 heiður og þökk, honum sem lifir um aldir alda, þá
falla öldungarnir tuttugu og fjórir niður frammi fyr-
ir honum, sem í hásætinu situr, og tilbiðja hann, sem
lifir um aldir alda, og varpa kórónum sínum niður
11 fyrir hásætinu og segja: Verður ert þú, Drottinn og
Guð vor, að fá dýrðina og heiðurinn og máttinn, því
að þú hefir skapað alla hluti, og fyrir þinn vilja
urðu þeir til og voru skapaðir.

5 Og jeg sá í hægri hendi hans, er í hásætinu
sat, bók, skrifaða innan og utan, innsiglaða sjö
2 innsiglum. Og jeg sá sterkan engil, boðandi með
hárri röddu: Hver er maklegur að ljúka upp bók-
3 inni og leysa innsigli hennar? Og enginn var sá í
himninum, eða á jörðinni, eða undir jörðinni, sem
4 lokið gæti upp bókinni og litið í hana. Og jeg grjet
stórum af því, að enginn fanst maklegur að ljúka
5 upp bókinni og líta í hana. Og einn af öldungunum
segir við mig: Grát þú eigi! Sjá, sigrað hefir ljónið
af Júda ættkvísl, rótarkvistur Davíðs, svo að það
getur lokið upp bókinni og innsiglum hennar sjö.
6 Og mitt í milli hásætisins og veranna fjögurra og
mitt á meðal öldunganna sá jeg lamb standa, sem
slátrað væri, það hafði sjö horn og sjö augu, og eru
það hinir sjö andar Guðs, sendir út um alla jörðina.
7 Og það kom og tók við bókinni úr hægri hendi hans,
8 er í hásætinu sat. Og er það hafði tekið við henni,
fjellu verurnar fjórar og öldungarnir tuttugu og fjórir

niður frammi fyrir lambinu, og höfðu þeir hver um
sig hörpu og gullskálar, fullar af reykelsi, og eru
9 það bænir hinna heilögu. Og þeir syngja nýjan söng,
segjandi: Verður ert þú að taka við bókinni og
ljúka upp innsiglum hennar, því að þjer var slátrað,
og þú keyptir menn, Guði til handa, með blóði þínu,
af sjerhverri kynkvísl og tungu og lýð og þjóð, og
10 gjörðir þá, Guði vorum til handa, að konungsríki
11 og að prestum, og þeir ríkja á jörðinni. Og jeg sá
og jeg heyrði raust margra engla hringinn í kring
um hásætið og verurnar og öldungana, og tala þeirra
var tíu þúsundir tíu þúsunda og þúsundir þúsunda;
12 Þeir sögðu með hárri röddu: Maklegt er lambið hið
slátraða að fá máttinn og ríkdóm og visku og kraft
13 og heiður og dýrð og lofgjörð. Og sjerhverja skepnu
sem er í himninum og á jörðinni og undir jörðinni
og á hafinu, og alt sem í þeim er, heyrði jeg segja:
Honum, sem í hásætinu situr, og lambinu sje lof-
gjörðin og heiðurinn og dýrðin og krafturinn um ald-
14 ir alda. Og verurnar fjórar sögðu amen, og öldung-
arnir fjellu fram og tilbáðu.

6 Og jeg sá, er lambið lauk upp einu af innsigl-
unum sjö, og jeg heyrði eina af verunum fjór-
2 um segja, eins og með þrumurödd: Kom! Og jeg
sá, og sjá: Hvítur hestur; og sá sem á honum sat
hafði boga, og honum var fengin kóróna, og hann
fór út sigrandi og til þess að sigra.

3 Og er það lauk upp öðru innsiglinu, heyrði jeg
4 aðra veruna segja: Kom! Og út gekk annar hest-
ur, rauður, og þeim sem á honum sat, honum var
veitt að taka burt friðinn af jörðinni, og að menn

brytjuðu hverjir aðra niður, og honum var fengið
sverð mikið.
5 Og er það lauk upp þriðja innsiglinu, heyrði jeg
þriðju veruna segja: Kom! Og jeg sá, og sjá:
Svartur hestur, og sá er á honum sat, hafði vog í
6 hendi sjer, og mitt á meðal veranna fjögurra heyrði
jeg sem rödd, segjandi: Mælir hveitis fyrir denar,
og þrír mælar byggs fyrir denar, og eigi skalt þú
granda olíunni og víninu.
7 Og er það lauk upp fjórða innsiglinu, heyrði jeg
8 rödd fjórðu verunnar, er sagði: Kom! Og jeg sá,
og sjá: Bleikur hestur; og sá er á honum sat, hann
hjet Dauði, og Helja var í för með honum, og þeim
var gefið vald yfir fjórða hluta jarðarinnar, til þess
að deyða með sverði og með hungri og með drepsótt,
og láta menn farast fyrir villidýrum jarðarinnar.
9 Og er það lauk upp fimta innsiglinu, sá jeg undir
altarinu sálir þeirra manna, sem drepnir höfðu verið
10 fyrir sakir Guðs orðs, og fyrir sakir vitnisburðarins,
sem þeir höfðu, og þeir hrópuðu hárri röddu, segjandi:
Hversu lengi ætlar þú, Herra, þú heilagi og sanni,
að draga það að dæma, og að hefna blóðs vors á
11 byggjendum jarðarinnar? Og þeim var fengin, hver-
jum og einum, hvít skikkja; og þeim var sagt, að
þeir enn skyldu hvílast stundarkorn, þangað til sam-
þjónar þeirra og bræður þeirra, sem áttu að deyðast
eins og sjálfir þeir, einnig fyltu töluna.
12 Og jeg sá, er það lauk upp sjetta innsiglinu, og
mikill landskjálfti varð, og sólin varð svört sem hæru-
13 sekkur, og alt tunglið varð sem blóð. Og stjörnur
himinsins hröpuðu niður á jörðina, eins og fíkjutrje,

14 skekið af stormvindi, fellir vetraraldini sín. Og him-
ininn sviftist burt eins og bókfell, sem saman er vaf-
15 ið, og hvert fjall og ey færðist úr stað sínum. Og
konungar jarðarinnar og gæðingarnir og hersveitar-
foringjarnir og auðmennirnir og maktarmennirnir, og
hver þræll og þegn fálu sig í hellum og í hömrum
16 fjalla. Og þeir segja við fjöllin og hamrana: Hrynjið
yfir oss, og felið oss fyrir ásjónu hans, sem í hásæt-
17 inu situr, og fyrir reiði lambsins; því að kominn er
dagurinn, hinn mikli dagur reiði þeirra, og hver mun
geta staðist?

7 Eftir þetta sá jeg fjóra engla, er stóðu á
fjórum skautum jarðarinnar; hjeldu þeir fjór-
um vindum jarðarinnar, til þess að eigi skyldi
vindur blása yfir jörðina, nje yfir hafið, nje yfir
2 nokkurt trje. Og jeg sá annan engil stíga upp
frá sólaruppkomustað, og hjelt hann á innsigli
lifanda Guðs, og hann hrópaði hárri röddu til engl-
anna fjögurra, sem veitt var að granda jörðinni og
3 hafinu, segjandi: Vinnið ekki jörðinni grand og held-
ur ekki hafinu, nje trjánum, þar til er vjer höfum
4 innsiglað þjóna Guðs vors á ennum þeirra. Og jeg
heyrði tölu hinna innsigluðu, hundrað fjörutíu og
fjórar þúsundir voru innsiglaðar af öllum ættkvíslum
5 Ísraelssona: Af Júda ættkvísl voru tólf þúsund inn-
siglaðir; af Rúbens ættkvísl tólf þúsund; af Gads
6 ættkvísl tólf þúsund; af Assers ættkvísl tólf þúsund;
af Naftalí ættkvísl tólf þúsund; af Manasse ættkvísl
7 tólf þúsund; af Símeons ættkvísl tólf þúsund; af Leví
ættkvísl tólf þúsund; af Íssakars ættkvísl tólf þúsund;
8 af Sebúlons ættkvísl tólf þúsund; af Jósefs ættkvísl

tólf þúsund; af Benjamíns ættkvísl tólf þúsund menn
9 innsiglaðir. Eftir þetta sá jeg, og sjá: Mikill múg-
ur, sem enginn gat tölu á komið, af alls kyns fólki
og kynkvíslum og lýðum og tungum. Þeir stóðu
frammi fyrir hásætinu og frammi fyrir lambinu,
skrýddir hvítum skikkjum, og höfðu pálma í höndum.
10 Og þeir hrópa hárri röddu, segjandi: Hjálpræðið heyrir
til Guði vorum, sem í hásætinu situr, og lambinu.
11 Og allir englarnir stóðu í kringum hásætið og öld-
ungana og verurnar fjórar, og þeir fjellu fram fyrir
hásætinu á ásjónur sínar, og tilbáðu Guð, segjandi:
12 Amen, lofgjörðin og dýrðin og viskan og þakkar-
gjörðin og heiðurinn og mátturinn og krafturinn sje
13 Guði vorum um aldir alda, amen. Og einn af öld-
ungunum tók til máls og sagði við mig: Þessir, sem
skrýddir eru hvítu skikkjunum, hverjir eru þeir, og
14 hvaðan eru þeir komnir? Og jeg sagði við hann:
Herra minn, þú veist það. Og hann sagði við mig:
Þetta eru þeir, sem komnir eru úr þrengingunni hinni
miklu, og hafa þvegið skikkjur sínar og hvítfágað
15 þær í blóði lambsins. Þess vegna eru þeir frammi
fyrir hásæti Guðs, og þjóna honum dag og nótt í
musteri hans; og sá sem í hásætinu situr mun tjalda
16 yfir þá. *Eigi mun þá framar hungra, og eigi mun
þá heldur framar þyrsta, og eigi mun heldur sól*
17 *brenna þá,* nje nokkur hiti; því að lambið, sem er
fyrir miðju hásætinu, mun gæta þeirra og leiða þá
til lifandi vatnslinda, og *Guð mun þerra hvert tár af
augum þeirra.*

8 Og er það lauk upp sjöunda innsiglinu, varð
2 þögn á himni hjer um bil hálfa stund. Og jeg

sá englana sjö, sem stóðu frammi fyrir Guði, og þeim
voru fengnar sjö básúnur.
3 Og annar engill kom og nam staðar við altarið;
hann hjelt á gullnu glóðarkeri, og honum var fengið
mikið af reykelsi, til þess að hann skyldi leggja það
við bænir allra hinna heilögu á gullaltarið, sem var
4 frammi fyrir hásætinu. Og reykurinn af reykelsinu
steig upp með bænum hinna heilögu úr hendi engils-
5 ins frammi fyrir Guði. Og engillinn tók glóðarkerið
og fylti það með eldi af altarinu, og varpaði ofan á
jörðina, og það komu þrumur og raustir og eldingar
og landskjálfti.
6 Og englarnir sjö, sem hjeldu á básúnunum sjö,
bjuggu sig til að blása.
7 Og hinn fyrsti básúnaði, og þá kom hagl og eld-
ur, blóði blandað, og því var varpað ofan á jörðina,
og þriðjungur jarðarinnar eyddist í loga, og þriðjung-
ur trjánna eyddist í loga, og alt grængresi eyddist í
loga.
8 Og annar engillinn básúnaði, og var sem miklu
fjalli, logandi af eldi, væri varpað í hafið, og þrið-
9 jungur hafsins varð blóð, og þriðjungurinn dó af
skepnunum í hafinu, sem lífi voru gæddar, og þrið-
jungur af skepnunum fórst.
10 Og þriðji engillinn básúnaði, og stór stjarna fjell
af himni, logandi sem blys, og hún fjell ofan á þrið-
11 jung fljótanna og á lindir vatnanna. Og nafn stjörn-
unnar er nefnt Remma, og þriðjungur vatnanna varð
að remmu, og margir menn biðu bana af vötnunum,
af því að þau voru beisk orðin.

12 Og fjórði engillinn básúnaði, og lostinn varð
þriðjungur sólarinnar og þriðjungur tunglsins og
þriðjungur stjarnanna, til þess að þriðjungur þeirra
ýrði myrkur, og dagurinn misti þriðjung birtu sinnar
og nóttin sömuleiðis.
13 Og jeg sá og heyrði örn einn fljúga um miðhim-
ininn, segjandi hárri röddu: Vei, vei, vei þeim, sem
á jörðu búa, af völdum lúðurhljómanna, sem eftir
eru, englanna þriggja, sem eiga eftir að básúna.

9 Og fimti engillinn básúnaði, og jeg sá stjörnu,
er fallið hafði af himni ofan á jörðina, og henni
2 var fenginn lykillinn að brunni undirdjúpsins. Og
hún lauk upp brunni undirdjúpsins, og reyk lagði
upp af brunninum, eins og reyk frá stórum ofni, og
sólin myrkvaðist og loftið af reyknum úr brunninum.
3 Og út úr reyknum komu engisprettur á jörðina, og
þeim var veitt vald, á sama hátt og sporðdrekar
4 jarðarinnar hafa vald. Og sagt var við þær, að eigi
skyldu þær granda grasi jarðarinnar, nje nokkrum
grænum gróðri, nje nokkru trje, engu nema mönn-
unum, þeim er eigi hafa innsigli Guðs á ennum sjer.
5 Og þeim var svo um boðið, að þær skyldu eigi deyða
þá, heldur skyldu þeir kvaldir verða í fimm mánuði;
og undan þeim svíður eins og undan sporðdreka, er
6 hann stingur mann. Og á þeim dögum munu menn-
irnir dauðans leita, og ekki finna hann, og menn
7 munu æskja sjer að deyja, og dauðinn flýr þá. Og
að ásýndum voru engispretturnar svipaðar hestum,
búnum til bardaga, og á höfðum þeirra voru eins og
kórónur, líkar gulli, og ásjónur þeirra voru sem ásjónur
8 manna. Og þær höfðu hár sem hár kvenna, og tennur

9 þeirra voru eins og ljónstennur. Og þær höfðu
brynjur eins og járnbrynjur, og vængjaþyturinn frá
þeim var eins og vagna-gnýr, er margir hestar bruna
10 fram til bardaga. Og þær hafa hala, líka sporðdrek-
um, og brodda. Og í hölum þeirra er vald þeirra
11 til að granda mönnum í fimm mánuði. Konung
hafa þær yfir sjer, engil undirdjúpsins; nafn hans
er á hebresku Abbadón, og á grísku heitir hann
Apollýón.

12 Veiið hið fyrsta er liðið hjá; sjá, enn koma tvö
vei eftir þetta.

13 Og sjetti engillinn básúnaði, og jeg heyrði rödd
eina frá hornunum á gullaltarinu, sem er frammi
14 fyrir Guði, er sagði við sjetta engilinn, sem hjelt á
básúnunni: Leys þú englana fjóra, sem bundnir eru
15 við fljótið mikla, Evfrat. Og englarnir fjórir voru
leystir, sem búnir stóðu til stundar og dags og mán-
aðar og árs, til þess að deyða þriðjung mannanna.
16 Og talan á herfylkingum riddaraliðsins var tveim sinn-
um tíu þúsundir tíu þúsunda; heyrði jeg tölu þeirra.
17 Og með þeim hætti sá jeg hestana í sýninni og þá
sem á þeim sátu, og þeir höfðu eldrauðar, svartbláar
og brennisteinsgular brynjur, og höfuð hestanna voru
eins og höfuð ljóna, og af munnum þeirra gekk út
18 eldur og reykur og brennisteinn. Í þessum þremur
plágum varð þriðji hluti mannanna deyddur, af eld-
inum og reyknum og brennisteininum, sem út gekk
19 af munnum þeirra. Því að vald hestanna er í munni
þeirra og í töglum þeirra, því að tögl þeirra eru lík
höggormum, eru höfuð á, og með þeim granda þeir.
20 Og hinir aðrir menn, sem ekki voru deyddir í þessum

plágum, gjörðu eigi iðrun og ljetu eigi af verkum
handa sinna, til þess að hætta að tilbiðja andana og
skurðgoðin úr gulli og silfri og úr eiri og úr steini
og úr trje, sem hvorki geta sjeð nje heyrt nje geng-
21 ið. Og eigi gjörðu þeir iðrun, og ljetu af mann-
drápum sínum, nje töfrum sínum, nje frillulífi sínu,
nje þjófnaði sínum.

10 Og jeg sá annan sterkan engil stíga af himni
ofan, hjúpaðan skýi, og regnboginn var yfir
höfði honum, og ásjóna hans var sem sólin, og fætur
2 hans sem eldstólpar. Og hann hafði í hendi sjer
litla bók opna, og hægra fæti stóð hann á hafinu, en
3 vinstra fæti á jörðinni, og hann kallaði hárri röddu,
eins og þegar ljón öskrar, og er hann hafði kallað,
4 töluðu þrumurnar sjö sínum raustum. Og er þrum-
urnar sjö höfðu talað, ætlaði jeg að fara að rita, og
jeg heyrði rödd af himni, sem sagði: Innsigla þú það
5 sem þrumurnar sjö töluðu, og rita það ekki. Og eng-
illinn, sem jeg sá standa á hafinu og á jörðinni, *hóf*
6 *upp hægri hönd sína til himins, og sór við þann, sem*
*lifir um aldir alda*, hann sem himininn skóp og það
sem í honum er, og jörðina og það sem á henni er,
og hafið og það sem í því er, að enginn frestur
7 mundi lengur gefinn verða, heldur, þegar kæmi að
rödd sjöunda engilsins, þegar hann færi að básúna,
þá fullnaðist leyndardómur Guðs, eins og hann hafði
boðað þjónum sínum, spámönnunum, gleðiboðskapinn
8 um. Og röddina, sem jeg heyrði af himni, hana
heyrði jeg aftur tala við mig, og hún sagði: Far og
tak opnu bókina í hendi engilsins, sem stendur á
9 hafinu og á jörðinni. Og jeg fór til engilsins og

